# Brunnur Bok
## Um̃ þañ
# Sanna Christenndom,

Hvernin ad Christi Manndoms Uppateikning, hans Kiærleike, Audmykt, Hogværd, Þolennmæde, Pijna, Kross, Forsmaan og Daude, sieu vor Lækning og Hiaalpræðis-Brunnur, vor Speigell, Regla og Lijfernis-Bok,

Og

Hvernenn riett-christenn madur, skule fyrer Trwna, Bænena, Þoleñmædena, Gllds Ord, og himneska Huggun, yfervinna Syndena, Daudann, Diofullen, Heimenn, Krossenn og allar Mootlætingar, og þad allt i Christo JEsu, fyrer hans Krapt, Styrk og Sigur i oss.

Samannskrifud af

DOCT. JOHANNE ARNDT,

Eñ a Islendsku wtlogd, af þeim gaafum giædda Gllds Kennemanne

Sal. Sira Þorleife Arasyne,

Fordum

Profaste yfer Skaptafells Syslu.

KAUPMANNAHOFN, 1731.
Þryckt i Hans Kongl. Majests. og Universit. Bokþryckerije af Johan Jorgen Hopffner.



# Formaale
Yfer
# Adra Bokena
Um þaṅ
# Sanna Christenndom,

SO sem Nidurgangur eins hlutar i Rijke Nattwrunnar er annars Uppgangur, so geingur þad og einnen til, Godfwse Lesare, i Rijke Naadarennar, og Christelegu Lijferne; Sa Gamle holldlege Madur ma ganga til Grunns, ef sa Andlege a ad komast a fætur. Vort holldlegt Framferde, sem HErrans Christi Lijferne er Gagnstædt, (epter þvi sem i fyrstu Bokenne er nog-samlega utlistad,) verdur vissulega ad dempast, þvijngast og krossfestast, ef vier annars skulum taka oss fyrer, ad byria Andlegt ChristiLijf-erne. Þw verdur ad laata af Illu, ef þw villt læra gott ad giora, afklædast Drambsemenne, ef þw villt iklædast Lijtelætenu: Þw hlytur ad afneita Holldsens Vellystingum og Elsku til Heimsens, vilier þw taka til ad elska Gud, og lifa vel og sidsamlega: Þw maatt ecke le-

 ingur

ingur aſælaſt þiñ Nawnga, og giora honum raangt til, vilier þw taka til ad elſka hann, og ſtunda hans Gagn og Velferd.

Þarfyrer verdur þad Chriſtelega, Gudlega, og Andlega Lijferne ad byriaſt a ſannre og alvarlegre Jdran, hver og einnen þeſſ vegna wtheimteſt ſo freklega i þeirre Fyrſtu Bokene, ſo ſem merkia ma, bæde af nidurradan Capitulanna, og lijka nidurlagenu. Þar fyrer verdur og einnen ſame Lærdomur um Jdranena i nockrum Capitulum þeſſarar Bokar, til eñ meire gnægdar, itrekadur. Og er Nidurradan og Samſetning Annarar Bokarennar ſo a ſig komenn, ſem epterfylger:

So ſem Høfud-inntak, Mergur og Meining Fyrſtu Bokarennar ſtylar þar uppa, ad vier fyllelega ſkulum læra, ad þeckia þad daudlega og andſtyggelega Eitur Uppruna Syndarennar, ſem alldrei kañ nogſamlega ad ranſakaſt, ſo byriaſt og einnen þeſſe Onnur Bok (ſem vijſar Læknigsdomen i giegn þeirre ſømu Forgipt) a vorum eilijfa Saaluhialpar-Brunne, JEſu Chriſto, i hverium vier finnum, fyrer Trwna, Hialp og Lækning a moote Syndarennar Eitre og þeim Eymdum og Hørmungum, ſem þadann fliota. Og þetta hafa þeir þrijr Fyrſtu Capitular þeſſarar Bokar inne ad hallda.

Enn af þvi ad Trwenn, sem a ad uppausa þesse giædenn wr Brunne Naadarennar og Hialpræðesens, JEsu Christo, hlytur ad færa lifande Avexte, þa verda þeir somu utmaalader i þremur þarnæst epterfylgiande Capitulum. Og sokum þess þad er naudsynlegt, ad holldsens Verk dempest, ef Avexter Riettlætesens og Andans eiga i oss ad vara og þroast; og slijkt er innefaled i duglegre, sannre og Allvarlegre Jdran, i hverre sierhverium Christnum manne ber ad æfa sig oaflaatanlega, ef Holldet a añars ad deydast, og Andeñ ad lifa, og bijhallda Sigrenum: Þess vegna fylger þar næst epter Underviisan um þañ Mismun, sem er a millum Holldsens og Andans, og um Eigennlegleika daglegrar Jdrunar, hvar um Fiorer þar næst epterfylgiande Capitular høndla. Og fyrer þa skulld, ad sa Nye Madurenn skal vara og syna a sier sodd an daglega Jdran og Deyding Holldsens, þar Lijf og Framferde eins Christens Manns a ecke ad vera annad, eñ sijfelld Holldsens Kroßfesting, og madur kañ einga adferd finna betre, og eckert tilhlydelegra ad mida vid, enn Epterdæmed Frelsarans vors JEsu Christi. Þa fylger frammveges a epter, hvernen Christi Hegdan og Framferde a ad vera vor Speigill: Sem er hans Orbyrgd og Faatækt, hans

 For-

Forakt og Fyrerlitning, hans Hrygd og Angist, hans Kross og Daude; sem og einnen Bænen, Kiærleikurenn, og Lijtelæted: Og um̃ þetta høndla þeir 15. Capitular, sem koma næst epter hina, um̃ hveria adur er gieted.

Nw med þvi, vier meigum byria a þeirre Manndomlegu Naattwrunne, HErrans Christi, so vier komustum upp til þeirrar Guddomlegu, þa er hans Audmykt og Nidurlæging sa riette. Himnastijge handa oss, um hvern vier kunnum ad feta upp ad Hiarta vors Himneska Fødurs, til ad hafa roosamlega Hvijlld og Unun i hans Kiærleika, og þar med kunnum vier i HErranum Christo ad skoda Miskunar-Jdur vors Elskulega Fødurs: Vier kunnum þar ad skoda Glld, so sem þañ Hædsta, Eilijfa Verulega, og Oendannlega Gooda, so sem þad grunnlausa Afgrunn Miskunarennar, so sem þa oransakannlegu Speke, so sem þañ skiærasta Heilagleika, so sem þad ostraffannlega og oflleckada Riettlæte; so sem þa allra sætustu Giædsku; so sem þañ ypparlegasta Frijdleika, so sem þañ yndeslegasta Vingiarnlegleika, so sem þann astudlegasta Blydleika, ja so sem þa hædstu og yppurstu Saaluhialp. Þetta allt eru þeir hellstu Partar vitæ contemplativæ, edur þess Lijfs, sem hefur i sier Skodunena, og er innebunded i Atta Capitulum. Eñ

Eñ søkum þess ad þvilijkar yferveganer kunna ecke an Bænarennar ad komast i Verk, þa fylgia þa epter Tiju Capitular um Bænena, og GUds yndeslega Lofgiørd. Og þar soddann GUdrækneñar Ydkun i Christo JEsu er eige vøn ad vera añ offsoknar, þa koma þar epter Þrettan Capitular um Þolennmæde i Krossenum, og þær þwngu andlegu Freistingar, og hvernenn þær kuñe ad yfervinast. GUD hialpe oss øllum þar til, ad vier meigum vera rietter Christi Epterbreitendur, og ecke skammast vor fyrer hans heilaga Framferde, helldur epterfylgia Lambenu GUds, hvert sem þad fer, so þad leide oss til lifande Vatnsbrunna, og þurke øll Taar af vorum Augum Amen!

Joh. Arndt.



# Registur yfer Capitula

I

# Þessare Annare Bok.



Cap. V. Ad

Cap. V. Ad einsomul Heyrn og Þecking GUds Orda, auglyse ecke einn, Sañ Christenn mann ad vera, helldur ad vier sieum þa fyrst vel Christnir, þegar vier færum oss i nyt GUds Orda Lærdoom, og synum þess Krapt og Verkan i voru Framferdi, og bidium GUd af innsta Hiartans Grunni, ad hans Ord mætti bera Avoxt i oss, og vorum Lifnade, sem GUds andlegt Sæde.

VI. Mannsinns Velferd og Saaluhialp er i þvi innefalen, ad hann maa komast aptur til GUds og sameinast hönum, fra hverium hañ var skilinn fyrir Syndina; eñ i þessu kañ madurenn sialfur eckert ad verka, helldur hindrar hann sig þar fra, med sinum vondum Vilia. Naaden vors Lausnara maa giora þad allt saman.

VII. Til ad þeckia riett Nattwru Idranarinnar, byriar ad vita mismun a mille þess Gamla og Nya Mannsinns; þad er, hvernin Adam eige i oss ad deya, og Christur i oss ad lifa; eda hvernin sa Gamle Madurinn eige ad deya i oss, og sa Nye ad lifa.

VIII. Ad GUd lade oss og locke næsta vingiarnlega til umvendunar; og ad Idranin meige i eingann maata dragast afrest.

XVI. Hvern=

XXIV. Um

XXXIV. Hver-

XLIV. Um

Vid-

# Viduraukе,

Sa ed innehelldur Orsaker þær, vegna hverra Astrologia Judiciaria, edur Spaadoms-konstin af Himinntwngla ganginum, um Lucku og Laanleyse Manna, verdur maklega fordæmd; og þad til Uppfyllingar þvi Maale, sem adur er framfært i næst-fyrerfarandi Capitula.





# Aunnur Bok.

## Um þañ Saña Christeñdoom.

### Cap. I.

JEsus Christur GUds Sonur er oss giefeñ af vorum Himneska Fodur, til Lækners og Hialpræðes Uppsprettu a mote ollum Hormungum Saalar og Lijkama; eñ þo sierdeiles a mote daudlegu og Fordæmanlegu Eitre Uppruna-Syndarennar.

Esajæ 12.

Þier munud med Fognude Vatned uppausa ur Brunnum Hialpræðesens.

MEd þvi vor Siwkdomur er so yfermaata stor, bannvænn og fordæmannlegur, ad ollum skopudum Skiepnum er omogulegt

ad lækna. Þa þurfum vier vid storrar, Guddomlegrar, og eilijfrar hialpar og Lækningar, sem vissulega maa flioota ut af GUds skiærre Naad og Miskunseme: Og so sem vor daudlega Arfsynd er komen af Diøfulsens Grimdar-reide, Hatre, og øfund; so þurftum vier fierdeiles Hialpar vid, jaa so dyrmætrar lækningar, ad hun kann ecke ad faast, nema hun sie ausenn upp ur siaalfum Naadar-Brunne Lifanda GUds. Og af þvi ad Andskötenn hafde haft i framme alla sijna Slægd, Illskukrooka, og Flærdar viel, til ad veida, myrda og fordiarfa oss, þaa þocknadest þeim lifanda Gude aptur a mot, ad brwka sijna hædstu Speke, fyrer sinn Elskulega Son, i þvi, ad græda oss aptur, lijfga, og Saaluholpna ad giora, þar hann gaf oss af sinne osegianlegre Giæsku, JEsu Christi Blood til Lækningar og Hreinsunar allra vorra Synda; hanns Lijfkrøptuga Holld giefur hann oss til Fædu, hanns Heilögustu Saar til Plaastur vid vorar Andlegar Synda Akomur, og hanns allra Heilagasta Dauda, til ad frelsa oss fraa tijmannlegum og eilijfum Dauda.

Enn nu er þvi so vared, ad vier gietum ecke af vorum eigenn Krøptum, teked a moote þessu Hiaalprædes Medale, vier erum næsta veiker þar til: Af Naattwrunne strijdum vier

vier hvert a moote vorre Saalar Lækningu, og høfum ogied og vidbiood a henne; þar fyrer maattu ecke, o trwfaste hiartans Lækner, bijda epter minne komu, til þijn, þvi þa verd eg alldrei heilbrygdur, helldur drag mig ad þier, kiptu mier alldeiles burtu fra sialfum mier, og taktu mig til þijn, so þu kunner ad giora mig aulldunges heilbrygdann: Laater þu mig liggia i mijnu Krankdæmie, þa ma eg fordiarfast ad eilijfu; þar fyrer snw þu mier, O GUd minn Frelsare, þa verdur mier snwed, lækna þu mig Drottenn, þa verd eg Heilbrygdur; Frelsa þu mig, þa verd eg Holpenn, þvi þu ert minn Lofstyr. So leinge sem þu dregur undan þijna Miskun, so leinge ligg eg i mijnum Siwkdome, og i Daudanum. So leinge sem þu bidleikar vid, ad giøra mig lifande, so leinge ligg eg faangenn i Daudans Bøndum: Þvi so hroopar hinn H. David, segiande Psalm. 70. Drottenn, flijt þu þier ad hialpa mier: Þu ert minn Hialpare og Lausnare. Minn GUd, tef þu ecke.

Æ Drottenn! mun þijn Miskunseme ecke vera noogu sterk til ad rietta mig vid, auma Manneskiu, sem ecke kann ad hialpa mier sialf? Mun ecke þinn Mannudlegleike, vera so mikell, ad þu vilier koma til mijn, þar eg orka ecki sialfur til þijn ad komast? Vissulega hefur þu Drottenn mig þo fyrre elskad,

ad, enn eg elskade þig 1.Joh.4. Þijn Giæska og Miskunseme hefur vered so stoor, ad hwn hefur sialfann þig yferunned, hun hefur neglt þig a Krossenn, og nidursøkt þier i Daudann. Hver er so sterkur, ad hann kunne þig ad yfervinna, þu Sterke GUd, utann þijn eigen Miskunseme? Hver hefur haft Magt til ad faanga og binda þig, og ad festa þig a Krossen, utan þiñ brennande Kiærleike? Med hverium þu elskader oss, þa vier vorum enn þa i Syndunum Dauder; Eph.2. Þvi þu villder helldur liida Daudañ, enn vier skylldum eilijflega i Daudanum og Helviite kvalder verda. Þinne Giæsku er þad ad þacka, ad þu ert ordeñ allur, vor eigenleg Eign; oss ertu fæddur, þa þu vardst ordeñ eitt daliited Barnkorn; oss varstu giefeñ, þa þu giørdest eitt Offur, og GUd gaf þig so sem eitt Lamb fyrer oss alla, og skeinkte oss alla hlute med þier: O huilijk ein stoor Gaafa! þu ert oss eiñ Guddomelegur Aeruskeinkur, og vor Eigenndomur.

Gief nu giætur ad GUds Viisdome, O þu elskulega GUds Barn! GUd hefur med þessum Gooda, sem hann hefur oss i tie laated, giort sig vora Eign, so hañ med þeim hætte giørde oss aptur a mot siina Eign: Þvi hver hann medtekur soddañ eiñ dyrmætañ Skeink, hann giefur sig faangenn, geingur ut fra sialfum sier, og verdur Giafarans Eigeñdoomur.

Þar

Þar þvert a mote, hver hann hefur Eigenndoom, edur gots, hann nyter sier þad sem best hann kann; eins lijka er HErrann Christur ordenn vor eigenn Eign, svo vier meigum med frialsu brwka hann til vorrar Velferdar og Saaluhialpar, epter þvi sem vier viliunn. Þar fyrer siaa til, O Christenn Madur! ad þu brwker hann til Lækningar þinne Saalu; þier til andlegs matar og dryckiar, ad endurnæra þig med, þier til Velferdar og Liiffsens uppsprettu i giegn þijnum Saalarþorsta; þier til lysande birtu i Myrkrunum; þier til fagnadar i Hormungunum, þier til Alarnadarmans, Verndar og Forsvars a mote þijnum Aklogurum; til Vijsdoms a mote þinne Favitsku; til Helgunar i giegn þijnum Ranglætingum; þier til lausnar ur þijnu Fangelse; til Naadarstools a mote Riettargangenum; til Aflausnar a mote GUds straa nga Dome; þijnu Hiarta til Fridar og Rooseme, a mote Sturlun Samvitskunar; til Dyrdlegs Sigurs a mote øllum þijnum Ovinum; til Forsvars a mote øllum þijnum Offoknurum; til eins Aastudlegs Brwdguma þinar Saalar, a mote øllum þeim, sem þig vilia fra honum speña; til eins Medalgangara, ad stilla GUds Reide; til Offurs fyrer þijna Misgiørninga; til Styrkingar a mote þijnu Magnleyse; til ad vijsa þier vegen, þa þu

villest: Ad hann sie þinn Sannleikur a mote Alygenne; Lyfed sialft a mote Daudanum; þinn beste Raadgiafe, þa þu ert olldunges raadalaus; þinn aastudlegur Fader i þijnu Munadarleyse; þinn Fridar-Hofdinge i giegn þijnum Motstondurum; þitt Lausnar-gialld fyrer þijnar Synda sekter; þijn Vegsemdar Korona i giegn þinne Forsmaan; þin Lærdoms Meistare i giegn þinne Favitsku; þinn Doomare a mote þeim þier Ofbellde veita; þinn Eilijfur Kongur i giegn Rijke Diosulsens; þinn Ædste Kiennemadur, sem geingur a mille, og bidur Ætijd fyrer þier.

Siaa nu Christenn Saala, hvar til ad þinn Lausnare er þier af Gude giefenn og skeinktur. Bid þu ad eins daglega, ad þu kunner med soddann hætte ad brwka hann, og ad hann kunne þannig ad uppfylla sitt heilsusamlega Embætte i þier. O Drottenn hialpa þu! O Drottenn, laattu þad vel luckast! þvi þegar hann er vor Lækning, þa verdum vier heilbrygder; þegar hann er vort Braud, þa kunna vorar Saaler ecke hwngur ad lijda; Sie hann vor Hiaalprædes Brunnur, þa þyrster oss ecke, Sie hann vort Lios, þa gaungum vier ecke i Myrkrunum; Sie hann vor Hiartans Fognudur, hver kann þa ad sturla oss? Sie hann vor Talsmadur, þa vinnur
oss

oss eingeñ i Doome, Sie hañ vor Sañleikur, þa kann eingenn að draga oss a taalar; Sie hann vor Vegur þa kann eingenn að villa um oss; Sie hann vort Lijf, þa kann eingenn oss að tortijna; Sie hann vor Vijsdomur, þa kann oss eingen að pretta; Sie hann vort Riettlæte, hver vill oss þa fordæma? Sie hann vor Heilagleike, hver kann oss þa burt að skwfa? Sie hann Endurlausnen, hver kann oss þa i Fangelse að hallda? Sie hann vor Friður, hver kann oss þa oroolega að giora? Sie hann vort Lyknar skiool, hver kann þa að dæma oss? Striide hann fyrer oss, hver kann þa að særa oss? Sie hann vor Brudgume, hver kann þa að skilia oss fra honum? Sie hann vort Lausnargialld, hver kann oss þa i Myrkva stofu setia? Sie hann vor Vegsemdar Corona, hver kann þa að leggia oss Forsmaan til? Sie hann vor Læremeistare, hver kann þa að straffa oss? Sie hann vor Doomare, hver kann þa að under þryckia oss? Sie hann vor Friðþæging, hver kann þa að koma oss i Onaad hia Guðe? Sie hann vor Meðalgaangare, hver kann þa að giora GUð að vorum Ovin? Sie hann vor Aarnaðarmaður, hver kann þa að klaga oss? Sie hann vor Immanuel, hver kann þa að vera a mote oss? Sie hann vor Kongur, hver kann þa að skwfa

oss ur hans Rijke? Sie hann vor ædste Biskup, hver kann þa hanns Foorn og Medalgaungu ad onyta? Sie hann vor Saaluhialpare, hver kann oss þa oluckusama ad giøra? Hvernenn kanntu nu, Christenn madur, ad faa ædre Skeink, enn þennan? Þesse Gaafa er stærre og dyrmætare, enn þu ert sialfur; stærre og dyrmætare, eñ allar Manneskiur, allur Heimurenn, og alls Heimsens Synder, Eymd og Hormungar: þvi Christur er, ad øllu leite, vor Eign, bæde epter GUddomenum og Mañdomenum. Vier høfdum, fyrer Syndena mist vorn allra dyrasta Fiesiod, vorn Ædsta eilijfa Gooda, þad er adskilia, sialfann GUd; enn þann sama Gooda hefur GUD oss aptur giefed i Herranum Christo, og i hønum sialfann sig: Þar fyrer nefnest hann riettelega Immanuel Es. 7. (GUD med oss) ad vier skylldum hafa i Christo bæde einn GUd og einn Broodur. Og þetta er sa omælanlege og eilijfe Goode, sem oss er veittur og giefen af Gude i Christo, a mote allre Angist og Hørmungum þessa Heims. Ef þu villt nu læra ad skilia þetta, þa kann eckert mootlæte ad verda þier osstort, og eingenn Kross of þungur, þvi Christur er þier allt, og i hønum heyra þier aller hluter til, þvi hann sialfur er þijn eigenn eign, ecke einunges sa

Krossfeste Christur, helldur og einnen sa Dyrdarlege, med allre sinne Hatign. Aller Hluter heyra ydur til, seger Paall Postule, til þeirra Rietttrwdu, I.Cor.3. Hvert helldur þad er Paall edur Apollo, Kephas edur Heimurenn, lijfed edur Daudenn, þad nærlæga edur Okomna. Þad heyrer allt ydur til: Enn þier heyred Christo til; enn Christur er GUds. O vier faatæker, aumer, utskwfader, bølvader og fordæmder Syndarar! hvernenn kunnum vier ad komast til ad ødlast so stoora Rijkdoms Gaafu, og Edla-Clenodiu? þvi ad.

| | |
|---|---|
| Þu HErra JESU Christe, ert oss | Tu Domine JEsu es nobis |
| Drottenn vort Riettlæte, | Jehovah Justitia nostra, |
| Medalgaangare mille GUds og Manna, | Mediator Dei & hominum, |
| Vor Eilijfe og ædste Kiennemadur, | Summus Sacerdos. |
| Saa Smurde Drottens, | Unctus Dei, |
| Þad Oflekada og Saklausa Lambed, | Agnus Immaculatus. |
| Vort Forlijkunar Offur, | Sacrificium propitiatorium, |
| Løgmaalsens Uppfylling, | Impletio legis, |
| Epterlaungun Forfedranna, | Patriarcharum Desiderium, |

| | |
|---|---|
| Jñblæser Spaamañanna, | Inspirator Prophetarum, |
| Meistare Postulanna, | Magister Apostolorum, |
| Læresader Gudspiallamannanna, | Doctor Evangelistarum, |
| Liooſed Jaatendaña, | LumenConfessorum, |
| Corona Pijſlarvottanna, | Corona Martyrum, |
| Lofstijr þeirra Heilogu, | Laus Sanctorum, |
| Uppriſan þeira Daudu, | Resurrectio Mortuorum, |
| SaFrumgietne þeirra Framlidnu, | Primogenitus ex mortuis, |
| Dyrd Utvalldra, | Beatorum Gloria, |
| Glede Einglanna, | Angelorum Lætitia, |
| Huggarenn þeirra Sorgfullu, | Mærentium Consolator, |
| RiettlæteSyndaraña | Peccatorum Justitia, |
| Vonen þeirra þiaadu, | Afflictorum Spes, |
| Athvarfed þeirra Aumu, | Miserorum Refugium, |
| Vaktare þeirra Framande, | Advenarum Custos, |
| UtlendingannaFylgdar Brooder, | Peregrinantium Comes, |
| Vegur þeirra villtu, | Errantium Via, |

Hialp-

| | |
|---|---|
| Hialpen þeirra yfergiefnu, | Derelictorum Auxilium, |
| Kraptur þeirra Siwku, | Langventium Virtus, |
| Verndarenn þeirra Einfølldu, | Protector Simplicium, |
| Styrkleike þeirra Froomu, | Fortitudo Rectorum, |
| Verdlaun Riettlaatra | Merces Justorum, |
| Uppkveiking Kiærleikans, | Caritatis Incendium, |
| Hofundur Trwarennar, | Autor Fidei, |
| Atkier vonarennar, | Anchora Spei, |
| Bloomstur Lijtelætesens, | Flos Humilitatis, |
| Roos Hogværdarennar, | Rosa Mansvetudinis, |
| Root Dygdanna, | Radix Virtutum, |
| Epterdæme Polennmædennar, | Exemplar Patientiæ, |
| Upptendran Bænarennar, | Orationis Inflammatio, |
| Eik Heilbrygdarennar, | Arbor Sanitatis, |
| Brunnur Sælunnar, | Fons Beatitatis, |
| Braud Lijffsens, | Panis Vitæ, |
| Hofud Christnennar, | Caput Ecclesiæ, |
| Brwdgume Saalnanna, | Sponsus Animarum, |

Dyr-

| | |
|---|---|
| Dyrmæt Perla, | Margarita precioſa; |
| Hella Saaluhiaalparennar, | Petra Salutis, |
| Lifande Hyrningar Steinn, | Lapis vivus, |
| Erfinge allra Hluta, | Hæres omnium, |
| Konungur Dyrdarennar, | Rex Gloriæ, |
| Saaluhiaalp Heimeſens, | Salus Mundi, |
| Sigurhrooſande Helviites, | Triumphator Inferni, |
| Hofdinge Fridarens, | Princeps Pacis, |
| Pad ſterka Liooned, | Leo Fortis, |
| Fader Epterkomande Alldar, | Pater Futuri Seculi; |
| Leidtoge til peſſ eiliifa Fodurlands, | Dux ad Patriam, |
| Sool Riettlæteſens, | Sol Juſtitiæ, |
| Su klaara Morgunſtiarna, | Stella matutina, |
| Pad Oſlockvannlega Lioos peirrar Himneſku Jeruſalem, | Cæleſtis Jeruſalem inextingvibile lumen, |
| Birta peſſ Eiliifa Liooſens, | Candor lucis æternæ, |
| Oflekkadur Speigill. | Speculum ſine macula, |

Lioo-

| | |
|---|---|
| Lioome Guddoomlegs Tignarvelldes | Splendor divinæ Majestatis, |
| Jmynd Fodursens Giædsku, | Imago Paternæ Bonitatis, |
| Fiesioodur Spekennar, | Thesaurus Sapientiæ, |
| Afgrunn Eilijfdarenar, | Æternitatis Abyssus, |
| Upphaf fyrer utan Upphaf | Principium sine principio, |
| Pad Eilijfa Ord, sem ber alla Hlute, | Verbum continens omnia, |
| Su Breidd og Vijdd sem allt innelykur, | Latitudo continens omnia, |
| Lijfed, sem allt lijfgar, | Vita vivificans omnia, |
| Lioosed sem allt upplyser, | Lux illuminans omnia, |
| Sannleikurenn, sem allt dæmer, | Veritas judicans omnia, |
| Raad, sem stiornar ollum hlutum, | Consilium moderans omnia, |
| Mæler sem jafnar allt nidur, | Norma dirigens omnia, |
| Su Miskunseme sem ollu vidhelldur, | Pietas sustentans omnia, |
| Jaa, fullkomen Fullnusta allra Giæda. | Totumq; omnium bonorum Complementum, |

Siaa

Siaa! Þetta er ſa ſtoore og oendannlege Skeinkur, ſem GUD hefur giefed Daudlegum Mønnum.

# Cap. II.

## Hvernen ſierhver Christenn Madur eige ad tilreikna ſier þeſſa Huggun, og færa ſier hana i nyt.

Luc. 19.

*Mannſens Sonur er komenn til ad uppleita og hoolped ad giøra, þad ſem rapad er.*

SA Fyrſte Høfud Grundvøllur þar til, ad ſierhver Chriſtenn Manneſkia meige hugga ſig vid Syndanna Fyrergiefning, vegna Forþienuſtu JEſu Chriſti, eru þau Almennelegu GUds Fyrerheit, a medal hverra þetta er ecke hid minſta, ſem ſtrax var a-minſt; þvi fyrſt þad er viiſt, ad Herrann Chriſtur hafe komed til ad leita epter þeim ſem tapader voru, þa vill hann og ſo leita epter þier þvi þu ert viſſulega einn af þeim: Fyrſt hann er komenn til ad giøra þa Fordæmdu Saaluhoolpna, þa mun hann og ſo giøra þig Hoolpeinn. *GUd bydur øllum Mønnum allſtadar,* ſeger S. Paall, Act 17. *ad giøra Jdran, af þvi hann hefur ſett einn dag, a hverium hann vill*

vill dæma Jardarkrijngluna i Riettlæte. Þeſſe Maalsgrein er full Huggunar, þvi hun ſyn̄er þau Rok, ad þar Chriſtur vilie dæma alla Jardar krijngluna, þa ſkickar GUD øllum mønnum ad giøra Jdran, ſo þeir mege um̄flya þann ſkielfelega Fordæmingarennar Doom. Þetta itrekar og einnen hinn H. Petur 2. Pet 3. ſegiande: GUd vill ad eingenn fyrerfareſt, helldur ad aller giøre Jdran.

Þeſſar greiner ſijna liooſlega GUds Almennelegann Naadarvilia um̄ þijna Velferd: Hvar vid ſa ſtoore Syndare, Manaſſes Koongur einnen huggade ſig i ſinne Bæn, þar hann ſeger: Drottenn, þu hefur epter þinnē Giædſku tilſagt Boot og Betran til Fyrergiefningar Syndanna, þu hefur ecke ſett þeim Riettlætu fyrer Jdran, helldur þeim Syndugu. Þar fyrer maattu, Chriſten madur, breita epter Manaſſe i þeſſu, þvi GUd hefur med ſoddan Dæmum viliad kunnugt giera, ad hañ være fws ad taka Jdranena fyrer Syndernar.

Annar Grundvollur til þeſſ ſama, er ſa dyre Eidur, med hverium GUD hefur ſtadfeſt ſijn almenneleg Fyrerheit, ſo þu þyrfter ecke ad efaſt um̄ hans Naadargiædſku vid þig: Ezech. 33. og 18. So ſannarlega, ſem eg life, ſeger Drottenn, vil eg ecke dauda þeſſ Ogudlega, helldur ad hann umvendeſt og Lij-

fe

ke. Meinar þu ad eg hafe þocknan a Dauda þeirra Ogudlegu. Sem villde hann ſegia: Hvernenn kann ſa ad hafa þocknan a Daudanum, ſem ſialfur er lijfed. Hann bæter þvi og ſo vid, ad þegar ſa ogudlege ſnwe ſier, þa ſkule hann lifa; allar hans Yfertrodſlur, ſem hann hafe hendt, ſkule ecke framar i minne lagdar verda. Siaa þu, GUD vill, ad þeir Syndugu ſnwe ſier; Ertu ecke og ſo Syndare? þennann ſama Eid utleggur og ſo S. Paulus 1.Tim. 1. ſegiande: Pad er ſannferdugt Tal, og aldeiles verdugt, ad þad ſie medtreked, ad Chriſtur er komenn i Heimenn, til ad giøra þa Syndugu Sæluhoolpna. Nu fyrſt Chriſtur er komenn i Heimenn til þeſſ, ad giora þa ſyndugu hoolpna; þa ertu ſannlega einn af þeim, vegna hverra Chriſtur er komenn: Ad GUD vilie eige framar minnaſt Syndanna, þvi lofar hann og ſo hia Eſaiam 43. Cap. ſegiande: Eg em hann, Eg em hann ſialfur, ſem afmaae þijnar Synder fyrer mijna Skulld, og þinna Synda vil eg ecke framar minnaſt. Item hiaa Jeremiam 31. Pad ſkal vera Sættmaalenn, ad eg vil fyrergiefa þeim þeirra Ranglætingar, og þeirra Synda vil eg ecke meir minnaſt. Item ſeger hann fyrer Munn Ezech.18. Ef ſa O-gudlege giører Idran, þa ſkal hann lifa, og eige deya, eingra hans Ranglætinga, ſem hann hefur giørt, ſkal eg minnaſt.

Enn

Enn orsøken, hvar fyrer GUD vill ei framar minnast Syndanna, er sa fullkomne Betalingur, og Nægdar-Forlijkun, sem fyrer þær er komen; þvi hvad hellst anægiannlega er borgad, þvi ma efalaust gleimt verda; og med þvi GUD er aldeiles forlijktur og til Fridar stilltur, med þeirre allra Heiloguftu Foorn JEsu Christi, þa maa hann hverke atelia oss hier epter, nie minnast Syndanna framar:

Þennann sama Eid itrekar hann enn aptur hia Esaiam 45. Cap. segiande: Snwed yður til mijn, og munud þier hoolpner verda, allar Endemerkur Jardarennar: Eg sver vid sialfann mig; og Ord Riettlæteſens er wtgeinged af mijnum Munne, þad skal þar vid blijfa. Um þennann Eid talar og Postulenn til Ebræos i 6. Cap. a þennann haatt: Enn þa GUd villde yfergnæfannlega audsyna Erfingium Fyrerheitesens, ad sitt Raad er ei ostødugt, hefur hann þar til Eid alagt, uppa þad, ad vier hefdum fyrer tvær Greiner obifannlegar (af þvi þad er omøgulegt ad GUd liwge) ørugt Traust, vier sem Athvarf høfum, og fastlega hølldum þeirre frammbodenne Von, hveria vier høfum sem fast og ørugt Akkere vorrar Saalar. Þad er epter GUds Naade og Fyrerheite, hefur hann med Eide sinn giædskurykan Vilia innsiglad og stadfest.

Hinn Pridie Grundvolluren er ſa eiliife Naadarennar Saattmaale, ſem er innefaleñ i Fyrergiefningu Syndanna; hvar umm Drottenn talar fyrer Munn Jer. 31. Cap. þannig: Þeſſe ſkal vera Sættmaalenn, ad jeg vil fyrergiefa þeim þeirra Vondſku, og alldrei minnaſt þeirra Synda framar meir. Þeſſe Saattmaale, edur Teſtament, er ſtadfeſtur med Dauda JEſu Chriſti, og þar fyrer er hann eiliifur, hvar umm hann talar hia Eſaiam i 54. Cap. a þennann haatt: minn Fridar Saattmaale ſkal ecke bifaſt, ſeger þiñ Miſkunſamur Drottenn; Item i 55. Capit. Eg vil giøra æfarande Saattmaala vid ydur, ſem er ſæ viſſa Naad Davids, þad er Chriſti Naad; item Devt. 4. Drottenn GUd þinn er einn Miſkunſamur GUD, hann mun ecke yfergiefa þig eda fordiarfa þig, hann mun ei helldur gleima ſiinum Saattmaala, ſem hann hefur ſvared þiinum Forfedrum; og i Pſ. 111. Hann mun minnaſt um̃ Allder a ſinn Saattmaala. Uppa þad þu kunner nu ad hugga þig vid þennann eiliifa Saattmaala, og vita fyrer viiſt, ad hann hafe þig og ſo innelukt i þeim hinum ſama, þa hefur hann og einnen endurnyad hann og ſtadfeſt i þeirre H. Skiirn; hvar fyrer S. Petur kallar hana 1. Pet. 3. Saattmaala goodrar Samvitſku vid GUD: Og Chriſtur ſiaalfur hefur og ſo þeſſ vegna vil-

viliad ſkijraſt i Jordanar vatne, ad hann inngeinge og ſo þennann Saattmaalann vid þig.

Sa Fioorde Grundvollurenn til Fyrergiefningar Syndanna, er Daudenn JEſu Chriſti, med hverium GUds Saattmaale og Teſtament var ſtadfeſt. Hygg nw ad, GUds barn, fyrer hvern ad Chriſtur hefur Daudann lided þad vottar Heilagur Paulus 2. Cor. 5. ſegiande: Einn er fyrer alla daaenn; Item Johannes Gudſpiallamadur 1. Joh. 2. Hann ſialfur er Forlijkun fyrer allar Heimſens Synder. Eins liika Johannes Baptiſta: Joh. 1. Siaa GUDS Lamb, ſem burttekur Heimſens Synder. Þetta utleggur og Paall liooſlega, ſegiande: Rom. 5. So ſem fyrer eins Mans Synd, kom Fordæmingen yfer alla menn, ſo hefur og fyrer eins Manns Riettlæte, Lijfs Riettlæted komed yfer alla menn. Hier ſetur Poſtulenn Adam og Chriſtum huern a mote ødrum, ſo ſem hann ſegde: Ef ad Adams Synd hefur giørt alla ſakfellda, huad miklu krøptugra ſkyllde þa vera Riettlæted Chriſti? Ef ad Synden yfergnæfer, þa yfergnæfer Naaden miklu framar. Og ſo ad S. Paall þar fyrer kunne ad beviiſa, ad Chriſti Forþienuſta ſie Almenneleg, og heyre øllum mønnum til, þa alyktar hann ſo i 1. Tim. 2. Cap. Þar er einn GUd og einn Medal-

gaangare a mille GUds og Maña, Madureñ JEſus Chriſtus, ſem gaf ſig ſialfann til Endurlauſnar fyrer alla. Nu med þvi Chriſtur hefur giefed ſig til Endurlauſnar fyrer alla, þa fylger þad a epter, ad GUd vilie ad aller menn verde Saaluhoolpner, og komeſt til Sannleikſens Vidurkienningar. Og umm þad ſama ſkrifar Poſtulenn og ſo Col. 1. Ad fyrer Chriſtum ſieu aller hluter fridþægder, bæde a Himne og a Jørdu. Og i Piſtlenum til Rom. 8. ſeger hann: GUd vægde ecke ſijnum eigenn Syne, helldur gaf hann wt fyrer oſſ alla. Siaa! i þeirra tølu ertu og einnen, þvi GUd ſer ecke ad mañvirdingum Act. 10. Seg þw mier nw, fyrer hvern er Chriſtur daaen? fyrer Syndarana; hafe hann nu daaed fyrer Syndarana, þa hefur hann og ſo daaed fyrer þig, med þvi þw ert og ſo einn Syndare.

Sw Fimta Aſtædan, er Køllun allra manna, ſem hefur ſinn Uppruna af almennelegre Chriſti Forþienuſtu, þvi ſo ſem hans Forþienuſta er ſkied fyrer allar Veralldareñar Synder, ſo byriade og ſo, ad boda hana allre Skiepnu; Marc. 16. þar fyrer ſeger Herrañ Chriſtur Matt. 9. Eg kom ecke til ad kalla Rietlaata, helldur Synduga til Jdrunar. Siaa! þw ert nu einn Syndare, þarfyrer hefur Chriſtur og ſo kallad þig: huar til? Til Jdrunar. Til hvers gagns? ſo ad þw odleſt

Synd-

Syndanna Fyrergiefning, fyrer Trwna, og þeſſ vegna hefur hann og ſo laated predika um̃ allann HeimennJdran og Fyrergiefning Syndanna; Luc. 24. Huad S. Paall og ſo vottar i Piſtlenum til Col. 1. Evangelium ſeger hann er predikad allre Skiepnu, ſem er under Himnenum. Enn huar fyrer hefur GUD laated predika Evangelium? Til ad uppkveikia Trwna; epter þvi ſem þar ſtendur Rom. 10. Hvernen kunna þeir ad akalla þann, a hvern þeir trwa ecke? Enn hvernen kunna þeir ad trwa a þann, umm hvern þeir hafa ecke neitt heyrt? Nu lætur GUD ecke kalla þig forgiefens, hann brwkar ecke Hræſne edur Laataglaum i ſinne Kollun; hann ſeger ecke annad, enn hann meinar, og hønum er full Alvara; Hann vill viſſulega, ad þu ſkuler giefa Gaum ad hanns Kollun, og verdur mikelega reidur vid þa, ſem hanns Gieſtabod og Kvølldmaaltijd forackta. Enn øllum þeim ſem giegna þeſſu hans Kalle, og medtaka þad, fyrer Trwna, þa hefur hann giefed þetta huggunarrijka Fyrerheit, ad þeir ſem a hann trwa, ſkule ecke fortapaſt, helldur hafa eilijft Lijf. Joh. 3. Jaa, hann vilie og ſo vidhallda þeim i Trwñe, allt til Æfeloka 1. Pet. 1. þangad til þeir hreppa ſialfa Sæluna, ſem er Endalok Trwarennar Phil. 1.

Sa Siötte Grundvollurenn, er innvortes-Vitnesburdur H: Anda, sem i þier andvarpar epter Riettlætenu, med huerium þw ert innsigladur Rom. 8. Þesse blessade Andenn GUds hrærer þig an aflaats i þinne Samvitsku, og lætur þig ecke falla i Andvaraleyse; hann aviſtar þig þraalega, setur þier fyrer Siooner þijnar Synder, og afyser þig til Jdranar; hann sannfærer þig þar um, ad þw skuler betra þig, og hann villde giarnan hallda þier fra Syndunum. Þesse JEsu Christi Vottur þeger alldrei i þier; jafnvel þo þw tilbyrger þijn Eyru, þa heyrer þw þad þo hid innra; og þo þw vilier ecke giefa þar gaum ad, þa verdur þw þo ad sitia þar med, og finna til þess. Þetta er einn omotsegianlegur og lifande Vitnesburdur þar um, ad GUd vill giarnan, ad þw skuler verda Saaluhoolpenn.

Sw Siounda Astæda hier til, er Eptcrdæme so margra Syndugra manna, sem GUD hefur til Naadar teked, þa þeir hafa snwed sier til hans. Sannarlega er þar eingenn Riettlaatur a medal allra manna, þeir eru aller Syndarar; ecke einasta David, Manasses, Petrus, Paall, Maria Magdalena og Zachæus, helldur og einnen allar Manneskiur: Þar er eingen Greinarmunur;

aller-

allerſaman eru þeir Synduger, og lijda Skort a þeirre Hrooſan, ſem þeir eiga ad hafa fyrer Gude Rom. 3. Fyrer honum er eingenn Sak-laus: Exod. 34. med þeirre Naad, ſem Gud um̃fadmar einn Syndara, med þeirre ſomu ummfadmar hann alla, þvi hia hønum er eckert Manngreinar-Alit Act. 10. Eingenn er ødrum betre i hans Auglite, pier verdum aller Riettlaater af ſkiærre Naad, fyrer utan alla vora Verdſkulldan, og þurfum aller Synd-anna Fyrergiefningar vid: Ef hañ vill til-reikna Syndernar, huer kann þa ad ſtandaſt? Vilie hann gaanga i Doom vid oſſ, þa er eingenn lifandi Manna Riettlaatur fyrer høn-um. Pſal. 32. 130. 143.

So er og einnen i Attunda maata For-þienuſtan JEſu Chriſti eige einunges anæg-iannleg, helldur yfergnæfannleg, fyrer allra manna Raanglætingar, huerſu þwngar og hrædelegar, ſem þær vera kunna; Jaa, hwn er ecke einaſta noogu ſtor, og nogu gilldur Betalingur, helldur enn þa langtum gilldare, fullkomnare, og yfergnæfannlegre, enn alls Heimſens Synder. Huar fyrer villtu þa, o madur! wtelykia ſialfan þig, og ecke verda hluttakande þeſſa dyrmæta Lauſ-nargiallds? þw ert þo viſſulega Manneſkia; Nw ſeger vor HErra ſo: Luc. 9. Mannſens Sonur kom ecke til þeſſ ad tortijna Saalum

Mannanna, helldur ad giøra þær Hoolpnar: þw ert viſſulega i Heimenum; Enn S. Paall ſeger 2. Cor. 5. GUD fridþægde Heimenn vid ſig ſialfann i Chriſto: Item ſeger Johannes 1. Joh. 2. Chriſtur er Forlijkun fyrer alls Heimſens Synder, þad er fyrer allar þær Synder, ſem hver einn madur hefur giørt, a øllum Heimſens Ølldrum.

J Nijunda maata er Forþienuſtan Herrans Chriſti oendanleg og eilijf Fullnægia og Betalingur, hafande hverke tølu, Skamt, nie ender, vegna Haatignar Perſonunnar, er lided hefur fyrer oſſ, ſem ad er bæde GUd og Madur. Hvar fyrer villtu þa ſetia þeſſare haau Forþienuſtu, Tal, Mæling edur ender, ad hun ſkule ecke naa til þijn, eda ad þijnar Synder ſkule ecke med henne kunna ad betalaſt? Þad er meira ad ſegia, þo ad hver ein manneſkia hefde a ſijnum Haalſe alls Heimſens Synder, og þar være ſo margar ſem Heims Krijnglur til fullar af Syndum, ſem þar eru margar Manneſkiur til, þa være þo Chriſti Forþienuſta og Verdſkulldan ſtærre, enn allar þær Synder: Þvi ſkyllder þu þa ecke vilia medtaka hana, og þier tileinka? hwn er þad Hafſens Diwp i hvert GUd kaſtar øllum vorum Syndum Mich. 7. Þetta er nu þad ſem David gietur um i Pſal. 103. So haatt ſem Himenenn er fra Jørdunne; ſo lætur hann ſij-

na

na Miskunseme mikla vera yfer þeim, sem hañ ottast: So fiærre sem Austred er Vestrenu, so lætur hann vorar Synder vera oss fiarlægar. Þetta er su eilijfa Endurlausn, um hveria Postulenn talar til Ebr. 19. Cap. Og i Pistlenum til Rom. 8. Hver er sa sem fordæmer? Christur er hier sem daaed hefur, Gud er hier sem riettlæter.

J Tijunda maata er Hlydnen JESU Christi ein fullkomen Hlydne, med þvi hann hefur i øllum pørtum og punctum fullnægt Løgmaalenu, og sijns Fødurs Vilia, til ad forlijka fyrer allra manna Ohlydne: Þvi ef þar være eins einasta mans Synd og Ohlydne, sem ecke være fyrer hann burtteken og betolud, þa være hans Hlydne ecke fullkomen, og Adams Ohlydne være þa Kroptugre til Fordæmingar, helldur enn Herrans Christi Hlydne til Riettlætingar; hvad ecke kann ad standast, svo sem S. Paall vottar med berum ordum, til Romveria i 5. Cap. Hvar fyrer villtu þa utelykia þig sialfann, fra þeirre fullkomnustu Hlydnennar Forþienustu JESU Christi, og eige medtaka hana, eda þier tileinka? Þeinktu med þier, hvar fyrer Christur hafe audsynt sijnum himneska Fødur so audmiwka Hlydne, og diwpa Nidurlæging allt til Krossens Dauda, þad er iñ til þess, hañ vard sw skielfelegasta Bolfan; sem er, uppa þad,

hañ frelsade þa, sem voru under Bølvan Løg-maalsens, a medal hverra þu ert einn: Þesse allra diwpasta Nidurlæging vard vissulega ad skie þar fyrer, ad vorer fyrstu Forelldrar høfdu girnst, og viliad griipa til siin Guddomlega Vegsemd, og stundudu epter þvi ad verda Gude liik, þar fyrer hlaut Herrann Christur, med sinne allra diwpustu Nidurlægingu og Forsmaan, þad ad betala; hann maatte sialfur verda Bølfan, so ad Blessunenn kiæme yfer alla þa sem i Adam bølfader voru.

J Ellefta maata er HErrans Christi Konungleg Sigurvinning, Sigurhrosan, og Yferdrottnan, hærre enn øll Magt og Jllska Syndanna: Hans Maktar vellde geingur laangt yfer allañ þeirra Fiøllda og Stærd; Jaa, yfer allt Daudans, Diøfulsens og Helviites Ofbellde. Hvar fyrer skyllde þa ecke Christi Sigurvinning og Yferdrottnan og so gaanga yfer þijnar Synder? Eda villtu koma upp med þad, ad Synder þijnar sialfs einasta sieu sterkare eñ Christur, sa Almaattuge Koongur? hafe hañ giørt alla siijna Ovine ad Skør under siijnar Fætur, hvernen skylldu þa þijnar Synder alleina ecke vera lagdar under hann? Þvi villtu wtelykia þig einañ fra þessare Christi volldugu Sigurvinningu og Sigurhroosun?

J Tolf-

I Tolfta og siidasta maata er sa Konunglege og hærste Christi Kiennemannskapur, einn Eiliifur Kiennemannskapur af Psalm. 110. og Pistlenum til Hebræos 4. Þess vegna veiter hañ þeim ollum Syndañna Fyrergiefning, sem hañ bidia, og þeim Heilagañ Anda, sem hañ þar uñ med Bænum Avarpa; hañ neitar eingum, nie kañ ad neita, þvi sem hanns Embætte ahrærer, af þvi ad hañ er Frelsare Heimsens, og Medalgaangareñ a mille GUds og Manna: Og ef hann brygdest nockrum, sem leitade Skiols hia honum, og bæde hann ad liikna sier, þa være hann eingenn fullkomenn Medalgaangare. Og hvernen skyllde hann neita nockre Manneskiu siinu Prestlegu Medalgaungu Embætte, þar hann frambydur þad ollum segiande: Matth. 11. Komed til miin aller sem Eysided Dryged, og erud þwnga hladner, eg vil endurnæra ydur: Item i odrum stad: Eph. 55. Aller þier sem erud Þyrster, komed til Vatnsens. Hann bidur oss og einnen sialfur fyrer Munn siinna Postula og Sendeboda, ad vier skulum laata forliika oss vid GUd, frambioodande oss sialfkrafa sitt forliikunar Embætte; 2 Cor. 5. hann leitar ad þeim tiinda Saudnum, og tekur þann fortapada Sonenn til Naadar. Varest þess vegna hver madur liitels ad virda Embætted JEsu Christi, sem er Medalgaangare

gare a mille vor aumra Syndugra manna og GUds, so hann firre ecke sialfann sig þeirre Dyrdlegu Kiennemannlegu Gaafu, sem so giæskusamlega er framboden.

## Cap. III.

## Ad vor Riettlæting fyrer Gude sie einunges innefalen i Fullkomenne Hlydne og Verdskulldan JEsu Christi, hveria Trwen umfadmar, til Fyrergiefningar Syndanna.

Rom. 5.

So sem marger eru ordner Syndarar fyrer eins Mans Ohlydne, so verda og so marger Riettlaater fyrer eins Hlydne.

SO sem einn goodur Byggingar Meistare, sem vill giøra miked og haatt Hws, plagar ad siaa sig vel fyrer, ad Grundvøllurenn verde fyrst lagdur diwpur, fastur, og obifannlegur: Eins lijka hefur vor Giædskurijke og Miskunsame GUd vered Forsiall i Smijde sijns Hwss; þvi þegar hann villde reisa þa haau og eilijfu Bygging vorrar Saaluhiaalpar og Riettlætingar, þa lagde hann Grundvøllenn þar til i Diwpe sinnar Miskunar, yfer þeim eilijfa og ohrærannlega Grundvelle Personu og Embættes sijns Hiartkiæra Sonar

ar JEsu Christi, so sem a þeirra obifannlegu Hellu og klett Saaluhiaalparennar, epter þvi sem hann hafde lofad fyrer munn Spamannsens Esaiæ 28. Siaa, Eg mun leggia i Zion einn Grundvøllunarstein, einn Proofadann Stein, einn Dyrmætann Hyrningar Stein, sem er vel Grundvalladur; Hver hann trwer, hann flye ecke. Yfer þessum Hellusteine seger FrelsarennChristur Petro, ad hann vilie byggia siina Christne, og hwn skule so sterk og obifannleg vera, ad Helviitanna Port duge ecke a mote henne Matth.16. Um þette Hellubiarged, Prædikar S.Paall, þar hañ seger ad eingenn kunne ad leggia annann Grundvøll, enn þann sem eitt sinn er lagdur, hver ad er JEsus Christur 1. Cor.3. J Psalmenum 118. verdur hann oss og einnen fyrer Siooner settur, so sem Grundvollur og Hirningar-Steinn vorrar Saaluhiaalpar. Christur er Grundvollur vorrar Saaluhiaalpar, þviad a honum og hanns Forþienustu, er bygd vor Riettlæting og Saalar-Velferd. Vier verdum Riettlaater af Naadenne, seger S. Paull, Rom.3. fyrer þa Endurlausn, sem er skien i Christo, hvern Gud hefur sett til eins Naadarstools, fyrer Trwna, i hanns Bloode; item. Christur er giørdur oss af Gude til Riettlætes. 1. Cor. 1.

Þessa Riettlætes JEsu Christi verdum vier hluttakande, fyrer Trwna. Trwdu a Drott-

Drottenn JEsum, sagde Paall Postule til Fangelses vaktarans, so verdur þu hoolpeñ, og þitt Hws; Act. 16. og i ødrum stad: Riettlæted fyrer Gude kiemur fyrer Trwona a JEsum Christum, til allra, og yfer alla þa sem trwa. Rom. 3. Med Trwnne, sem GUD hefur lagt i innsta Grunn Vorrar Saalar, og hann þar uppkveiker, fyrer H. Anda, maa Christi Riettlæte medtakast og umfadmast, og af skiærre Naad, fyrer þa sømu Trw, giefast og tileinkast, fyrer utan nockur vor undanngangande edur medfylgiande Verk, Verdugleika edur Forskulldan. Þess vegna lætur GUD, Trwna, fyrer Orded og H. Anda i oss kvikna og upptendrast, ad vier, fyrer hana, kunnum hluttakendur ad verda þess dyrmæta fiesioods JEsu Christi Riettlætes; vier hliootum fyrer Trwna, sem er i insta Grunne vorrar Saalar, ad verda Riettlaater. So sem Madurenn vard af Dioflenum spilltur og fordiarfadur, allt inn i innstu Saalarennar Krapta: so hlytur hann aptur a mot, fyrer þann dyrmæta Lækners-Doom Christi Forþienustu i insta Hiartans Grunne ad læknast og hiaalpast, med þvi mote, ad hann, fyrer Trwna, verde hluttakande Christi Riettlætes, hanus H. Forþienustu, og alls GUDs Rijkes, sem er innra i oss Luc. 17.

Chri-

Christi Riettlæte getur og einnen orded vort fyrer Trwna; af þvi hun er bygd uppa GUds Sannleiks Fyrerheit, med hverium GUD hefur Abraham lofad, og ollu hans riettrwudu Sæde, Riettlæte og Saaluhiaalp: Þvi Fyrerheited wtheimter Trwna; og Trwen stylar uppa Loforded og Fyrerheiteñ: þar fyrer alyktar S. Paall til Rom. 4. Cap. ad Riettlæted kome fyrer Trwna, so ad þad sie af Naadenne, og Loforded bliife stodugt. Og til Gal. 3. Cap. seger hann Af þvi Abraham trwde Gude, þa er hønum þad reiknad til riettlætes; Er þvi Meiningen þesse; ad þeir sem eru af Trunne, sieu Abrahams Børn, og Ande Drottens hefur sied þad fyrer, ad GUd munde giøra Hedingiana riettlaata, fyrer Trwna; þar fyrer sagde hann til Abrahams: J þier skulu blessast allar Piooder: So verda þa þeir, sem eru af Trwnne, Blessader, med þeim Blessada Abraham: J þeirre Meiningu verdur og so sagt hia Johannem 1 Cap. Ad Christur sie fullur Naadar og Sannleika; og Naad og Sannleike verde oss veittur fyrer JEsum Christum; þvi þesse Sañleikur leidest i Lioos sierdeiles med Uppfylling Fyrerheitanna.

Ef vier vilium finna þad sanna Riettlæte, þa hlytur vort Hiarta, Saal og Ande ad snwa sier fra ollum eigenn Kroptum og

Formegan, til huerrar Mannskiepnan er af Dioflenum afvega leidd og sviken, med eigen Vegsemd, Sialfs-Elsku og Stolltheitum; og skulum vier i Trwnne alleina snwa oss til Christum, til hans dyrmætu Forþienustu og Verdskulldunar, af huerre oll Naad og Syndanna Fyrergiefning wtflytur þviad JEsus Christur alleina hefur giort Fullnægiu fyrer Synder Veralldarennar, og stillt Fødursens Reide; af honum kiemur oll vor Velferd; hann er Upphafed, Mided og Ender vorrar Riettlætingar; oss er eckert annad Nafn giefed, i hveriu vier kunnum Saaluhoolpner ad verda, utan Nafned JEsu Christi; Post. G. B. 4. Cap. Hann hefur troded Viinþrwgu GUds Grimdar-Reide alleina; hann bijhelldur og þess vegna Vegsemdenne alleina, so ad allra munnur verde tilstappadur, seger S. Paall. Rom. 3. GUds Gaafa, er þad seger hann enn aptur Eph. 2. v. 9. eige af Verkunum, so eingenn hroose sier.

Þar sem vor Riettlæting være Grundvollud a sialfum oss, a vorum Verkum og Forþienustu, þa være Naaden ecke neitt; þa þyrftum vier eingrar Naadar og miskunar vid, nie helldur Syndanna Fyrergiefningar, (um hueria þo aller Heilager verda ad bidia, af Psal. 32. og vier bidium um hana daglega i vorre Drottennlegu Bæn;) Audmyktin,

Otte

Otte GUds, Trwen og Bænen være þa afteken; þa þyrftum vier ecke helldur vid nockurs Medalgaangara, Frelsara, Endurlausnara, og Saaluhiaalpara; Christur være þa og einnen forgiefens daaenn, og hefde forgiefens uppfyllt allt Logmaaled, med sinne wtvortes og innvortes Hlydne; vier værum þa og so under Bolfauenne; værum fallner fra Naadenne og hefdum mist Christum, so sem S. Paall i Pistlenum til Galatas 3. 4. og 5. Cap. krøptuguglega bevijsar: So ad þesse Lærdoomur um Riettlæte mannlegra Verka og Forþienustu fyrer Gude, er alldeiles gagnstædlegur øllum Grundvelle H. Ritningar, og Christelegre Trw.

So kann og einskis manns Riettlæte ad standast fyrer Gude, nema Christi einasta. Hvad snart kann Manneskian ad falla, so liggur þa allt hennar Riettlæte i Skarn nidurfalled, og verdur alldrei meir i Minne fest? Allt mannlegt Riettlæte er og so ofullkomed, hladed med Breste og Synduga Flecke, þvi vier førum villt i morgum pørtum, og allur vor Heilagleike er sem saurugt Klæde fyrer GUds straanga Riettlæte: vilie GUd gaanga i doom vid oss, þa kann ecke, jafnvel sa Riettlaataste ad svara honum einu orde a mote þwsund; og ma reiknast, sem sa skulldbundne

Pioon, sem var skylldugur um tiu þwsund Pund, og hafde eckert ad betala med: Enn Christi Riettlæte er þad ofleckada Riettlæte i allann maata; hann er sa eine madur an Synda; hann er sa Heilage og Saklause, Syndugum fraskilenn, huers Riettlæte ad varer eilijflega; Hæder nar meiga vijkia, og Fiøllenn falla nidur, enn hanns Naad mun ecke skeika, og Saattmaale hans Fridar mun ecke raskast. Es. 54. Þetta er þad Eilijfa Riettlæted, semtilfært inun verda, um huert Spaamadurenn Daniel talar i 9. Cap. og Esaias i 51. Cap. segiande: Mitt Hiaalpræde blijfur eilijflegana, og mitt Riettlæte mun ecke audvirdast. jaa, vort Riettlæte kann ecke ad vera grundvallad a nockrum Eingle, þvi eigenn Eingell hefur fyrer oss daaed: Einglarner eru ecke helldur so hreiner fyrer Gllds Auglite, ad þeir kunne ad afreka oss þad Riettlæte, sem fyrer Gude gillder; þeir eru ad sønnu hreiner fyrer siaalfa sig, eñ ecke kunna þeir ad betala fyrer adra: Eingrar skapadrar Skiepnu Riettlæte næger hier til; hier skal til oendanlegur Kraptur og Styrkleike, er alleina finnst i Christi Riettlæte sem er Gllds Riettlæte. Hver vill æsaka GUDS Utvalda? Gllð er hann sem riettlæter, seger S. Paall, Rom. 8. og Jeremias i 33. Cap. Drottenn er vort Riettlæte. Po ad eins manns Synder

er uppfylltu allann Heimenn, þa er þo Christi Riettlæte stærra: Þvi hann er Drottenn vort Riettlæte.

Skylldu þijnar Synder vera megtugre eñ GUd sialfur? þar sie laangt fra! vorar Synder og Yfertrodslur eru, þvi midur, yfermaata miklar og stoorar i sier sialfar: Samt sem adur, þegar þær verda bornar saman vid Christi Forþienustu, þa reiknast þær ecke i GUds Auglite, nema so sem eins lijtels Penings virde, sem bæed er þrysundsinnum ad betala, med þrysund Tunnum Gulls: So dyrmætt er Christi Blood (sem Postulenn kallar GUds Blood Act. 20.) ad reikna imot vorum Syndum.

So stoort er Christi Riettlæte, sem hañ oss skeinker og giefur fyrer Trwna. Þad bæter og burttekur alla vora Breste; þad giörer oss hvijtare eñ Snioo; so laangt sem Austred er fra Vestrenu, so langt rymer þad fra oss øll vor Brot og Misgiørninga; ja, þad tekur ecke einasta i burtu allar vorar Yfertrodslur, helldur giörer oss einnen hluttakande Christi Forþienustu, og tileinkar oss hana alla, so sem hwn være vor eigen. Þvi lijka so sem madur ecke einasta þvær og hreinsar eitt saatækt Barn af sijnum Ohreinendum, helldur og einnen færer þad i hvijt og hrein

lijnklæde; hveria Samlijking H. Ritning sialf brwkar um̃ þetta efne hia Ezechielem i 16. Cap. So hefur og Drottenn vor JEsus Christur, ecke einasta þveiged oss og hreinsad fyrer sitt Blood og Forþienustu, af Saurendum vorra Synda, helldur og einnen, fyrer Tileinkan þeirrar somu sinnar Forþienustu og Verdskulldunar, klædt oss med Klædum Hiaalpræde sens, og med Møtle Riettlætesens fagra giort. Þetta er sa dyrdlege Skrwdenn, sem David um̃talar i Psal. 110. J hverium GUds Foolk mun Drottne velviliuglegt Offur færa; Þetta er sa prydelege Bwningurinn, sem Esaias seger ad giefast skule þeim Sorgfullu i Zion; þad Heilagleikans og Riettlætesens hreina og hvijta Silke, i hveriu Skarenn a þeim strijdande Himne epterfylger Herranum Christo; so sem þar stendur i Openberingar B. 19. Cap. Þvi vier høfum feinged tvøfallt af hende Drottens, seger Esaias i sinnar Bookar 40. Cap.

Stoort Naadar Riettlæte var giefed vorum Fyrstu Forelldrum fyrer Falled; enn þetta er enn þa langtum stærra: Amos i 5. Cap. kallar þetta þann strijda Straum Riettlætesens; og S. Paall Rom. 5. v. 24. eina megtuga rijkiande Naad, sem og einnen Naadar Nægd og Gaafu til Riettlætesens; og enn

aptur

aptur, yferfliootanlegann Rijkdoom Naadar-innar, Eph. 2. v. 7. Þad er so stoor Naad, ad eingenn madur kañ hana til fulls ad grunda.

Vorer fyrstu Forelldrar høfdu ad sønnu fullkomed Riettlæte og Sakleise til ad bera; enn ecke høfdu þau þo soddann yferfliotannlegt Riettlæte, sem vier høfum i Christo, fyrer Trwna, þvi þad er laangtum stærra, enn ad vier kynnum ad hafa erft þad epter Adam, þo hañ hefde staded stødugur i sijnu Sakleyse. Christur hefur med stærre Audmykt og Hlydne þocknast Gude, eñ Adam, a medan hañ var i sijnu Sakleyse; ja, langtum framar, eñ þo þwsund Adam hefdu lagt til samans allann sinn Heilagleika og Meinleyse. So er og einnen sw Sameining vid GUd, sem fylger Christi Riettlæte, stærre enn sw, sem Adams Sakleyse færde med sier: Þvi Christur hefur teked uppa sig vora Naattwru, og giørt hana sier sameigennlega i einne Personu, og med soddann mote hreinsad hana i sialfum sier, og giørt hana langtum dæelegre, enn hwn var nokurn tijma i Adam. Hann verdur og ad eylijfu eitt med þeirre sømu vorre Naattwru, og fyrer hana og so eitt med øllum Riettrwudum: Þvi Christur er ad øllu leite vor Eign, og vier erum ad øllu leite hans Eign. Og þar hann hefur med soddann moote hrein-

hreinsad og helgad mannlega Naattwru, i sinne Personu, so hreinsar hann hana og so, veglega giörer i sijnum limum og Riettrwdudum Bornum, so ad hwn fyrer tileinkada Christi Forþienustu er næsta fegur og frijd; hvar fyrer hann seger sialfur i Lofkvædesens 1. Cap. Siaa mijn Unnusta, þu ert dæleg, Ja dæleg ertu; og David vitnar um̃ þad sama i Psalm. 45. segiande: Brwduren er dæleg, wtvortes klædd med Gyllene-styckium: Soddann byriast hier i Rijke Naadarennar, enn mun fullkomnast sijdar meir i Rijke Dyrdarennar i eilijfu Lijfe, þegar allar Syndarennar meniar munu verda burthreinsadar, og GUds Sofnudur mun liooma, fyrer utan alla Hrucku og Vansa: Þvi Christur mun þa giöra vora Lijkame samlijka sijnum forklaarudum Lijkama, og þeir Riettlaatu munu skijna, so sem Soolen, i Ryke þeirra Fodurs.

J stuttu maale ad segia: vort Riettlæte er so stoort i Christo, sem GUd sialfur, hvar fyrer vier munum ecke kunna um̃ alla eilijfd þad fullkomlega ad um̃þeinkia, so sem vier ecke kunnum GUd sialfann noogsamlega ad grunda. Og hier af kiemur þad og einnen, ad einngenn skopud Skiepna kañ ad fram̃færa nockud a mote þeirre Manneskiu, sem er hluttakande i þessu Riettlæte; helldur ma hver einn trw-

adur

adur segia: Hver er sa sem Fordæmer? GUd er hann sem Riettlæter; GUd Sonur er orden̄ Mannsens Riettlæte.

Siaa, þetta er Trwarennar Riettlæte, uppa hvert vier byggum so fastlega, sem uppa einn Eilijfann Grundvoll; af hverium vier og einnen gledium oss og hroosum, bæde i Tijmanum og Eilijfdenne; fyrer hvern vier og einnen yfervinnum og Sigre hroosande verdum.

Þviad Christi Riettlæte, er vort Riettlæte; Christi Hlydne, vor Hlydne; Christi Heilagleike, vor Heilagleike; Christi Lijf, vort Lijf; Christi Velferd, vor Velferd; Christi Erfda-Riettur, vor Erfda-Riettur; Ja! allur HErrann Christur er vor eigen Eign, bæde epter Guddoomenum og Manndoomenum, med þvi GUd hefur giort hann oss til Endurlausnara, og Saaluhiaalpara, so ad hann er allur vor, med sinne Personu, Embætte, Naad, Dyrd og Sælu. Þad er vor stærsta Huggun, Vegsemd, Prys og Æra, vor stærsta Lyst, Fridur og Glede fyrer Gude, og ollum Einglum og utvoldum Monnum; vor hærsta Speke, Vijsdoomur, Kraptur, Styrkleike, Sigur, og Hroosunar Efne, i giegn Heimenum, Syndenne, Daudanum, Dioflenum, Helvijte, Fyrerdæmingunne,

og ollum vorum Ovinum. Þar fyrer sie GUd lofadur og blessadur ad Eilijfu Amen.

## Cap. IV.

### Ad Saaluhiaalpleg Trw, verke i Sannchristnum Manne, allrahanda Averxte Riettlætesens, sem koma af instu Hiartans Rootum, fyrer utan alla Hræsne; og ad siaalfur GUd dæme oll ytre Verken epter Grunne Hiartans.

Phil. 1.

Þess bid eg, ad þier sieud Skijrer, og an Hneixlunar, allt uppa þann dag Christi, uppfyllter med Avøxtu Riettlætesens, fyrer JEsum Christum, til Dyrdar og Lofs GUde.

EInn Riettchristen Madur verdur ecke einasta fyrer Trwna a Christum Riettlaatur, og fær Fyrergiefning allra sinna Synda, Helldur og einnen verdur hann Mustere og Bwstadur HErrans Christi, og Heilags Anda; þvi hans Hiarta er þess vegna af Gude hreinsad fyrer Trwna, ad HErrann Christur life og rijke i honum med sijnum Kiærleika, Lijtelæte og Hoogværd; til þess hefur og einnen vor HErra giefed honum sinn H. Anda, ad

ad hann verke i honum eitt nytt, gladvært og reidubwed Hiarta, til ad giøra þad sem Gude er þeckt og þacknæmelegt, fyrer utan alla Naudung; og hefur þesse Heilaga nya Hlydne ecke sinn Uppruna af Løgmaalenu edur Bodordunum, helldur af sannre og lifande Trw.

Og med þessu moote er þeim Riettlaata eckert Løgmaal sett, sem Paalus seger; þad er ad skilia, þo Løgmaaled sie ein skiir Regla ad rietta sig epter i daglegu Framferde, þa færer þad þo þeim froomu einga Naudung: Þviad sw sanna og lifande Trw giører allt af liufu Giede og lostugum Anda; hun endurnyar Mannenn, og hreinsar Hiartad, so ad hann elskar Naawngann med Glede, vænter og vonar epter þvi okomna; bidur GUD med stooru Hiartans Ynde og Sætleika, vegsamar vidurkienner og ottast Drottenn; er þolennmoodur, lijtelaatur, miskunsamur og astudlegur, hoogvær, blydkanlegur, medaumkunarsamur, fridsamur og fws til ad fyrergiefa Mootgiordenar; hann hwngrar og þyrster epter Riettlætenu, og umfadmar GUD hiartanlega, med allre sinne Naadar-Giæsku, og HErrann Christum med allre hans Forþienustu, og Fyrergiefningu Syndanna. Enn hver hann ecke finnur. Og formerker i sier

þessa H. Anda Averke, hann maa efalaust sturlast þar af, og bidia GUd med heitum Hiartans Andvorpunum, ad hann kunne ad verda heilagur, og þvo siinar Hendur i Meinleisenu, enn þeinkia þo under eins, ad þetta Liif er alltiid med Brestum og Breiskleika umvafed; og kann eingannvegen ad vera alldeiles fullkomed.

Þvi jafnvel þo þeir allra heiløgustu finne hia sier ymislega Holldsens Breste og Veikleika (so sem Liooft er af øllum Psaltaranum og Drottenlegre Bæn) samt vill GUd ad vort Riettlæte, med hveriu vier þocknustum hønum, skule þess vegna umfadmast af Trwne, er hann hefur lagt i innsta Grunn Hiartans, ad þar sie eingenn Hræsne medfylgiande, og ad aller Avexter Trwarennar og Riettlætesens sieu eingenn Laataglaumur, helldur hafe sin Uppruna af sama Grunne Hiartans, epter hveriu GUd vill virda þa og meta.

Jeg tala ecke um nockurn Fullkomlegleika, helldur einasta þar um, ad vor nya Hlydne og Good Verk skule vera hræsneslaus, og eingenn Munn-Christne. Avexter Riettlætesens og Andans sem verda wtmaalader i Pistlenum til Gal. 5. Cap. verda vissulega ad laata sig i lioose hia þeim sem hafa H. Anda; og þad gooda Tried hlytur sannarlega ad

þeck-

þeckiast af sijnum Avortum. Þo þeir sieu eige ad ollu leite fullkominer edur gagnhreiner, epter Einglanna viisu, helldur med margslags Ofullkomlegleika fleckader, þa meiga þeir þo ecke vera Hræsne og Yferdrepskapur. Christenndoomurenn er sem eitt Siwkra manna Hws, fullt af veikum og vanfærum Manneskium, a medal hverra ad eru bæde Synduger og Heilager. Fyrer þeim geingur þad so til, sem Bornunum, er fyrst læra ad gaanga: menn verda ad laata þau hafa Studning af Beckium og Skorum, reisa þau endalaust a Fætur, lypta þeim upp þessa a mille, bera þau og wtstanda mikenn trafala med þeim: Eins lijka maa sa eine i Christnenne bera annars Byrde. Madur maa ei strax fordæma annann, þo hann kunne ad verda breiskur og falla, helldur byriar ad hiaalpa honum til rietta aptur med hoogværum Anda, og læra af hans Epter-dæme ad þeckia sinn eigenn Siwkdoom og Veikleika. Nw þo ad þessu sie so haattad og vared, eingu ad sijdur eiga þo Christner menn hvad af hveriu ad vaxa og prooast i Christo, og ecke alltijd vera so sem oforstandug Born; þeir eiga ad þioona Gude af Alvoru og innsta Hiartans Grunne, og bera sig altijd ad yfervinna Hollded, þo þad hlioote ad skie med stoorum Baagiendum;

þeir meiga efalaust astunda Kiærleikann, af hreinu Hiarta, goodre Samvitsku, og omeingadre Trw, og læra ad hafa þad alltijd i fersku Minne, ad GUD dæmer øll wtvortes Verk epter Grunne Hiartans. Þar fyrer, ef Hiarta þitt er gott, þa eru þijn Verk good; enn sie Hiartad vondt, ohreint og hatursfullt, þa eru øll þijn Verk fyrer Gude ohrein, vond og hatursfull. Svo sem þw ert iñvortes i Hiartanu, so ertu fyrer Gude, so er og so þijn Bæn fyrer honum, þijn Kyrkiuvitian, þijn Olmusugiørd, þijn Sacramentes-tijdkan.

Þar fyrer, vilier þu proofa sialfann þig, og þijna Trw, þa set þier fyrer Augu Tiu Bodordenn, og ber þau saman vid þitt eiged Hiarta, og muntu sialfur kunna ad dæma þar uñ, huert þijn Verk eru Gude þocknannleg, edur ecke, og huert þw hefur i þier sanna Trw og Averte Riettlætesens. Þw fremur einga wtvortes Afguda Dyrkan, og er þad miked vel; Enn giæt vandlega ad, huert Hiartad er og so frij fra henne, huert þw ert eins a þig komenn hid innra og ytra. Haange eige þitt Hiarta vid Heimenn, sie þad ecke hneigt til Giaalijfes, ecke til Agirndar, ecke til Lauslætes, ecke til Drambseme, edur annara þvilijkra Høfudlasta, þa eru þijn wtvortes Verk GUde þægeleg: Enn sie

þvi

þvi ødruviise haattad fyrer þier, þa duga þijn Verk ecke neitt fyrer Gude. Þu bidur, þackar og prysar GUd hid ytra: Siaadu þig vel fyrer, ad þu bidier ecke med Munnenum, enn bølfer i Hiartanu. Ransaka þu þitt Hiartans grunn: Sie ecke þitt Hiartans grunn eins og þijn utvortes Bæn og Þackargiørd, þa duger þijn GUds Dyrdkan ecke neitt.

Þu helgar Huijlldardagenn hid ytra; þad giører þu riett: Enn gief Gaum ad Grunne þijns Hiarta, huernen þad er a sig komed: Hefur þu þann rietta Hvijlldardag i þier? muntu huijlast i Gude hid innra? Muntu hallda þier fra vondum Girndum og Hugrenningum? Muntu giefa þitt Hiarta Gude aulldunges a valld, so hann kunne ad verka i þier epter sinne Guddomlegre villd og Giædsku? Berer þu ecke annad med þier i Kyrkiuna, enn hræsnesfullann Þootta, og bannvænann Orm Athugaleysesens, þa duger þijn Kyrkiu gaanga eckert. Þu syner a þier utvortes Hlydne, og þad er vel: Enn giæt ad, huert þu ert og so hlydenn i þijnu Hiarta. Hafer þu og so hlyded Hiarta, og þad af Audmykt og Elsku, enn ecke af Naudung og Þræls-otta fyrer Mønnunum, þa ertu Gude miked kiær, annars ertu Hræsnare.

Þu

Þw slær eingann i hel med Hondunum, og þad a svo ad vera: Enn gief giætur ad, huert þu slær eingann i hel i þijnu Hiarta: Hafer þw oforlijkannlegt Hatur og Reide til þijns Naawnga, þa er þad innvortes Manndraap, og ert þar fyrer sekur fyrer Doome. Kanntu ecke ad fornema, huernen ad Heipt Hiartans ummbreiter þijnu Fase og Vidmote, ad hwn blossar framm af Hiartanu so sem Elldur þar med kallar þw þinn Broodur Racha, og verdur so Raads-sekur, jaa, þw forþienar þar med eilijfa Pijnu og Fordæmingu. Seger þw med bitrum Ordum til þijns Naawnga; þw Narre edur Afglape, til ad smaana hann þar med, þa ertu sekur Helvijtes Ellds.

Hvad hiaalpar þier þad, þo þw hafer eingann med Hondunum i helsleiged, ef þw ert i Hiartanu Mordinge og Manndraapare? Huad stodar þad, þo Madur hallde sijnum Hondum i stille, enn deyder þo og i helslær sinn Naawnga med sijnu hatursfullu Vidmote og Augnatillite, sem eitt Basiliscus? Hvers metur GUD þad, þo ecke drager þw wt Hnyfenn, ef þw hefur i þijnu heiptuga Hiarta brugded Sverd a mote þijnum Naawnga, edur þijn Twnga skiemmer hann med Lygum og Haadyrdum, lijka sem beittur haarhnyfur?

Psal.

Psal. 52. Lijka sem Goodur Madur fram̃ flijtur Gott, af goodum Siood sijns Hiarta, so frammflijtur Vondur Madur Vondt, af Vondum Siood sijns Hiarta Matth. 12. J Hiartanu situr Mordingenn, Hoorkarlenn, Pioofurenn, Lygarenn, þad vonda oarga dyr Agirnden, sem er Root alls ills: Ef ad þesse slæme Ormur dempast ecke og deydest i Hiartanu, fyrer Jdran og Yferboot, fyrer Trwna og Blooded Christi, þa er þad omøgulegt, ad þu kunner ad giøra Gude eitt einasta Offur þægelegt, þvi epter Hiartanu dæmer GUd allar mannsens Athafner.

Þar fyrer seger vor HErra Matth. 5. Cap. Nær þu offrar þijna Gaafu til Alltares, og þier kiemur þa til hugar, ad þinn Brooder hafe nockud a mote þier, þa lattu þar þijna Gaafu fyrer Alltarenn, og far adur ad sætta þig vid Broodur þinn; Sem villde han̄ segia: Vertu frammsynn og riettvijs vid þinn Naawnga, so sem þier er møgulegt; annars stodar þig eckert þijn Bæn, þitt Offur, þijn GUds Pionusta, þijn Sacramentes Brwkun, helldur verdur allt soddan þier ad Synd, þvi GUd alijtur Hiartad. Hier fyrer bydur H. Paulus 1. Thim. 2. Ad vier skulum uppheſia heilagar Hendur i Bænenne an Reide og Þrætu. Og Postulenn Petrus i 1. pist. 3. Cap. bydur Hioonunum ad fordast Reide, so þeirra Bænahalld hindrest ecke. Þar

Þar fyrer aminner og einnen HErrann Christur oss i frammsettum ordum miøg alwdarsamlega til broodurlegs Kiærleika og goodrar innbyrdes Forlijkunar, og þad med þremur merkelegum Røksemdum: Fyrst seger hann: Vertu snarlega samþyckur þijnum Moorstødumanne a medan þw ert enn a Vege med hønum; sem villde hann segia; þw fetar Vegenn til Daudans a hverre Stundu; vort Lijf er eigi annad enn stijfelldur Gaangur til Grafarennar: Eñ deyer þw med hatursfullu og raangsleitnu Hiarta til þijns Naawnga, þa bijhelldur þw þvi eilijflega og þad skilur alldrei vid þig, helldur verdur þijn Saal vid soddann Hatur og Oriettlæte, jaa, vid sialfann Diofullenn ad eilijfu samteingd. J Aññann maata seger vor HErra; Ad eige selie þig þinn Moorstødumadur Doomaranum. Þad er skielfelegt ad kalla nockurn fyrer Guds Domstool, og ad standa fyrer hans straanga Riette med sijnum Mootstandara, og bijda epter Urskurdenum: Enn hvad sem i þessu Lijfe verdur nidursett, fridstillt og fyrergiefed, þad er i ødru Lijfe og so nidursett og qvitt giefed, og kiemur ecke fyrer GUds Doom. Hier af maa siaa, hvad mikels GUD virder Kiærleikann til Naawngans, ad hann vill ecke ad hann adgreinest fra þeim Kiærleik, sem til hanns sialfs er hafdur; hann vill all-

deil-

deiles ecke vera elskadur af oss, nema vier elskum og so under eins Naawngann; þvi hann siaalfur er Kiærleikurenn, og elskar Manneskiuna, so sem sijna eigen Saal Jer. 12.

Ad sijdustu seger Lausnarenn, ad sa sem ecke vill forlijka sig vid sinn Naawnga, edur fyrergiefa hønum, sem og einnen brwka Jofnud og Sannsyne vid hann, so sem hønum er møgulegt, þeim hinum sama verde kastad i Faangelse, þar til hañ hafe betalad sijdasta Pening. Þad er GUds Riettlæte, ad hann høndlar eins vid oss, sem vier høndlum vid Naawngann; hann mæler oss wt med sømu Mælingu, sem vier hofum mællt vorum Naawnga. Vilier þw nw ecke forlijkast vid þinn Naawnga, eda fyrergiefa hønum, og eige vera hønum goodur nie elska hann, þa er þad GUDS Doomur, ad hann vill ecke helldur fyrergiefa þier; hann vill ecke audsyna þier Naad, og einga Synd qvitta giefa, so ad þw matt fyrer þær allar, so vel þa minstu, sem þa stærstu, lijda eilijfar Kvaler, og kannt alldrei fra þeim ad frijast.

So sier þw nw hvernen GUds Sonur hefur sett þier þetta Dæme fyrer siooner, so ad þw i Tillite til þess, dæmer þijn wtvortes Verk, epter þijnu eigenn Hiarta, þar fyrer dæm nw umm sialfs þijns Christenndoom

epter þijnum innra manne. Þu seger: Eg er skyrdur; eg er Christenn madur; jeg hefe GUds Ord hreint, og heyre þad; Eg brwka þad H. Alltaresens Sacramentum, helld og so uppa alla Trwarennar Articula og medkienne þa: þar fyrer kann mier ecke ad slaa þad feil, mijn Verk þocknast vissulega Gude, og eg verd Saaluhoolpenn. So alyktar nw a þessum døgum allur Heimurenn, og helldur, ad i wtvortes Verkum sie Riettlæted innefaled: og jeg hefe þar ecke a mote, ad soddan Meining kann vel ad standast, nær Grunn Hiartans fylger þar med, so a sig komed sem vera skal; annars er þad alltsaman forgiefens, þvi Prooffsteinnenn liggur i Hiartanu.

Fyrst segest þw vera Christenn. Þad er gott ef so reinest: Enn gief Giætur ad vandlega, huernen ad Hiarta þitt hid innra er a sig komed; muntu vera i raun og Sannleika so Christenn hid innra, sem þw ert ad Nafnenu? muntu og so hafa i þier Smurning H. Anda og Andans Avexte, sem bevijsa mann Christenn ad vera? Ef þad vantar, þa ertu Fals-Christenn.

Þu segest einnen skijrdur vera, þad er gott; enn giæt ad Grunne Hiarta þijns, hvert þu lifer og so i þeirre Nyu Fædingu, i sijfelldre Idran, i Deydingu þess gamla Adams.

ams. Ecke verdur hver madur hoolpenn, sem skijrdur er, helldur sa sem bæde er skijrdur, og lijka trwer, og sw sanna Trw hlytur efalaust ad syna sig med heilögu Framferde. Vier erum Jardader med Christo, seger Paall, fyrer Skijrnena i Daudann, lijka sem Christur er uppvakenn fra Daudum, fyrer Dyrd Födursens, so eigum vier ad gänga i Endurnyungu Lijfdaganna. Þw ert ad sönnu skijrdur, eñ hvar eru Avexter þinnar Skijrnar? Þw ert ad vijsu i Skijrneñe Endurfæddur; eñ þw lifer þo kannskie ecke i Endurfædingunne, helldur hefur þw allareidu henne tapad, og ert ordenn aptur ad Reidennar Barne. Þw seger: Jeg hefe GUds Ord hreint og klaart, og heyre a þad med mijnum Eyrum: Eñ þad er ecke noog, ad þw hefur þad og heyrer, nema þw lifer epter þvi af Hiartans Grunne, og giörer þad sem þad bydur; þu aatt ecke einasta ad vera Heyrare Ordsens, helldur og einnen Giörare. Hefur GUds Ord um̃myndad þitt Lijferne, og fært þvi andlegann Protska, so sem Fædan plagar ad renna manne i holld og hams? þvi med alijka slag, hlytur þad sanna Lijfsens Braud GUds Orda ad verka Dösnun i voru Fram̃ferde, og giöra oss ad nyum Skiepnum, so sem vor HErra lætur oss merkia i þeirre Epterlykingu um̃ Swrdeiged hia Matth.13. Þar

hañ seger ad Himnarijke sie lijkt Swrdeige, er syrde allt Deiged sem þad kom i. Ertu orden betre og froomare af GUds Orde, eñ þw varst? Seger ecke Christur, Matth. 7. Peir munu ecke aller sem til mijn segia, HErra, HErra, inngannga i GUds Rijke.

Þw ert noogu akafur opt og tijdum i þvi ad forsvara þa riettu Religion og Trwarbrøgd; þad er og so gott, þvi þad ber þier ad giøra: Eñ þad er ecke nog, þw verdur og so ad ødlast hreint Hiarta af þeim hreina Lærdoome. Margur vandlæter vegna Trwarbragdanna, eñ er þo, eingu ad sijdur, argviitug og ogudleg Manneskia, fullur af Drambseme, Hatre, Fianskap og Oriettlæte; O HErra GUd! þitt dyrdarsamlega Nafn giora þeir ad Skylu fyrer þeirra Hreckviise.

Þw seger: Eg geing til GUds Bords þraalega, og medtek þad H. Kvolldmaaltijdarennar Sacramentum. Þad er gott; Eñ gief Gaum ad þijnu Hiarta: Þw hefur ad sonnu opt medteked Christi Lijkama og Blood i Sacramentenu, eñ hefur þo eingu ad sijdur laated þa vondu Adams Vanart lifa og drottna i þier; eñ þad edla Christi Lijf og Framferde, sem er Kiærleike, Hoogværd og Lijtelæte, hefur þw ecke til ad bera. Hvad hiaalpar þad, þo menn medtake HErrann

Christ-

Christum i Sacramentenu, ef þeir afneita honum i Lijfe og Lifnade, so ad hanns Lijkame og Blood myndar ecke hia þeim Christelegt Framferde, helldur blijfa þeir eñ þa i sinne motþroannlegu Vondsku og Ogudlegleika; hvar fyrer þeir medtaka Lijkama og Blood Christi overduglega, so þad verdur þeim-til stærre Fordæmingar.

Þw seger: Eg vidurkienne og helld fast uppa allar Trwarennar Høfudgreiner, þad er vel sagt: Eñ hygg ad þijnu Hiartans Gruñe, hvert þad andsvarar þessare þinne Jaatningu. Þad er sw saña Trw, sem samteinger þig vid GUd, og GUd vid þig. Ef þw trwer a GUd, þa er GUd vissulega i þier, og hefur i þier sijnar Verkaner: Eñ vante þad, þa er þijn Trw følsk, og hefur ecke samteingt þig vid GUd, helldur ertu adskilenn fra honum. Ad vijsu kann Trwen opt og tijdum ad vera veik og maattlijtel, sem marenn Rier, og riwkande Hørkveikur; hwn kann ad vera stundum sem Sæde i einum snodnum Akre, er ecke kann stoorum ad merkiast. Eñ hvad veik og lasen sem hwn er, þa helldur hwn sier þo samt vid GUd, so sem þann ædsta Gooda, og sleppir eigi Christo alldeiles wr Hiartanu, hwn færer af sier Avexte Riettlæteseins, epter hætte þeirra veiktrwudu, midt i sijnum Veikleika, hveria GUd

ad minsta koste þecker. Ef madur segest trwa a Christum, þa maa Christur sannlega bwa og lifa i hønum, annars er þad følsk Trw. Hver hann trwer, ad Christur hafe fyrer sijnar Synder daaed, hann maa og so med hønum deya fra Syndenne, og Heimenum; þad er ad skilia, fra Drambseme og Agirnd, og ødrum slijkum Ødygdum; enn giøre hañ ecke so þa er þad Hiegoome, sem hann innbyrlar sier uñ sijna Trw. Ef þw trwer, ad HErrann Christur hafe fyrer Heimsens Synder Krossfestur vered, þa verdur þw og so med hoñum ad vera Heimenum Krossfestur; Annars ertu ecke sem einn lifande limur vid hann samteingdur fyrer Trwna. Trwer þw, ad Christur sie upprisenn, þa hlytur þw hønum, sem er þitt Høfud, samteingdur ad vera; annars er þijn Trw næsta faanyt. J stuttu maale ad segia: HErrans Christi Fæding, Kross, Daude, Pijna, Upprisa, og Uppstigning verdur ad vera i þier fyrer Trwna, og laata sijna Avexte i þier auglysast; annars duger þijn Trw ecke neitt: Eins lijka ef þw þykest trwa a Heilagann Anda, þa a hann ad bwa i þier, stioorna þier, upplysa þig og Helga, þvi þeir sem af GUds Anda stioornast, þeir eru GUds Børn, Rom. 8.

Hafed þess vegna gaat a ydur, Christner menn, ad ydar Christeñdoomur sie ecke einasta wtvortes, helldur iñvortes, ad hañ frañkome af insta Grunne Hiartans, af sañre, lifande og kroptugre Trw; ja, af hreiñre, hiartannlegre, alvarlegre og siifelldre Jdran; annars er ydar Christenndoomur Hræsne, og þier kunned ecke ad standast med hañ fyrer Gude, og hañ hiaalpar ydur ecke neitt a þeim siidasta dege Doomsens, þvi epter ydar Hiartalage vill GUd dæma øll ydar Verk, sem þier hafed giort. Þar sem þw kant nw, minn Brooder og Syster, ad finna hia þier Breste og stoorann Breyskleika i þessu, þa viisa eg þier til GUds Naadar, og ad Hiaalprædesens Brunnenum, HErranum JESU Christo; fly þw þangad, og aus til þijn Vatn Svølunarennar, bid og andvarpa, segiande: Miskuna þw mier HErra JEsu, og svala Saalu minne. Ef þw so giorer, þa læknast þitt Hiarta, þijnar Synder hyliast, og Afbrotenn verda innsiglud.

## Cap. V.

### Ad einsømul Heyrn og Þecking GUds Orda bevijse ecke Mañ Sañ Christen ad vera, helldur ad vier sie-

um þa fyrst vel Christner, þegar vier færum oss i nyt GUDs-Orda Lærdoom, og sijnum þess Krapt og Verkan i voru Framferde, bidium GUD af iñsta Hiartans Grunne, ad hans Ord mætte bera Avøxt i oss, og vorum Lifnade, sem GUDs Andlegt Sæde.

## Spekennar Book. 6.

Hver sem lætur sier lixflega underviijsa, þar er sannarlega Spekennar Upphaf, og hver sem giæter hennar, lætur giarnan underviijsa sier; hver sier lætur giarnan underviijsa, hann helldur hennar Bodord; og hvar sem hennar Bodord eru halldenn, þar er vissulega Heilagt Framferde; enn hver sem lifer i Heiløgu Framferde, hann er Gude Naalægur.

ÞEsse fagra Maalsgrein kienner oss, hvernen vier eigum, ad faa og ødlast þann rietta Vysdoom, fyrer hvern vier verdum viner GUDs; og skiedur þad med þvi mote, ad vier giørum Jdran af Hiarta, og astundum ad mynda vort Lyf epter GUDs Orde; ef vier so giørum, þa kann þad ei ad skie, ad þar kome ei a efter Upplysing Hugskotsens, Aukning Naadar giafa GUDs, og Sameining vid hañ, þvi vier verdum þa hlutakande Guddomlegar Naattwru, ef vier umflyum saafeingelegar

gyrn-

gyrnder Veralldarennar, so sem H. Petrus ad orde kvedur. 2. Pet. 1. Efterdæme hier uppa hofum vier a Enoch, sem var Siøunde fra Adam, um hvern Ritningen seger, ad med þvi hann færde gudlegann Lifnad, vard hann uppnumenn i Himenenn, og vard ecke framar fundenn a Jordunne. Epter soddann H. Lyferne stundade David af insta Anda; þar fyrer bidur hañ so alvarlega þar um i Psal. 119. og fyrer setur Medøl tvø til heilags Lyfernes; sem er fyrst Inneleg Bæn, þar næst Alvarleg Astundan a þvi ad æfa sig i GUds Orde.

Um þad firra seiger hañ so. Jeg hroopa af øllu mijnu Hiarta, bænheir þu mig Drottenn ad jeg hallde þinn Riett. Eg kalla til þijn, hiaalpa þu mier, so eg hallde þijna Vitnesburde. J þessum Ordum syner hann, hvad torvelldt þad sie, ad vera einn Goodur og Christenn Madur, og hallda Riettann og Sannann Christenndoom, sem samhlioode Orde GUds i sannleika, þviad Holld og Blood stryder hier a mote af Naattwrunne, og þegar þad er af Naadenna forbetrad, er þad enn þa veikt, og stoorum Breiskleika undervorped, og lætur suwa sier of fliott og ofopt til baka aptur; so er og Diøfullenn alltyd oss til Hægre og Vinstre Handar, til ad hindra vort gooda Aform: Med þad sydsta laata ecke helldur

Vonder Menn af, med siinum Hneixlunum og Offoknum ad freista vor: Hier a mote byriar ad standa, af øllum Saalar Kroptum einkum med Bænenne; þar fyrer seiger David. Eg hroopa af øllu Hiarta; hans inneleg Bæn og beidne er, ad hann kunne ad færa gudlegañ Lifnad, hann meige heyra og lesa GUds Ord, synu Framferde til bekrunar, og fullkomna so GUds Vilia, so ad hann misse ecke Naad GUds; þad er nu þad, sem vier eigum ad laata oss mest umhugad vera, fram yfer alla Veralldlega Hlute, þvi þad er þad, sem oss mest uñvardar, ad vier niotum GUds Naadar og Vinskapar; þvi sa sem hefur GUd fyrer sinn Vin, honum kann eckert Veralldarennar Hatur skada ad giora, og øll Helvytanna Port megna eckert a mote honum, þvi ef GUd er med oss, hver kann þa ad vera a mote oss? Þar fyrer er þad hin fyrsta Trappa og Medal til Heilags Lijfernes, ad bidia af Hiarta.

Annad Medaled wtmaalar Spamadurenn med þessum Ordum: Arla kiem eg og kalla, a þitt Ord vona eg, snemmindes vakna eg upp, so ad eg tale um þitt Ord. Hier med giefur hann ad merkia, ad þar til wtheimtest mikel Arvekne, brennande Astundan, og stoor Alvørugiefne, ad lifa efter GUds Orde; soddann kann ecke ad skie i Latmensku edur Dofeñleika, helldur heirer hier til alvarlegt Kapp

og

og Ydne. Elskann er so sterk sem Daudenn, og vandlæted sem Helviste, seger Salomon umm alvørugiefne Christi Brwdur, þegar hana af hiarta laangar til ad naalægiast sinn Brwdguma Lofk. 5. Vier hliotum ad verka vora Saaluhialp med Ugg og Otta; oss byriar med Vallde ad naa til vor Ryke Himnanna, so sem Christur giefur ad merkia; soddann Hugarens Akiefd og hiartanleg epterlangan uppkveikest i Mannenum fyrer Freistingarnar, þegar hann plaagast med Helvijtes Augist, og Belials Becker spenna hann, þegar GUds Skelfing yferfellur hann, so ad øll Verølldenn verdur hønum ad segia ofþraung, þegar hann i sijnum diwpu þaunkum, bijdur epter Huggunene fra einne Morgun-vøkunne til annarar; og HErrann helldur so þess mans Augum, ad hann vaker Psalm. 77. og hans Hiarta ma plaagast med storre Angist: Ellegar Madureñ i Andlegre Hrygd og skielfingu fyrer eilijfum Kvølum, maa byda epter Huggun og vera sem einmana Fugl a Hwsþekiu, og sem einn Falke i nidur brotnum stødum, sem kwrer einsamall og tyster Psal. 102. þegar sa goode GUd giører einn so þreittann af Andvarpan, ad hann kann naumlega ad draga Andann. Þetta er sa Reinslu-Skoolenn i hvern GUd setur alla sijna Heilaga, so ad sa sem ecke hefur slykt reint, veit enn þa ecke miked ad segia

af

af GUds Orde. Soddann Andakt og Alvøru giefne kunna og so fleireslags Sorger og Freist-ingarad uppvekia, þvi Hørmungenn kienner ad merkia Orded: Fyrer goodu vard mier þad Drottenn, seger David, Psalm. 119. ad þu lyte læckader mig, og ad egma læra þijn Riettinde. GUd sundurbrytur alla vora Krapta bæde Saalar og Lijkama, so ad hann alleina meige vera vor Styrkleike, og ad vier fram yfer alla Hlute megum stunda epter hønum, so sem þeim Hædsta og eilijfa Gooda, ad GUds Ord meige blijfa lifande i oss, og lijfga oss eñ fram-ar, so ad vier formerkium þess Krapt, og ecke einasta vitum þad rietta, helldur og einn-en fullkomnum þad, og lifum þar epter og med stærstu kostgiæfne erfidum þar uppa, ad vier kunnum ad giora GUds Vilia.

Gief nu þar fyrer vel giætur ad, hvad þad sie, sem bevijsar einn Goodann Christenn Mann ad vera, sem er ecke einasta ad heyra GUDS Ord, helldur og einnen ad giora epter þvi; annars høfum vier ecke Not af GUds Orde, med þvi þad er oss ecke giefed einunges til þess, ad vier skulum heyra þad, helldur til þess ad vor Verk og Lifnad-ur lagest epter þvi: So sem Lænings Med-ølenn stoda eckert þann siwka, þo hañ siaae þau, eda heyre um þau talad, ef hann fører þau ecke, sier i nyt, so kann GUDS Ord, sem

sem er giefed og veitt vorre forspilltre Naatt-wru til lækninga af sialfum Gude, ecke ad bæta vor mein, eda ad lækna Siwkdoom vorrar Saalar, ef vier vilium ecke laga vorn lifnad epter þvi, og hroopa til GUds Dag og Nott, ad vier meigum framkvæma þad i verkunum, sem vier heyrum i Guds Orde boded.

So sem ein konstrijkañ Meistara, stodar þad ecke, ad kunna Listena, ef hann ydkar hana ecke, helldur kiemst hann fyrer sijna lete og ydiuleise i Faatækt og vesolld. Eins lijka stodar þad ei mannenn, þo hann vite vilia GUds, og giörer hann ecke: Sa Pioon seger Frelsarenn, sem veit vilia sijns Herra, og giører ecke epter hans Vilia, hann mun lijda mørg Høgg Luc. 12. og H. Petrus i 2. Pist. 2. Cap. seger ad soddann Mønnum være betra, ad þeir hefdu alldrei þeckt Riettlætesens Gøtu, helldur enn epter Þeckingena ad snwa aptur a bak fra þvi Heilaga Bodorde, sem þeim er giefed. Mun einn Fader hallda hann fyr-er sitt Barn, sem i øllu er hans vilia mot-snwenn? Langt fiærre helldur seger hann: Ef þu villt ecke giora minn Vilia, so vil eg ecke helldur þeckia þig fyrer mitt Barn. Ein-sømul Ordenn bevysa ecke einn ad vera GUds Barn, helldur ef menn lifa so sem GUDS Børn; þar fyrer seger Christur Joh. 8. til

Gyd-

Gydinganna: Ef þier værud Abrahams Syner, so giørdud þier Abrahams Verk; enn af þvi þier giøred ecke Abrahams Verk og leited epter ad lyflæta mig, þa erud þier af Fødurnum Fianda. Hier af er audsied, ad hvers hellst Verk sem einn giører, þess Naatt-wru hefur hann, og þess Barn er hañ. Til hvers er eitt Trie nytsamlegt i Alldengard-enum, sem ecke ber Avørt? Þad þienar til þess, ad þad verde upphøggved, og kastad i Elldenn, so sem Epterlykingenn hia Luc. i 13. Cap. vottar um Fykiutried, sem bar eing-ann Avørt.

Ef einhver vilde innbyrla þier, ad einn Hrafn være Alt, og segde til þjin, siaa, hvad dægeleg Alt þetta er; munder þu þa ecke brosa og segia hann være heimskur Daa-re, ad hann villde so tala, med þvi Hrafneñ hefde hverke Altareñar Lit nie Hegdan. Eins lijka ef einhver villde benda til þessa Heims Lifnadar, og seigia, sia! þar er einn Christ-enn Madur, og þesser eru aller Christner, þa mætte Madur maklega reikna soddann fyrer Heimsku: Hier gillda ecke Innbyrling-ar, helldur Bevysingar: Guds Ryke er ecke foolged i Ordrædum, helldur i Krafte 1. Cor. 4. Flestum er so vared a þessum dogum, ad þeir vilia vera kallader Christner, þo eingenn Christeleg Verk siaest hia þeim. Þegar Laur-

en-

entius Valla fordum i Rom, heyrde þetta Evangelium lesed: Sæler eru Miskunsamer, Sæler eru Fridsamer, og so frammvegis: þa sagde hann; annadhvert er þetta ecke satt, ellegar vier erum ecke Sann-Christner.

Þar eru morg Dyr og Fuglar, sem ganga yfer Mann i Dygdunum; Dwfan i Einfalldleikanum; Maurenn i Ydnenne; Storkurenn i Upphellde og Næringu sinna Forelldra; Tranan og Hanenn i Vokunne og Arveknenne; Hundarner i Elskunne og Trwskapnum; Nauted og Asnenn i þeckingu syns herra; Sauderner i Hoogværdenne; Looned i Hugprydenne, og Milldenne vid smadyrenn; Høggormurenn i Kiænskunne og Klookskapnum; enn Náattwrlegur Madur yfergeingur allar skynlausar Skiepnur i Vondskunne; hann er Omiskunsamare enn Ulfurenn; Slottugre enn Refuren; Hrokameire enn Paafuglenn; Graadugre enn Gallturenn; Forgyftugre enn Nadrann, og Grimmare enn ein Biarndyrs Jnna. Hier fyrer kallar hinn Sæle Johannes, Pharisæana Nødru Kyn; og HErrann Christur, Herodem einn Ref; og S. Paull Neronem, eitt Lion; ja, ad vijsu aller þeir Glæper og Gallar sem finnast hia skynlausum Skepnum, þeir finnast og einnen i naattwrlegum Mañe;

so

so ad H. Paulus kallar þess vegna mannleg-ann Lijkama, Lijkama Syndarennar Rom. 6. sem er hladenn og fullur af allra handa slags Raanglætingum. Hier fyrer utann er eckert Dyr so vont, ad þad sie ecke gott til einhvers; Refar og Ulfar laata Mannenum epter siin Skinn a mote Kullda, og Loptsens Oblydu; onnur Dyr eru þienanleg til annars; þar Madurenn af Naattwrunne til, hefur einga Dygn, nie nockurn Neista af Andlegum Giæd-um i sier, helldur brwkar hann Skynsemena til Svika og Pretta, Lijkamann til Hofferd-ugheita, og annara þvilijkra Odygda; hann er fordiarfadur, bæde hid innra og ytra, og aller hans Limer eru Hervopn Raanglætesens.

Hier fyrer setur H. Ritning oss fyrer sioner Jmynd vorrar fordiorfudu Naatt-wru, med þessum Ordum Rom. 3. Þar er ei nockur sa sem sie skynugur, eda leite epter Gude, aller hafa þier syndgast, aller eru þeir onyrer ordner, þar er eingenn sem gott giør-er, og ecke einn: Þeirra Barke er vijd openn Grøf, med siinum Twngum høndla þeir svik-samlega; Høggorma Eitur er under þeirra Vørum, þeirra Munnur er fullur med Bøl-van og Beyskleika, þeirra Fætur eru fliooter ad uthella, Bloode, Angur og Ogiæfa er i þeirra Vegum, þeir þeckia ecke Fridarens Veg, og þar er eingenn Guds Otte fyrer þeirra Augum.

Sia!

Sia! hier hefur þu uppmaalada Mynd þess Naattwrlega Mannsens, epter þeirre Svijvirdingu, sem oss øllum er medfædd; og hvernenn kann einn Madur ad sia GUds Ryke, Ef hann blyfur i soddann Ogudlegleika, og fædest ecke ad nyu? Þar fyrer seger Paall: Endurnyed ydur i Anda ydvars Hugskots, Eph.4. og afklædest þeim Gamla Manninum med sijnum Gyrndum, og iklædest þeim Nya, sem epter Gude er skapadur i Riettlæte og Heilagleika Sannleiksens, Col.3. Og aftur i ødrum stad, þar hann talar um ogudlegt framferde, seger hann: Þier hafed ecke so numed Christum ef þier hafed annars af hønum heyrt, og erud i hønum lærder, hversu þad er i JEsu eitt Riettelegt Athæfe. Item Gal.5. Þeir sem Christo tilheyra, Krossfesta Sitt Holld, med Gyrndum og Tilhneigingum. O Herra GUd, Ef vier heirum ecke til JEsu Christo, þegar vier lifum i Syndenne, og deydum ecke Vondskunnar Lime, nie krossfestum Hollded, þa kann þad ecke ødru vijse ad vera, enn so, ad vier heyrum Dioflenum til, og erfum ecke Himnaryke. Þar fyrer ef vier eigum ad gieta stadest fyrer Gude, þa hliootum vier ad verda ny Skepna; þvi i Christo duger ecke Yferhwd nie umskurn, ecke alit Personanna, helldur ein ny Skepna einasta 2.Cor.5. Þar fyrer verdum vier aller þad

einkannlega, og med mestu Astundan ad kost-giæfa, ad dempa dags daglega Syndernar i vorum daudlega Lijkama, so ad vier heyrum JEsu Christo til, enn ecke Andskotanum, so ad GUds Ord meige i oss uppfillast, og vera lifande, so ad vor Lifnadur mætte þocknast Gude, og ad vier bijholldum hans Naad, og verdum Kier hans Miskunar, enn ecke hans Reide Kier.

Þar fyrer bidur David af Hiartans Grunne, ad hann kunne ad frammleida Heilagt Lijferne, sem Orde GUds sie samhlioođa: Eg hroopa, seger hann i Psal. 119. af øllu Hiarta; Bænheir mig Drottenn, ad eg halde þijnn Riett. Vier hliootum ad bidia um Heilagt Framferde, þvi umvendanen kiemur fra Gude. Lækna þu mig Drotteñ, seger Jeremias Cap. 17. so verd eg læknadur, snu þu mier, þa verdur mier snwed, frelsa þu mig, þa verd eg Hoolpenn, þvi þu ert minn Lofstyr. Þar fyrer seger og einnen David: Jeg hroopa til þijn, hiaalpa þu mier, so eg vardveite þijn Bodord. GUD maa endeliga hiaalpa oss og styrkia, þvi Synden og Andskotans Ryke hefur meire Magt i mannenum, helldur enn ad Sønn Jdran Boot og Betran kunne ad frammkvæmast an hiaalpar GUds:

Vier

Vier skulum og einganneigen laata vora Astundan tilvanta, helldur striwka Latmenskunar og Hyrduleisesens Svefn af vorum Augum, so sem sa GUds Madur David bender oss framar til, segiande: Arla kiem Eg og kalla, uppa þitt Ord vona eg, Snemmindes vakna eg upp, so ad eg tale um̃ þitt Ord. Hier um̃ talar og Esaias i 50. Cap. Drotten̄ uppvekur mig hvern Morgun, han̄ upplykur mijnum Eyrum, so eg heyre sem einn Læresveirn. Og Brwdurenn i Lofkvædenu 5. Cap. kiemst so ad Orde, Eg sef, en̄ mitt Hiarta vaker, þad er Raust mins Vinar, sem klappar uppa; og so frammveges.

Med hverium Ordum, vier verdum og so minter a GUds Fødurlega og aastudlega Ummhiggiu, sem hann hefur fyrer oss Mønnunum; hvers mesta Epterlæte erad ummgangast med þeim, vid þa ad tala, þa ad upplysa, uppfræda, og þeim ad kienna: Og þess vegna sende hann og einnen til vor sinn Son, ad hann være vor-Lærefader og Skolameistare. Fegur Fyrermyndan hier uppa er Barned JEsus i Jerusalems Mustere, þar hann sat midt a medal Lærefedranna, heyrande þeim og adspyriande þa. Þad skiede ecke einungis vegna Musteris Gydinganna, sem nu er eidelagt helldur first og fremst vegna Christelegrar Kyrkiu, sem er su sanna og

Himneska Jerusalem, hveria hann vill med Orde og Anda sijnum uppfræda: Þar næst vegna musteres vors Hiarta, i hveriu hann vill sialfur Kienna, Upplysa, Hugga, Helga, Bidia, Spyria, Svara og Prædika fyrer H.Þanka og hiartannlega Andakt; og þetta er hans Kiennemannlega Embætte i vorum hiortum. Þar umm talar hann miog huggunarsamlega til sinnar Modur segiande Luc.2. Hvad er þad, ad þid leited ad mier, vissud þid ecke ad mier byriade ad vera i þeim Hlutum, sem mijns Fødurs eru? þad er, i þvi kalle og Embætte, sem minn Fader hefur mier i hendur feinged. Soddann Embætte hefur hann enn nu, og utrietter til Fodursens hægre handar, so sem vor sanne Høfud Biskup: Hier a Jordunne hefur hann þad um̃ hønd fyrer sitt Ord, i hveriu hann og einnen prædikar innvortis i vorum Hiortum, fyrer Upplysing H. Anda, an hverrar su ytre predikun er ofriofsøm fanyt og avaxtarlaus; efter þvi sem H.Paulus kienner 1.Cor.3. segiande. Eg plantade, Apollo vøkvade, enn GUD gaf Avøxtenn: So er hann þa eckert sem plantar, og ecke helldur sa sem vokvar, helldur GUD sem Avoxtenn giefur.

Cap.

# Cap. VI.

## Mannsens Velferd og Saaluhiaalp er i þvi innefalenn, ad hañ maa komast aftur til GUds, og sameinast honum, fra hverium hann var skilenn fyrer Syndena: Eñ i þessu kann madurenn sialfur eckert ad verka, helldur hindrar hann sig þar fra, med sijnum vondum Vilia: Naaden vors Lausnara maa giora þad alltsamann.

Joh. 15.

An mijn Faaed þier einskis orkad.

SO sem Madurenn fyrer Syndafalled, þad er, fyrer Vanbrwk an sijns siaalfrædes, fyrer sijna Sialfs Elsku, og Eigen Ærugyrnd: Vard vidskila vid GUd og miste sinn medskapadann Fullkomlegleika; so maatte hañ fyrer Endurfædingena, Ummvendunena og Sameiningu vid GUd, komast aptur til sinnar fyrr'e Sælu og Rosemdar i Gude.

Þess vegna matte Sonur GUds verda Madur, so mannleg Naattwra vidrietteſt aptur og kiæmest i Eining vid GUd, fra hverium hun var skileñ fyrer Syndena og Siaalfræded, og ad hun næde so aptur Algiorlegleikanum, er hun mist hafde, og yrde fullkomeñ i Christo, i

hverium ad byr allur Fullkomlegleike, so ad hann aptur a mot bygge i Mannanna Hiortum fyrer Trwna, og fullkomnade allt hvad þa vantade, uppa þad þa briste ecke neitt til þeirrar riettu og fullkomnu Saaluhialpar.

Þvi lijka so sem su Guddomlega og Manndomlega Naattwran voru i Christo Persónulega samteingdar, so hlióotum vier aller af Naadenne fyrer Trwna, og H. Anda Verkan, Christo samteingder ad verda, uppa þad vier kunnum ad fa og ødlast af hans Fillingu Naad fyrer Naad, og ad su diupa Fordiarfan vorrar spilltu Naattwru, mætte fyrer þann hædsta og eilyfa Gooda, sem byr i oss fyrer Trwna, læknast og betrast. Hier fyrer seger Sonur GUds, hia os. 2. til Safnadarens. *Eg vil trwlofa mig þier ad Eilyfu i Miskunseme og Naad.* Þvi þar sem vor Naattwra var fordiørfud af oendannlegre Syndarennar Vondsku, þa kunne hun ecke ad lagfæraſt nie betrast, nema fyrer þann hædsta Gooda, sem var sialfur GUd, og soddann hlaut ad skie med þvi moote, ad hun samteingdest aptur vid GUd, og blife so iafnann þadan i fra i þeirre Einingu. Þvi lijka so sem Sameining þeirrar Guddomlegu og Manndomlegu Naattwrunnar i Christo er oleisanleg og eilyf, so ad sialfur Daudenn kunne ecke ad slijta þetta Samband beggia Naattwranna, so hliootum

vier,

vier, sem erum ordner Christi Limer, ef vier vilium i honum Saaluhoolpner verda, og hafa gott af þvi, ad oss hefur einusinne hlotnast ad verda honum innlijfader, blijfa med honum samteigder oraskannlega, so sem voru Hofde; uppa þad hverke daude nie lijf kunne oss fra honum framar ad skilia: Og þess vegna seger hann og so. *Eg vil trwlofa mig þier ad Eilijfu.*

Sameining vor vid GUd hlytur ad skie, ef oss skal ganga æfennlega vel: *Hver hann er ecke med mier, sa er a mote mier,* seger Christur: Luc. 11. So sem vier fyrer Syndena verdum adskilder vid GUD, so meigum vier og einnenn fyrer Trwna og betran Lifnadarens, honum aptur samteingiast; aṅars verdum vier fyrer utan GUd, og under eins fyrer utan Lijfed og Saaluhialpena, og verdum under Guds Bolvan og Reide: Ef Christur fyrer Trwna lifer ecke i oss, byr og bygger i oss, þa er þad utgiort um̄ oss.

Eñ slijk Sameining vid GUd, og ummvendan til hans, stendur ecke i voru Vallde, þvi vier erum af Naattwrunne onyter til alls goods, og ef þar er nockud gott i oss, þa fram̄flytur þad allt af GUds oseigiannlegre Naad i Christo; Þarfyrer seger Paulus: *Af GUds Naad er Eg, þad eg er.*

Vier kunnum ecke Ad hiaalpa neitt til þess, ad komast fra Daudanum til Lijffens, eda ad samteingiast vid Gud, Guds naad hlytur ad verka allt soddann i oss: Lijka so sem þu gatst ecke hiaalpad sialfum þier i þeirre holldlegu Fædingu; ecke helldur gatstu sialfur þig skapad; eins lijka gietur þu ecke neitt hiaalpad uppa sialfann þig til þeirrar Nyu Fædingar, edur Endurfædingar; þu kant vel ad fordiarfa þig mirda og deyda, enn ad Endurnya þig, vidrietta, Riettlæta, og giøra þig lifande. það geingur allt langt yfer þijna Krapta, og þitt Megn. So sem þu kunner ecke neitt ad stidia þar til, ad Christur yrde madur, so kantu ecke helldur neitt i þvi ad verka, ad Christur endurfæde þig, take þig til Naadar, og sameine þig sier fyrer Trwna. Hier af er audsied, ad þad er sliett eckert, sem madurenn kann ad tileinka sjaalfum sier og sijnum Kroptum; þvi meira sem hann tileinkar sier og sijnum eigenn Kroptum, Vilia og Mætte i soddann søkum, þvi meir hindrar hann sig sialfann fra Guds Naad, og sinne betrun, og strijder a mote H. Anda Verkan i sier.

Ja vier meigum enn þa ecke, þegar vier erum endurfædder, umvendter og vid Gud samteingder, tileinka vorum eigenn Kroptum nockud, so sem vier fyrer þa sieum megnuger til

til ad standa støduger i þvi Gooda, ellegar ad verka af oss siaalfum nockud Gott, helldur skulum vier tileinka þad allt samann GUds skiærre Naad, sem er kroptug i oss, og ecke til onytes giefen: Þess vegna sagde Christur til sinna Læresveina, sem voru i Naadarennar stande: An mijn faed þier einskis orkad og Esaias seger 26 Cap. Allt hvad vier wttriettum, þad hefur þu Drottenn giefed oss. So vill og spamadurenn Hoseas giefa ad merkia, ad þad gooda sem hia hønum finnest sie GUds Verk, þegar hann seger os. 14. Jeg mun vera so sem eitt Grænt Grenetrie, hia mier mun finnast, o GUD, þinn Avøxtur.

Þar sem vier nu ecke meigum eigna vorum Kroptum nockud gott, epter þad vier erum ordner GUds Børn, og kunnum fyrer GUds Naad ad giøra þad gooda, helldur ad tileinka þad allt Gude, sem er kroptugur i vorum Breiskleika, þa meigum vier miklu siidur, a medann vier erum fyrer utann Naadena, eigna oss nockud i vorre Ummvendan, Sameiningu vid GUd, og Verkun Saaluhialpareñar; þvi vier høfum þa ecke hinn minsta Neista af Andlegu Lioose og Lijfe i oss, helldur erum vier alldeiles dauder i Syndunum, og høfum elldunges eingann Krapt til ad vilia, edur skilia nockud gott, auk helldur til ad frammkvæma þad.

Vier hliootum siifellelega ad deya fra vorre gømlu Naattwru, vorumm eigenn Vysdome; eigenn Vilia, og Sialfs-Elsku, og laata GUd og hans Naad hafa øll Naadenn i oss, stiorna oss alleina, so ad þad sie eckert hia oss, sem ad hindre hans Heilaga og gooda Vilia. So leinge sem vier þad ecke giora vilium, og ecke laata oss i øllum hlutum af Gude stiornast, og ecke filgia hans Vilia efter i øllu, so leinge hindrum vier GUds Sambwd hia oss, føllum aptur under hans Reide, og liggium Dauder i vorum Syndum og Raanglætingum.

Sialfræded, og ad vilia framar filgia epter siinum eigenn Vilia, enn GUds vilia, er openber Fiandskapur i giegn Gude, og hefur eckert Samlag med hønum. Sialfs-Elska og Hollds Sialfræded fordiarfar manneskiuna meir og meir, enn GUds Vilie forbetrar hana hvad af hveriu. Þar fyrer seger Bonaventura: Allur Fullkomlegleike Christelegra Trwarbragda; er innefalenn i þvi, ad afneita siinum eigenn Vilia. Og Augustinus kiemst so ad orde: First Mannenum er þad hid allra besta ad elska GUd; so hlytur þad ad vera hønum þad allra Besta ad elska sialfann sig: Item: Ef þvi gooda er so vared, ad þad wtheller sier og breider sig wt til ann-

annara, þa hlytur Sialfs-Elskann ad vera miked Illt; med þvij hun dregur bæde sitt og annara til sijn, og bijter ødrum eingu þar af: Þetta hefur sa Vyse Seneca og so skiled, þar hann seger: So miked sem þu dregur fra þijnum eigenn Vilia, so miked fer þier framm i Dygdum og Daadum. Item: Ef þu forleggur ei sialfann þig, þa kantu ecke ad komast til Gllds, sem er upp yfer þier.

Eigenn Vilie og Sialfræde er eckert annad, Enn ad falla fra Gude; soddann Frafall er liett og lisfugt, og þar til er Madurenn fws og lidugur; enn ad leidriettast og lagfærast aptur, þad er beiskt og erfidt, ja øllum skøpudum Skiepnum omaattugt; Madurenn gietur ei sialfur rised upp aptur eda biargad sialfum sier med Vilia edur Verke; Viliann er hertekenn, og Verkenn eru daud; þad er einasta vors Endurlausnara JEsu Christi, ad hiaalpa bæde i Uppbyrianenne, Frammkvæmdenne og Endingunne, og hann giører þad fyrer Løgmaaled og Evangelium: Fyrer Løgmaaled drijfur hann oss til Idrunar og Betrunar, so ad þu maatt deya med Christo, og fyrer sannarlegt Angur og Trega, foornfæra honum þijnum eigenn Vilia, verda hia sialfum þier einskis verdur, og giøra þig honum ølldunges undergiefenn.

Med

Med þessum underbuninge veitest Naad og Syndanna Fyrergiefning fyrer Evangelium, og Madurenn, sa sem aadur er daudur, hann Endurlifnar og Upprys fyrer Trwna. Hier af er augliost ad eingenn gietur af sijnum eigenn Mætte edur kroptum umvendast nie upprised, þui madurenn verdur a mote Giede sijnu sialfann sig ad hata, sier sialfum ad afneita, driupa nidur, og deya sialfum sier, enn hafa allt sitt Traust a Gude einum, og byda alleinasta epter hans Naad. Eckert af øllu þessu er i vorum Vilia nie Kroptum, so sem Postulenn vottar, helldur hlytur GUD þad alltsamann i oss ad verka, fyrer Naad sijna og Krapt sijns Anda: Med soddañ hætte er vor Riettlæting alleinasta i GUds Hende, enn ecke i Vallde nockra skapadra Skiepna, ja hun er sialfs GUds Verk; þvi so miked sem sialfa oss ahrærer, þa er liost ad eingenn a daudlegann Ovin meire, helldur enn sig sialfann, so ad vier meigum maklega bidia GUD, ad hann vilie frelsa oss fra oss sialfum, og nema þad fra oss, sem vont er, og giefa oss aftur þad sem hans er. Ættum vier sialfer ad frammkvæma vora Velferd, þa yrdum vier alldrei hoolpner, þvi vor Naattwra er alldeiles fordiorfud, og hneigd til alls Jlls. Eige nockud gott i oss ad fram-

kvæmast, þa maa GUD sialfur med sijnum Krapte verka þad i oss, einnen þegar vier erum ummvendter. Hann er Kiærleikurenn, hann maa Sialfur uppkveikia Kiærleikann i oss: Hann er Myskunsemen, hañ Sialfur maa og so verka hana i oss, og allt annad Gott, sem vier eigum ad hafa til ad bera; so hiaalpar þa Christur alleina; mannanna Hialp er i eingu nyt enn so miked af Illsku og Spilling, sem madurenn droo til sijn i Adams Falle, so mikel giæde, og enn þa laangtum stærre veiter GUD hønum aptur i Christo JEsu; epter þvi sem sijdar i þeim 11. Capitula mun sagt verda.

## Cap. VII.

### Til ad þeckia riett Naattwru Idranarennar, biriar ad vita Mismun a mille þess Gamla og Nya Mannsens, þad er, hvernenn Adam eige i oss ad deya, og Christur i oss ad lifa: Eda hverneñ sa Gamle Madurenn eige ad deya i oss, og sa Nye ad lifa.

Rom,

## Rom. 6.

**Vier vitum ad vor Gamle Madur er med Christo krossfestur, so ad nidurbrotenn verde Lykame Syndarennar, og ad vier skulum ecke framar Syndenne þioona.**

HVer einn Christenn Madur er Tvennslags, og finnur i sier Tvær gagnstædar Manneskiur med sijnum Avoxtum, so sem i epter filgiandt Tøblu stiaa maa.

| | |
|---|---|
| Adam. | Christur. |
| Sa Gamle Madur. | Sa Nye Madur. |
| Sa Ytre Madur. | Sa Innre Madur. |
| Su Gamla Fæding. | Su Nya Fæding. |
| Hollded. | Andenn. |
| Naattwran. | Naaden. |
| Skynsemen. | Trwen. |
| Myrkred. | Liooſed. |
| Tried Daudans. | Lijfsens Trie. |
| Vonder Avexter. | Gooder Avexter. |
| Synden. | Riettlæted. |
| Fyrerdæmingen. | Sælan. |
| Daudenn. | Lijfed. |
| Su Gamla Jerusalem. | Su Nya Jerusalem. |
| Ryke Diøfulsens. | Ryke Gllds. |
| Sæde Hoggormsens. | Sæde Gllds. |
| Naattwrlegur Madur. | Andlegur Madur. |
| Su jardneska Imind. | Su himneska Imind. |

Heil-

Heilog Ritning, so vel sem sialf Reinslan, votta þessa Toblu rietta ad vera. Ritningen talar allvijda um̃ þann Gamlá og Nya Mannenn, og um̃ ytre og innre mannenn, so sem i pist. til Eph. 4. Cap. Col. 3. 2. Cor. 4. og vydar annarstadar. Enn so miked sem Reinslunne vidvykur, þa sannar hun þetta hid sama, i strydenu a mille Holldsens og Andans; hvad jafnvel Heilager Menn hafa feinged ad reina: Þar um̃ talar Paull, þegar hann i pistlenum til Gal. 5. reiknar upp Averte bæde holldsens og andans; og til Rom. 7. klagar yfer Holldenu, sem stryder a mote Andanum: Þar fyrer maa eingenn Efe þar um̃ vera, miklu sijdur Þræta, sierdeiles a medal Christenna Manna: Þvi þad er so sem ad Grundvollur allrar H. Ritningar, og riettur Lærdoomur hvers eins Mans, so vel sem Ydkun sannrar Jdranar, sie þar uppa bigd, ad Adam deye i oss, og Christur þar a mot i oss life þvi þegar Adam deyr i oss, þa deyr og forgeingur i oss under eins allt þad sem af Adam er: Sa Gamle Madurenn, sa Ytre Madurenn, su Gamla Fædingen, Holldед, Naattwran, Skynsemen, Myrkrenn, Daudans Trie, Jller Averter, Synden, Daudenn, Fyrerdæmingen, Sæde Diofulsens, Naattwrlegur madur, su jardneska

Jm-

Iminden, su Gamla Jerusalem, og Nyke Diøfulsens. Enn þegar Adam lifer i oss, þa lifer og einnen i oss og ryker sa Gamle Madurenn, su Gamla Fædingen, Hollded, Naattwran, Skynsemen, Myrkrenn, Daudans Trie, vonder Avexter, Synden, su Gamla Jerusalem og Nyke Diøfulsens, og er allt þetta Fyrerdæmingunne og eilyfre Bølvan underorved. Enn ef HErrann Christur lifer i Mannenum, þa lifer og so og drottnar i hønum sa Nye Madurenn, sa Innre Madurenn, su Nya Fædingenn, Andenn, Naaden, Trwen, Liooſed, Lyffsens Trie, gooder Avexter, Riettlæted, Lijfſed, Sælan, Sæde GUDS, sa Andlege Madurenn, su Himneſka Iminden, su Nya Jerusalem og Nyke GUds; þetta heyrer allt til Bleſſanenne og eilyfre Saaluhialp. Hier hefur nu hver madur noog ad giora med ſiaalfann ſig a medann hann lifer, ad hann late ecke þann Gamla Adam lifa og rykia i ſier, helldur þann Nya og Christum. Hier liggur ſtor magt a ad vaka, faſta, bidia, beriaſt og epter þvi ſem S. Paull ſeger ad proofa ſig ſiaalfa og ranſaka, hvert ad Christur lifer i oſſ; ja ad vier med Ugg og Otta verkum vora Saaluhiaalp, og gaungum inn um̃ þad þraunga Port og þañ mioa

Veig-

Veigenn i Christo, sem er ad hata sialfann sig, afneita sier og ollu þvi menn hafa, og deya fra Syndenne. Enn þetta geingur ecke af i Gamne edur med brosande Vellyst Holldsens, so sem þeir Heilogu Sœlkierar meina, helldur med innvortes Sorg, hrigd og graate, med Angre og Taarafollum, so sem sa Siøtte, Drytugaste, Attunde og adrer fleire Idrunar Psalmar Davids votta, hvad ad H. Paull kallar, ad krossfesta sitt Holld med Gyrndum og Tilhneigingum; þegar so fer, þa lifer HErrann Christur i Mannenum, og Madurenn i Christo: Þa ryker og einnen Christur i honum, og vinnur Sigurenn fyrer Trwna, so sem Johannes seger: 1. Joh. 5. Trwen er Sigurvinningen sem yfervinnur Heimenn.

Enn af þvi þw Christenn madur, hefur ecke einasta ad yfervinna Heimenn hid ytra, helldur og einnen hid innra i þier: Fysn Holldsens, gyrnd Augnanna og Drambsamlegt Lijferne, er ecke einasta fyrer utann þig, helldur og einnen i þier, þar fyrer er og Heimurenn i þier, og þw maatt yfervinna hann i siaalfum þier, og þa ertu GUDS Barn, þvi hvad af GUde er fœdt, þad yfervinnur Heimenn: 1. Joh. 5. Þw ert þa og einnen Liooßens Barn, Bwstader Christi,

f og

og Heilags Anda Mustere, einn af Saudum vors Lausnara, eitt gott Trie, sem ber Avexte goodra Verka, eige med þreingingu og illum vilia, helldur med Lyst, Kiærleika og Glede. Eñ ef þu lifer i Adam, og Adam i þier, þa filger þad epter, ad þu ert ecke GUds Barn, ellegar af Gude Fæddur, helldur yferunnenn af Heimenum, og þa drottnar þessa Heims Hofdinge i þier, fyrer Drambseme Ærugiirnd og Sialfs-Elsku; hvad allt er eigennlegt Børnum Diøfulsens; þvi þeir sem af GUds Anda stioornast, þeir eru GUds Børn; Enn þeir sem Diøfullenn frammdryfur, þeir eru hans Børn og hans Limer, ja Børn myrkranna, þeir eru Bwstadur ohreinra Anda, sw vidbioodslega Babylon, full med ohrein og vidurstiggeleg Kvikende hvar umm talad verdur Esaiæ Spaadoms B. 13. Cap. og Opennberingar B. 18.

Hia Ezech. 8. stendur ad Spaamadurenn Ezechiel hafe vered leiddur af Anda inn i Jerusalems Mustere, og a medal annars, hafe hann sied þar inne, allra handa vidurstyggelegar Orma og Dyra Mynder; þar med Husens Israels allslags Afgude og Svivirdingar, maaladar allt umm kryng a Veggena; og þad sem enn var verra, Siøtiu Israels Olldunga, sem gaafu Reikelse og Offrudu til somu Mynd-

Mynda og Dyra. Siaa o! Madur, þetta er Bylæte og Controfey þess Gamla Adams, hvers Hiarta er sem skynlausra Villudyra: Þvi vilier þw giæast inn i þitt Hiartans Hws og Herberge, þa muntu Sia, og verda var vid miklann Fiolldа af soddann ohreinum Kvikendum, vidurstiggelegum Myndum, og Afgudum sem eru skrifader i þijnu Adamiska Hiarta og hollds Þaunkum; þar ad auke, þad sem enn þa er verra, ad i stadenn þess, ad soddann Svijvirdingar skylldu maklega utskwfadar verda wr þijnu Hiarta, og þw skyllder graata þar yfer bloodugum Taarum, ad þw ert soddann eitt ohreint Hws, fullur af illum Ormum, og þier bære fyrer sanna Jdran og Holldsens Deyding, ad saalga þeim; þa elskar þw þa enn nw, þioonar þeim, fær-er þeim foorner, Forlystar þig i þeim, og gaaer ecke ad þvi, ad þinn HErra JEsus, verd-ur hrakenn i burtu wr þijnu Hiarta, med soddann Svijvirdingum, og fær þar eckert Rwm inne, so ad þw med þvi mote ræner þig sialfañ þeim hædsta og eilijfa Gooda, H. Anda, og øllum hans Gaafum. Þw sturlast, nær þw giører eitt hvad, sem þier kann ad orsaka einhveria lijkamlega Ohamingiu, eda þw miss-er einhveria Holldsens mune, sem þw kiæra hefur, hvar fyrer þa ecke miklu framar, þeg-

ar þu misser Christum ur þinu Hiarta og H. Anda? Æ oss hryggelegar aumar Mañeskiur, sem so erum þunglega plaagader, og hofum þo einga tilfinning til þess, ad vier utskufum JEsu Christo ur vorum Hiartans Herbergium, enn bæde Saalen og Lijkamenn verda hybyle ohreinnra Anda.

Af ollu þessu kantu ad skilia, min Brooder og Syster, hvad Adam og Christur er, og hvernen þeir baader eru i þier og lifa. Enn þetta byriar oss og einnen hier ad auke ad gaumgiæfa; fyrst ad vier erum aller af naatturunne til eins vonder i Adam, og eingenn ødrum betre, vier erum aller i giegn jafnt fordiarfader, og ordner bannvæner, bæde uppa Lijkamann og Saalena; þess vegna seger H. Paall til Rom. 3. Cap. Þar er eingenn Greinarmunur a mille Gydinga og Griskra, edur nockra annara manna; aller samann eru þeir Synduger, og hafa skort a þeirre Droosan, sem þeir attu a Gude ad hafa. Eingenn af oss er, epter sijnu edle og naatturu betre, enn sa allra veste og argaste Stooorglæpa-Madur, þvi þo ad vondskann brioteft ecke jafnt ut hia ollum, þa er þo fordiorfud Naatturu, ja su eitrada Root og Uppspretta þar inne fyrer. Eingenn Synd er so stoor, ad Madurenn af naatturunne til

til munde ecke drygia hana, ef ad GUds Naad aptrade hønum ecke, þvi af naattwrunne til gietum vier ecke annad, enn Syndgad hid allra herfelegasta, hvad ef vier ecke gierum, þa meigum vier ecke tilreikna þad vorum Kroptum edur Vijsdome, helldur er þad Naad GUds ad þacka, sem vardveiter oss fra Syndunum: Jeg hefe vardveitt þig, ad þu skilldꝫ er ecke syndga a mote mier, sagde Drottenn til Abimelech fordum, Gen. 20. Þetta ætte ad uppvekia oss til Audmyktar og Otta Drottens, ad eingenn hroke sier upp yfer annann, edur life i daglegu Andvaraleise.

Þar næst so sem vier erum aller i Adam ad Upprunanum til eins vonder, og þar er eingenn Mismunur, so miked sem ahrærer vora spillta Naattwru, so erum vier þar þvert a mote i Christo, epter hans tileinkada Riettlæte, aller eins gooder og heilager, þvi fyrer GUds Auglite hefur eingenn annad edur ypparlegra Riettlæte, eñ annar, Christur er allra vorra Riettlæte, Helgun og Endurlausn, og i hønum er eingenn ødrum betre; þvi so sem vier erum aller af Naattwrunne i Adam ein Manneskia, og einn Lijkame, sem i allra versta maata er eitradur og spilltur, so eru aller Riettrwader þar a mote i Christo ein Manneskia og einn lijkame, i allra besta maata

fyrer Trwna og i Bloodenu HErrans Christi gagnhreinsader og helgadur.

Og skal Yfervegan þessa efnis þiena oss til Lækningar vid andlegre Drambseme, ad eingenn hallde sig betre ødrum fyrer Gude, þo hann sie gaafadur med stærre Gaafum, þvi so marger sem verda Riettlaater og Saaluhoolpner, þeir verda Riettlaater og Saaluhoolpner wt af skiærre Naad, einasta fyrer Christi Forþienustu og Verdskulldan, hverrar aller sem Trwa, verda eins hluttakande. Lær þess vegna, O Madur, ad þeckia dypt þessarar GUDs Naadar, og mun hwn ecke laata þig vera Stolltann edur drambsamann, helldur giøra þig andlegann Faatækann, so ad þw riett þecker þig sialfann i þinne Orbyrgd Eimd og Volæde, og Christum þeim mikla Rijkdoome hans Naadar.

## Cap. VIII.

## Ad GUD lade oss og locke Næsta vingiarnlega til Umvendunar, og ad Idrannen meige i eingañ maata dragast a frest.

Luc. 15.

So sege eg ydur, ad Føgnudur mun vera fyrer Einglum GUDs, yfer einum Syndugum, sem Yferboot giører.

Vor giæskuryke og trwfaste Gud hefur margvijslega i sijnu H. Orde wtmaalad Jdrun Mannsens, og þa riettu Ummvendan, fyrer vorum Hugskots augum, uppa þad hañ mykte vor steinhørdu Hiertu, og burtsnere oss fra Heimenum, fra sialfum oss, og fra Dioflenum, til sijn.

A medal annars frammsetur hann tvær Epterlijkingar hia Lucam i 15. Cap. um þañ tynda Saudenn, og þañ fortapada Sonenn, so huggunar rykar og hiartnæmar, ad menn kunna valla ad bindast fyrer ad graata, þegar þeir hugleida þær gaumgiæfelega; og wtmaalar HErrañ Christur i þeim Preñslags Hiarta: Pad fyrsta er eitt þvilijkt Hiarta, sem ecke hefur neitt Angur edur trega i sier fyrer Syndernar, einga Ummvendan edur Yferboot: Annad er Jdrande Mans Sundurknosad Hiarta: Pridia Guds Miskunarfullt Fødurs Hiarta. Eitt Hiarta sem ecke hefur neina Ummvendan i sier, setur hann oss fyrer siooner under Personu þess vanartuga Sonarens, sem hafde eidt og sooad øllum sijnum Arfe og Fødurleifd, so freklega, ad hañ vard umsijder ad lyda Naud, og eta Draf med Svijnum. Þetta Epterdæme a heima hia oss frafølnum manneskium og fortopudum Børnum, sem høfum, fyrer Syndena mist vora Himneska

Arfleifd, ſem er Riettlæted, Heilagleikenn, Sakleiſed og ſw fagra GUds Mynd, epter hverre vier vorum ſkapader, enn vorum ſo fallner i þañ harda Prældoom Syndarennar, Daudans og Dieful ſens; kunnum og ecke i nockrum vorum Verkum, ſem eiga ad merkiaſt fyrer Svijnadrafed, ad fiña Rooſeme, Hiaalp, edur Huggun, hvar fyrer vier maattum deya i andlegu Hungre, hefdum vier ecke fyrer Hiaalp H. Anda þeinkt til baka, og rent vorum Hugſkots Augum til GUds vors Naaduga Fødurs.

J Annann maata wtmaalar vor HErra eitt angurfullt og idrande Hiarta i þeſſare epterlijking, þvi þegar ſa fortapade Sonurenn kom til ſialfs ſijns, ſagde hann: Hvad marga Daglaunarmeñ hefur minn Fader heima hia ſier, ſem hafa noog Braud, enn eg vanmegnaſt af Hwngre: Eg vil ſtanda upp, og fara til Fødur mijns og ſegia: Fader, eg hefe ſyndgad i Himeninn og fyrer þier, og em nu ecke verdugur ad kallaſt Sonur þinn. J þeſſum Ordum verdur ſw ſanna Jdran merkelega afmaalud; Hugar Angred er i þvi innefaled, ad hann kiemur til ſialfs ſijns, og hugleider ſijna Eimd, ad hann ſie af GUds Barne ordeñ ein ſkynlaus Skiepna og o-þecktar Svijn, ſavijs Daare, lijkare Beſtyu eñ Mañe, eñ lætur ſig þo raanka vid ſijnum uppruna, minn-

minnest a Fodur sinn, idrast og jaatar sijnar synder, segiande: Fader, eg hefe syndgad i Himeninn og fyrer þier, jeg hefe stigt bæde Gud og Menn; þetta innsiglar hann þa strax þar epter, med jaatningu sinnar eigenn Vanvijrdu; segiande: Eg em nw ecke verdugur ad kallast þinn Sonur.

Trwen, sem er sa Annar Partur Jdrunarennar, er þar med afmaaladur, ad hann rys upp, og vogar ad ganga fyrer sinn Fodur, og treister uppa þad, ad þo Faderenn vilie ecke medtaka hann fyrer sinn Son, þa mune hañ þo taka a mote honum, og reikna hann so sem fyrer sinn Þienara og Daglaunara, og þvi seger hann: Eg em nw ecke verdugur ad heita þinn Sonur, gior mig sem einn af þijnum leigumonnum; hann er i fullre von þar um, ad Faderenn mune ecke neita honum soddañ; helldur af Naad sinne og Miskunseme aumka sig yfer hann.

Guds fodurlegt Hiarta verdur i þridia maata þar med wtmaalad, ad þegar hann var enn þa langt fra, gaf hans Fader gaum ad honum, og saa hann: O þau naadarfullu Augu vors Himneska Fodurs, hversu lyta þau epter þeim fortopudu Bornum! Þetta er sw undanngangande Guds Miskunseme, sem verdur firre til ad hiaalpa, enn nockurn

varer. Faderenn hræreſt af Miſkunſeme yfer ſijnum Syne, þad er GUds þolennmooda langlundar Gied, og epterbydande Miſkunſeme: Hann hlioop og fiell um hans Haals; þad merker, GUds Fødurs umnfadmande Miſkunſeme, ſem hiwkrar oſſ ad ſier: Hañ kiſte hann, þad merker GUds hugſvalande Miſkunſeme: Hann liet bera fram̃ þann beſta Klædnad og færa hann i: Hier med merkiſt HErrann Chriſtur og hans fullkomna Riettlæte, edur GUds riettlætande Miſkunſeme: Hann droog Hrijng a hans Hønd, þad merker Heilagann Anda, ſem er einn trigda Pantur oſſ giefenn, edur trwloſunar Miſkunſeme: Hann ſette Skoo uppa hans Fætur, þad er heilagt Framferde i HErranum Chriſto, fyrer naad heilags Anda, og Guddomlegañ Maatt, og kallaſt ſtadfeſtande Miſkunſeme: Hann liet ſækia einn aleinn Kaalf, og hiellt Gieſtabod, þad merker Einglanna Føgnud yfer einum Syndugum, ſem Jdran giorer, og kallaſt GUds lyfgande, glediande og krynande Miſkunſeme. Hvernenn kan nw GUd ad brwka meire Alwd, enn þetta i þvi ad locka oſſ til Jdrunar?

Laatum oſſ enn framar gaumgiæfa þær hellſtu Orſaker, ſem oſſ meiga hræra til þeſſ ad giora Jdran og yferboot. Su firſta er GUds

Ullds omælannleg Miskunseme. Aunnur HErrans Christi Blydleike og hans dyra Forþienusta. Pridia þad hrædelega Straff og hootun, sem haanger yfer þeim jdrunarlausu. Fioorda Daudenn. Fimta sa Siidaste Domur. Siotta Helvijte. Siounda eilyf Glede.

I. Ullds Miskunseme.

J fimtu bok Mosis 4. Cap. stendur so, nær þw leitar Drottens Ullds þijns, þa muntw finna hann, ef þw annars leitar hans af ollu Hiarta, og af allre Saalu: Þegar þu kiemur i Angist, so aller þesser hluter yfersalla þig, a þeim sydustu døgum, þa skalltw snwa þier til Drottens Ullds þijns aptur, og hlyda hans Raust: Þviad DrottennUlld þinn er einn Miskunsamur Ulld; hann mun ecke yfergiefa þig nie afmaa þig, hann mun ei helldur forgleima þeim Saattmaala, sem hann soor Forfedrum þijnum. Þesse Ord vors allra Milldrykasta Ullds, sem eru frammgeingenn af insta Grunne hans Fødurlega Hiarta, meiga fullvel locka oss og lada, til ad giora sanna Jdran og Yferboot. Fiollde vorra Synda kann ecke ad vera so mikell, ad Naadenn sie ecke laangtum yferfliootanlegre hia Gude so sem þar stendur i Psal. 130. Hia Drottne er Miskunseme og noogleg Endurlausn, og hann mun frelsa Jsrael wt af ollum sijnum Syndum. Ecke kunna vorar Yfertrodslur a

ver

vera so stoorar, ad GUds miskunseme sie ecke stærre: Þarfyrer seger David i Psal. 51. Epter mikelleik Miskunsemda þinna, þa afmaa þu mitt Raanglæte: Ecke helldur so fwlar og andstiggelegar, ad GUD kunne þær ecke ad giora Snionum hvijtare: Þar fyrer seger David i sama Psalme: Afleis mig med Isopo, so eg hreinsest, þvo þw mig, so eg Sniohvytur verde. Item Esaias 1. Þo ydar Synder sieu raudar sem Roos, þa skulu þær verda hvytar sem Snior. Vorar Synder kunna ecke, ad vera so margbrotnar, ad Nyk-domur GUDS Miskunseme gange þar ecke langt yfer: Þvi Drottenn er milldur og Miskunsamur, Þoleñmoodur og mikellrar Giæsku, hann er trwfastur, og fyrergiefur Vondskuna, yfertrodslur og Synder. Exod. 34. Alldrei kunna vorar Synder ad vera so sterkar og oflugar, ad Drottenn gieta ecke dempad þær, og kastad þeim i Hafsens Diwp, Mich. 7. eins og Pharaone fordum, med øllum sijnum her: Alldrei so bannvænar, eda skadlegar, ad GUd kunne þær ecke ad lækna; epter þvi sem þar stendur Ezech. 18. Þegar sa Synduge snyr sier, þa skal þad eige skada hann, þo hann hafe vered Ogudlegur.

## II. Blydleike JEsu Christi.

Hvad vingiarnlega HErrann Christur hafe medteked Syndarana, kienner hann sialfur

sialfur, Matt. 9. Þeir Heilbrygdu, seger hañ, hafa ecke Þørf fyrer Græðarann, helldur þeir sem Siwker eru; þvi eg kom ecke ad kalla Riettlaata, helldur þa Syndugu, til Idrunar. Og Luc. 19. Mannsens Sonur er komenn til ad leita og hoolped ad giøra þad sem tapad var. Um þetta Frelsarans blijdlynde hafa og einnen Spaamennerner spaad fordum, so sem Ezechiel i 34. Cap. Vei ydur Hyrdurum, seger Drottenn fyrer hans Munn, þier leited ecke epter þvi sem glatad er, helldur Drottned þier streingelega og hardlega yfer þeim, og mijner Sauder eru i sundur tvistrader, lijka sem þeir ed eingan Hyrder hafa; Eg vil vitia þeirra, so sem Hyrderenn vitiar sinnar Hiardar, nær ed þeir eru i burtu villter fra hans Hiørd; Eg vil uppleita þad glatada, og leida aptur þad sem villtest, og græda þad hid lemstrada, og styrkia þad hid vanfæra. Og hia Esaiam i 40. Cap. Hann mun foodra sijna Hiørd, sem einn Hyrder, hann mun Lømbunum safna a syna Armlegge, og þau i sinne Kiølltu bera.

Enn ecke a ad eins blessad Blijdlynde JEsu Christi ad knya þig, þu Christenn Madur, til Idranar, helldur og so hans saara Hrigd og saklaust Blood, sem hann wthellte vorra vegna; laattu þier til hugar koma, ad hann hefur sitt Lijf wtgiefed, ecke fyrer Himenenn nie Jørdena, helldur fyrer þijna Saal; skyllder þu þa med þijnu Idru-

nar-

narleise vilia onyta þennann edla Naadar Fiesiood? Gief giætur ad þvi, ad þu kunner ecke med neinum ødrum Betaling ad verda frelsadur og Endurleistur, enn med Bloode HErrans JEsu Christi, hvar fyrer villtu þa skilia þig vid þennann Dyrmæta Betaling? Byrd þad fyrer þier med Gaumgiæfne, fra hveriu HErrann Christur hefur þig Endurleist, sem er fra Dioflenum, fra þeim vonda Heime, og fra þijnum Syndum: Skyllder þu þa enn frammvegis vilia þioona Heimenum, Syndenne og Dioflenum? Huxadu epter þvi, ad Christi Forþienusta stodar þig ecke, utann þu giorer Boot og Betran, og ad þu med þijnu Jdrunarleise foottredur hans Blood, og Svijvyrder Naadarennar Anda: Hugleidtu hvad þwngt og ervidt þijnum Lausnara hefur veitt ad Endurleisa þig, hversu hann hefur vered sorgande, og graated wt af þeirre Hiartans Kvøl, sem a hønum laa, hversu hann hefur skolfed og titrad, hvad herfelega hann hefur fyrer þijna skulld vered sleigenn, barenn og svijvirtur; laattu þad ganga þier til Hiarta, O Christenn Saala, ad hann, Drottenn Himens og Jardar, vard sem einn Ormur, og vidurstiggeleg Bølvan haangande a Krossenum þinna vegna. O tristissimum spectaculum,

culum, et miserandum pænitentiæ Speculum.

III. Hootun tymannlegs Straffs.

GUD er einn Riettvys Doomare, og einn GUd, sem daglega hootar, seger David i Psal. 7. Vilie menn ecke bæta sig, þa hefur hann hvatt sitt Sverd, sin Boga hefur hann uppspannad, og midar til, hann hefur þar alagt daudleg Skeite, sijnar ørvar hefur han tilreidt til ad fordiarfa. GUDS Reide og hefnd kann eingenn ad ummflya, Þo þeir færu upp i Himeninn, vil eg þo billta þeim nidur, og þo þeir fele sig fyrer mijnum Augum a Marar botne, þa vil eg þo biooda Høggormunum, ad þeir skule stijnga þa þar; sia þu, Augu Drottens lijta uppa eitt syndugt Kongs-Ryke, ad eg skal þad med øllu afma af Jardryke, seger Drottenn, fyrer munn Spaamannsens Amos 9. Þessu lijkt talar Sophonias 1.Cap. Þeirra Blood skal wthellast, so sem være þad Dupt, og Lijkame þeirra so sem ohreininde, þeirra Sylfur og Gull mun ecke gieta frelsad þa, a þeim Riedennar Deige Drottens, af hans Vandlætingar Ellde, skal allt Landed uppsvelgiast. Soddann skielfelegar hootaner meiga maklega leida oss til Idrunar: Sønn Idran kann ad afvenda stooru Straffe, ja hwn hindrar alldeiles foolks, Stada, og Lands Foreidingu, so sem vier høfum Dæme til a Ninive Borg. Skyndelega

lega tala eg, seger Drottenn, a mote einne Piood og Kongaryke, þad eg vilie uppræta, sundur briota, og fordiarfa þad; enn ef þad snyr sier i burt fra sinne Vondsku, þa skal mig einnen angra þa Ogiæfu sem eg hugde ad giøra þeim. Jer. 18.

## IV. Daudenn.

Gud hefur þess vegna huled Daudans tyma fyrer oss, ad vier skulum betra oss daglega, og a hverre Stundu, og hallda hvern Tijmans Punct vort Sydasta. Allt Mañsens Lijf er hønum gefed til Idrunar segir Bernhardus, og er eckert anad enn daglegur Kross og Plaaga, so sem þar stendur i Psal. 38. Til þess em Eg giørdur, ad eg skule motlæted lyda, og mijn Pyna er jafnann fyrir mier. Gud hefur lofad þier sinne Naad i dag, enn Morgundeigenum hefur hann þeir ecke lofad. Øllum mønnum er akvardad einusinne ad deya, og þar epter er Domurenn seger Postulenn Ebr. 9. og Syrach i sinnar bokar 7. Cap. þeinck um þitt hid sydasta og muntu alldrei illa giøra. So sem Gud finnur þig, so dæmer hann þig, þar fyrer skalltu so skicka þier i þijnu Framferde, sem þu villt fundenn vera a þinne Dauda Stundu. Þeinck þu med þier, hvar þeir mune nu vera, sem fyrer faaum Arum, lifdu i holldlegre Glede og Vellystingum: Þeir eru komner til sijns Samastadar, og bijda

bijda epter þeim Siijdasta Doome. Þar fyrer ganged wr fra þeim mitt Foolk, seger Andenn, so þier verded ecke hluttakandi i þeirra Glæpum, og faaed ecke nockud af þeirra Plaagum. Openb. B. 18.

V. Er siidaste Domur.

Epter daudann gefst hverke Stund nie Stadur til Jdrunar. Annadhvert missum vier hier pad eiliifa Liifed; eda vier biihollldum þvi, þeir sem Jdran giora, koma ecke fyrer Doomenn, eñ yfer þa Jdrunarlausu mum ganga, hardur og strangur Doomur. Fared fra mier bølvader, vill vor HErra segia til þeirra. Nw høfum vier Dag Hiaalprædesens, eñ þa mun verda Dagur Doomsens. Ps. 95. J Dag, J Dag, ef þier heyred hans Raust, þa forherded ecke ydar Hiørtu, so eg sverie ecke i minne Reide, ad þier faaed ecke ad komast til minnar Hvildar seger Drottenn, Hebr. 3. Vier hliootum aller ad byrtast fyrer Doomstool Christi, uppa þad ad hver einn odlest, epter þvi sem hann hefur adhafst i liikamans Liife, hvert þad er Jllt eda Gott. Eñ Synder Jdrandi Manna verda huldar af Psal. 32. og þeim verdur aulldungis gleimt af Ezech. 23. Þar fyrer skalltu kannast vid þiinar Synder, so ad GUD fyrergiefe þær og gleime þeim.

VI. Sw eilijfa helviijtis pijna.

Epter þetta Lijf tekur oll GUds Miskunseme Enda vid þa Idrunarlausu; þa mun sagt verda: Minstu þess Sonur ad þu medtokst þid gooda i Lijfe þijnu, eñ nu er þitt Lijf endad, og þw eilijflega Daudur, og fraskilenn Gudi ad eilijfu. Ur Helviijte gefst eingenn Endurlausn. Hvernenn kann hann ad ødlast gott, edur hreppa nockra huggun, sem er eilijflega Daudur? Hier einsta stendur yfer Naadarennar tijme, enn þar munu fordæmder so deya, ad þeir lifa þo alltijd, og med þeim hætte lifa, ad þeir þo æfennlega deya. Oll þeirra skilningar vit verda þar plaagud, og kvalenn, Sioonen med eilijfum Myrkrum, Heyrnen med Tanna Gnystran og Ylfre, Ilmingen med Brennesteins Fylu, Smekurenn med beiskri Remmu þess eilijfa Dauda: Tilfinningen med oendannlegum Kvolum.

VII. Sw eilijfa Sæla:

Ohæfelegt er ad meta stundlega Gladværd meir eñ eilijfann Fognud; nu kañ eingenn til hans ad komast, sa sem ecke hefur hreinsad sig adur med mørgum heitum Idrunar Taarum i Trwnne, og þveiged siñ Klædnad i Bloodi Lambsens, Openb. B. 14. og 22. Þar fyrer utann eru þeir ohreinu Hundarner, Galldra mennerner, Frillulifis foolkid, Manndrap-

drapararner, og aller þeir sem elska og hantiera Lygar. Eingenn af þeim sem hier hafa foraktad Gestabod HErrans Christi, munu smacka hans Kvølldmaaltijd. Sa stærste føgnudur eilijfs Lijfs, ja allt Verdkauped verdur i þvi innefaled, ad siaa GUd. 1.Joh.3. Gledi wtvaldra er, ad horfa a JEsum Christum, þier munud siaa mig aptur, seger HErrann Christur, Joh.14. og ydar Hiarta skal fagna, og ydar Føgnud skal eingenn af ydur taka: Þesse Sioon guddomlegs Auglitis er og so Einglanna gledi, Lijf og Braud, og osyneleg Fæda, sem þeir fostrast a so sem Raphael Eingell segir vid Tobiam, Tob.12. Eg brwka þa Fædu sem er osyneleg, og þann Drick, sem menn kunna ecke ad siaa. Eñ so sem þad giefur af sier þann allra sætasta Føgnud ad siaa GUd, so aflar þad og einnen Eilijfra Pijsla og grimmlegustu feikna Kvala, ad meiga alldrei faa ad lijta Drottenn med sijnum Augum.

## Cap. IX.

### Hvad þad sie ad giøra Jdran, hvernen hwn eige ad framkvæmast, og hvernenn guddoomleg Giædska leide oss til yferbootar.

g 2 Joel,

Joel 2.

Snwed ydur til mijn af øllu ydar Hiarta, med føstu, med Grate, og Kveine, og rijfed ydar Hiørtu, enn ecke ydar Klæde, og snwed ydur til Drottens ydar Gllds, þvi hañ er Naadugur og Miskunsamur, Þolennmoodur og mikellrar Giæsku, og snarlega 'idrar hann Straffsens.

NOr Giæskuryke og Naaduge GUd, sem ecke stundar edur sæker epter vorre Fordiørfun, helldur epter vorre eilijfre Velferd og Saaluhiaalp, sa ed sier best og veit vora Eimd og Neid, og vill giarnann henne af oss svipta, hann lockar oss med margvislegum Hætte til Ummvendunar, þvi fyrer sanna Idran og Yferboot, vill hann hiaalpa oss, og lækna vor Saalarmein:

Hann hefur stundum i framme vid oss hrædelegar Hootaner, so sem þar stendur hia Jer. 6. Siaa! Eg vil leida stoora Olucku yfer þetta Foolk, sem eru þeirra forþientu Laun, þvi þeir giefa ecke giætur ad mijnum Ordum, og haafa kastad fra sier mijnu Løgmaale, og i 7. Cap. Fyrer þad ad þier fremied aller soddan Knytte, seger Drottenn, og eg læt alltid prædika fyrer ydur, og ier þvilied ecke hlyda, þa vil eg kasta ydur fra mijnu Auglite. Vid þesse hrædelegu Hootunar yrde, meigum vier maklega skielfast, þvi hier verdur vid oss ov-

rad

rad tijmanlegu og eilijfu Straffe; og GUds Hootaner eru ecke nockur Hiegooma Ord, edur Hlioomur einsamall, helldur hafa þær mykenn Krapt og Alføru i sier, og meiga þvi endelega vinna a oss; og vier høfum vissulega fornumed, ad GUd hefur, lagt oss uppa, ymislegar Rauner og mootlætingar, so þar um̃ ma heyra kveinad i hveriu Hwse; þar fyrer ef vier giorum ecke Jdran, þa vill GUds Reide elldur so upptendrast, fyrer Strijd, Hwngur, Drepsoott, og ymislegar Hrellingar, ad oss er bwed vid fullkomlegre Eidelegg-ingu, eins og Jerusalem Fordum.

Vilium vier ecke mykiast til Jdranar fyrer Hootaner og Ognan, GUds grimdar-reide, þa skulum vier þo laata oss þar til hræra hans Naadargiæsku, med hverre hann lockar oss so kiærlega og blijdlega þar til, segiande; Jerem. 3. Cap. Snw, aptur þw hin fra-fallna Jsrael, seger Drottenn, þa vil eg ecke lata mina Reide koma yfer ydur, þvi eg er Myskunsamur seger Drottenn, og eg vil ecke æfenlega Reidur vera. En̄ þw skallt þo kannast vid þijna synd, ad þw hafer syndgad a moote Drottne, þijnum Gude. J þessum Ordum fram̃bydur GUd oss sina Naad, ja hann bidur oss so sem graatande, ad vier skulum koma til hans aptur, og er bodenn og buenn, til ad medtaka Jdrun fyrer Syndernar; Þar

fyrer stendur þar i Spekennar B. 12 Cap. Enn þu hinn Vollduge Drottnare dæmer med Hoogværd, og stiornar oss, med mykellre Lynkind, og þu lætur þijn Børn þar af læra, ad þau skule hafa gooda Von þar um, ad þu vilier medtaka Betrun fyrer Syndernar. Uppa þetta hid sama siktar og einnen Spaamadurenn Joel i frammsettre Maalsgrein, med hverre hann syner oss ad GUd af sinne Naad og Miskun, Þolenmæde og Godgyrnd, vilie leda oss og locka til Jdrunar, og laata straffed verra sier myked okiært;

Er þessvegna þrent ad athuga i þessum Ordum: Fyrst hvad þad sie ad giøra Jdran; sem er ad snwa sier til Drottens. Þar næst Hvernen vier eigum ad giøra Jdran; sem er med Føstu, Graate og Kveinan. J þridia maata hvernen ad GUds Giæska, locke oss til Jdrunar.

Ad giøra Jdran og snwa sier til Drottens, er fyrst utaf GUds Logmaale, ad þeckia sin̄ medfæddan Hiartans Blindleika, sijna ōrætta Vondsku, og vidbioodsleg Syndasaurende, so sem innvortes svijvirding, og banvæna uppsprettu allskins Raanglætes, og ogudlegleika, hvar med vier høfum snwed oss fra GUde, þeim hædsta og eilijfa gooda, og maklega forþienad hans Reide, Helvijte og eilijfa Fyrerdæming. Þarnæst ad hafa Angur og

trega

trega i Hiartanu, fyrer Syndernar, ecke alleinasta vegna Straffsens, helldur fyrer Samvitskunnar saker, af þvi vier hofum so þwnglega stiggt GUd, sem er sialfur sa eilijfe kiærleikenn, og vor allra kiæraste hiartans Fader. J þridia maata, ad hressast vid aptur fyrer Evangelium, og hughreista sig ut af GUds Naad um̃ Fyrergiefning Syndanna, sem er i Christo fyrerheiten og tilsogd, og jafnframt þessu, ad leidretta siñ Lifnad, Hiartad af sijnum Saurendum ad hreinsa, fyrer Trwna, vondum gyrndum aptur ad hallda, þvi raangsnwna og fraaleita Sinne ad umbreita, deya fra sialfs sins Vilia, og i JEsu Christo ad uppbyria eitt nytt lijf, sem Gude er þacknæmt, med sønnum Jdrunar og Um̃vendunar Avoxtum. Þarfyrer seger Drottenn hia Es. 1. Cap. Þvoed og Hreinsed ydur þo ydar Synder sieu raudar sem roos, þa skulu þær verda snio-hvijtar. Þetta verdur fliott talad, enn ecke so audvelldlega frammkvæmt; þad vill verda næsta baagt fyrer flestum, ad koma þessu i Verk, þvi eingenn vill kannast vid Jnnvortes Vondsku sijns Hiarta af Alføru, og læra ad hata sialfann sig: Hver einn kiassar siñ gamla Adam, og lætur blidt vid hann; Vier hofum aller stoort Epterlæte a þvi vonda Hollde og Bloode, og þar finst skialldann sa madur sem grandvarlega rañsakar sitt eiged Hiarta. Hver

einn hefur velþocknan a sialfum sier, og reiknar sina Side sæmelega; þeir eru næsta faaer sem ganga med magt uppa sialfa sig, og giora sinne Hiartans Vondsku Ofurefle, helldur ackta flester litels omælannlega GUds naad i HErranum Christo, og forsooma ad nyta sier hana:

Eingu ad siidur hliotum vier þad ad giora, ef vier vilium Gude þocknast, og Spaamadurenn Joel heimter þad af oss seigiande; laatum oss snwa oss til Drottens af øllu hiarta, med Føstum, med Grærte, med Kveine; J hverium ordum hann vill miña oss a, ad vier høfum snwed oss fra Gude, og yfergiefed Lijfsens Kielldu, og kunnum þvi ecke niootande ad verda, Lijfsens og Sælunnar, nema vier snwum oss aptur til hans, epter þvi sem segar hia Jer.6.Cap. Snwed ydur til min þier ohlydugu Børn, so eg lække ydar Ohlydne: Þad er GUds Vilie ad vier þeckium vora Eimd, og þegar vier þeckium hana, þa vill hann af sinne fødurlegre Giæsku miijskuna sig yfer oss, og alyta oss naadarsamlega.

Enn af þvi vier erum so af Naattwruñe blinder, ad vier kunnum ecke sialfer ad þeckia vora eigenn Eimd, þa hefur GUd giefed oss Medølenn, sem er hans H. Ord og Sacramenteñ, hverium hans Ande og naad eru alltijd fylgiande; med þessum Medølum dregur hañ oss

oss til sijn, kallar og lockar, so sem tapada, og villuraasande Saude, sem ecke kunna med sitt Eindæme ad finna hann rietta Veg, helldur verdur Hyrderenn ad leita þa upp og koma þeim heim aptur. Eins færum vier æfenlega villt, ef GUD leitade ecke ad oss; Þetta sannast liooslega af dæmum S. Peturs og S. Paals, sem villtust hafranlega, enn komust einasta fyrer GUds naad aptur a riettann Veg: þar fyrer seger Jeremias, snw þw mier Drottenn so verdur mier snwed, þvi þw ert minn GUD og HErra, lækna þw mig þa verd eg heilbrygdur, hiaalpa þw mier so eg hoolpenn verde, þviad þw ert minn Lofstyr; GUd er sa sem verkar i oss bæde ad vilia og frammkvæma þad gooda, epter sinne velþocknan. Phil. 2.

Þegar Drottenn vill nw reisa oss hannenn upp fyrer Medolenn med sinne Naadarhende, og lockar oss til Jdrunar, þa skulum vier ecke standa a mote hans Naad, og H. Anda, og ecke forherda vor Hiortu, nær vier heyrum hans Raustu, helldur medkienna ad vorar Giorder, sem GUds Ord Straffar, sieu Synd; vier skulum ecke forakta hanns naad, sem oss er frambodenn, og mun GUD þa sannarlega aumka sig yfer oss og vera oss lyknsamur; þar fyrer stendur so hia Es. 55 Cap. Sa Ogudlege laate af sijnum veige, og snwe sier til Drottens, og mun hann miskuna hønum,

og til GUds vors, þvi hia hønum er nogleg Fyrergiefning. Villdum vier einasta laata GUd og hans naad stioorna oss, og ecke standa motþroanlega a mote H. Anda, nie skwfa Naadenne fra oss, helldur brwka med athigle Hiaalpræðesens Medol, þeckia vort Kraankdæme og vorn Breiskleika wt af løgmaalenu; vildum vier leggia oss under Grædslu þess Himneska Læknersens, epter tilviisun H. Evangelii, so sem þegar einn Siwkur madur lætur Læknarann vid sig raada; þa mundum vier vissulega ummvendast, og verda Gude kiærer.

Þegar einn Saudur er villtur, og heyrer aleingdar Raust siins Hyrders, þa bregdur hañ strax vid under eins, hefur sig epter Roddenne, og kiemst so fra þeim rongu Villustigum aptur a rietta leid; GUd giæfe vier villdum breita epter þessu Dæme, og ecke vera oskarpare, eñ skinlausar Skiepnur: Þad er vist ad flester eru, þvi midur, so heimsker og oforsialer, ad HErrann klagar þar yfer hia Esaiam 1. Cap. segiande; Nauted þecker sinn Eignarmann, og Asnenn Jøtu siins HErra, eñ Israel þecker mig ecke. Og Jeremias 8. Cap. seger, Hver er sa nockur, sem fallenn er, ad hann vilie ecke giarnann upp aptur standa? Hver er sa nockur, sem villt fer, ad hann vilie ecke giarnann komast a riettann Veg aptur? Svalan og Stork-

Storkurenn vita sinn apturkomu tijma, enn mitt Folk kannast þar ecke vid. Og þessvegna hrapa soddann manneskiur, i Olucku og Fordiorfun.

Þar fyrer skulum vier sijfellelega andvarpa til GUds, ad hann vilie ecke taka sijna Naadarhond fra oss, so vier villustum ecke; Synden og sa Gamle Adam, eru voru Hollde og Blode innlyfud, þessvegna þurfum vier alltid vid GUds naadar til ad dempa Syndena so hwn hafe ecke Yferhond i oss: Vissulega hofum vier Stoora Naudsyn fyrer GUds Naad a hveriu Augnablike, so hwn hallde oss vid Magt, þvi hwn er lijf vorar Saalar, so sem Saalen Lijkamans: Og so sem vor lijkame ma ecke missa lopted eda vera an Andardrattarens um eitt Augnablik, so ma ecke helldur Saalen vor vera nockurn tijma fyrer utann GUds Naad; þvi bidur Salomon 1. Reg. 8. og seger Drottenn vor GUd vere med oss, hann yfergiefe oss eige, og take ecke sijna Hønd fra oss, helldur hneige hann vor hiørtu til sijn, so ad vier gaungum a øllum hans Vegum.

Þetta skulum vier ecke einasta laata oss sagt vera almennelega, helldur skal einn og sierhver fella sig hier vid sierdeilegslega, og laata þad ganga sier til Hiarta: Hver einn gaae ad sialfum sier, og betre sialfann sig, so

kunn-

kunnum vier aller ad leidrettast og verda froomer og gooder: Giefum gaum ad Hiartgroo-enne HErrans Aminningu og Fyrerheite hia Esaiam 55. segiande: Leit[...]d Drottens a med-dann hann ma finna, kalled a hann, a medann hann er naalægur, Item Ier. 29. Ef þier leited mijn af øllu Hiarta þa skulud þier finna mig.

Enn þad heiter ecke sonn Idran ad hallda sig fra wtvortis Stoorsyndum af Otta fyrer Straffenu, helldur hlytur Hiartad og so ad ummvendast til Yferbootar, Kiær-leika og alls hins gooda: Innvortis Dramb-seme, Agyrnd, Vellist, og adrar vondar Tilhneigingar, meiga endelega dempast, þvi so leinge sem Hiartad ummbreitest ecke, nie forbetrast, og Vanart þess Gamla Mans-ens hefur Yferhønd, med innvortis Hreck-vise, Reide, Hatre, Hefndargyrne, Lyge, Flatskap, og ødrum soddann Odygdum i oss, þa er þad eingenn retteleg Idran, Boot og Betran sem vier førum med, helldur ein-tomis Hræsne, þvi GUd vill hafa eitt Nytt Hiarta og eina Nya Skiepnu, i Christo JEsu: Og þar er eingeñ so froomur hreinn og heilagur, ad hann verde ecke daglega ad ervida uppa Leidretting sijns Hiarta: Lijka sem einn Brunnur uppveller sijnu Vatne, so uppvellur ydar Vondska seger Drottenn, hia Ier.

Jeremiam 6. Þetta er nw um sialfa Ummvendunena, og hvernenn vier kunnum til hennar ad komast.

Nu fylger epter ad tala umm haatt og maata Jdranarennar, og hvernenn vier eigum ad snwa oss til Drottens? Af øllu hiarta, seger Spaamadurenn, med Føstu, med Graate, med Kveine. Vier fellum opt Taar fyrer fallvøllt Giæde þessa Lijfs, enn Eimdarhag Saalar sinnar vill eingenn syrgia, hvad einum og sierhverium byriar þo ad giora, eins og David, so sem lesa ma i Psal. 6. og 38. Af øllu Hiarta eigum vier ad idrast Syndanna: Hier kienner Spaamadureñ oss, ad vor Jdran og Apturhvarf eige ecke ad vera nein Hræsne, helldur frammkoma af insta Hiartans Grunne, þvi GUD alytur Hiartad hann rannsakar Hiørtun og Nyrun Psalm.7.

Snued ydur til Drottens med Føstu, segerSpaamadurenn; Hier meinast ad nockru leite ein sierdeiles Fasta, þegar madur fastar einn wt af fyrer sig; Hvar um̃ Christur so talar ad einn skule ecke fasta fyrer mønnum, helldur fyrer sijnum himneska fødur i leine; Um̃ hana talar og David Psal. 69. segiande, Eg græt og fasta beisklegana, eñ þad verdur giørt Gis ad mier. þar ad auke; Item Ps.109. Mijn knie eru veik af Føstu, og mitt Holld

er

er magurt, og hefur eingann Feitleika. Ad nockru leite meinast hier a Spaamannsens ordum almenneleg Fasta, þegar allur Søfnudurenn under eins audmyker sig fyrer Gude, giører Idran, medkienner og grætur sijnar Synder, fastar og bidur GUD med stillingu Saalar og Lijkama, um̃ Fyrergiefning Syndanna og burttekning Straffsins. Fastan hiaalpar til þess ad Madur kunne þess betur ad audmykia sig fyrer Drottne; þar fyrer ef Lijkamans Veikleike og annad hans asigkomulag fær þad bored, þa er þad gott og gagnlegt fyrer einn, ad hann i sinne Ummvendun faste þess a millum soddann alvarleg Idrunar-fasta med sønnu Hugarangre, Trw, Bæn, Vidurkienningu og Afbeidne Syndanna, er harla krøptug til ad afvenda GUds reide, og yferhangande Haaskasemdum. Þegar Israels Kinkvijsler voru slegnar af Benjamins Børnum og høfdu mist fiørutiu þusunder manna, þa kom allt folked til samans i GUds Hws, og var þar med graate og Kveine, fastande allann dægen til kvøllds, og GUd leit þar Naadarsamlega til. Hia Jonam Spaamanne lesum vier, ad Ninivitanner hafe fastad i 3 daga, og Gud hafe afvendt þeirre Olucku sem hieck yfer þeirra Høfde. Þegar Israels Syner voru

yfer

yferunner af Philistæis og Saul og Jonathan voru fallner, þa fostudu Jabes Innbyggiarar i 7 daga, og þad var ecke forgiefens; Þessvegna hafa þvilijkar Jdrunar Fostur alltid vered tijdkannlegar i GUDS Kirkju Sofnudum, sierdeiles i stoorre Neid og þreingingum so Menn hafa þa giort Jdran med Fostu, ecke til ad ødlast þar med Fyrergiefning Syndanna, helldur ad þeir med sundurknosudu sidsømu og litelaatu Hiarta, kynnu þess alvarlegar ad bidia GUD ad afvenda straffenu. Bænnen verdur i einne riettskickadre Fostu langtum alvarlegre og akafare, og þessvegna og so krofftugre. Soddann Jdrunarfasta kann ad vera sem einn Mwrveggur og fastaslot a mote Tyrkianum, Pavadoomenum og øllum vorum Ovinum, Blessun a Hallæres Tijmanum, Lækning a mote skiædum og bannvænum Soottarferlum, Gyrding og Veria i kringum vora Eign, sem GUD hefur osslaanad. Vier lesum um þann H. Job, ad hann med Fornfæringum, Bæn og Fostum, hafe viliad blydka GUD vegna sinna Barna, þegar þau hielldu Giestabod, og þar med ummwrade hann sitt Hws a mote Ahlaupum og Storme Andskotans.

Sannlega skigneſt GUD epter þess haattar Monnum i almennelegum Landplaagum og Hoi-

Hormungum, so sem hañ laange þar efftter, ad þeir hindre siijna reide, sem einn Mwrvegg-ur. Jeg leitade epter þeim Manne, seger Drottenn, fyrer munn Ezech. 22. Cap. sem sette sig til Mwrveggs, og stæde a mote mier, þar sem wr var brosted, vegna Landssens, so eg fordiarfade þad ecke, og eg fann hañ eing-ann, þar fyrer wthellte eg minne Reide yfer þa, og eg giørde einn Enda a þeim, med mijnum Heiptar Ellde, og gaf þeim so þeirra forþienud Laun yfer þeirra Høfud. Sodd-ann einn Mwrveggur var Daniel Spaa-madur, þegar hann med Bæn og Fostu vid-urkiende fyrer Gude, alls Foolksens Synder, so sem lesa ma i hans Bokar 9. Cap.

Slijka GUdrækneñar Fostu, wtmaalar og eiñen Spaamadurenn Joel i 2. Cap. segiande: blaased i Lwdrana til Syon, helged Føstuna, kalled Søfnudenn i eitt, samannsafned foolke-nu, helged Almugann, Safned þeim gømlu, þeim ungu, og Briooststmylkingunum til sam-ans, Brwdgumeñ gange wt af siijnum Sal, og brwdureñ af siijnu Herberge; Prestarner, HErr-ans Pienarar, skulu graata og segia: Drott-enn þyrm þw þijnu Fioolke, og laat þijna Arf-leifd ecke verda til smaanar.

Enn þesskonar Fostur eiga vissulega ad halldast med stoorre Alvoru, og fyrer utann alla hræsne, þvi þad er vilie GUds ad vier vidurkennum vorar synder, laatum af illu,

sieum Audmiuker, giørum alvarlega Jdran, og snwum oss til hans af øllu Hiarta: þar fyrer tilleggur Spaamadurenn þetta; sundurryfed ydar Hiørtu, enn ecke ydar Klæde: Pad var plagsidur Gydingaña, þegar þeir saau, edur heyrdu nockud, sem þeim þootte ganga yfer sig, þa rifu þeir siin Klæde i sundur og føstudu einnen; þeir geingu og so stundum i sundurrifnum Klædum af Hræsne og Yferdrepskap, og lietust fasta; hvar fyrer og einnen, ad Spaamadurenn Esaias kastar þem þvi i naser, og aminner þa til betre Føstu segiande Es.58. Er þad sw Fasta sem eg skyllde wtvelia, þad madurenn þviinge sinn Lykama a Deigenum. Eda heinge nidur Høfuded sem Sef? Eda iklædest Seck og ligge i Østu? Viied þier kalla þetta Føstu, og þaknæmelegann Dag Drottne? Enn þad er sw Fasta sem eg hefe wtvaled? Leistu þa sem þw hefur med raangindum i Bønd sett, laattu þa lausa sem þw ofþvingar, gief þa friaalsa sem þw þreinger, slijt i burtu allann Pwnga, brioot þw hwngrudumm sitt Braud, og innleid þa sem Volader eru i þitt hwus, ef þw sier þann sem Nakenn er, þa klæd þw hann, og drag ecke fra þinu Hollde:

Hier heyrum vier hvad sw rietta Jdrunar Fasta wtheimter, sem er ad Madurenn undereins laate af Syndunum, stødve Hollldens Gyrnder, deyde þann Gamla Adam,

og audsyne Naawnganum Kiærleika, Pol-
enmæde og Miskunseme, og giore allt sodd-
ann med angrudu, kromdu og idrande Hiarta,
og þess vegna seger einnen Spaamadurenn
Joel, sundurryfed ydar Hiertu. Þvi so
sem eitt sært Hiarta, lydur þwnga kvøl og
Pijnu, so eigum vier ad hafa saara tilfinn-
ing þar af, hid innra, eins og vort Hiarta
være allt sundursaxad og kramed, ad vier høf-
um so mykelega stiggt vorn gooda Gud med
vorum Syndum, epter þvi sem David gief-
ur ad merkia i Psal. 51. Þar hann talar um
þad rietta Offur þess harmþrwngna Anda og
sundurknosada Hiarta, a hveriu Gud hefur
Stora Velþocknan: Soddann eitt Hiarta
kann fyrer Trwna ad ødlast Guds Naad, sæt-
leiks Huggun H. Anda, og verda hluttakan-
de, dyrmætrar Forþienustu JEsu Christi:
Enn eitt Idrunarlaust Hiarta verdur henar
ecke hluttakande; lijka sem einn hardur Steirn
omulenn og ostreittur, kann hverke Vatn
nie Vidsmiør i sig ad drecka, þo þvi sie yfer
hann hellt; Enn nær hann er brotenn i sund-
ur og giordur lijka sem Pulver, þa geingur
Vidsmiøred i giegnum hann; eijns lijka flyt-
ur Vidsmiør Guds Naadar og Huggunar
ecke inni Hiartad, nema þad sie orded miwkt
og sundurknosad, so þad fyrer trwna kann
ad

ad verda hlutakande JEsu Christi Forþienustu, þvi Heilbrygder þurfa ecke Græðarans vid, helldur þeir sem Siwker eru. Eingenn skal laata þad koma i Hug sinn nie Hiarta, ad hann heyre JEsu Christo til, nema hann krossfeste sitt Holld med ollum þess gyrndum og Tilhneigingum; þvi skule Blooded Christi Hiaalpa þier, þa hlytur þw ad medtaka þad, med kromdu, angrudu, Jdrande, audmiuku, og trwudu Hiarta, annars kantu alldrei ad hafa þar hlutdeild i.

J Pridia maata miñer Spaamadureñ oss a Orsakernar sem eiga ad afysa oss til Jdrunar og yferbootar, þar hann seger: Snwed ydur til Drottens ydar GUds, þvi hann er naadugur og miskunsamur, þoleñmoodur og mikellrar giæsku, og hann Jdrast snarlega Straffsens. Þesse Ritning er so sem ein Troppugangs ræda, þegar viked verdur fra einne viktugre Maalsgrein til annarar, sem villde Herrann segia, ef þad er lijted ad eg er Naadugur, þa er eg og so Miskunsamur, og ef þad er lijted, ad eg er Miskunsamur, þa er eg og so Þolennmoodur, og ef þad er enn þa lijted, þa er eg miked Miskunsamur. Nægest ydur enn þa ecke, þa skulud þier vita ad mig Jdrar snarlega Straffsens; þad er, jeg tek þa og so til Naadar, sem giora Boot og Betran, þegar straff-

ed er þeim yfer Høfde, og eg hefe allareidu birjad ad tipta þa.

Fyrst seger Spaamadurenn ad GUd sie Naadugur. Ad vera Naadugur merker ad vera Blydkanlegur, og audvelldur til Forlykunar, laata vinna sig fliottlega med Bænenne; og sleppa Reidenne; høndla ecke vid einn epter hans Forþienan og straangasta Riette. Med þessum hætte skickar sier GUd vid oss. J 2. Moisis B. 22. Cap. seger hann; Ef ad sa sem lydur rangt, hroopar til mijn, þa vil eg heyra hann, þvi jeg er Miskunsamur. Og Esaias seger; Es.30. Drottenn mun vera þier Miskunsamur þa þu kallar, hann mun þier Andsvar giefa, strax sem hann heyrer þad; þar fyrer bidleikar Drottenn vid, ad hañ vill vera ydur miskunsamur: Hañ er naadarrykur stendur i ødrum stad; ad vysu er hañ rykur af Naad, þvi fyrst er hia hønum ad finna þa Naad, sem bijdur epter vorre Umvendan; Þegar vier snuum oss til hans, þa vill hann strax taka a mote oss med sinne Naad og Giæsku. Þarnæst er hia hønum undanngaangande Naad, þad er ein hvilijk Naad, sem verdur ad fyrra bragde til ad hiaalpa oss; Veittu oss Drottenn þijna Miskunseme fyrerframm seger David, Psal.79. J þridia maata er þar hia Drottne ein uppreisande og ummfadmande Naad, þar fyrer stend-

stendur so i Psalmenum 22. Pa sem vona a Drottenn mun Miskunseme ummkringia. J fiorda maata vardveitande Naad, sem helldur Mannenum vid Magt og hlyfer hønum, Giæska og Miskunseme mun mier fylgia alla mijna Lijfdaga seger David i Psal. 23. Item i Psal. 130. Hia Drottne er Naad og Miskunseme, og hia hønum er noogleg Endurlausn. Þesse GUds astudleg Myllde ætte ad vera oss Uppvakning til Yferbootar.

J annann maata seger Spaamadurenn ad GUd sie og so Miskunsamur: Þad heiter ad vera Miskunsamur, þegar einn kiemst vid af annars Eimdum, og þær ganga hønum til Hiarta, so sem þad plagar ad vera fyrer Fodur og Modur, ad þau ecke einasta elska sijn Børn af insta Hiartans Grunne, helldur og Einnen hræraſt mikelega ad Medaumkan yfer þeirra Eimd, og hafa soddann Medlijdan med þeim, ad þau villdu jafnvel opt og tijdum deya fyrer þau: Þar fyrer klagar David yfer olucku sins Sonar, Absalon, 2. Sam. 18. Minn Son, GUd giæfe eg mætte deyia fyrer þig, o Absalon minn Son, minn Son! J lijkann maata skickar GUd sier vid oss, þviad vegna elskunnar hefur Sialfur GUds Sonur lided Pijnu og Dauda fyrer oss, og med sinne Medaumkan geinged langt yfer alla fødurlega og mooðurlega Medlyding, þessvegna seger

er Drottenn hia Esaiam 49. Kann Moodurenn nockud ad gleima siinu Barne, so hun siæe ecke aumur a Avexte siins kvidar? og þo hun gleime þvi, þa skal eg þo alldrei gleima þier. Item hia Jeremiam i 31. Cap. Er Ephraim ei miñ dyrmætur Sonur og mitt elskulegt Barn, þviad eg minnunst eñ nu vel a þad, hvad eg sagde til hans, þarfyrer sundurbrestur mitt Hiarta til hans, so ad eg hlyt hønum Miskunsamur ad vera, og i Devt. B. 4. Cap. seger Moises, Drottenn þinn GUD er einn Miskunsamur GUD, hann mun ecke laata þig fordiarfast, hañ mun ecke gleima þeim Sættmæla sem hann soor Forfedrum þijnum. Hier vid huggar sig og eiñen David þar hañ so ad orde kemst i Psal. 103. Lyknarfullur og Myskunsamur er Drottenn Polenmoodur og harla Goodgiarn. Og þegar hañ maatte gaanga i valed ad kioosa sier þa eina Tegund Straffsens sem hañ villde af Premur, þa sagde hann. 2. Sam. 22. Lætum oss helldur falla i Hendur Drottens, þviad hans Giedgiæska er stoor. Gief giætur ad þessu, mitt Barn, og laat Guds Fodurlega Myskun og Giæsku leida þig til Idrunar, þviad hwn er svo mikel ad Postuleñ Paall veit eckert, sem framar meige hræra oss til Idrunar enn hana, og þvi seger hañ Rom. 12. Eg aminne ydur, kiærer Brædur, fyrer Miskunseme GUds.

I þridia maata priisar Spaamadurenn i frammsettum Ordum GUds Polennmæde:

Ad vera Polennmoodur er ad laata ecke koma sier fliott til ad reidast, þola og lyda miked, hallda einum stoora Avyrding til gooda, og giefa einum frest til ad umþeinkia sig og siaa ad sier. Þetta allt hefur GUd yferfliootanlega Audsyndt oss, þvi hann er siaalfur Kiærleikurenn, sem er fullur af Liuflinde og Polennmæde: Hann vonar lydur og ummber allt; so sem Fader og Mooder hafa stoora Polennmæde vid sin Born; og a þad hier heima sem H.Petur seger 2.Pist.3. GUd hefur Polennmæde vid oss, og vill ecke ad nockur fyrerfarest, helldur ad aller snwest til Idrunar; og enn aptur seger hann; Polennmæde Drottens vors, halldeð fyrer ydar Saalu hiaalp, og St.Paall kiemst so ad orde, Rom.2. veitstu ecke, ad GUds goodgyrne leider þig til Idrunar. Sannarlega var þad sierdeiles Goodgyrne GUds, ad hann gaf þeirre fyrstu Verolldu Hundrad og Tuttugu Aar til Idrunar; og hvad langann tijma hefur hann laated oss epter einum og sierhverium til ad betra Lifnadenn? hveria GUds Polennmæde og Laanglundar Gied, marger brwka þvi midur honum til Stigdar, og sindga so uppa Naadena, hvar fyrer ad Straffed kiemur þess hardara yfer þa sijdarmeir. Værum vier af so morgum stiggder sem GUd, og þar kiæme so einn epter annann og bæde um

Fyrergiefning, þa mundu faaer Menn finnast so Þolennmooder, ad þeir ecke einasta giæfa hvern einn Kvittann um̃ þeirra Brot og Misgiorninga, helldur og einnen þar ad auke audsynde þeim allt gott, enn þo giorer þad vor Miskunsame Gllð: Laat þessvegna min̄ Brooder og Syster, þessa Gllds Stooru Þolennmæde ganga þier til Hiarta, og snw þier strax til hans med Idran og Aptur hvarfe fra Syndunum.

J fioorda maata utmaalar Spaamadurenn Joel hier stærd hans Goodgyrne: Sieu þijnar Synder stoorar, þa er Gllds Giæska og Miskunseme eingu sijdur stoor: Gllð er af insta Grunne Verunnar so Giæskurykur, ad hann vill giarnann meddeila siaalfum sier, øllum Monnum, villdu þeir annars hann medtaka, ja hann kann ecke annars enn ad vera Giæskurijkur, þad er hans Naattwra, og þar af hefur hann þad mesta Ynde og Glede, so sem han̄ seger hia Spaamañenum; Jer. 32. þad skal vera mijn glede ad giøra þeim til gooda. So stoor sem hans Haatign er, so stoor er hans Giæska og Miskunseme; nw er hans Haatign oendannleg, þar fyrer og einnen hans Miskunseme, og nær þvi til allra Mañа. Hans Miskunseme er ecke so sneggfelld og lijtel um̃ sig, sem eins holldlegs Fodurs, hver

ein

einasta miskunar sig yfer siin eigenn Born, helldur er hann rijkur af Naad og Miskunseme vid alla þa sem hann akalla. Hans Miskunsamleg goodgyrne nær so viidt sem himenenn er Psal. 36. so vollduglega lætur hann sijna Miskunseme vera yfer þeim sem hann ottest, sem Himenenn er haatt yfer Jørdunne seger David i Psal. 103. Pad er GUds godgyrne ad þacka, ad vier erum ecke olldunges wtgiorder þvi hans Miskunseme hefur eingañ enda, helldur er hwn ny og ferst a hverium Morgne Harm. B. 3. Æ þu Christenn Madur! vyrd þessa GUds Giæsku og Miskunseme fyrer þier gaumgiæfelega, og laat hana lada þig og locka til Jdrunar og yferbootar.

J Fimta og sijdasta maata, idrast GUd fliootlega straffsens, þad er hann straffar ogiarnann, og þegar hann straffar, þa giorer hann þad oss ecke til Fordiorfunar, helldur til Betrunar og Saaluhiaalpar. Þegar vier dæmustum, þa verdum vier af Drottne tiptader, so vier fordæmunst ecke med Heimenum seger Paall 1. Cor. 11. GUd giorer eitt annarlegt verk, so hann kunne ad giora sitt eigennlegt. Hann leggur a Straffed so hañ kunne Miskunsamur ad vera, þar fyrer idrar hañ straffsens strax þar epter: So liet hañ sig idra straffsens, sem hañ ætlade ad leggia a þa i Ninive fordum; þar fyrer seger Jeremias Harmb. 3.

Cap. Pad er einn kostulegur hlutur, ad vera þolen̄modur, og bijda epter GUds Hiaalpræde, þvi Drottenn burtrekur ecke eilijflega, hann hirter ad vijsu, enn hann tiaaer sijna Miskunseme aptur, epter mikeleik Miskunsemda sinna, þvi hann plaagar og hrigger ecke mannenn wr af Hiarta. Hafed þvi gaat a ydur þier man̄eskiur, gióred Idran, þvi undereins og þier Idreſt Syndanna, og afbidied þær, hia Gude, i sannre Trw, þa idraſt hann Straffsens. Hvad sagde Drottenn vid Jonam fordum Jon. 4. Meinar þw ad þw reideſt rettelega vegna þessa gras-lundar þw kienner i briooste um̄ Grass-lunden, fyrer hverium þw eckert Ervide hafder, og ecke helldur lietstw hann vaxa; sem villde hann segia; hann kostade þig ecke neitt, og þw aumkast þo yfer hann. Skyllde eg þa ecke siaa aumur a Ninive? So stoorum Stad, i hverium ad eru fleire enn hundrad og tuttugu þusunder manna: þad er ad skilia, skyllde eg þa ecke aumka mig yfer so margar þusund Manneskiur sem eg hefe skapad og halldeð vid magt allt hingad til? skyllde eg laata þær svo deya og fordiarfast; Soddann Miskunar og Medaumkunar Hiarta hefur GUd vid oss ennw i dag, og þvi bijhelldur hann ad eilijfu; ef vier vilium annars giora Boot og betran, og lifa med idrande Hiarta, þar fyrer skulum vier laata þetta GUds miskunarfulla Hiarta, hræra oss til Um̄vendunar.

Cap.

# Cap. X.

# Um̃ fioora Eigennlegleyka sannrar Jdrunar.

Psal. 102.

Oskuna et eg lijka sem Braud, og med Harmenum samblanda eg minn Drick, fyrer þinne Ognan og Heiptarreide, þvi þu hefur so upplipt mier, og mig i grunn nidursleiged, mijner Dagar eru i burtlidner sem Skugge, og eg em uppþornadur sem Hey, enn þu Drottenn blijfur eilijflega, og þijn Minning um̃ alldur og æfe.

Hier verda oss fyrer siooner setter fioorer Eigennlegleikar þeirrar riettu Um̃vendunar, i hverium vær eigum oss ad æfa. Sa fyrste er ad reikna sig overdugann allra Guds Velgiørdninga, hvar um̃ Spaamadurenn so talar; Oskuna et eg lijka sem Braud, og med Harmenum samblanda eg minn Drick. Pad er: Oll Vellist og Glede er fra mier horfeñ; eg reikna mig overdugann ad neita þeirrar Fædu, sem er kræselig, og þo adrer gledie sig og endurnære med henne, þa verdur mier þad ecke ad veige, þvi hun smackast mier lijka sem Aska. Þennann Overdugleika wtleggur HErrann Christur so hia Luc. 9. Cap. Sa sem vill mier epter fylgia, hann afneite siaalfsum

um ſier, og take ſinn Kroſſ uppa ſig, og fylge mier epter. Item. Ef nockur kiemur til mijn og hatar ecke ſitt Lijf, hann gietur ecke minn Læreſveirn vered Luc. 14. Þeſſe Ord Frelſarans giefa ad merkia hvernenn eiñ Riett-Chriſtenn Madur eige i þrefalldann maata ad þeckia ſinn overdugleika. Fyrſt a hann ad afneita ſiaalfum ſier. Ad afneita ſiaalfum ſier, er ad deya fra ſijnum eigeñ Vilia, ſinne Siaalfs elſku og allre Ærugyrnd, akta ſig Overdugañ allra þeirra Velgiordinga, ſem Mannenum kunna af Gude ad tilleggiaſt, ad vyrda ſig minne ollum GUds Miſkunſemdum, og i ſijdaſta maata ad reikna ſig ecke ad eins hinn allra ſlæmaſta og aumaſta a medal mannaña, helldur og einnen lakaſtann allra ſkapadra Skepna, epter Dæme ſiaalfs HErrans Chriſti, ſem ſo ſeger i Pſalm. 22. Eg em Madkur enn ecke Madur, þetta er ad afneita ſiaalfum ſier og vyrda ſig einſkis.

J annann maata ſkipar vor HErra ad hata ſiaalfann ſig: Ad hata ſiaalfann ſig, er ad hafa Ogied a ollu þvi i ſiaalfum ſier, ſem Holldennu er kiært, og þad helldur miklar mætur a; ſo ſem er Æra og Metord i þeſſum Heime, Vellyſtingar, Hefndargyrnd, Reide, Agyrnd, og adrar þvilijkar Athafner ſpilltrar Nattwru: Hollded med ollum Gyrndum og Tilhneigingum ad kroſſfeſta, og hallda allt

ſodd-

soddann fyrer Diøfulsens Verk, Hoggorm-sens Sæde, og i siaalfu sier andstiggelegt, og reikna þessvegna siaalfann sig fyrer Helvijtis Elldebrand, og verdugann eilijfs Dauda.

Ibridia maata skal Madureñ taka uppa sig siñ Kross, og fylgia Christo epter: Ad taka siñ Kross uppa sig, og fylgia epter vorum HErra, er ad taka viliuglega a moote øllum þeim Hørmungum, fyrer utann allt Knurr og Opolennmæde, sem GUd einum tilskickar, og ad reikna sig ecke ad eins maklegann þeirra Hrellinga, sem þa yferstanda, helldur og einnen þingre Kvala, og þar fyrer epter Dæme HErrans Christi, ad bera Krossenn med Þøgn og Þolennmæde, og vona epter því ad GUd mune giøra goodann Enda a sijnu motlæte; þetta heiter ad taka sinn Kross uppa sig; og fylgia Christo epter, af øllu þessu maa siaa, ad einn audmiukur og idrande Madur reiknar sig omaklegañ allra GUds Velgiordninga, og ecke verdugann bita Brauds, edur ad hañ endurnære sig med lijstelegre Fædu, edur goodum Svaladrick; eins og FrelsareñJEsus i sijnumm saara Þorsta a Krossenum, took til sijn þad swra Edik, og lagde þar ecke neitt til framar, utañ hañ sagde, Þad er fullkomnad. Þetta er þad vissasta tilefne, hvar fyrer ad þeir a Gamla Testamentesens døgum, þa þeir

voru

voru i sijnu Jdrunar Verke, hielldu sig alls Goods omaklega, klædduſt þvi Seckium yfer bert Hørund, og saatu i Oſku, þeir hægdu sijnu Hwngre med þurru Braude, løgdu þad i Oſku og neittu þess so. Þeir blønduðu sinn Drick med Taarum, lijka sem þeir være ei þess verduger, ad næra sig med hreinu Braude, og svala sier med einfølldum Drick.

Orſøkenn hvar fyrer þeir tileinkudu sier soddann overdugleika, var sw ad þeir kønnuduſt þar vid i sijnu Hiarta, ad þeir hefdu med sijnum Syndum forþienad eilijfa Bølvan og Helvites Pijnu, hefdu tapad GUds Vingan, og være ecke verdugur ad verda niootande, jafnvel þeirrar allra minſtu GUds Naadar.

Fagra Fyrermyndan hier uppa syner oss Mephiboseth Sonur Jonathan, þvi þegar David var ordenn Kongur, liet hann spyria epter, hvert þar være nockur epter i landenu af Jonathans slekte, ad hann kynne ad audsyna honum Myſkunseme, af þvi ad Jonathan hafde vered hans beſte og kiæraſte Vinur. Og frelsad hann af hende sijns Fødurs Sauls. Þa fanſt þar einn Aumur og Halltur madur ad Nafne Mephiboseth, til hvers þegar David sagde, þu ſkallt eta Braud vid mitt Bord, þa audmykte hañ sig fyrer Koongenum og sagde;

Hver er eg þinn Þræll, ad þu ſnyr þier til eins Dauds Hunds, ſem Eg er. 2. Sam. 9. Þetta er Eptermyndan uppa øll audmiuk og idrande Hiørtu, ſem ecke hallda ſig verdug nockurs goods. Þegar GUD mettar þau med ſijnum Velgiørdningum, ſo ſem vid ſitt eiged Matbord, þa reikna þau ſig enn þa overdugre þar til; enn Mephiboſeth ad neita Matar vid Davids Bord: Þvijlijka overdugleikans Vidurkenning kunnum vier og ſo ad finna i fleirum epterdæmum; þegar ſa fortapade Sonurenn giørde Jdran, hiellt hann ſig ecke verdugann ad heita Sonur ſijns Fødurs, helldur bad þar um einaſta ad hann mætte vera einn hans Þienara og Leigumadur; ſo og einnenn Canverſka Kvinnan, hwn villde giarnann vera ſem ein Hundtyk, og eta af þeim Maadarmolum, ſem Børnenn liete falla nidur af Borde ſijns HErra. Matt. 15. Hinn ſæle Petur ſagde, gak fra mier Lavardur, þvi ad eg em Madur ſyndugur: Hundradshøfdingenn til Capernaum, eg em þeſſ ei verdugur, ad þu ganger under mitt Þak: Heilagur Paulus reiknar ſitt lijf ecke mikels verdt Giørn. 20. og ſig ecke verdugann ad heita Poſtule. 1. Cor. 15. Eins lijka vyrdte H. David ſig ecke verdugann ad eta Braud, helldur ſagde hann, eg er Øſkuna ſem Braud. Sem villde

villde hann segia, Jeg reikna mig aldeilis over-dugann þess, ad nioota nockurs goods. Þegar einn Christenn Madur hefur soddann eitt Hiarta, þa er þad riett kramed og sundur-knosad, og hin allra þacknæmasta Foorn fyrer GUde.

Annar Jdranarennar Eigennlegleike er sa, þegar enn Jdrande Syndare hefur stærsta Angur og Kvøl af þvi, ad hann hefur sinn gooda GUd moodgad, og reitt hann til reide; þad meinar David, þegar hann seger; fyrer þinne Ognan og Heiptarbræde, þvi ad þu hef-ur upplift mier, og mig i grunn nidursleiged. So sem hann segde; øll mijn Olucka og kvøl giorer mier ecke so illt, sem þad, ad eg hefe þwnglega syndgad a mote þier, sem ert sodd-ann eiñ ypparlegur, Heilagur og Riettlaatur GUd.

Med þvi GUd er einsamall Kiærleikureñ, Naadenn, Riettlæted, Giæskan og Miskun-semen, ja allt gott, þa giorer Madurenn Gude a moote med sierhverre Synd, sem hann dryger: Med Oriettvysenne Synd-gar madurenn a moote GUds Riettlæte, þviad GUd er siaalft Riettlæted: Med Lygenne a moote GUds Sannleika, þvi GUd er siaalf-ur Sannleikurenn: Med Hatrenu a moote GUds Kiærleika, þvi GUd er siaalfur Kiær-leikurenn. GUd er sa hædste eilijfe Goode,
alls

allslags Dygd og fullkomnaste Kærleike; þar fyrer er það ein stoor Dioful's Vondska, að giöra þeim i moote, sem er sa hæðste Kiærleike, ja sialfur Kiærleikureñ. Ef að GUd hefde giort oss einhvern tijma Illt, þa være það ecke so mikel undur, þo vier hefðum haft Ogied a honum; enn nu veiter hann oss og giefur allt gott, Lijf og Anda, hañ fæder oss og klæder, læknar oss þegar vier eruñ siwker, fyrergiefur oss Syndernar, so opt sem vier hañ þar uñ bidium, og er alltijd reidubueñ að taka a møte oss, þegar vier snwum oss til hans; hañ hefur giefed oss siñ Eingietenn og Elskulegann Son, og hañ Verduga H. Anda, hann giefur oss siaalfann sig til Eignar, og er vor Elskulegur Fader, og medtekur oss fyrer sijn Born; þo reitum vier hann til reide, støndum honum a moote og hotum hann. Være það ecke vidurstiggelegur Ogudlegleike og Vondska, ef þw dræper þañ, sem þier hefur lijfed gefed; ef þw slæer þann, sem bar þig a Ormum sijnum og i sijnum Fadme; ef þw foracktader þann, sem med stærstu Vegsemd og Heidre þig Koronade; ef þw afneitader þeim, sem þig hefde giert að sijnu Oskabarne? Siaa! þetta giorer þw siaalfur a moote Gude þijnum Fødur, sem er so Heilagur og Riettlaatur, að aller GUds Einglar tilbidia hann, hafa Otta i sier fyrer honum, og syngia o-aflaat

añnlega hønum til Dyrdar, Heilagur, Heilagur, Heilagur ertu Drottenn Allsheriar, Enn þw ert ecke utann Duft og Aſka, og ſtigger hañ þo ſiifellelega. Þegar eitt Idrande Hiarta ihugar ſoddann, þa upptendraſt og kviknar i þvi ſtoor Hrigd og Kvalrædes Angur, hvert ed þviingar og piiner Mannenn ſem hid diwpaſta Saar, og orſakar hønum næſta mikenn otta og Hrædſlu fyrer GUds Rettlætes Doome, ſem ſkielfer og ognar einum, bæde hid innra og ytra innvortis i Samvitſkunne, eñ wtvortis med Liikamlegum Plaagum, ſo ad Madurenn hefur þar fyrer eingann Frid edur Roo i ſier, ſo ſem Job yferklagar; og einn verdur allre Heimſens Glede ſviptur, ſo ad madur kann hverke ad neita Svefns nie Matar, og maa klaga þar yfer af Pſal.38. Þiin ſkeyte þau ſtiinga mig, og þiin Hønd hardþiacka mier. Liika ſem Saared i hveriu Piilann ſtendur giører miked Kvalræde, og Verkurenn er næſta grimmur a medann Skeited ſitur þar i; eins liika, a medann GUds ſkelfeleg ognan þviingar Samviſkuna, þa hefur hwn eingann Frid helldur Otta og Hrædſlu. Eñ þeſſe Ogn og Hrædſla, er eckert annad eñ lifandi doomur GUds riettlætis i vorre Samviſku, og ſkelfelegur Kviidi fyrer þvi, ad manne verdi kaſtad i Helviitis Piinu. Hier fyrer ſeger David þw hefur upplipt mier, og mig

mig i grunn nidursleiged, hver Ord oss gefa
ad merkia obærelegt Kvalrædi, eins og hønum
hefdi vered sleigt ofann af þvi hædsta Biarge
i hid diwpasta Dalverpe, og hann være so
allur i sundurlamenn og marinn, ad hann
hielldi eingum sijnum Lim heilum.

Eñ hversu sem ad þesse GUds Ognan
og Skielfing er mikelfeingleg, þa er hier þo
under eins Huggun ad finna, þvi Spaamad-
urenn seger ad þessar Ognaner, þesse Skeite
og Hugarhrelling sieu af Gude; hvarfyrer sa
same GUd sem med sijnum Pijlum hefur sært
vort Hiarta, hañ mun og lækna þad, sa sem
tekur af oss lijfed mun oss lijfed aptur gefa, sa
GUd sem kastar nidur i Grunn, og færer til
Helvijtis, hañ kañ ad hefia oss aptur þadann.

Þegar einn Idrandi Madur finnur
soddann hia sier, og hefur af eingu so miked
Angur, sem af þvi, ad hann hefur stigdt
GUd, sem er sa hædste Goode, og sa ædste
Kiærleike, þa er hañ a þeim retta Veige. So
var þvi haattad fyrer David, þar fyrer seger
hann til Drottens; Psal. 51. a móte þier ein-
en hefe eg syndgad, sem villdi hann segia, æ
hefdi eg einasta ecke moodgad þig, miñ hiart-
ans Fader, þa læge þetta ecke so þwngt a mier,
so giorde og Daniel segiande, Drottenn þw
ert rettlæutur, eñ vier meigum skammast vor;
Dan. 9. maklega meigum vier skammast vor,

villde hañ segia, ad vier høfum þann rettlaata GUd so modgad med raanglæti voru.

Sa Pridie Eigeñlegleike Jdranareñar, er innefalenn i þessum ordum, er David frammfærer; mijner Dagar eru i burtlidner sem Skugge, og eg em upp þornadur so sem Hey. Hier med verdur gefed ad merkia ad eitt idrande Hiarta treister alldeilis ecke sijnum eigenn mætte, og veit fyrer sañ, ad þad hefur ecke meiri Krapt enn skuggenn, og ecke meiri Vokva i sier eñ Heyed, þar fyrer seger same Spaamadur i Psal. 39. Siaa, mijner Dagar eru sem Þverhandar Breidd, og mitt Lijf er so sem ecke pared fyrer þier: Enn hversu fanyter eru aller lifandi menn sem lifa so andvaralaust, þeir lyda i burt sem Skugge.

O hvad stoor Vijsdomur ma þad kallast, þegar madurenn þecker sig onytann ad vera, og ecke neitt, so sem Skuggenn er ecke neitt, so er og Madurenn ecke neitt; Skuggenn er einn daadlaus og faanytur hlutur fyrer utañ Lijf, sem ecke hefur af Sialfum sier neina Hræring. Allt eins er Madurenn, þegar GUd svipter hann lioose Lijffens: Þess nær oss sem Soolenn geingur, þvi minne er Skuggenn; eins lijka, þvi naalægare sem GUd er med sijnum gaafum, þvi minne er einn froomur og gudhrædur Madur i siaalfs sijns Augum.

Hier

Hier þuert a moote; þvi leingra sem Soolen er fra oss, þvi stærre er Skuggenn, so og einnen, þvi fiær sem Madurenn er fra Gude, þvi stærre verdur hann i sijnu eigenn Hiarta, fyrer invortes Hofmod og Drambseme; og þvi stærre sem madurenn þikest i sijnu Hiarta, þvi fiær er hann fra Gude. Og so sem þeir stooru Skuggar a Kvølldtijmanum, verda fliott ad eingu, eins lijka forganga þeir fliootlega sem eru i sijnum Hiørtum stoorer og þoottamikler i þessum Heime. Skuggenn hlytur ad hiadna og verda ad eingu, af þvi Soolen giefur sig fra hønum; eins lijka þegar ein skugga-manneskia tekur til ad stæra sig i sijnu Hiarta, þa vijkur sw guddomlega Soolen fra hønum, og ma hann þvi forgaanga: So sem Skuggenn hefur ecke i sialfum sier neitt Lijf, helldur filger hann epter Hræring Solarennar: Eijns er Madurenn ecke neitt af sialfum sier, helldur daudt og lijflaust Hrak. Giorn. B. 17. GUD er Mannsens lijf og hræring. So sem ein Eik gefur fra sier stoorann Skugga, enn Skuggenn lifer hverke nie hræreft af siaalfum sier, helldur þegar Eiken hrærest, þa hrærest og so Skuggenn, eins lijka lifer og hrærest Madurenn i Gude. J Daudanum kunnum vier og so ad finna og formerkia,

ia, ad vorer Dagar eru burtlidner sem Skugge, og ad vier þa visnum eins og Gras, hvert Daudenn afhøggur, med siinne Sygd.

Þegar madurenn fyrer sanna Audmykt, kannast grant vid allt þetta i siinu Hiarta, og aliktar so, ad haun sie ecke neitt, liikastur daudum Skugga, þa er hans Hiarta rett skickad fyrer Gude, og merkelega ad sier i sinne Ummvendann; þvi so sem vier hliootum einnu sinne ad deya naattwrlegum Dauda, so vite hver madur þad, ad hønum byriar hvern Dag fra siaalfum sier andlega ad deya, so hann vel og sætlega skilie einu sinne vid þetta liif, þvi þad tekst oss best, sem vier ydkum iduglegast.

Sa Fioorde Eigennlegleike sannrar Jdrunar er Sameining vid GUD, hvar ad þad hnygur sem stendur i Psalmenum: Enn þw Drottenn varer eiliiflega, og þijn Minning um̃ alldur og æfe: Spaamannsens Meining er þesse; þo eg sie hier tiimannlega sem einn Skugge, og visne sem Gras, þa veit eg þo fyrer viist, ad eg mune bliifa i þier eiliiflega; so sem þw ert siaalfur eiliifur: Liika sem Madurenn skilur sig vid GUd med Syndenne, so verdur haun Gude aptur innliifadur med Jdranenne. So sem Personan HErrans Christi kann ecke ad raskast, helld-

helldur hefur sa eilijfe guddoomur so samteingt sier Manndoomlega Naattwru i Christo, med oleisannlegu bandi, ad iafnvel Dauden kunne ecke ad umturna þeirre eininga; hvarfyrer sw Manndoomlega Naattwrau Christi, blijfur eilijflega samteingd vid Guddoomenn, og uppfilld med GUds Haatign; eins verda endurfæddar Saaler, ef þær falla ecke fra aptur fyrer sanna Umvendan, Trw og Traust til GUds, honum so innlijfadar, ad þær kunna hverke i Lijfe nie Dauda adskiliast fra þeim Kiærleika sem er i Christo JEsu. Rom. 8. þvi þeir sem Drottne ahanga eru eitt Andi med honum, 1. Cor. 6.17. og GUd hefur trwlofad sig þeim ad eilijfu, Hos. 2.21. JEsus Christur er oss her um fullkomlegaste Vottur, og Lijfsens Bok, i hverri vier meigum siaa og lesa, ad so sem hans Manndoomleg Naattwra blijfur eilijflega samteingd vid Guddoomenn, so eru og øll GUDS Børn honum samteingd fyrer Trwna. So sem GUd og Christur er eilijfur, so eru hans Heit og Lofaner oriwfanlegar, med hverium hann hefur giort vid oss eilijfann Naadarennar Saattmaala, sem alldrei kann ad raskast, þo ad Heimurenn yfergiefe oss, Synden, Daudenn, Diofullenn og Helvijte plaage oss, ja þo ad vor Saal og Hiarta vanmegnest, þa er GUd samt og min vera, vort Hiartans Traust og Hlutskipte ad eilijfu. Psal. 73:

Cap.

# Cap. XI.

## Ad Avoxtur sannrar Umvendunar sie ein ny Skiepna, og ad Christenn madur sie fyrer Trwna HErra yfer øllum hlutum, enn epter Kiærleikanum Þræll, øllum undergiefen; Item hvernen Christi Framferde sie Speigell vors Lijfernis.

2. Cor. 5.

Ef nockur er i Christo, hañ er Ny Skiepna.

ALler þeir sem fyrer Trwna eru i Christo JEsu, þeir eru Ny Skepna; þad er, þeir eru GUds Børn, Riettlaater fyrer Gude, hafande Fyrergiefning Syndanna; þeir eru Heilags Anda bwstadur, Hluttakarar gudlegrar Naattwru, og Erfingiar eilijfs Lijfs, þeir eru i Samvitskunne fryer fra Logmaalenu, Bølvaneñe, Daudanum, Dioblenum, Helvijte og fyrer Fyrerdœmingunne, þeir eru ecke vid tijma, stad, edur Logmaal bundner. Þvi þeir medtaka allt af HErranum Christo giefens i Trwnne, sem til Saaluhiaalparennar þienar, og fra þessu hindrar þa hverke stadur nie stund, hverke Logmaaled, nie nockrar Ceremoniur; þeir eru fullkomner i Herranum Christo, þvi þeir hafa i honum uppfilling Logmaalsens fyrer Trwna. Hier fyrer er þad Nafn, ad heita Rett-

Rettrwadur Christenn Madur, hid yppar-sta i Heimenum, þad geingur yfer sierhvert Embætte og stand, yfer alla tijma, stade, og Logmaal; ja, þad er meira, enn allur Heimurenn: Enn þar hia, ad vera Riett-Christenn i Lijfe og Lifnade, er hid allra aud-vyrdelegasta og lakasta Nafn a medal allra Nafna i Verolldenne. So haatt sem trw-en upphefur einn Christenn Mann yfer alla hlute, So diwpt nidurlæger Kiærleikurenn hann under alla Hlute, epter þvi sem skilia maa af JEsu Christi Lijferne, hvert ad er sa skiæraste Speigell Kiærleikans, og allra Dygda i fullkomlegasta maata.

Siaa hversu Christur giordest siaalf-krafa allra vorra þioon, hvad audmiwkur hañ var i sijnu Hiarta, hvad hoogvær i andanum, hvad astwdlegur i ordunum, hvad liwfur og þægur i vidmootenu, hvad miskunsamur vid þa Faatæku, hvad medaumkunarsamur vid þa aumu, hvad þolenmoodur vid þa sem hañ spottudu, hvad þydur og þægur i sinne Rædu og Andsvorum, hversu Naadugur var hann þeim syndugu, hversu alldeilis hefur hañ eingañ Forachtad edur forsmaad. Hann hefnde sijn alldrei a Nockrum manne, hann stundade hiartanlega epter Saaluhialp allra Manna; hann bad sinn Fodur fyrer ovinum sijnum;

ja hann hefur bored allar vorar Synder: Sootter og Siwkdooma, vorar Kvaler, Haadwngar, Hogg og Sleg, og er so med þessum hætte, Kiærleikans, Lijtelæteseus, þolesimædennar og allra annara dygda hid allra fullkomnasta epterdæme, a hvert vier skulum alla tijma horfa i vorum Hiortum; Enn þo einkanlegast þegar vier erum einsamler, þvi soddann Umþeinking geingur yfer allar Kunster, og langt yfer allann Veralldarennar vijsdoom. Þarfyrer skulum vier þrickia þessu Innsigle Christi Kiærleika, a vor Hiortu, sem er hans Imind, hans lijferne, hans Kiærleike, hans Audmykt, hans Þolennmæde, hans Kross, hans Haadwng, og hans Daude. Þetta er þad listelega og fagra Liooſed, vorra Hugskota, af hveriu vierendurnyustum, og verdum forklaarader epter hans eigenn Mind. Lijka sem Christur hefur nu epterstande sinnar Lægingar i þessum Heime orded lægre enn aller Menn, og allar skapadar Skepnur; enn epter sijnu Upphafningar stande, er hann HErra yfer øllum hlutum: Eins liika er Christenn Madur epter Trwnne HErra yfer øllum hlutum, ad einum Gude undann teknum; enn so miked sem ahrærer Umgeingnena og Lijferned, Underlag allra Hluta.

Cap.

# Cap. XII.

## Ad HErrañ Christur sie sa riette Vegur og stefna til sannrar Gudrækne, og ad Madurenn fare villt, ef GUd leide hann ecke, og vyse hønum Vegenn.

Psal. 87.

Vysa þu mier Drottenn þijna Vegu, so ad eg gange i þijnum Sannleika, vidhalltu mijnu Hiarta, so ad eg otteſt þitt Nafn.

SA Vegur sem Spaamadurenn talar um̃ i þessum ordum, er Christur; Jeg er Vegurenn seger hann, hia Johañ: i 14. Cap. Enn hvernenn kemst eg til hans? Hvernenn kemst eg a þennann Vegenn? Fyrer Trwna; þvi Trwen samteinger oss HErranum Christo, Kiærleikurenn bindur oss vid hann, Vonen vidhelldur oss, og þo er bæde Vonen og Kiærleikurenn af Christo, og Christi Verk i oss; þesse Vegurenn liggur fra hønum, og til hans aptur.

Trwen nær Handafeste a JEsu Christi Personu og Embætte; Kiærleikurenn filger hønum epter i hans lijferne, Vonen um̃fadmar Hlutteкning hans epter komandi Dyrdar. Trwen maa ecke hafa neinn annañ Frelsara, Saaluhialpara, Medalgangara, og Veg til lijf-

lijfsens, enn Christum JEsum. Kiærleikurenn hefur einasta Christi Lijfferne ad ganga epter, vonen vænter ecke epter neinu ødru, enn hans eilijfu Vegsemd. Þetta er sa sanne Vegur og ofallvallte Sannleike, a hverium, vier eigum aller ad ganga. Þetta einasta er þad allra Naudsynlegasta, og sa sanne GUds Otte, i hverium GUd virdest Naadarsamlega oss ad vardveita.

Þesse þriw Høfudsticke Trwen, Vonen, Kiærleikurenn, eru naaskyld, ødrum þremur Dygdum; Trwen er i ætt og teingdum vid Audmyktena; Kiærleikurenn vid Þolennmædena; Vonen vid Bænena; þvi sa sem Trwer, hann lijtelæckar sig; sa sem Elskar, hann er þolennmodur; sa sem Vonar, hann bidur. Æ hvad næsta þægelegur GUds Vegur er þetta! leid þu oss a hann, O Naaduge GUD! Þetta er sa Sannleikurenn i hverium vier eigum ad ganga, sa sanne GUds Otte, og þad einasta sem David bidur um i Psal. 27. Þetta er ad filgia JEsu Christo epter i Lijtelætenu Kiærleikanum, þolennmædenne. Og ad deyda i sijnu Hiarta, fyrer hans Lijtelæte, þann eitrada Orm, Drambsemena. Gef giætur ad þvi minn Broder og Syster, ad Christur er ordenn þinna vegna sem einn Madkur, so ad hann kvartar þar yfer i Psal. 22. segiande;

Jeg

Jeg er Madkur, enn ecke Madur; skylldir þu þa laata Drambsemena i þier drottna? Þeinktu um̃ saatækt þijns Lausnara, og laat þar med Agyrndena i þier lijfed missa: Siaa hann hafde ecke þad hann kunne Høfdi sijnu ad adhalla, og þu villt þo hafa alla hlute, og verdur alldrei anægdur; Er þad Christelegt? Siaa hann hefur giefed þier sitt Lijf, og þu ert so øfundsiwkur, og nyskur, ad þu kant ecke ad unna þijnum Naawunga bita Brauds, er þad Gilldlegt? Deyd þu Hefndargirndena i þijnu Hiarta, med yfervegan Christi Hoogværdar. Siaa! hann bad fyrer sijnum Ovinum, og þu bidur ecke fyrer vinum þijnum, skamast þu þijn ecke þarfyrer? Hans blessud Asiaana var sleigenn med Knefum, og med Hraakum spytt, og hann þagde og ummbar þad þolennmoodlega, enn þu kant ecke þad ad ummbera, ef einhver lijtur til þijn med ohyru Bragde, geingur þu þa i Christi Footspor? Dreptu einnen i þijnu hiarta þa saurugu Vellyst med Umþeinckingu þeirrar pijnu, sem HErrann leid a sijnum lijkama; giættu ad allt um kryng, hvert þar er nockurs mans Pijna og Kvøl, sem hans Kvøl og Pijna, skyllder þu þa vilia lifa i sijfelldum Vellystingum, skemtan, og Gamne? Hann bar eina Þirne-Koronu a sijnu Høfdi, villdir þu þa

all-

alltiid vera med fegrum Hofud bwnade? Hann griet vegna annara Synda, og þw grætur ecke vegna sialfs þijns synda.

O Elskulege HErra JESU Christe, hvad margar Manneskiur, raafa þar enn nu fyrer utann þennann Sannleikans Veg? Leid þw mig Drottenn a þinn Veg, so eg meige ganga i þijnumm Sannleika, gief þw mier þad Hiarta sem þig ottist, þa Trw sem þig ummfadme; þann Kiærleika sem þier epterfilge, þa Von sem horfe fram̃ a þitt Tignarvellde; þad Sinne, sem þig elske; þa Vitsmune sem þig þecke; þau Eyrun, sem heire þig kallande og kvakande a Krossenum i þinne Pijnu, þau Augun, sem alyte þig i þinne Audmykt, og þann Munnenn sem med þier bidie fyrer mijnum Ovinum.

Ef þu sæte Drottenn sijner mier ecke þeñañ Vegenn, og leidir mig ecke a hann, þa er minn Vegur ecke nema Villustigar, og mitt Lioos ecke nema Myrkur. O þw eilijfa Lioos, sem upplyster þañ alldrada Tobiam, þa hann hafdi mist Sioonena, og Isaach, þa hans Augu voru ordenn myrk og dim̃; þw sem upplyster Jacob þa hann kunngiorde Sonum sijnum okomna hlute, og þañ Gamla Sijmeonem þa hann so sinn Frelsara. Upplystu oss einnen so ad vier siaum liosmandi

Dygd-

Dygder JEsu Christi, og kunnum ad verda af þeim sømu upplyster og fagurlega prydder. So sem þar var Myrkur yfer Underdiupununi, i þeirre fyrstu Skøpun, so er þar og einnen dimä yfer Grunni vors Hiarta, þangad til ad GUd seger verdi Lioos, og Ande Drottens sveimar yfer þess ofrioods-sama Vatn. Jordenn var eydi og toom, so eru liijka vor Hiortu, ef ad GUds Naad uppfiller þau ecke, GUd giæfe-ad Orded fyrer hvert ad Liooséd og Myrkrenn voru i sundurskilenn, yrde og so kroptugt i vorum Hiortum, so semieinum nyum Heime og nyrre Skiepnu til ad burt rima Myrkred, segande: Verde Lioos: Þetta orded er sialft liooséd, og er i Christo, ja þad er sialfur Christur. Þetta liooséd er Sannleikurenn, fyrer utann þetta liooséd, er hvad eitt i mannenum Liige, og Diøfulsens Ryke. Fyrer utann Christi Lioos er ecke i Mannenum nema Myrkur; fyrer utann Christi Veg er einsømul Villa i Mannenum. Fyrer utann Christi dygdafulla Liiferne eru ecke i Mañenum nema Synder og Glæper, og sa eiliiji Daude.

Þetta er nu Vegurenn; þetta er Sannleikurenn, þetta er Otte Drottens, og þad eina sem David umbidur ad hafa GUd og Christum alltijd i Hiartanu fyrer Tærna, ad

ad eptersilgia Christo i Kiærleikanum, Audmyktenni; og Hoogværdeñe, ad hafa Christum æ og iafnann fyrer Augum, sem einn Veg og sionarspeigel ad lifa epter og ad horfa oaflatanlega a hans Dyrd og Vegsemd i Vonenne, þad er sa GUds Otte, sem Manneñ vardveiter giører Hiartad froomt og burtdryfur Syndena Syrach. 1. Hver hann lifer an otta, hañ kañ ecke Gude ad þocknast, og hans eigenn ofdyrfd kastar honum um koll. An GUds Otta duga hverke Konster, nie Rykdoomur, nie Frydleike, nie Sterkleike, nie Viisdoomur, nie Maalsnille. Þviad Naattwruñar gaafur eru vondum og godum sameigennlegar, og finnast hia hverutveggium. Enn Otte Drottens er ein stakleg Gaafa, og sierdeilis Lioos, sem giora oss ad GUds Vinum, Ja ad GUds Børnum hønum þægelegum fyrer Trwna. GUd hefur eckert Epterlæte af mannanna Viisdome, Listum, Skilninge, Maalsnille, Audæfum og Frydleika. Ef ad Gudhrædslann filger þar ecke med; Audlegd an Kiærleika, Kunst an Giedþeckne, Frydleike an GUds otta, eru so sem Skugge fyrer utann Lijkama, Agner fyrer utann Hveite, Hydi fyrer utann Korn, Reikur fyrer utann Elld? Otte GUds er Pryde allra Gaafa. Hann er Corona þeirra Rijku, Raadgiafe þeirra Viisu, Heidur þeirra

Dæge-

Dægelegu, Sigurvinning þeirra Sterku, Furstanna Vegsemd, Barnanna Tuktmeistare. Otte GUds vardveitte Danielem, Otte GUds geimde Joseph, Otte GUds hlyfde Susønnu. An hans er Madurenn eckert annad eñ vised og þurt Tre, onytur Fauskur, broted Ker, hverin menn kasta i burtu: Furstar, HErrar og Stioornendur eru i stoorum Heidri, enn þeir eru þo ecke so mikler sem sa er ottast GUd.

# Cap. XIII.

## Hvernen ad HErrann Christur sie sw Saña Bok Lyffens, og hvernen hann kenne oss med sinne Orbirgd og Faatækt, ad forakta Heimsens Vegsemdar Skraut og Skart.

### 2. Cor. 8.

Þier vited Naad Drottens vors JEsu Christi, ad þo hann være Rijkur giørdest hann Faatækur ydar vegna, so ad þier yrdud fyrer hans Ørbirgd Rijker.

Aller þeir sem ad trwa a JEsum Christum GUds Son, eru teiknader a Lijffens Book, þeirra Nøfn eru skrifud a Himnum, og munu a sijdasta Dege verda opennberer, þegar GUd mun fram telia Nøfn þeirra trw-

k udu

udu fyrer øllum Heiløgum Einglum. Openb.3. Enn nu er Drottenn vor JEsus Christus, lifande Speigell Heilags og Christelegs Lijfernes, med þvi hann er þad eilijfa Orded, og Fødursens Speke, komenn þess vegna i Heimenn, og Madur ordenn, ad hann bædi med sijnum Hiaalpræde-fulla Lærdoome og epterdæme sijns allra heilagasta Lijfernes og Dauda uppfrædde oss og lyste til eilijfs Lijfs.

Hans lijfdagar fra moodur lijfe allt til Daudans, voru eckert annad enn sijfelldt mootlæte, innefaled i þessu þrennu, sem hann hafde ad dragast med allann sinn Alldur. Pad fyrsta var stoor Faatækt: Annad, enn þa stærre Forsmaan: Hid þridia, sw allra stærsta Kvøl og Pijna. Þetta þrent byriadest med Upphafe hans Lijfs, og endadest med hans Dauda. So miked sem ahrærde hans Heilogu Faatækt, þa hafde hwn þriaar Troppur. Hin Fyrsta var sw, yfer hverre hann siaalfur klagar segiande: Fuglar Loftsens hafa hreijdur; og Refar Holur; Enn Mannsens Sonur hefur ecke þad, hann sitt Høfud ad hneige. Matt. 8. Ønnur Trappan var þesse, ad hañ hafde faa Vine. Hann var fæddur i stærstu Ørbirgd af Ørfaatækre Moodur, hañ sokte ecke epter Vinattu neins Vollduga Hofdyngia, nie Rijkis mans, hañ hiellt Vinattu vid Laz-

arum,

arum, ecke fyrer saker hans Audlegdar, helldur vegna Trwarennar Joh. 11. þvi hann trwdi þvi, ad hann være sa sanne Heimsens Endurlausnare. Þridia Trappa hans Faatæktar, var sw stora Nidurlæging hans guddomlegu maktar og tignarvelldis, Phil. 2. Ad hann sokte sier alldeilis nidur i vorar Eymder, og mæddest og þreittest so sem adrer menn, sierdeilis fyrer saker mannfiollda þeirra Siwku, sem hañ læknade, hvar med hann iook sier soddann Mædu og þreiting, ad hans Naawngar villdu af faavitsku sinne, hallda honum þar fra, og meintu ad hann munde þess vegna missa Rænuna; hans Læresveinar þeincktu og um þad, sem skrifad stendur hia Esa. 53. Cap. Hann bar vor Krankdæme. Hier med fordadest hann ecke, nie umflwdi nockurt Omak, Faatækt, eda Mædu, jafnvel þo hann hefde kunnad ad laata allar skapadur Skepnur þræla sinna vegna, og alla Eingla vera sier til þienustu, þa leid hañ þo allt Þolennmoodlega fyrer alla, og brwkade ecke þad Valld sem hañ hafde yfer Skepnunum a mote siinum Ovinum. Hañ gaf þad epter ad Þirnarner skylldu stynga og særa sitt Hofud; hañ liet binda siinar Hendur, hwdstrykia siinn Liikama, siinar Hendur og Fætur i giegnum bora, og stynga i siina Sydu med Spioote:

Hvad allt hann hefde kunnad ad hindra med einu orde, ja med einne Bendingu bannad øllum Skepnum ad giøra sier nockurt mein. Stuttlega ad segia; hann gaf sig under allar Skiepnur vegna vor, uppa þad ad hann wtvegade oss afftur þad Herradæme yfer øllum Hlutum sem vier høfdum mist, og ad hann med sinne Sigurvinningu og upprisu giørde oss oyfervinnanlega, og þad sem eñ nu er meira, hann leyd þad, hañ yrdi freistadur af Dieflenum, og færdur i Loptenu wr einum stad i annann; hañ leid Diøfulsens verkfærum, Gydyngunum og Stryds-foolkenu ad piina sig og krossfesta, so ad hañ þar med frelsade Mannenn fra Makt og Valde Diøfulsens, og hans Verkfæra.

Med þessu mote er sa allra sterkaste, ordenn veikur og vanfær, sa allra Maattugaste, ørmagna; sa allra Veglegaste, hinn foracktanlegaste, sa allra Frydaste, hinn vidbiodslegaste, allskonar Plaagum, Kvølum, og Moottlæte, underorpenn, uppa þad hann giørde vort Giaalyfe til Skammar, og þad Siaalfræde sem oss er inngrooed, ad vier tøkum ogiarnann uppa oss lijtelshaattar Mædu, og vilium ecke þola, jafnvel liettbærann Kross Ellds og Naawngans vegna, knurrum og þraalega, og erum oþolennmooder under

þvi

þvi Mootlæte sem GUd oss uppaleggur, sier til Dyrdar, og oss siaalfum til Betrunar.

Ja hañ fyrdte sig ecke einungis sinne Guddoomlegre Makt, helldur og einnen Guddoomlegum Vysdoome, gangande fram i stærsta Einfalldleika, so sem faavys slettur madur. Ecke skickade hañ sier sem einn Haalærdur Meistare, sa ed giörer sig storann, og þikest gylldur af sinne Konst og Lærdome, helldur frammleiddе hañ sitt Lijf i Kirrlæte, kiendi GUds Gotu i sannleika, i Guddoomlegum Krapte, i Meinleise og Heilagleika, i Elsku, Hoogværd, og Lijtelæte, brwkandi sliett og einfolld Ord i Rædu sinne. Hvarfyrer þeir stolltu og hoofmoodugu giördu gis ad honum, og hielldu hann sem einn faavysann, umkomulausann Mann, þott hann være sw eilijfa Spekenn, er talade fordum fyrer Spaamennena, og Upplysing allra Mañа komande i þennann Heim; og med þessu kiende hann oss, ad vier skylldum ecke stæra oss af GUds Gaafum, helldur brwka þær i Audmykt og Einfalldleika vors Hiarta.

Hann afklædde sig og einnen sinne Majestatis Tign og Begsemdar Allite, þvi hann umgeckst med syndugum Monnum, aat og drack med þeim, so ad hann kinne ad framkvæma sitt Embætte i þann maata, ad leita

epter þvi sem tapad var, og þad hoolped ad giøra: Og hier af kom þad, ad hann var af sijnum Haadungar Mønnum kalladur Vinur Tollheimtu manna og Bersyndugra. Vynsvelgiare og Samverskur: Ad sijdustu leid hann þad, ad hann sem einn Odaada madur var uppheingdur a mille tveggia Ræningia, so ad hann bære vora Misgiørninga, og burttæke vorar Synder.

Hann hefde vel kunnad med slinum Heilagleika og Meinleise, ad giøra sier stærra Nafn enn Johanes Skyrare hafde, sem var eitt logande og skynande Lioos; enn hann aflagde soddann Nafn, so ad hann giørde ad eingu vora Hræsne, sem vier þraatt og opt høfum, i þvi ad vilia vera halldner vel Heilager, og prydeleger a margann haatt, þar vier høfum þo ecke annad til ad bera, enn einsamallt Skin Gudræknennar. J faum ordum ad segia: Hann fyrdte sig øllu þvi sem var i Heimenum; hañ var Kongur Konganna, en giørdest þo Undergiefenn Kongunum, og Magtarvølldunum, ja sinne Faatæku Moodur og Foostur-Fødur, var hann Hlydenn og Undergiefenn; hann var Drottenn og Herra, enn giørdest þo hinn Faatækaste og lijtelmootlegaste allra þræla a Jordunne; hann var hinn ypparste Spaamadur, enn

enn wtvallde ſier þo til kienſlu Sveina faa-tæka, faafrooda, og olærda Menn; hann kunne maklega ad taka ſier til Valld og Herra-dæme yfer ſijnum Læreſveinum, enn hañ ſeger, Eg em midt a medal ydar, ſo ſem ſa er þioonar. Hann var ad ſonnu þeirra Herra og Meiſta-re, enn ecke til ad Drottna yfer þeim, epter veralldlegum Hætte, helldur i Lærdoome, og Lifnadi til ad kienna þeim Hlydnena, Aud-ſveipnena, og Undergefnena; þar fyrer leid hann ſo ſem vor Hofudsmadur fyrſt og fremſt, Spott og Haad, Faatækt og allſkins Eimd-er, þioonade og einnen ſijnum Læreſveinum, og þvode þeirra Fætur, og var ſo þeirra Meiſt-are til ad kenna þeim þvilijkt, med ſijnu Ept-erdæme. O hvad Heimſker Daarar erum vier þa, ſem ſækium epter Heidre i þeſſum Heime; vilium hier eckert lyda; vilium ein-gum undergiefner vera, nie hlyda; ſækium einaſta epter holldlegum Fryheitum, og vil-ium lifa i Siaalfrædi epter voru eigenn Hof-di og Heila: So giorde ecke Drottenn vor JEſus Chriſtur, helldur kendi hann oſſ med ſijnu Heilaga Epterdæme, ſo ſem þeirre ret-tu Lijſſens og Lifnadarens Bok, ad ſkicka oſſ langtum odruvijſe. So kantu nu ad ſiaa minn Brooder og Syſter, hvad fiarlægur ad ſie ſa vegur, ſem þw geingur a, fra Vege Herr-

ans Christi, sem til Lijffsens leider. Þw geingur ecke a Vege HErrans Christi, helldur a þeim Vege sem liggur til Glötunar: Og er þetta fyrste Parturenn af eymdarfullu Lijfe vors Endurlausnara JEsu Christi.

# Cap. XIV.

## Hvernen ad Herrann Christur kienne oss med afneitan siaalfs sijns, og þeirre Smaan og Vanvirdu sem hañ leid ad forakta Heimsins Æru og Vegsemd.

Esa. 53.

Hann var sa hinn allra Fyrerlitnaste, og Forsmaanarlegaste, fullur Pijnu og Kraankleika.

ANnar Partur af lijdingu HErrans Christi er Smaann og Forakt: Þegar þw hefur nu i Lifnadar Bok vors Herra giefed giætur ad hans Orbirgd og Faatækt, þa virdstu framveiges, ad sia og skoda hans stooru Audmykt og Lijtelæte. Hann sokte ecke epter nockrum stundlegum Heidre, eda tileignade sier hann, helldur stood þeim a moote med ordum og verkum, sem hann villdu tigna, heidra, og vegsama, hann flwdi jafnan fyrer

er þessa Heims Æru, og liet i stærstu Audmykt, þad stærsta Spott og Forakt yfer sig ganga; Gydyngarner brixludu hønum um þad, ad hann være Samverskur, og hefde Diøfulenn; hann giørde sijn Krapta-verk, fyrer Satans Tilhlutan; hans himneska Lærdoom hiellldu þeir fyrer Gudlastan. Hann var med Baktale, Bryxlum og Lygum offsoktur, þar med svikinn selldur og afsvarenn, hann var pwstradur, hræktur, þyrnekrindur, spottadur, hwdstryktur, saarum særdur, til dauda dæmdur, af Ollde og Mønnum yfergiefenn, so sem Illrædis og oboota madur, klædum flettur, og sem ein Bolvan a Krossenn uppheingdur, hanns wthellta Bæn til Fodursens, var hædd og hleigen, hønum afsaaande, løgdu þeir Hlutfall yfer hans Klædnad, þeir gaafu hønun Gall, og Edik ad drecka i daudans tyd. Ad sydustu doo hann a Krossens Gaalga med allra stærstu Forsmaan og Vanvirdu, og þegar hann var laatenn, stungu þeir i giegnum hans andvana Lijkama, med einu lagvopne. Epter hans daudlega Afgang, var hann wthropadur fyrer einn svikara, so ad bædi i lijfe og Dauda, og epter Daudann, var hann med allskins Haadung og forøktun, svijvirdtur.

J øllu þessu er Sonur GUds oss fyrer sioner settur, ecke einasta so sem vort Frelses Gialld, og Endurlausnar Fiesioodur, helldur og einnen so sem vor Meistare, spaamadur, Hyrder, Lioos og Lærefader, so vier lærdum af hans Forsmaan og Fyrerlytningu ad um̄flya Heimsens Pract, Metord, og Virdingar, ef vier annars vilium verda hans sanner Limer, og hønum so sem voru Høfdi, fyrer Kiærleikann innrætast, og samteingiast. Enn þar sem vier giørum hier þvert a moote, og stundum af øllu Megne i Hugrenningum, Ordum og Verkum epter vorum eigenn Heidre, enn ecke GUds, þa giørum vier þad berlega Vottfast ad HErrann Christur, life ecke i oss, helldur Høfdinge þessa Heims. Ja, ad vier høfum enn þa ecke slited fra oss Elsku til Heimsens, og yferunned Heimenn, þvi hvad af Gude er fædt, yferv̄innur Heimenn Seger Johannes. Allt þetta er viist Merke þar til, ad vier høfum enn þa ecke feinged retta Elsku til JEsum, þvi ef nockur elskar Heimenn, i hønum er ecke Kiærleike Fødursens, nie helldur Christi, þvi allt hans lijferne kenner oss, hvernenn vier eigum ad deya fra Heimenum. Hoorfid þess vegna Børnenn GUds a Christi Lijferne, bæde i Upphafenu, Fram̄gangenum, og Endingunne, og er þar ecke ann=

annad ad finna, enn Audmyкt, sem og einnen Forsmaan, sem hann vard ad lijda, af þeim sem Heimenn høfdu kiærann.

## Cap. XV.

## Hvernen oss birie fyrer Christum ad um̃bera og yfervinna allra Handa Þreingingar og Forsmaan i þessum Heime.

Heb. 12.

Minnest a þann sem þvijlijk Motmæle i giegn sier leid af Syndurunum, so ad þier þreitest ecke og uppgiefest i ydar hugskotum.

I þeim 109. Psalme klagar Messias segiande: Jeg ma vera þeirra Athlæe, nær þeir sia mig, þa skaka þeir Høfud sijn, hiaalpa þu mier Drotteñ miñ Gud, giør þu mig hoolpenn, epter þinne Miskunseme, so ad þeir formerke ad þetta sie þijn Hønd, og ad þu Drottenn giører soddann: Bølve þeir, þa blessa þu: Setie þeir sig upp a moote mier, þa hliota þeir til skam̃ar ad verda, eñ þiñ Þioon mun glediast. Mijner Mootstødumeñ verde med smaan klædder, og sinne Skøm̃ klædest þeir, sem ødrum Kyrtle: Mikelega vil eg Drottne þacka med mijnum Munne, og prijsa hann medal margra; þviad hinum Faatæka stendur hann til hægre Handar, so ad hann frelsest i fra þeim, sem hans lijf ossækia. Þesse Kløgun vors Frelsara

sara ætte med riettu ad gaanga oss til Hiarta, og knya oss þar til, ad vier og osskialdann skodum oss i þessum Krossburdar Speigle HErrans Christi og allra Heilagra: Þvi þess vegna verda þessar ummkvartaner HErrans Christi so opt itrekadar i Psalmum Davids, ad vier lærum af þeim fyrer margar Hörmungar ad gaanga inn i GUds Ryke, og ad þad Raanglæte og Forakt, sem vier verdum ad lyda, kunne ad læknast med Haadungum HErrans Christi; Item, ad vier lærum ad ummbera þad med goodu Giede, ad vera hans fyrerlitlegre Imynd samlijker, og bera med hönum hans Vanvyrdu, uppa þad vier meigum verda samlijker hans forklaarqdre Mynd sijdar meir i Dyrdenne.

Framar er þess ad giæta, ad HErrann Christur i nidkurlæge Psalmsens þesshundrasta og nyunda, klagar yfer þrennslags Pijnu, sem hann vard ad lyda.

Fyrst klagar hann yfer sinne hiartans hrygd og angist, segiande: Jeg er Aumur og Faatækur, og mitt Hiarta er midt i mier sundurmared.

Nennum nu vorum Augum til þessarar Haau og Heilögu Persönu, hvarfyrer klagar hun so? uppa þad vier skulum heyra, hvad hañ hefur lided vorra vegna; Hann seger:

Jeg er faatækur; og þu kant ecke af Audæfum saddur ad verda: Hañ seger: Jeg er Aumur; og þu villt þo vera ypparlegur fyrer Augum hvers mans: Hañ klagar, segiande: Mitt Hiarta er midt i mier sundurmared; og þu villt lifa i sijfelldum Fride, og hafa alltyd gladvært Hiarta: Kiære Vin, þeink þo ad þinn HErra JEsus hefur ecke alltijd haft roolega Giedsmune, helldur hefur Hiartad i hans Briooste lided soddan angist, sem þad hefde med Kiepp vered sært, kramed, og sundurmared; virdtu fyrer þier, hvad þu siert ad reikna a moote so ypparlegre og Heilagre Persónu, sem hañ var, og þegar þu ert i stærstu Hiartans Angist, þa þeink so med siaalfum þier: Siaa! möklijka hefur þad geinged til fyrer mijnum Endurlausnara JEsu Christo; hans Hiarta hefur lided eñ þa laangtum stærre Sorg og Angist. Eñ so sem vor HErra er komenn fyrer Sorg til Glæde, fyrer Haadung til Heidurs, fyrer Daudann til Lijffens, fyrer Helvijtes Angist til Himnarykes; Eins lijka ma vor Kroßburdur færa oß til Sælunnar, og vera oß inngaangur i þad eilijfa Fødurlanded.

J annann maata klagar HErrann Christur yfer veikleika sijns lijkama i þessum ordum: Eg lijd i burtu hiedann, sem Skugge, sa ed burt vijkur, og eg verd burtrekenn so sem

Gras=

Grashoppur; mijn Knie eru veik af Føstu, og mitt Holld er magurt, og hefur einga feite i sier. J þessum ordum kienner Drottenn oss, hvad vier sieum i þessum Heime, sem er eins og Skugge, hver ecke hefur i siaalfum sier neitt Lijf edur nockurn Kraft: Og lijker HErrann Christur sier, sem er þo siaalft Lijfed og Liooſed, vid einn Skugga i sijnu Nidurlægingar stande; haad miklu framar skilldum vier þa reikna oss fyrer einn Skugga, og fyrer ecke neitt, og læra Audmyktena af GUds Syne? Hann seger og so: Jeg verd burtrekenn sem ein Grashoppa; skylldum vier þa vilia hafa hier i Heime vorn eilijfann Bwstad? Ein Grashoppa hefur eckert Hws edur Heimile, er hrædd um̄ sig, og flijr wr einum stad i an̄an̄: So hefur og einnen vor Endurlausnare vered i þessum Heime, uppa þad hann kiende oss med sijnu Dæme, ad lifa hier so sem framande menn, þeir ed ecke hafa neinn blijfannlegann Samastad, og leita eptur odru betra Heimile, og þeckara Fødurlande. Ad hans Knie hafe og so vered veik og vanmaattug, og hans Holld magurt, þad fann hann og formerkte, sumpart i sinne Føstu, sumpart annare sinne Kvøl og Pijnu, þegar aller hans kraptar þornudu upp, sem Skurn. Psalm. 22. Þetta a oss til hugar ad koma, þegar vier erum siwker, þo lijkamer vorer misse alla Krapta,

þa

þa eigum vier þo ad ummbera þad þolenn-moodlega: Pad vardar ecke miked um̃ þañ Lijkamlega Stirkleikann Es. 54. þegar Saalenn er annars hraust fyrer GUds sæta Huggun, þegar hwn er sodd af himneskre Vellyst Es. 55. og stirkest i Drottne, og mætte hans Kraptar. Eph. 6.

J þridia maata kvartar HERRANN Christur umm þa stooru forsmaan, sem hann sie underorpenn i þessum Heime, segiande: Eg hlijt þeirra Athlæe ad vera, nær ed þeir siaa mig, þa skaka þeir Høfud sijn. Hver skyllde kunna ad lijda hier meire forsmaan, enn þetta? Eñ soddann Haad, Spott, Vanvirdu og fyrerlitning, leid hann vorra vegna, so ad hann frelsade oss fra eilijfre Forsmaan og Haadungu: Madurenn var ordeñ GUds Foracktare, þar fyrer maatte Christur betala fyrer vorar Synder med þeirre stærstu Smaan, hann vard ad lijda: Og med þvi hann hefur nu lided soddann Forakt, skylldum vier þa vilia sveima æ Jafnann i Vegsemd og Virdingum? Annars skal þetta vera þier til Huggunar, þw Christeñ Saala, og Medal til ad yfervinna Heimsens Forakt og fyrerlitningu.

Fyrst ad þw med soddann moote ber Jmynd þijns Lausnara, og effterfilger þijnu Høfde HErranum Christo. Rom. 8.

J ann-

J annann maata med þvi ad Heimurenn forakтar þig, þa lærer þw þad ſanna Lijtelæte, ſem alltijd finnur naad hia Gude, hvered mootſtendur Dramblaatum eñ gefur lijtelaatum Naad, 1 Petr. 5.

J þridia maata verdur þw med ſoddann moote i tolu þeirra Heilogu, 1 Cor. 4. ſem a øllum tijmum hafa vered, ſem ein Bølvan og Forſmaan fyrer Heimenum.

J fiorda maata ſkalltu þar fyrer ødlaſt Æru og prijs af ſiaalfum Gude a Himnum, fyrer øllum Heiløgum Einglum.

J fimta maata, þar þw ſkallt ecke a ſijdaſta dege uppſtanda til eilijfrar Smaanar og Vanvyrdu, fra hverre HErrann Chriſtur hefur þig frelſad, þa laat þa tijmanlegu Vanvyrdu, ſem þw verdur ad lijda, ecke mikelega angra þig, eda gaanga þier til hiarta.

J ſiøttu grein ſkalltu vita, ad GUd lætur þig ecke helldur i þeſſum Heime miſſa ſijna Naad; Jafnvel þo þw hafer ecke gunſt nie Vinaattu nockurs mans, þa hefur þw þo GUds hille, naad og vinaattu, þar fyrer ſtendur ſo i Pſal. 109. Stattu med mier Drottenn GUd minn, giørdu mig hoolpenn epter Miſkunſeme þinne, ſo ad þeir formerke, ad þetta ſie þijn Hønd, og ad þw Drottenn hefur giørt þetta. So ſem GUd frelſade ſinn Son af Forſmaan og Haadungum, og ſette hann fyrer ſijna volld-

volldugu Hønd i himneska Dyrd og Vegsemd; so mun hann og einnen giora vid þig, sem ber hans Vanvyrdu, ad hver madur skal kannast vid, ad þad er GUds Verk.

J siounda maata, lijka sem GUd hefur lagt forsmaanena uppa sinn Son, vegna hvers Christur seger i Psal. 69. Fyrer þijna Skulld lijd eg Forsmaan, mitt andlit er fullt af Kinnroda. og i Psal. 16. Jeg hlyt ad lijda fyrer þijnar saker: Eins hefur hann lagt Krossenn uppa þig, so hann reine þijna Dygd. GUd vill og einnen.

J attunda maata, snwa soddann oforþientre Bølvan og Vanvyrdu i Blessan, og giora einnen þijna Haadungar menn aptur a moot til skam̃ar, a sijnum tijma; þvi seger hann so: Bølve þeir, þa blessa þw: Setie þeir sig upp a moote mier, þa munu þeir til skammar verda: Eñ þinn þioon mun glediast. Eingen Bølvan megnar þeim a moote, sem GUd vill blessa, so sem vottast af Dæme Balaams: Enn GUd blessar alla þa sem hañ ottast Num. 23. Hver hann ottast Drottenn, hønum mun vel ganga i sinne sijdustu Neid, og a sijnu Endadægre, mun hañ blessun ødlast. Syr. 1. Þvi lofar og einnen GUd Abraham, og øllum trwudum Gen. 12. Eg vil blessa þa sem þig blessa, seger hann, og bølva þeim, sem þier bølva. Med þessu hughreister GUd oss og

einen hia Es. 51. seigande. Otteſt ecke nær Men-
ſkner ſmæna ydur, og hrædeſt ecke heirra Spott
Og Christur seger Matth. 5. Sæler erud hier,
nær Mennerner hallmæla ydur, og Offsokn
veita, fyrer mijna ſkulld, og tala igiegn ydur
alla Vondſku, þo liwgande, fagned hier og
vered glader, hvi ydar Verdkaup er nooglegt
a Himnum. Þarfyrer seger og St. Petur:
Sæler erud hier, þa hier verded vanvyrdter
fyrer Christi Nafns sakir, hvi Ande Dyrdar-
ennar og GUds hvijleſt yfer ydur.

J niunda maata giører Christur hacker
ſijnum himneſka Fodur, fyrer Kroſſ og Haad-
wngar ſo ſegiande. Eg hacka Drottne mikelega
med mijnum Munne, og a medal margra vil
eg hann lofa. Sama ſinnes a hver Christenn
madur ad vera, og taka a mote Kroſſe, Spotte
og Haadwngum med hacklæte. Vor goode
GUd lagar hað alltijd ſo, ad vier høfum orſøk
til ad hacka honum har fyrer; af Kroſſenum
vex hackargiørdenn, hvi hver ſem med Þolenn-
mæde lijdur Forakt, fyrer ſaker Christi Elſku,
hann heidrar ſiaalfur GUd aptur a moot,
bæde i heſſu lijfe og odru; ſo ſem ſtendur i
Pſal. 113. Hann upphefur Lijtelmagnann ur
Duptenu, og forhefur hinn Faatæka ur Saur-
indunum, ſo hann ſkicke hann med Høfding-
iunum, i hia Høfdingium ſijns Lijds. Þad
er ein ſtoor Dygd, ef madur med Hoogværd
og Þolenumæde lydur Forackt og Smaan
vegna Elſkunnar til Christum. J ti-

J tiwndu grein, seger vor HErra: Drottenn stendur þeim Faatæka til hægre handar, so hann Frelse hann fra þeim, sem hans Lijf offsækia. Þesse ord eru full Huggunar a moote Faarsmaan og Haadwngum; hann seger ecke, ad Drottenn stande þeim Volldugu og Magtarmonnunum til hægre handar, eda hia þeim sem offsækia þa Riettlaatu; helldur hia þeim Faatæku og yfergiefnu, sem hiaalparlauser eru; hann hefner þeirra Bloods, og þeinker til þeirra seger David i Psal. 9. Tertullianus komst so ad orde: Þegar vier fordæmustum af Heimenum, þa verdum vier afleister af Gude. Þessu er þad samhliooda, sem stendur i Psal. 37. Hinn O-gudhrædde ummsitur þann Riettlæta, og leitast vid ad deida hann; Enn Drottenn mun ecke giefa hann i hans høndur, nie fyrerdæma hann, þa hann er dæmdur; Siaa! þw munt enn nu þacka hønum, og hans Nafn vegsama a medal margra, ad hann hefur so undrunarlega og daasamlega frelsad þig. Eg trwe, seger David i Psal. 27. Ad eg munne siaa Goodsemd Drottens a Lande Lifande Manna. Item: Bijd þw Drottens, vert hraustur og þitt Hiarta sie o-efad, og bijd Drottens. Dæmed ecke fyrer tijmann, seger Paall, 1. Cor. 4. þangad til ad Drottenn kiemur; sa ed auglysa mun þad sem i Myrkrunum er huled, og opennber giøra Raad Hiartnanna, og þa mun hverium sem einum Lofstyr skie af Gude. l 2 Cap.

# Cap. XVI.

## Hvernen ad Chriſtner menn eige ad leita epter, og hafa ſijna riettu Æru og Vegſemd i Chriſto, og a Himnum.

Pſal. 109.

GUD minn Lofſtyr, þeige þw eige.

HEtta er Bæn þeſſ eilijfa GUds Sonar, og hefur þa Meining: Minn himneſke Fader, þier einum er þad liooſt, ad eg hefe ecke i þeſſum Heime leitad mijns eigenn Heidurs, helldur einaſta þinnar Dyrdar, og allra manna Velferdar, þar fyrer lyd eg nu þær grimmuſtu affsookner, Bølvaner, Laſtmæle og Haadwngar; eñ þad er mijn Huggun aptur a moot, ad þw ert minn Fader, og eg þiñ eingietenn Sonur, þad er mijn Dyrd i Himnenum hia þier, hveria þw munt og ſo um̃ Sijder opennbera og i Lioos leida, og ſo forklaara mig, ad Heimurenn ſkynie þad, hvern hann hefur offsookt og haaduglega ſvijvirdt.

Hier af lærum vier, ad a Himnum hafe þeir þa meſtu Vegſemd, ſem i Heimenum verda meſt offsookter fyrer Sakleiſe: Hvar

uppa vier høfum Epterdæme Frelsarans JEsu Christi, so sem strax var sagt; i hveriu, og af hveriu, vier lærum þañ sanna viisdoom, so sem af þeirre riettu Lijffsens Bok; Hann hefur ecke i þessum Heime sookt epter hinne minstu Hroosan, helldur laated sier nægia þar med, ad GUD var hans Vegsemd. Drottenn GUD vyrdest ad giefa oss þad sama Sinne, ad vier høfum alla vora Hroosan i hønum alleina, og ecke i siaalfum oss, ad vier gledium oss af himneskum, eñ ecke jardneskum Giædum.

Þad er og einnen hin stærsta Æra Drottne JEsu, ad hann er Eingietenn GUds Sonur; þess vegna hefur Heimurenn offsookt hañ og spottad. Gief þu oss einnen Elskulege Fader, ad þad meige vera vor ædsta Dyrd, og einka Hiartans Glede, ad vier erum þijn Born, og faaum eilijflega ad nioota þinnar fødurlegrar Elsku og Trwfeste, þar vier, fyrer þennann Barna Riettenn, bijhollдum þeirre eilijfu Arfleifd, hversu miøg sem Heimurenn hatar oss, alasar og offsæker, so sem hañ breitte vid þiñ allra Kiærasta Son JEsum Christum.

Framvegis er þad HErranum Christo miked Hroos og Æra, ad hann hefur so mørg guddoomleg Krapta-verk epter sig laated, og

Mønnunum af hreinum Kiærleika og hinum mesta trwskap allt gott giert; jafnvel þo hañ hafe ecke annad enn o-þacklæte Heimsens þar fyrer wr bijtum bored. O! Naaduge GUD! gief þw oss einnen soddann eitt trwfast Hiarta, ad vier giorum med goodfyse Naawngan-um gott, og ecke laatum Heimsens o þacklæte fæla oss þar fra, og ad vier i allre vorre Ydin og Framnferde, giefum ecke oss, helld-ur þinu Nafne Dyrdena.

So er þad og so hin hædsta Vegsemd fyrer HErrann Christum, ad hann af heit-ustu Ast og Elsku hefur fyrer oss daaed, og oss med sijnu dyra Bloode Endurleist; ad hann giørdest hlydenn sijnum himneska Fødur allt til Krossens Dauda; ad hann hefur fram-geinged i sannheilogu Lijtelæte; ad hann med hinne stærstu Hoogværd hefur lyded þær grim-ustu Haadwngar og Spottyrde; ad hañ med so haaleitre Polenmæde hefur utstaded Kross-ens Kvøl og Pijnu. Hiaalpa þw oss, o GUD, ad vier og so sigrum ovine vora med Kiær-leikanum, neidum og þvijngum Holld vort og Blood til þeirra Verka, sem gudlegre Hlydne tilheira; umnlydum Heimsens Smaan, fyrer HErrans Christi Lijtelæte og Hoogværd og bijholldum so Sigrenum i Krossenum fyrer Polennmædena, og sieum stirkver i Drottne. Þad

Þad er og einnen Christo til Æru og Vegsemdar, ad hann er upphafenn til Fødursens hægre handar, og hefur ødlast eitt Nafn yfer øllum Nøfnum, i hveriu ad øll knie skulu sig beigiä, bæde a Himne og Jørdu, og allar Twngur skulu vidurkienna ad hann er Drottenn: Phil. 2. Hiaalpa þw oss millderyka̋ste GUd, ad vier þad einasta reiknum oss til Æru, ad vier mu̇num bjrtast med Christo i Dyrdenne, og þess vegna lijtels ǽcktum verålldarennar Spott og Haad, bljdande epter þeim gledelega tijma, þegar hver og einn mun ødlast Lofstyr af Gude.

Enn framar er þad og so stoor Æra og Vegsemd fyrer HErrann Christum, ad hann er einka Høfud Christelegrar Kyrkiu og allra hennar Lima; ad hann er dyrdlegur Konungur sijns Lyds, og eilyfur Erke-Biskup: Gief þw oss o goode GUd, ad þad meige og so vera vor ǽdste Lofstyr, ad vier sieum HErrans Christi Limer, undersaatar i hans Ryke, og um̃ alla Eilijfd faaum ad nioota þessa Høfudprests fyrerboonar Offurs og Blessunar.

Ad sydustu er þad og einnen Dyrd og Æra Herranum Christo, ad GUd hefur vijdfrægt hans Nafn um̃ alla Verålldar Krijngluna, og uppreist trwna a hans Nafn,

a medal so margra Piooda, a moote øllum hans Ovinum Haadwngarmønnum og Ofsooknurum, sem ecke hafa viliad þeckia hann fyrer GUDs Son, og hversu sem GUD hefur laungum i Christi Kvolum, þagad hier yfer og huled þessa Dyrd under Krosse Hørmwnganna, þa hefur þo þesse Vegsemden um̃ siider frammbrotest, sem ein føgur Sool: Af Sion upprennur sa fegurdar Geislenn, vor GUD kiemur og þeiger ecke, seger David i Psal. 50. Jafnvel þo ad GUD vor ædsta Vegsemd þeige nockra stund i vorum afsoknum; þa vill hann þo um̃ siider, þegar freistingartijmenn er afstadenn, opna sinn munn, og hialpa oss ut af vorum hørmwngum Psal. 39. þvi þad er en nu ecke opennbert, hvad vier munum verda, 1. Joh. 3. So er þa GUD vor Vegsemd; Ecke er Heimurenn, Audlegden, edur peningarner vor Lofstyr, helldur GUD alleina: Epter þvi þar stendur, Jer. 9. Sa Vyse hroose sier ecke af siinum Vijsdoome, og ecke sa Sterke af siinum Stirkleika, ei helldur sa Rijke af siinum Rijkdoome; helldur hver ed vill sier hroosa, hann hroose sier af þvi, ad hann vite og þecke mig, þad eg sie Drottenn.

Cap.

# Cap. XVII.

## Hvernen oss byrie epter Dæme HErrans Christi, og allra Heilagra, ad yfervinna vondar Ummrædur og Lyge-Twngnanna Baktal.

Psal. 102.

Allann Dagenn nyda mig mijner oviner, og þeir ed hæda ad mier, sverja um̃ mig.

A medal annara Hörmwnga, sem trwader verda ad reina, þa er þad ecke hid minsta ad verda fyrer Lastmælum og vondum Um̃lestre; hvern Frelsaren̄ vor JEsus Christur maatte og so lijda, þar ed þeir Phariseisku Höggormar, og Eytur-Nodrur stungu hann so tijtt og særdu, bæde lifande og laaten̄, med sijnum̃ bañvænum̃ Twngum: Og maa þad vera oss skyr Vitnesburdur þar uppa, ad eingenn Christenn Madur kann fyrer þeim frij og o-hultur ad vera; þvi lijkare sem hver einn er HErranum̃ Christo, og þess astundunarsamare sem hañ er ad breita epter honum, þvi meir offækia hann vondar Twngur: A slijku fieck Heilagur David ad kienna, so sem hann klagar þar hörmulega yfer i Psal. 3. 4. 5. 10. 12. 15. 31. 50. 52. 55. 58. 64. 69. 120. og 140. Ja, þar hefur eingenn sa Spaamadur vered, sem ecke hefur

orded fyrer pessum Nordpiilum, og pad a ollum tijmum, so sem Jeremias yferklagar i 9. Cap. segiande. Peirra falsklegar Twngur eru daudleg skeite, med sijnum Munne tala peir fridsamlega vid sinn Naawnga, enn i Hiartanu ummsitia peir pann hinn sama. Aller Frodmer menn hafa ad vakta sig fyrer bannvænum Twngunum Bakbijtaranna; so sem skadlegur Andardraattur Spitelskra maña kreinker pa, sem fyrer honum verda, so kreinker og einnen eitrud Twnga pa, sem hlyda giarnañ a peirra Tal.

Par fyrer, med pvi eingenn kann ohulltur ad vera fyrer vondum og folskum Twngum, og pad er ofæmelegt fyrer vora Trw ad vier giefum Lastyrde fyrer Lastyrde, pa eru par eingenn onnur Raad vid, enn Madur utvege sier Huggun a moote soddann af Gllds Orde.

Fyrsta vor Huggun maa vera Dæme HErrans Christi, og allra Heilagra, sem hafa maatt lijda pad sama: So hefur pad geinged til fyrer vorum Endurlausnara, sem er vort Hofud; par hefur eingen Hormung, eingeñ Kross, Eingen olucka vered so mikel og grim, ad menn hafa ecke arnad og oskad Drottne vorum JEsu Christo hennar, meinande hañ være alls ills pusundfalldlega verdugur. Hvernen gieck pad til fyrer Moysi, sem var hinn meste Spaamadur, um hann vottar

Rit=

Ritningen. Num. 12. Ad hann hafe vered næsta hoogvær madur, framar odrum a Jordunne, munde hann ecke verda fyrer jamaslags Okiorum? Um David er augliooſt, ad hañ hafe a ſijnum Dogum vered ſo ſem annad Hæfe, til hvers hartnær allar Twngur i Landenu hafa ſkoted ſijnum Mordpijlum: Mijner Oviner nijda mig daglega, ſeger hann, og þeir mig ſpotta, ſveria uñ mig. Pad er, þeir bryxla mier uñ mijna Ogiæfu, og þeim ſem þeir vilia illa, oſka þeir ad verde ſem eg, eda þeir oſka, ad mier mætte gaanga, ſem þeim allrá argaſta og oluckuſamaſta manne i Heimenum. Hverſu var Job plaagadur, jafnvel af ſijnum Vinum, med þeirra Twngum: Heilagur Daniel hitte einnen fyrer falſkar Twngur, ſem komu þvi til vegar, ad honum var kaſtad i Leona Grøfena. Gief nu giætur ad ſoddann Epterdæmum, minn Brooder og Syſter, og þeink uñ þau i þeim Oſſooknum, ſem þw verdur ad lijda: Þetta er ſu nærſta Huggun, til hverrar menn kunna fyrſt ad grijpa i ſoddann oluckn, ad marger Heilager hafa orded ad gaanga þeſſa þraungu Gøtu; þw ert ecke einn a þeſſum Vegenum, þinn Endurlauſnare HErrann Chriſtur er hinn fremſte i flocknum, og eiñ Phariſæare geingur bakepter honum, og er ad ſpotta hañ: Moſes geingur þar næſt, Kore og Abirams ſelſkapur filger

filger honum epter med Haadungar Ordum: David fetar og einnen þennann Veg, og hiner epter honum med Bolve og Illyrdum; og so framvegis. Menn meiga ecke med Gaaleise horfa a þesse Dæme þeirra Heilogu, helldur a þad ad skie gaumgiæfelega, so ad vier af þeim lærum Hoogværd og Þolennmæde i vorum Þreingingum: Hvernen kynnu menn ad vita, hvad Þolennmæde og Hoogværd være, ef þeir hefdu eingum ofsooknum mætt: Þar fyrer skal madur taka sinn Kross uppa sig þolennmoodlega og filgia Christo epter. Þad er Riett-Christelegt og vorre Trw sam hliooda, ad madur hefne siin ecke siaalfur, edur giallde Lastmæle a mote Lastmælum; helldur fele þeim a hendur siin maalefne og Hefndena, sem dæmer riettferduglega, hverium þær vondu Twngur hlioota Reikningskap ad standa af hveriu onytiu Orde, og mun þad auka þeim nooga Hrædslu; þar fyrer heyrer hefnden Gude til, hann kann best ad betala hverium einum. Hyra til Drottens JEsu Christi, hversu ad hann var so sem saklaust Lamb til slaaturs leidt, og lauk ecke upp siinum Munne. Af epterdæme Heilagra manna hofum vier einnen ad læra, hvad fyrer Læknesdoom þeir hafa sierdeiles brwkad i giegn munnum o-gudlegra: Þeir hafa beded, bølve þeir, þa blessa þw,

seger

seger David i Psal. 109. Soddann greiner finnast allvijda i Psalltarenum. Hefur ecke David hlyft sier med Bænenne, so sem ødrum Jaarnmwr a mooteLygetwngum illra maña? Nær menn skioota Pijlum ad einum Koparmwr, þa hrøckva þær til baka, og giøra þeim siaalfum skada, sem þeim skutu; eins lijka fellur Lygen og Haadungen þeim yfer Høfud, sem henne utspya þar fyrer stendur so i Psal.37. Þeirra Sverd gaange inn i siaalfs þeirra, Hiarta, og þeirra Boge breste i sundur.

Þessu kiemur Bænen allra best til vegar: Þvi þegar madur bidur a moote einne ligafullre twngu, þa er þad so sem stryds vopn a moote henne, eins og Davids slaanga a moote Goliath, ellegar Stafur Moysis i giegn þeim Egyptsku Galldra mønnum. Hier stryda Andar hverier a moote ødrum; Bæn þess trwada, sem kiemur af Heiløgum Anda, og Lygen, sem hefur siñ Uppruna af Dieflenum, og þo verda ummsijder, þeir Diøfullegu Egyptalands Høggormar uppsvelgder af Mosis Staf, þad er med Bænenne. Þad er og ein agiæt og ypparleg Huggun a moote øllum Falsmunnum, þegar eitt fromt Hiarta, verdur so offtiokt og onaadad af Diøfulsens jakthundum, bakmaalugum Lygetwngum, sem einn Hiortur; ad þad skundar þa ad brunne Heilagra

agra GUds Orda, og svalar sier af hønum; þvi þar talar GUd vid oss næsta vinsamlega, og seger. Matth. 5. Sæler erud þier nær Meñerner hallmæla ydur, og Ofsookn veita, og tala i giegn ydur alla Vondsku, fyrer minar saker, þo liwgande, fagned þier og vered glader, þviad ydar Verdkaup er nooglegt a Himnum. J þessare einne Maalsgrein er innefallenn Prefolld Huggun, Heill, Ummbun og Glede. Hver skyllde þa ecke med goodu Giede vilia ummbera tijmannlegt Spott og Forsmaan, fyrer saker þeirra himnesku Verdlaunanna? Nær þier verded spottader vegna Nafnsens Christi, seger H. Petur, 1 Pist. 2. þa erud þier Sæler, þviad Ande Dyrdarennar hvijlest yfer ydur. Pad er Mannenum gott, ad bera Oked i sijnum Ungdoome, so ad sa sie þoleñmoodur, sem yfergiefenn er, nær ed nockud yfer hann fellur, og ad hann steynge sijnum Munne i molldar dupt, og vænte uppa Vonena; og legge sinn Kinnvaanga vid þeim til reidu, sem hann slær, og þad hønum sie mikel Forsmaan tillogd; þviad Drottenn burtrekur ecke eilijflega, seger Jeremias Harmag 3.

Frammvegis skalltu þeinkia, ad Alyge og Roogburdur er nockurskonar Helvijtes grimmvidre, sem snoggalega kann yfer ad falla i Heime þessum; þvi lijka sem einn Reisande madur ma alltijd vera vidbwenn, ad utstanda Regn

Regn og Ovedur, sem uppa kann ad falla; eins lijka maa hann, sem ummgeingst i Heime þessum, vera jafnañ hræddur fyrer mootgaangsens Ahlaupe, so ad Gllds Søfnudur kallast þessvegna hia Es. i 54. Sa aume og yfergiefne, fyrer urann Huggun, yfer hvern ad geingur allslags Vedurlag: Er þad nockud ad undra, þott einn Reisande madur hitte fyrer steipe regn og fwlvidre þess a mille? J dag mier, a morgun þier. Og med ødru mootlæte og Hretvidre, sem menn verda ad reina, þa er og so Baktal og Hneixle: Heimurenn hlytur endelega ad hafa eitthvad handa a mille, med hveriu hann fremie sitt Apaspil. J dag hefur hann þig fyrer narra, a morgun einn annann; so bleipur þar þa hver madur ad, og fœrer soddann einn mann um̃ kryng a Lygatorgenu, þar til þeir hafa svalad sijnu hreckvijsa Giaalyfe, og nær þeir hafa loged a einn sier til leidinda, þa taka þeir til ad svijvirda einn annann; og vilie nockur standa hier a moote og lyda aldeiles ecke neitt af Heimenum, þa giører hann lijka sem sa stungenn verdur af einne Bijflugu, hleipur þvi ad Bijstocknum i Bræde sinne, og keirer hann um̃ koll, hvar fyrer ad allar Flugurnar i einum Hoop giøra ad honum Adsiwg, og stynga hann med sijnum Broddum.

Mar-

Margur er sa, sem ecke vill unmbera lijted Baktal og a-austur, hann orsakar sier þar med laangtum stærre Offsookn og Hugar hrelling. Vond twnga er lijk þvi sem sakt verdur um Vatns-ormenn Hydram, ad ef madur hoggur af hønum eitt høfuded, þa vaxa þar ut aptur ønnur Siø; þvi vilier þw med Magt dempa eina Lijgefulla Twngu, þa egner þw upp a moote þier Siø adrar verre. Sa sem hefur lært þa Konst, og æfer sig i þvi, ad giefa sig ecke ad hverium Pvættinge, og verda ecke strax oþolennmoodur, þo ein Floo kunne ad stynga, hann, eda einn Hundur ad geya ad hønum, hann aflar sier med soddann Umburdarlynde, roosemdar bæde uppa sal og Lijf. Enn skicke hann sier ødruvijs, þa eikur hann sier mædu a mædu ofann: Þetta er swrietta Adferd til ad yfervinna sijna Ovine; enn þeir sem ei vilia þessu giegna, verda ad vera i sijfelldu Strijde, og hlioota alltijd ad hafa sitt Sverd a lopte: Þar eru og opt og tijdum sierdeiles orsaker til, hvarfyrer GUd lætur ein plagast af vondum og bakmaalugum Lyge-twngum, so ad David vottar þessvegna um Simei a þennann haatt. . Drottenn baud hønum þad, bølva þw David. 2. Sam. 16. Hvar fyrer giorer GUd soddann? Til þess ad vier stærum oss ecke af þeim Gaafum, sem hann

hann hefur veitt oss, helldur lærum ad fram-gaanga lijtelaatlega, og vera Froomer og Hoogværer hver vid annann: Drottenn, seger David, hefur sagt þad til Simei: Meiningenn er sw: Þetta er komed fra Drottne: Hann wtheller foracktun yfer Hofdingiana, og veiker krapt þeirra sterku. O! Gode GUD og Himneske Fader! Hvad orannsakannleger og undarleiger eru þiner Doomar? Hollde og Bloode er þad Særing, ad lyda Forsmaan, ad mæta Lastmælum og Haadungum; ollum er þad af Naattwrunne inngrooed, ad vilia vera i miklum Heidre, hallda af siaalfum sier og hafa Virdingar hia monnum; og þad er vor Siaalfs Elska, sem daarar oss þannig; Þad var Lucifers og Adams olucka, ad þeir fyrer Siaalfs Elsku og eigenn Æru mistu GUds Elsku, og þad Eilijfa lijfed. So þeinker þa GUD med siaalfum sier; jeg vil senda eina lyge twngu yfer þig, sem Satan yfer Job og Paulum, hwn skal vera þijn Svipa, þijn Plaaga, þijnn Diofull, sem skal sla þig med Knefum, og þw skallt læra ad vera Audmiwkur: GUd hlytur med margtslag ad reina til vid oss, so hann hallde oss i Audmyktenne, og dempe og deyde Drambsemena i vorum Hiortum, uppa þad vier skulum ecke lenda i Lucifers Selskap. GUd er so giæskurijkur,

og trwfastur, ad hann snijr ollum þeim skada og Olucku oss til gooda, sem vondar Lijgetwngur vilia oss medþvijnga: Sa o-gudlege heimur asetur ad giora oss skada þar med, enn GUd snijr þvi oss til Velferdar. Nadran hefur ad sonnu i sier næsta bannvænt Eytur, enn þar af kann þo ad tilreidast þad Lækningsmedal, sem kallast Theriac: Aller hluter hlioota ad verda þeim til besta, sem elska GUd; hann kienner oss fyrer illmælenn og alased, þad allra hædsta Kiærleikans Verk, ad bidia fyrer vorum Ovinum, sa sem þad kann riettelega ad giora, hann er þvi nær uppstijgenn i þa hædstu Kiærleikans Troppu, og er ordenn miog vel æfdur i þeirre edla Dygd, hañ hefur feinged Hiartalag og Giedsmune Christi, er ordenn eins sinnadur og hann var, hver ad sagde: Fader, fyrergief þeim, þeir vita ei hvad þeir giora. So skal og hver Christenn madur af Medaumkunarsamlegre Elsku bidia fyrer sijnum Ovinum. Sw riettа Elska aumkar sig einnen yfer sijna Fiandmenn, jafnvel þo madur vite, ad þeir sieu laangt fra Gude og Christo, og Diofullenn sie i þeim: Þar fyrer, þegar vier siaaum eda heyrum soddann Lygemunna, þa skulum vier helldur aumka oss yfer þa, eñ reidast þeim, þvi þeir eru ecke af Gude, helldur Fodurnum

Fian-

Fianda. Þetta er orsøken, hvar fyrer vier eigum ad bidia fyrer Ovinum vorum, ef þeir eru annars þess slags menn, ad þeim kunne hiaalpad ad verda, so ad þeir verde ecke ad eilijfu Diøfulsens Þy og Þrælar.

GUd brwkar offtlega eitradar og lygegiarnar Twngur til Velferdar sijnum Børnum: Giefum giætur ad Joseph; Gen. 39. Hefde ecke sw vonda Twnga þeirrar lausslaatu Kvinnu, og hennar Lygemunnur komed hønum i Myrkvastofu, þa hefde hann alldrei komest til slijkrar Upphefdar: Hefdu ecke slijkar falskar Twngur offookt so Mosen, ad hañ vard ad flya wr Egiffta-lande i Madian, Ex. 2. og 3. þa hefde GUd ecke opennberad sig fyrer hønum i þeim breñande Þyrnebwsk, þegar hañ vaktade Hiørdena hia Fiallenu Horeb. 1. Sam. 22. 9. Hefde ecke Doegs bakmaalug Lyge-Twnga so haturlega sneidt uppa David, þa hefde hañ ecke so marga dyrdlega Psalma diktad: Bakbytarans eitrad Munnslapur hlaut a moot allre von ad snwast David til hins besta. Dan. 6. Eins lijka maattu Hofþienararner a þvi Persiska Slote, med sijnu illgiornu Baktale færa Danielem i Leonagrøfena, so ad GUd kynne ad sijna sitt Almætte a hønum; og urdu þeir vondu og følsku Munnar Daniel ecke utann til Upphefdar.

ar. Esth. 7. Haman villde med sinne Bannvænu Twngu myrda Mardochæum, og raada hañ af Dogum; hañ villde hafa laated heingia hañ a einu trie; eñ Gud snere þvi so undarlega, ad sw brugg-giørd vard Mardochæo til Æru og Upphefdar, Eñ Haman maatte siaalfur haanga a þvi sama trie. Vertu þess vegna stilltur, miñ Brooder og Syster, i Auglite Drottens, hann mun þitt Riettlæte hier framleida, sem Lioos, og þinn Riett sem Middeiged: Psal. 37. Laattu þier ad eins þar um hugad vera, ad þw hafer Gud fyrer Vin: Þvi þegar nockurs Mans Veger þocknast Drottne, þa giører hann einnen hans Ovine til frids vid hann, Prov. 16. Þw maatt þar um oefadur vera, þott Heimurenn nyde þig, og hnidre þinum Heidre, þa sier Gud þad, og endurgielldur þier aptur Goodu, epter þvi sem hañ seger i Psal. 91. Hann hefur Lijst til min, hann þecker mitt Nafn, jeg vil hønum utryckia, og han vegsamlegann giøra. Item i Psal. 84. Drottenn mun giefa Naad og Dyrd.

Þad er og einnen stoor Huggun, ad Gud hefur allra manna Hiørtu i sijnum Høndum, so sem þar stendur i Psal. 33. Ut af sijnu volldugu Tignarsæte lytur hann yfer alla þa, sem a Jørdu bwa; hañ hneiger allra þeirra Hiørtu, hann hyggur ad allra þeirra Verkum.

um. Item i Psal.41. Drottenn mun ecke yfergiefa hann i valld sinna Ovina. Vier siaaum þad optlega, ad margann grypur so Reidenn, ad hann sparar eckert illt ad hafa i frame vid siñ Naawnga, med grimdar Offa; bæde i þvi ad liwga a hann, forraada hann, og vestu Heitingar vid hann ad hafa. Enn innann stundar hefur hann feinged sinna skipte. Þad skiedur og stundum, ad Omilldur kiemur med vondu Giede til þess Gudhrædda, og asetur sier honum illt ad giøra; enn þegar adfram kiemur, kann hann ecke ad snerta eitt Haar a hans Høfde, og ma þar ad auke lwta i lægra hallde, og bidia forlaats: So sem liooft er af Historiu Forfodursens Jacobs, þvi þa Laban var næsta gramur uppa hann sagde GUD til hans; *vara þig, ad tala ecke nema vinsamlega vid hann*, og hann þorde ecke helldur annad ad giora: Gen.31. Esau hafde ecke helldur gott Ord til Jacobs; eingu ad sijdur, þegar hann kom til hans, fiell hann um Haals honum, og kiste hann graatande. Gen.33.

Ad sijdustu er þad Art og Eigennlegleike einnrar Lygetwngu, ad hwn fær skiootlega frammgaang, og verdur vel medteken um stundarsaker, so ad hver madur maa undra sig þar yfer; eñ sa Illskunar Mootþrove hiadnar

nar skyndelega, og verdur ad eingu. Vegsemd þess o-gudlega varer ecke leinge; Piipann fær snart eitt annad Hliood, sa hreckvyse Munnur og Twnga verda fliootl til skamar og vanvyrdu, þegar sa Ogudlege tekur til ad falla, og sneiptur ad verda, þa geingur hann hraparlega til Gruns: Hañ er sem Elldslogenn, hver ed blossar haatt upp i vedred, en fellur snart nidur aptur, og slocknar wt af; þvi Glld er Lygenne yferburda Reidur, med þvi hann er siaalfur Sannleikurenn, og kañ þess vegna ecke ad þola hana til leingdar; Hvar af þad kiemur, þegar Bakbiitarar, Haadwngarmenn og Lygarar meina, ad siin illskupor sieu komenn a þa hædstu Troppu, og hver madur er hræddur fyrer þeim, þa kiemur Glld doomur undarlega og hastarlega yfer þa, so ad þeir følsku Munnar verda mællauser, þeir ed tala so hofmoodugleg og forsmænarlega. Þar fyrer seger Esaias i 33.Cap. Vei þier, sem høndlar falsklega, þvi nær Þw hefur giørt eirn enda a þvi ad høndla falsklega, þa skulu menn høndla falsklega vid þig aptur a moot.

Stuttlega ad segia: Spiira þeirra Ogudlegu skal ecke hviila yfer Hlutdeilld hinna Riettlaatu, so ad þeir Riettferdugu wtriette ecke siinar hendur til Raanglætesens. Þar fyrer stendur so i Psal. 140. Illur Munnur skal

skal einga lucku hafa a Jördunne: Eitt vondur illskufullur Madur mun fordrifenn og wtreken verda.

Huggunar Greiner wr Psalmum Davids, a moote Ovinum, Haadwngarmonnum og Lygetwngum.

Psal. 3. Enn þw Drottenn ert mitt Hlyfdar-skiölldur, og sa sem mig til Heidurs setur, og hann sem mitt Høfud upphefur; Rys upp Drottenn og hiaalpa mier minn Gud, þviad þw slær Høgg vid Vanga allra minna Ovina, og i sundurbrijtur Tennur Ogudlegra.

Psal. 4: Pier Herrar; hvar fyrer elsked þier so Hiegoomann og Lygarnar giarnann? vidurkienned þo, ad Drottenn breiter undarlega vid sijna Heilaga, Drottenn mun bænheira mig, þa eg kalla til hans.

Psal. 5. Pw fyrerfer øllum Lygemælendum, Drottenn hefur andstigd a þeim Bloodgijrugu og Følsku: Pviad i þeirra Munne er ecke Sannleike, þeirra Barke er vijd openn Grøf, med sijnum Twngum handtiera þeir svikſamlega: Laat þvi Gud, dom a þa ganga, so þeir falle fra sinum asetninge: Laat þa alla glediast meiga, sem uppa þig vona, eilijflega laat þw þa fagna, þviad þw verndar þa, og laat þa glada vera i þier, sem þitt Nafn elska; þviad þw Drottenn blessar þa hina Riettlaatu, þw Coronar þa med þinne Naad, so sem med einum Skyllde.

Psal. 6. Aller mijner Ovíner munu sijn skammast, og miøg skielfder verda; um Hæl snu-

snwast og til Skamar verda migg snarlega.

Psal. 7. Drottenn Gud minn, a þig vona Eg, hiaalpa þw mier i fra øllum mijnum Ofsooknurum, og frelsa mig, so ad þeir grype ecke sem Leon Saalu mijna, og i sundursliite, fyrst þar er ingenn Frelsare: Siaa: Hann hefur illt i sinne, hann geingur med Ogiæfuna, og mun fæda Lygena. Grøsena hefur hann grafed og opnad, og i þa Grøf fiell hann sialfur, sem hann giørde. Hans Olucka kome hønum i Koll, og hans Rangliæte falle yfer hans hvyrfel.

Psal. 17. Vardveit mig so sem Siaaldred Augans, under Skugga Vængia þinna vernda þw mig, fyrer þeim Ogudlegu, sem sturla mig, fyrer mijnum Ovinum, sem stunda epter minne Saalu allt um kring.

Psal. 18. Eg vil lofa Drottenn og akalla hann, þa mun eg frelsadur verda fra mijnum Ovinum, i minne Angist kalla eg til Drottens, og hroopa til mijns Guds, þa bænheirer hann mijna Raust, af sijnu Heiløgu Mustere, og mitt Akall kiemur fyrer hans Augsyn, hønum til Eirna.

Psal. 27. Drottenn er mitt Lioos, og minn Heilsugiafare, fyrer hverium skal eg ottast? Drottenn er minn Lijfsens Kraptur, fyrer hverium skyllde eg hræddur vera? Þar fyrer þo ad hiner Hreckvijsu vilie til vid mig, til ad eta mitt Hollð, þa munu þeir þo asteita sig, og nidur hrinia: Nær ad Herenn setur sig upp a moote mier, þa bløskrar þo ei mijnu Hiarta: Nær ad Strijd hefst upp a moote mier,

mier, þa treiste eg a hann, þvi hann skyler mier, i sinne Tialldbwd a Olucksdeigenum, hann felur mig leinelega i sinne Tialldbuud, og hefur mig uppa Biarged: Vijsa mier Drottenn þinn Veg, og leid mig a riettann Gotustyg, vegna minna Ovina: Ofurgief mig ecke i villd minna Ovina; þviad falsvottar standa a moote mier, og giøra mier raangt til an Blygdunar; enn eg trwe þad þo, ad eg mune siaa Goodsemd Drottens a Lande Lifande manna: Byd þu Drottens, vert hraustur, þitt Hiarta sie oefad, og byd Drottens.

Psal. 31. Eg vona a þig Drottenn, og sege: Þu ert minn GUD, mijner tijmar eru i þinne Hende, frelsa mig af hende Ovina minna, og i fra þeim sem ofsækia mig Maallauser verde þeir Fallsfullu Munnar, þeir ed hardlega, hofmoodugt og Forsmaanarlega tala a moote þeim hinum Riettferduga: Hversu mikel er þijn Goodgirne, hveria þu hefur geimt þeim sem þig ottast, og veiter þeim sem treista a þig i manna Auglite? Þu byrger þa Heimulega hia þeir, fyrer hvers mans Pack, þu felur þa i þinne Tialldbwd, fyrer þeim Prætusømu Twngum.

Psal. 35. Verde þeir sem sis fyrer Vinde, og Eingell Drottens hann burthrinde þeim, þeirra Vegur verde myrkur og haall, og Eingell Drottens ofsæke þa.

Psal. 37. Eige skalltu Gramur vera þeim illu, vertu ecke Øfundsamur yfer þeim Illgiørdamønnum, þvi so sem Gras munu þeir verda


skiøt=

skiootlega Upphøgner, og lijka so sem þær grænu Jurter munu þeir uppvisna: Hinn Ogudhrædde ummsitur hinn Riettferduga, og nijster sijnum Tønnum til samans yfer hønum, enn Drottenn, hæder hann, þvi hann sier ad hans Dagur mune koma: Hiner Ogudlegu ryckia Sverdenu wr slijdrum, spenna upp sinn Boga, so ad þeir felle hinn Faatæka og faaraada, og nidurdrepe hinn Riettferduga: Enn þeirra Sverd munu gáanga inn i siaalfra þeirra Hiarta, og þeirra Boge bresté i sundur: Hinn Ogudhrædde ummsitur þann Riettferduga, og leitast vid ad deyda hann; enn Drottenn yfergiefur hann ecke i hans Høndur, og fordæmer hann ecke, þa hann verdur dæmdur: Eg sa einn Ogudhræddann, sa var Traassugur, og hann þande sig wt, og bloomgadest sem Laarberiatrie, og þa mann gieck þar fram hia, siaa! þa var hann i burtu; Eg spurde ad hønum, enn hann fanst hverge.

Psal. 38. Eg hlyt ad vera sem Daufinge og heyra ecke, og so sem Maallaus, sa ed ei upplykur sijnum munne, og eg hlyt ad vera so sem sa madur, sem ecke heyrer, og sa sem eckert mootmæle hefur i sijnum Muñe: Þviad þar til em eg giørdur, ad eg skule Motlæte lyda, og mijn Pijna er jafnann fyrer mier.

Psal. 39. Eg em Maallaus og hlioodur og eg þeige uñ Gledskapenn, og minn Harm hlyt eg med mier ad mellra. Eg vil þeigia og mijnum Munne ecke upplwka, þvi þw munt þvi vel af stad koma, þviad egem bæde þinn Pijlagrijm-

grijmur, og so þinn Borgare, so sem aller mijner Fedur.

Psal. 55. Varpa þw uppa Drottenn þinne Ahiggiu, og mun hann þier atvinnu veita, og ei mun hann hinn Riettlaata æfennlega laata Oroo hafa. Enn þw GUD munt steipa þeim nidur i þa diwpu Grøfena; hiner bloodgiørnu og flaaraadu munu ei fa Æfe sinna Lijfdaga haalfnad; enn a þig Drottenn vil eg vona.

Psal. 57. Myskuna mier GUD, myskuna þw mier, þviad a þig treister Saala min, og under Skugga þinna Vængia hefe eg mitt Athvarf, þar til ogiæfann er ummlidenn; Eg kalla til GUDs hins Hædsta, til GUDs, sem a minne Eimd giører Enda: Hann sender af Himnum ofann og hiaalpar mier wt af þeirra Forsmaan, sem foottroda mig Sela: GUD sender sijna Myskun og Trwfeste, og hann frelsade mijna Saal fra Leons Hvolpunum; Mannanna Børn eru Elldsloge, þeirra Tennur eru Spioot og Ørvar, og þeirra Twngur haar hvøß Sverd: Upphef þig GUD yfer Himnana, og þijna Dyrd yfer alla Verølldena; vielasnør ur tilbwa þeir mijnum Footum, og nidur þrickia minne Saalu, þeir grafa Grøf fyrer mier, og falla siaalfer þar i Sela: Mitt Hiarta er reidubued, GUD, mitt Hiarta er Reidubued, þad eg synge og lof seige: Rys upp mijn Dyrd, vakna upp Psaltare og Harpa, arla vil eg uppvakna: Drottenn, þier vil eg þacker giøra a medal Foolksens, þier vil eg lof syngia a medal Pioodanna: Þviad þijn

Misk-

Miskunseme er so vijd sem Himmenenn er, og þinn Sannleikur so vijdur sem Skyenn gaanga, upphef þig GUd yfer Himenenn, og þijna Dyrd yfer alla Verølldena.

Psal. 64. Skijl þu mier fyrer Samkundum þeirra Illskufullu, fyrer Flocke þeirra Illgiørdamanna, hverier ed sijnar Tungur hvetia sem Sverd, þeir ed med sijnum eitrudum Ordum skioota til hæfes, sem med Piilum, ad þeir skioote heimuglega þa Froomu, skyndelega skioota þeir þa, an alls Otta: Enn GUd mun skindelega skioota þa, so ad þeim daatt vid verde: Þeirra eigenn Tungur munu fella þa, so ad hver sem þa sier, mun giøra Skøll ad þeim.

Psal. 71. Mijner Oviner mæla a moote mier, og þeir ed ummsitia mijna Saal, þeir bera sin Raad samann og seigia: GUd hefur yfergiefed hann, offsæked hann og gryped hañ, þviad þar er eingenn sem hønum hiaalpar: I Krapte Drottens geing eg fram̃, eg prijsa alleinasta þitt Riettlæte. GUd, þu hefur mig mentad i fra Barndoome mijnum, þar fyrer opennbera eg þijnar Daasemder; yfergief þu mig ecke minn GUd, i Ellenne, þaangad til ad eg kunngiøre þiñ Armlegg Barnabørnum, og þinn Krapt øllum þeim ed koma skulu: Þu lætur mig rata i margar og stoorar Mannrauner, og endurlyfgar mig aptur, og leider mig aptur nedann ur Diupe Jardarennar: Þu giører mig miøg Mektugann, og Huggar mig aptur.

Psal.

Psal. 121. Mijn Augu upphef eg til Fiallanna, hvadann mier kiemur Hiaalpenn; mijn Hiælp kiemur af Drottne, sem skapad hefur Himenn og Jord; minn Foot mun hann ei skeika laata, og sa ed þig vardveiter, hann sefur ecke; Siaa! hann sem vardveiter Jsrael, hann sefur ecke, og ei sifiar hann; Drottenn, hann vardveiter þig, Drottenn er þinn Skugge yfer þinne hægre hende, so ad Soolenn brenne þig ecke a Dagenn, ei helldur Tungled a naattarþele: Drottenn vardveite þig fra øllu Jllu, Drottenn vardveite þina Saalu, Drottenn vardveite þinn Utgaang, nu þiedann i fra og ad eilijfu.

Psal. 140. Frelsa mig Drottenn i fra þeim vondu møñum, varveit mig fyrer þeim Jllskufulla Lyd; þeir ed hyxa illt i sijnum Hiørtum, og daglega uppveckia Strijd, þeir hvetia sijnar Tungur sem Høggormar, Nødru eitur er under þeirra vørum Sela; Vandveit mig Drottenn fyrer hende Ogudhræddra, og geim þu mijn fyrer þeim illskumønnum, sem þeinkia minne Gaungu um ad vellta. Hiner Drambsaatu leggia Snørur fyrer mig, og breida ut Niela streinge mier til anetiunar, og egna upp Taalgylldrurnar fyrer mier a vegenum Sela: Enn eg seige til Drottens, þu ert minn Gud, heir þu Drottenn Røddminnar Graatbeidne, Drottenn, Drottenn mitt øflugt Hiaalpræde, þu ert Hlyfd mijnu Høfde i Bardaganum. Drottenn veit ecke Omilldum sijna Gyrnd, stirk ecke þeirra Motþrooan, þeir kynne ad forhefia

hefia sig þar ut af Sela: Ogiæfann, af hverre Ovíner mijner raadgastumm, falle hvn yfer þeirra Høfud; hañ mun Elldingum utausa yfer þa, medur ellde munu þa dixpt i Jørdena nidurslaa, so ad þeir stande alldrei upp: Illur munnur mun aungre Giæfu styra a Jørdunne, einn vondur illskufullur Madur mun fordrifenn og vtrekenn verda: Pviad eg veit þad Drottenn mun maalefne hins faaraada, og Riettarfare hins faatæka frammfilgia: Og hiner Riettferdugu munu þijnu Nafne þacker giøra, og hiner Froomu munu fyrer þinu Auglite blijfa.

Psal. 142. Med minne Raust kalla eg til Drottens; med Raust minne graatbæne eg Drottenn: Eg vthelle mijnu Maale fyrer Hønum og kuñgiøre fyrer hønum mijna Neid: Nær ed minn Ande er uti Anaud staddur, þa et þier ummhugad um̃ mig; þeir leggia Snørur a Vegenn fyrer mig, þar eg uppa geing: Skoda þv til hægre handar, og siaa þar vill eingenn kannast vid mig: Eg kann ecke ad ummflya, Eingenn er sa sem hirder um̃ mijna Saalu: Drottenn til þijn kalla eg, eg sege, þv ert mijn Hiaalparvon, mitt Hlutskipte a Lande lifande manna. Higg ad minne Kvinan, þviad eg er næsta miøg þvijngadur, frelsa mig i fra mijnum offsøknurum, þviad þeir eru mier Ofmegtuger: Hiner Riettferdugu safnast til mijn, nær ed þv giører mier til Gooda.

# Cap. XVIII.

## Hvernen vier eigum ad nidurkefia Holldsens Vellystingar, med Hrygd og Kvol HErrans Christi.

Matth. 25.

Min Saala er hrigg allt i Daudann.

SA Pridie Partur Krossens og Hørmunga HErrans Christi, er falenn i þeirre stooru Hrigd, og þeim oseigiannlegum Kvølum, sem hann leid; þvi þar hans allra heilagasta Saal var af liioose Guddomlegrar Þeckingar og Vijsdooms, fyrer þa personulegu Eining uppfyllt og upplyst, þa saa hann strax fyrer vondsku mannlegs Kins, og hvad hann vard ad lyda, og var þess vegna sijfellega sorgfullur og stwrande; og þess ypparlegre, hreinne og saklausare, sem siu mandomlega naattwrann var i HErranum Christo, þess meir vard hann ad finna til Harmkvælanna, Straffsens og Angistanna. Hier uppa høfum vier til Bevijsingar þær andlegu og iñre pijsler Saalarennar: Þess ypparlegre sem Saalen er Lijkamanum vegna Odaudlegleikans, þess þyngre og grimmare Kvølum er hwn underorpenn: Þar fyrer var HErrann Christur alldrei

alldrei gladvær uppa siaalfs siins biite: Eñ þad einasta var hans glede, og hiartannlegt epterlæte, ad menn þeckte riettelega sinn himneska Fodur, dyrkudu hann, og ad hans Guddomleg Verk opennberudust. Hier fyrer lesum vier hia Luc. i 10. Cap. ad hann hafe orded gladur i Anda, þegar þeir 70. Læresveinar komu aptur, og kunngiørdu hønum, ad Andarner hefdu og so vered þeim undergiefner.

Med þvi hann visse allt hvad hann atte ad liida, og af hveriüm; sem var af hans eigeñ Foolke; þa hefur hann ecke kunnad annad, enn ad finna til siifelldrar Hrigdar og angurs i siinum Huga; og þvi mier sem leid ad hans Piinu, þvi hrigvare var hann; so sem hann giefur ad merkia hia Luc. i 12. Cap. segiande: Eg hefe ad skyrast med einne Skyrn, og hversu þreingiunst eg, þar til þad fullkomnast? Og þegar tiimenn kom, sagde hann: Miin Saala er hrigg allt i Daudann. Þetta var hans allra stærsta Hrigd og Kvalræde, sem og einnen orsøk þar til, ad hann sveittest bloodugum Sveita: Hans saalar angist og liikamans Kvøl, sem hann wtstood, kann eingenn mannleg twnga ad wtseigia; þvi Synden, vegna hverrar hann sliikt leid, er ein oendannleg og o-utsei iannleg Vondska. Syndarennar fullkomenn Betalingur og Straff, hefur orsakad Guds

GUds Syne uppa Saal og Lijf, soddann oseigiannlega Kvøl og Angist, sem einfalldur Madur kunne med eingu moote wtadstanda. Hans seikna Kvøl og Pijna kann og einnen þar af ad aliktast, ad hann bar allar Heimsens Synder, og leid þess vegna ecke alleinasta fyrer þær Synder sem drigdar voru, helldur og einnen þær, sem drijgdar mundu verda allt til Heimsens Enda.

So margar synder, sem aller menn, og hver einn fyrer sig, hefdu framed, so mikla Kvøl og Angist leid HErrann Christur, og so stoor sem Synden er, so stoor var og einnen hans Pijna, og hann leid fyrer hveria eina Synd oteliannlegar Kvaler, og þess vegna bad hann so a fiallenu Oliveti: Fader ef þad er møgulegt, þa takest þesse Kaleikur fra mier. Hann fann og einnen til oseigannlegra Kvala, af þeim fullkomna Kiærleika, er hann hafde til sins himneska Fodurs, sem var af Monnunum til reide reittur. Þad sem einn elskar ecke, fyrer þvi ber han einga Sorg edur mædu, enn þad hann elskar, þad kann ad auka hønum Sturlun: Nu med þvi HErrann Christur elskade sinn himneska Fodur af insta hiartans grunne, þa særdest hans Hiarta, og hann vard þar af oseigiannlega Hriggur, ad GUd hans himneske Fader var med Syndunumm so mik-

elega Stygdur; og þvi seger hañ so i Psal. 69. Vandlæring fyrer þitt Hws, hefur eted mig, og smaaner þeirra, sem þig smaana, falla yfer mig. Jafnvel Straf allra vorra Synda til samans, hefur ecke auked honum so mikled Kvalræde, sem þetta, ad hañ sem ad er siaalfur Kiærleikurenn, var so mikelega med Syndenne stygdur og moodgadur, vegna Kiærleika Fodursens, sem ecke atte med riettu af nockre skapadre Skiepnu ad meidast, took Christur þad uppa sig, ad lijda þann allra Forsmaanarlegasta Dauda; Hañ leijd þa allra stærstu Kvol og plaagu, so ad hañ kynne ad utvega oss aptur aumuñ monnum Fodursens Naad og Vingan; og so mikelega sem Fodursens Kiærleike var Stygdur, so fullkomlega kinne hañ aptur hañ ad fridstilla, og vid oss Mennena ad forlijka.

So leid hañ og einnen hid mesta Kvalræde a sijnum fullkomna Kiærleika til mannlegs kins: Þvi lijka so sem hañ er daaenn fyrer alla, og bar allra Synder; So villde hann og giarnann ad aller skylldu verda Saaluholpner: Og þessvegna var honum og sierdeilislega Mannanna Jdrunarleise, stoor plaaga og þvijngun, ad hann saa fyrer þeijrra Olucku og Fyrerdæming; og ad þeir villdu ecke ummvenda sier; einkum

horfde hann a þad grimma Hatur, Fiandſkap og Haadwngar, ſem hann munde verda ad lijda af þeim, ſem hann villde hoolpna giora: Hvar yfer hann klagar i Pſal. 69. ſegiande: Forſmaanen brytur mitt Hiarta og kreinker mig: og i þeim 109. Þeir audſijna mier Illt fyrer Gott, og Hatur fyrer Elſku.

So hefur þad og einnen vered hønum orſøk til allra ſtærſtu Kvalar og pijnu, ad hann ſem var GUDs Son, var af Gude yfergiefenn. GUD kunne ad ſønnu ecke ad yfergiefa hann, ad þvi leite ſem hann var ſiaalfur GUD; eins þegar hann hieck a Kroſſenum, deyde og var greſtradur: Ecke ad ſijdur yfergaf GUD hann, epter þeirre Manndoomlegu Naattwrunne, hann hulde ſig fyrer hønum, og liet miſſa alla Huggun.

Enn framar hefur oſegiannleg Kvøl og Pijna leiged a Perſonu Herrans Chriſti þeſſvegna, ad hann var ſannur GUD: Sw Forſmaan og Haadwng ſem hann leid, var hønum þar fyrer eitt oſeigiannlegt Kvalræde, ad hwn fiell uppa alla hanns Perſonu, ſem var GUD og Madur, og gieck þvi og ſo yfer ſiaalfann GUD.

Hver kann og ad þeinkia hvada Særing ſw lijkamlega Pijnan og Kvalræded hafe orſakad hanns allra Heilagaſta og Saklauſaſta Lijkama, ad einn ſo ſaklaus, ſkiær og hreinn

edla Lijkame, gietenn af Heilogum Anda, personulega samteingdur vid þann eilijfa Guddoom, uppfilltur med GUds Anda, og alla Guddoomsens Fyllingu, skyllde þannig verda sleigenn, hwdstryktur, særdur, i gegnum stungenn, krossfestur, deiddur og drepenn: Pad var ein Kvøl, yfer allar Heimsens Kvaler, eingenn skøpud Skiepna kann hana wt ad segia. Hvad er øll vor Pijsl og Pijna ad reikna þar i moot, vier sem erum Syndarar og høfum forþienad þann eilijfa dauda og Fyrerdæming? Vier sneidum oss þo hia Krossenum, og moglum a mote hønum, þar hann er oss þo ein heilsusamleg Lækning. Vissulega skyllde sw Saal, sem elskar Christum, ecke æskia sier annara kiora og kosta i þessum Heime, enn þvijlijkra, sem Christur vor Drottenn sialfur haft hefur; og henne byriar ad hallda það fyrer stærsta Avinning i þessu Lijfe, og gledia sig þar af, ad hwn ma vera þess verdug, ad lyda med Christo.

Og þar vier vitum, ad a vegenum til Himnarykis Mune oss Hørmungar mæta, so vier þar epter kunnum ad komast til þeirrar eilijfu Dyrdar og roosemdar; þvi vilium vier þa ecke ganga a þessum vegenum med glede, um hvern siaalfur GUds Sonur hefur

geing-

geinged, og hefur ecke viliad inngaanga i sitt Ryke, fyrer utann Pijsler og Preingingar? So sem Christur af Elskunne til vor, hefur ecke hlyst siaalfum sier, helldur lided allt viljuglega fyrer vora Skulld; so skulum vier og elska hann aptur a moot, og ecke preitast i nockrum Hormungum.

## Cap. XIX.

## Hvernen vier eigum i þeim Krossfesta Christo, so sem i Lijssens Bok, ad siaa vorar Synder, GUDS Reide, GUDS Kiærleika, Riettlæte og Vysdoom.

Openb. 5. Cap.

**Og eg saa i Hægre Hende þess sem a Stolnum sat, Bok skrifada innann og utann.**

GUd Drottenn setur oss fyrer Sioner, þann krossfesta Christum, so sem Lijssens Bok, af hverium vier eigum ad læra og ydka þann allra heilagasta Vijsdoom, þviad i hønum er Ritningen, aller Spaamennenner, og Logmaaled fullkomlega uppfyllt, þar hann giørdest hlijdenn allt til Daudans, og frijde oss fra þvi hrædelega Straffe og Bølvan, sem yfer oss hieck: Hann er lijka sem sw Bok, sem ummgietyr i Openberingumm Johannis,

 ad

ad skrifud var bæde utann og innann; þvi hia Christo var bæde innvortis og utvortis fullkomen Pijna og Kvalræde.

Þar fyrer setur sa Krossfeste Christur oss fyrer siooner, vorar Synder, þeirra stærd og margfiolld: Med sijnu eymdarlegu Hroope giefur hann oss ad merkia Angist sinnar Saalar, hvar med hann betalade fyrer heimuglegar Synder vors Hiarta. Hann lætur sinn alsærda, albloodugа og vesæla Lijkama, fullann Pijni og Krankleika skijna fyrer oss, so ad vier skulum a hønum sem annare Bok lesa og þeckia vorar Synder, sem vier høfum med øllum vorum Lijkamans limum drygt.

Hier sier þw og einnen rett trwud Saal a þeim krossfesta Christo, GUDs Rettlæte, ad eckert annad Medal hafe kunnad ad taka i burtu vorar Synder og þeirra Straff, helldurenn þetta GUDs Sonar dyrmæta Lausnargialld; Þwn kann og so hier af ad alyckta, ad Mannanna Synder hafe ei maatt vera østraffadar, fyrst Sonur GUDs vard fyrer þær ad lyda.

J þeim Krossfesta Christo siaaum vier einnen þa stooru Elsku og Miskunseme vors Himneska Føđurs, hversu hann af sijnu Føđurlegu Hiarta-þele hefur kiendt i brioost um vorn Eimdar-hag, og fyrrenn vier skylldum

lenda

lenda i þeim eilijfa Dauda, Kvølum og Helvijtis Pijnu, þa hefur hans Elskulegur Sonur maatt fullnægia fyrer oss, epter þvi vier siaalfer af vorum eigenn Kroptum og Formegan, (jafnvel þo allt Mannkyned hefde fylgst ad,) kunnum þad ecke ad giera.

Hier epter ser audmiwk Saal enn lengra afram, og sier i þeim Krossfesta Christo, so sem annare Lijfsens Bok, GUds Millderyka Giæsku, hanns Vilia, hans Forsioon, Ummhiggiu, sem hann hefur haft fyrer vorre Saalar Velferd, ad hann hefur ecke taled sier neitt þwngt edur mædusamt i þvi Verke, þar til hann fyrer sijns Elskulega Sonar Kvøl og Dauda, fullkomnade allt sem þar til heyrde; þar til hefur hann eckert sparad, ad sw eilijfa Glede kynne oss wtvegud ad verda.

A þessare Lijfsens Bok HErranum Christo, siaaum vier og einnen GUds haavijsa Speke, sem fann uppa þetta Medal til vorrar Saaluhiaalpar, hvilijkt ad eingenn skopud Skiepna kunne ad upphuxa, med hveriu bæde vard fullnægt hans Rettlæte og milldeƴkre giedgiæsku; þvi so hagade sier vor Himneskur Fader i Verke vorrar Endurlausnar, ad hanns Riettlæte fieck einga Hollun, enn opnade þo Afgrunn sinnar Miskunseme, þviad Drottenn JEsus fullnægde GUds straanga Riett-

Riettlæte med sijnum Dauda, og wthellte þar med under eins yfer mannlegt kyn, flooде sinnar Mijskunar. Og lijka sem sa fyrste Adam færde ossi Bølvanena, fyrer þad hann aat af þvi forbodna Trie, so villde GUd fyrer sinn haa Vijsdoom þad so tilskicka, ad Bølvanen skyllde med Krossens Trie burttakast og Blessanen afftur giefast. Ja, GUds Vijsdooms Raad hefur þad so daasamlega nidursett, ad aller hluter endurlifnudu fyrer Blood og Dauda HErrans Christi, daudenn vard og bwrttekenn, enn oss aptur wtvegud himnesk og eilijf Farsælld; fyrer hans Forsmaan var oss afrekud eilijf Vegsemd, fyrer hanns Hrigd og Mædu eilijf Glede. Sa eilijfe Vijsdoomur þess allra hædsta, hefur þad so tilskickad, ad fyrer soddann eitt Verk, sem Heimenum þotte miøg faavyslegt, giørdust Verалldarennar Hygginde ad eingu, og fyrer soddañ faavitku epter Heimsens Doome, vard sa hædste Vysdoomur auglioos og opennber.

Hier i þessum Speigle kunnum vier og so ad horfa a Christi Hoogværd og Þolennmæde, ad hann hefur alldeilis ecke viliad hefna sijn a þeim sem hann kvølldu og spottudu, helldur bad hann fyrer þeim sinn Himneska Fødur midt i sijnum saarustu Pijslum, ja hann liet sitt lijf viluglega fyrer þa og þeirra Synder.

Ein trwud Saal sier og einnen i þeim Krossfesta Christo, þa allra stærstu og diwpustu Audmykt, þvi eckert Lijtelæte kunne stærra ad vera, enn ad Drottenn Dyrdarennar hefur vilinglega fyrer utann alla Tregdun og Oþolennmæde wtstaded þann forsmaanarlegasta Dauda.

Vier kunnum þad og einnen ad nema af Christi Pijnu og Krossens Dauda, ad hans Forþienusta er bæde Endurlausn fra Helvijte og lijka Innleidsla i Paradys bæde Fridþægging þess allra hædsta, og lijka Yfervinning þess grimma Diofuls; bæde fullkomenn Betalingur fyrer Syndena, og lijka wtvegun þess fullkomna Rettlætis. So sier þa trwud Saala, ad sa Krossfeste Christur er sw rietta Lijfsens Bok, og sa hreine Speigell GUds eilijfa og obrigdannlega Sannleika af hverium vier skulum læra rietta Trw og Christelegt Lijferne, so framarlega sem vier vilium vera lifande enn ecke dauder Limer a lijkama vors Endurlausnara, ja so framarlega sem vier vilium, ad hans Lijf og Daude verde kroptugur i oss, og fære lifande Avexte.

## Cap. XX.

## Um Verkun og Naudsin Bænarennar i þessum gudlegu Umþeinkingum.

Lofk.

## Lofkv. 3. v. 2.

Eg leitade um̃ Noottena ad þeim sem mijn Saal elskar.

Sw rietta Þecking GUds lifanda kann ad faast med yfervegan hans H. Ords, eñ þo sierdeilis þeirra hluta sem i Ordinu eru upp-teiknader um HErrans Christi, saklausa og heilaga Lijferne, sem a ad vera so sem vor Lærdoms Bok, i hverre vier eigum̃ ad ydka oss Daglega, so vier kunnum ad naalægast vorn gooda GUd alltijd meir og meir.

Eñ soddañ Ummþeinking andlegra hluta og Hreising til GUds med Hugskotenu, kann ecke adskie nema fyrer eina andagtuga, iduglega, trwada og admiwka Bæn, þvi fyrer utann Bænena, kann madur ecke GUd ad finna: Og Bænen er þad Medal fyrer hvert Madur leitar epter Gude og finnur hann. Þar fyrer er þad stoor Naudsyn ad læra ad þeckia Naatt-wru og Eigennlegleika Bænarennar, og sier til hennar iduglega ad hallda, og i henne sig ad æfa.

Eñ sw retta Bæn er ecke alleinasta Muñ-sens Ræda helldur miklu framar Hugskotsens-Hiartans, og allra Saalarennar Krapta Upp-hafning til GUds, so ad Paall þess vegna seger: 1.Cor.14.v.15: Jeg vil bidia i Andanum̃. Þad er gott ad madur les og bidur med Munn-

enum,

enum, nær hiartad hreifer sier upp undereins, og þess Andvarp hid innra er samhlioода vid utvortes rædu Munnsens, sem er harla naudsynleg og gagnleg þar til, ad þaankar vors Hiarta flöckte ecke eda reike hingad og þaangad, helldur kunne ad hallda sier vid nockud vijst; enn þo sierdeilis ad vier fyrer Rædu Munnsens kunnumm ad uppvekia oss til Andaktar, so ad vier i Trwnneyservegum Andaktuglega þad GUDs Ord, sem vier annadhvert lesum einsamler fyrer oss sialfa, ellegar med odrum, og ad vor Saal og Ande kunne þar med ad hrærast og til GUDs upp ad liptast, og ad hallda i sonarlegu Trauste eitt Samtal vid hann.

Enn sie Bænen ecke annad enn Munnflapur, þa er hwn Vidurstiggeleg fyrer Gude. Hiartans Þanckar og andackt er Lijf Bænarennar. Sanner tilbidiendur, seger Christur Joh. 4. Munu bidia Födurenn i Anda og Sannleika, og Paulus seger, ad þeir trwudu hroope fyrer Andann abba, Kiæri Fader. Þar fyrer mæler og Asaph þannig i Psal. 77. Jeg tala med mijnu Hiarta, minn Ande skal rannsaka þad. So bidur og David i Psal. 19. Drottenn laat þier þocknast ordrædur mijns Muns og ꝛc. Og i þeim 38. stylar hann uppa þad sama segande: Drottenn fyrer þier er øll mijn Gyrnd, og mijn Andvarpan, er ecke hulenn fyrer þier. Um Bæn Aunnu Kvinnu

Elkanæ

Elkanæ stendur skrifad, ad hwn hafe wtaused sijnu Hiarta fyrer Drottne, hwn hafe talad i sijnu Hiarta, og hennar Varer hafe alleinasta hrærst. Og skulum vier vita, ad sw innre og retta Bæn, kann ad skie fyrer utañ Rædu Munnsens og Twngunnar, og þess vegna seger Paull Rom. 8. ad Andenn briootest sialfur framm fyrer oss, edur tale fyrer oss til hins besta, med outseiganlegum Andvørpunum.

Þar fyrer þegar þw villt bidia riettelega, þa maattu bidia af øllu Hiarta, og aller þijner Þankar hlioota Bænenne ad filgia, annars misser þw Bænarennar Avøxt og nitseme: Þw maatt ecke bidia med haalfu, helldur heilu Hiarta, og nær þw høndlar med adra wtvortes hlute, þa hlytur þw med þad slag ad utriette þa, ad Gyrnd þijns Hiarta slitne ecke fra Gude a medann, þad verdur þier til baga, ef þw af øllu Hiarta giefur þig nockurn Tijma til jardneskra hluta. Miklu framar skyllder þw andvarpa til Drottens oaflaatannlega, og setia frammfyrer hann þijna Naudsyn. Enn allt soddann skalltu giøra Gude til Dyrdar, og leitast þar med vid, hønum ad þoknast, og hafa hann alltijd hia þier i þijnu Hiarta. Nær þw etur eda dreckur, eda giører adra wtvortes Hlute, þa ma ecke allt þitt Sinne, Gyrnd og Epterlaangan snwast þar til; helldur

dur skal þijn stædsta Gyrnd, Unun, og Eptꝛ
erlæte vera hia Gude alleina, so ad þw hafer
Tillit til hans i øllum hlutum, leiter hans
fram yfer alla hluti, og hafer hann framar
øllum hlutum i Huganum, laater þig alltijd
laanga til hans fremur øllum hlutum, og
hallder ecke af neinu eins og hønum, hverke
a Himne nie Jørdu; og hann a advera þitt
hiartans Traust og Hlutskipte framar øllu
ødru. Og þvi meir sem þw a þennann haatt
þraaer og stundar epter Gude, þvi liuflegre
og yndeslegre mun sa allra Hædste vera þijnu
Hiarta, og þvi framar muntu upptendrast af
Elskunne til hans, þvi betur muntw og so
þeckia GUd, og þvi hæfelegre muntw og so
verda, til ad faa Hlutdeilld i þeim hædsta og
ypparsta Gooda; og þw munt i yfer naatꝛ
twrlegann maata finna hann i þinne Saalu,
so sem þann kostulegasta hlut, hvers giæde
eingenn kann wt ad segia, og so sem þa dyrꝛ
mætu Perlu, er Kaupmadurenn fann, og
sellde allt þad hann atte, til þess ad hann kynne
hana ad eignast, og hennar æfennlega ad
niota. Bænen mun verda þier þess yndisꝛ
legri, sem þw æfer þig framar i henne; Ja
þess Krøptugre og avaxtarsamare mun hwn
verda, og þw munt i Raun og sannleika verda
þess var hia þier, sem David seger: Psal. 119.
56. Þegꝛ

56. Þegar þu huggar mig Drottenn, þa hleip eg vegenn þinna Bodorda, þegar eg kalla þa formerke eg ad þu ert minn GUd.

Pad sem þig skal annars afysa til Bænarennar, er Skodun Christi i Andanum, ad þvi leite, sem hann leid Faatækt og Kvalræde, var hæddur og Krossfestur: Þegar þu setur þier fyrer sioner i Andanum og Trwñe Christi Pijnu og Krossfesting, þa vaknar Bænen upp, kviknar og stirkest, og þar med hreinsast Hiartad fyrer Trwna, annars kann eingen retteleg Bæn ad giørast. Og med þad sama kemur og einnen H. Ande til þijn, lijka sem hann kom yfer Postulana a Hvijtasunnu Haatyd: So kann og einnen Christi heilagt Bænrækta-dæme ad uppørva þig til Bænarennar; hans Lijferne, iduleg Bænar Andvarpan, Gyrnd, og Epterlangan til ad giøra GUds Vilia; hann bad miog kostgiæfelega, og var opt a Bæn heila daga og nætur i giegnum: J sinne Pijnu bad hann so akaflega og innelega ad hann skrydde vid Daudann, og hans Sveite vard sem Blood dropar, þeir ed fiellu a Jørdena: A Krossenum endade hann einnen sitt Lijf med Bænenne. Set nu Christeñ Saala þier fyrer augu þenann Bæna speigel, og lær ad hallda afram i Bænenne: Ef ad þijn Bæn vill vera veik og vanmattug, þa lijt til Bænar þijns Endurlausnara JEsu; þvi hann hef-

ur

ur ecke beded fyrer siaalfum sier, helldur fyrer þier, og þar med helgad, blessad og stirkva giordt þijna Bæn: Laat þad nu ørfa þig, og giora Kostgiæfenn til Bænarennar, ad þinn Frelsare hefur siaalfur vered so astundunarsamur i Bænenne, jafnvel þo hann, so sem einn GUD, ætte alla hlute siaalfur og være HErra yfer þeim, þa hefur hann samt, sem einn madur, ødlast alla hlute epter þeirre Mandoomlegu naattwrunne med Bænenne af sijnum Himneska Fodur, og þad hefur hañ allt samann giort þinna vegna, ecke einasta til ad utvega þier allt gott, helldur og einnen til ad uppvekia og afysa þig til ad leita epter þeim somu giædum med Bænenne, og finna þau, sem hann sialfur med henne og sinne Pijnu wtvegade; sem og einnen til ad giora þijna Bæn kroptuga med sijnu Epterdæme og Fyrer-bænum.

So skal einnen GUDs Bod og Befaling uppveckia þig til iduglegrar Bænar: Vaked og bidied seger HErrann Christur, so þier falled ecke i Freistne; eckert er Gude þeckara eñ Bænen, hwn er eitt listelegt Samtal trwadrar Saalar vid GUD.

Hier ad auke meiga vorar Þreingingar maklega reka epter oss til ad bidia GUD: Aŭ Bænarennar verdum vier vanmegna, enn fyrer

fyrer hana ſtirckiunſtum vier, og ef vier forſomum ad bidia GUd, þa miſſum vier þad gooda, ſem hann hefur oſſ heited, og giorum oſſ ohæfelega til ad nioota þeſſ, enn med Bœnenne faaum vier þad: Þar ſem þinn Drottenn og Endurlauſnare JEſus Chriſtur hefur med Bœnenñe ødlaſt þier til handa ſo margt og miked gott; meinar þw þa, þw kunner an Bœnarennar ad faa nockud gott? þw veyſt i ſannleika, ad eingenn kann ſaaluholpenn ad verda fyrer utann GUds Naad, hans upplyſing, hans þeckingu og Trwna; þar fyrer ef þw villt verda hluttakande GUds Naadar, hans Upplyſingar, hans Þeckingar, og Trwarennar, þa mattu bidia GUd þar um̃, þvi fyrer utann Bœnena kantu þad ecke ad fa.

Ein trwud Bœn er alldrei til forgiefens; þad ſem hwn bidur um̃ i nafne JEſu Chriſti, epter GUds Vilia, ødlaſt hwn viſſulega: Þar fyrer ſeger Chriſtur; *Bidied, og ſkulud þier faa, ſo ad ydar Føgnudur verde fullkomenn.* Ef þw bidur um̃ trwna, um̃ Kiærleikann, um̃ Vonena, um̃ Audmyktena, um Þolennmædena, um̃ allar Chriſtelegar Dygder og Mannkoſte, þa fær þw þær, og þær verda þier giefnar af þeim ſem þær hefur; ſa ſem þær ecke hefur, hann kann ecke ad giefa þier þær: Enn ſa Sanne og eiliiſe GUd, ſem þw

bidur

bidur um̃ þær, hann hefur þær, hann bæde kann og mun giefa þier þær; hann er rykur og ørlaatur vid alla þa sem hann akalla. Hafe þinn Endurlausnare Christur so innelega beded fyrer þig, og er bænheyrdur ordenn, þa vill hann ecke ad þu, fyrer hverium hann hefur sialfur so beded, skuler forgiefens bidia. Bæn Trwarenar megnar miked; Akalla þu mig i Neidenne, seger Drottenn, og eg skal frelsa þig. Psal. 50.

Faae madur ecke med Bænenne, þad sem hann unmbidur, af þvi þad yrde kannskie oss til skada, vegna Breiskleika vors holldz, ef vier feingium þad, þa fær hann þo i þess stad, þad sem er langtum betra: Ef ad GUD neitar þvi Jardneska, þa giefur hann aptur i staden̄ þad Himneska: Ein sijfelld og inneleg Bæn, er so sem eitt Himnaryke hier a Jordunne; fyrer hana komunst vier alltijd meir og meir, til ad smacka Krapt epterkomande Veralldar, og fa ad niota Fridar GUDs, sem yfergeingur allann mannlegann Skilning. Þad skiedur optlega, ad einn himneskur Glans edur geisle striaalast nidur med þad slag i Hiortu trwadra, so þeir gioraft þar med siwker af Elskunne til GUDs, hver i þeim verdur sterkare enn Daudenn, og þeir gleima þar med Heimenum alldeiles; þeirra skapadur Ande, epter þvi sem Lærefaderenn Taulerius ad orde

kemst, (þegar hann er adtala um þa yfernaatt-twrlegu Bæn;) braadnar so ad segia, og sӧckur nidur i GUds eilijfann og oskápadann Anda; og þa skedur þad sama seger hann, a einu Augnablike, sem sked hefur i ollum Heilogum fra Upphafe Veralldar: Og so miked sem þwsund Pund Gulls, yfergaanga einn Smaa-skylding, so miked dyrmætare er þesse himneske Glans edur geisle ad reikna, eñ allar skapad-ra Skepna Vellystingar. Sinned Mannsens verdur þa so uppfillt fyrer sanna trw af GUds Kiærleika, ad so leinge sem slijkt varer, kañ þad ecke ad þeinckia utann um̃ GUd, og falle einn annar þancke inn i Mannseñs Hugskot, þa er honum þad pijna; Twngan talar lijted eda ecke neitt, enn Hiartad er alltijd ad and-varpa, þad þyrster epter Gude, hefur sijna Unadsemd i honum alleina, og slepper Heim-enum fra sier ad ollu leijte, uppfylleft og einnen alltijd meir og meir af GUds Þeckingu, Fride og Fognude sem Twngan kann ecke ad wt-seigia, þvi þad sem Saalen þa finnur og for-mercker, er owtseigiannlegt, og ef hwn yrde þa i þeyrre somu Andackt, adspurd. Hvers verdur þw nw vijs? Hvad kantw ad finna og formerckia? Þa munde hwn svara. Þañ Goda, sem yfergeingur allt gott. Hvad ser þw? Þañ Frydleika, sem yfergeingur alla

Fegurd-

Fegurdar-pryde. Hvad smackar þu? Þañ Sætleika sem yfergeingur allann Sætleika. Ja! Hun villde segia; Ord og umtal hrockva ecke til ad utskyra þad allt, sem eg verd vor vid, sñ og smacka hid innra i mier; þvi þau edla Giædenn sem eg nu fæ ad reina, kann eg ecke ut adsegia. Þetta er Raunsten þess eilijfa Ordsens til elskande Saalar, uñ hveria skrifad stendur. Joh. 14. Hver sem mig elskar fyrer hønum vil eg mig openbera. Hvad Truen þa sier og finnur, þad geingur yfer Naatturuna; þad er eitt outseigianlegt Ord, og kañ einasta i Hugskotenu ad formerkiast.

Hier smackar Saalen hvad sætur og liufur Drottenn er; Hier skilur hun riettelega, hvad þad er ad þeckia GUD, og hann ad elska, og i þvi hun þecker hañ, þa elskar hun hañ, og i þvi hun elskar hañ, gyrnest hun alltijd ad hafa og niota hans ad øllu leite, og vera eilijflega med hønum samteingd.

Soddann himneskur Glans og Biartleike, striaalast opt nidur i Hiortu þeirra, sem giøra sijnar Bæner iduglega i Andanum og Truen; og giører meira ad verkum hia sumum eñ sumum; þvi GUD utbyter sijnum Gaafum epter sinne Velþocknan, og Andenn blæs hvar hañ vill; þo i øllum, a sijnum tijma, epter sijnum maata. So sem aller Truader

koma til Christum i Anda; so endurnærer hañ þa alla, epter siinu fyrerheyte, Matth. 11. Komed til miin aller sem erfided dryged, og þwnga erud þiaxder, eg vil endurnæra ydur. Þo varer same Glanse ecke leinge, helldur plagar hañ ad vera sem sa Geysle er snoggelega hverfur, þvi Stryds tiimenn er eñ þa ecke vte; Gllds Reide vegna syndarennar hefur eñ þa ecke enda. Vier erum so leinge vier lifum Syndarar. Þar fyrer kañ soddann himneskt Skin og leistran ecke leinge i oss ad vara; vorar Saaler sem eñ þa eru i Liikamanum bwande og af Siindenne flekkadar, eru nærsta veikar, vanmaattugar, og laklegar til þess, ad biihallda jafnann þessare Huggun; Eñ þegar hwn er i burtu, leitar Saalen epter þvi med storre Epterþreiingu, ad hwn kunne ad naa henne aptur, ad hwn kunne uppa ny ad ødlast soddann himneskann Smeck Gudlegs Sætleika, og hwn mætte sier hann innliisa. Og liika sem Brwduren i Lofkvæde Salomonis leitade um̃ Nætur tiimann epter þeim sem hennar Saal elskadi, so leitar og einnen trwud Saala, og þraaer mikelega epter siinum elskhuga, og kunne hwn ecke ad finna hañ, sem tilforna, þa befalar hwn þad Gude, og æsker ad meiga mettast af Sætleiks Molum Himneskrar Huggunar, og verda vor

vid lijtenn Geisla af so stooru Endurnæring-
ar Lioose / og lætur sier nægia med GUds
Naad / sem er kroptug i þeim breisku.

Hveria Naad hwn og ecke missier / þvi
GUd Coronar sijn Børn med sinne Miskun,
sem einum skyllde / Psal. 5. v. 13. Hans Naad
er hvern Morgun ny og ferskt yfer þeim. So
sem Faderenn er Børnunum lijknsamur / so er
Drottenn Miskunsamur þeim sem hann ottast.
So verdur þa Bænen alldrei forgiefens ;
helldur heyrer GUd hana jafnann / og and-
svarar henne epter sijnu Loforde / Matth. 7.
Hver hann bidur / hañ fær / hver hañ leytar
hann finnur / hver hann bæckgar a / fyrer hon-
um mun upplæked verda. Item seger Da-
vid Psal. 37. Haf þijna Unadsemd i Drottne,
hann mun veita þier allt hvad þitt Hiarta
gyrnest.

Bænen ma vel reiknast sem eiñ Pant-
ur eda Band / hvar med GUd dregur oss til
sijn / hvar med hañ þess optar og leingur vill
hallda oss hia sier / hvar med vier komustum
og einnen alltijd honum nær og nær / og sam-
einum oss vid hañ / sem er Uppspretta alls
Goods / so vier gleimum honum ecke i nock-
urn maata ; Annars mundum vier Skialld-
ann þeinckia til hans i vorum Hiortum / og
ecke verda hluttakande i hans giædum. Fyr-
er Bænena openberar GUd sig fyrer Mann-

 enum /

enum fyrer Bænena kañ siw rietta Audmyktt ad æfast og aukast. Hier kiemur til samans þad allra Hædsta og Lægsta, þad Audmiukasta Hiarta, og sa Hædste GUd, og fyrer soddann Audmykt innhelleft ein yfergnæfannleg Naad i Mannsens Saalu, þvi þess audmiukare sem Madurenn verdur, þvi framar verdur hañ hluttakande GUds Naadar, og þess meir sem GUds Naad vex i Mannenum, þvi audmiukare verdur hañ: Þar fyrer er oss eckert betra og nytsamlegra, eñ ad vier æsum oss i einne trwadre og alvarlegre Bæn, og giefum oss ecke neitt ad þvi, hvada Freistingar oss vilia til hindrunar uppa falla, þvi ecke mun a þeim verda hlie, og Satan vill leggia allt kapp a, ad bægia oss þar fra, hvers Viela brøgd vier munum þo øll med Bænenne yfervinna.

Lijka sem Christur hagade sier i Bæneñe, so skalltu Christenn Saala einnen skicka þier: Þvi stærre Freistingar sem hann vard ad reina, þvi innelegar og akaflegar bad hann: Gior þw lijka so, og muntu asamt med Christo Sigurenn ur bijtum bera; þvi hann yfervann ecke sinna vegna, helldur fyrer þijna Skulld. Þad er ein hin megnasta Freisting sem hindrar Bænena, þegar Madur er Andacktarlaus, og finnur ecke hia sier neina Lijsting til ad bidia

dia GUd; eñ þa skal madur allra hellst bidia; þviad þo Gude sie ein alvarleg og brennande Bæn næsta þeck og þægeleg, þa foracktar hann þo ecke þar fyrer veika og magnlitla Bæn, sem hefur sierdeilis Gyrnd og Epterlaangan til Andacktar og Alvorugiefne, helldur lijtur hann og einnen naadarsamlega til hennar; hefur og einnen stærre Medaumkan med heñi, enn þeirre sterku og alvarlegu Bæn: Lijka sem þad sierer meir Fødursens Hiarta þegar hanns siwka Barn kveinar og ber sig illa, hann hefur stærre Medaumkan þar yfer, helldur enn þo hanns osiwka Barn kvarte um nockud: So hefur og GUd stærre Medlyding med þeim sem er lijtelsigldur, og Voladur i Anda, og midt i þvi hugleise þraaer hiartannlega þar epter, ad hann kunne riettelega ad bidia, helldur enn med þeim sem er stirkvare i Andanum. Ef vier vilium bidia GUd um andaktuga Lysting til Bænarennar, þa mun hann ecke helldur sinia oss hennar. Ef nockurn vantar Vijsdoom þa bidie hann GUD, sem einfalldlega giefur hverium Manne, og mun hann veitast honum, seger Postulenn Jacob i sijns Pistels Cap. 1.

# Cap. XXI.
## Um̃ Krapt og Verkan þeirrar Edla Dygdar Liitelætesens.

Judith. 9.

Þeir Drambsømu þocknuduſt þier eñ nu alldrei, eñ alltijd hefur þu haft þocknan a Bæn þeirra sem eru Liitelæter og Hogvæerer.

AUN sannarlegs Liitelætis er øll Bæn og øll Iþrott Mannsens forgiefens. Enn Liitelæted lærum vier beſt af Herranum Christo, þvi hann er hinn ſkiæraſte Speigell allra Manndygda, hans Liiferne er einsamall Kiærleike og liitelæte. Hanns Lærdoomur einsamall Viisdoomur og Sannleike, sem ecke er innefalinn i einsømlum ordum, helldur i lifande Krapte, og Verkum.

Enn upp a þad ad vier kunnum riettlega ad læra Liitelætesens Dygd af Christo, þa hefur hann ecke einaſta kiendt oſſ hana med Ordunum, helldur og einnen med ſijnum allra Heiløguſtu Verkum og Dæmum, med þvi hann liitelæckade ſiaalfann ſig allt til Kroſſens Dauda. Hier af er liooſt ad þeſſe Edla Dygd hefur ecke ſinn Grundvoll af nockrum Eingle, ecke af Poſtulunum, eda af nockrum Heiløgum, helldur af ſialfum HErranum Christo, hver þeſſ vegna kallar til allra ſo ſegiande:

Læ-

Læred af mier, þvi eg em Hoogvær, og af Hiarta Lijtelaatur; so sem hann segde: Siaaed mig hvernen eg legg mig under alla hlute, þo jeg sie yfer øllum hlutum. Þess meira og stærra sem mitt Tignar-vellde er, med þess diwpare Audmykt em eg giæddur, hveria Manndygd ydur byriar þess vegna, ad hafa þess kiærare, sem eg ydar GUD og Drottenn, hana med mijnu Lijferne, ydur framar fyrer siooner set og uppabyd. Þar fyrer læred af mier, ecke stoora Hlute eda undarlegar Jardteikner ad giora, ecke verk Skøpunarennar ad framkvæma, helldur Lijtelaater og Hoogværer ad vera, hvar uti þier hafed mig siaalfann ydur til Forms og Epterdæmes. Hier fyrer took HErrann Christur uppa sig þad allra lijtelmootlegasta Verk, ad þvo Fætur sinna Læresveina, og vilde so med sijnu Epterdæme innplanta þessa Dygd i allra vorra Hiortu, og þess vegna sagde hann under eins, vited þier hvad eg giøre ydur. So sem villde hann segia; ef þier gleimed mijnu Lijtelæte, þa taped þier miklum parte af mijnum Lærdoome og mijnum Dæmum; gleimed þvi ecke þess vegna, helldur hafed þad fyrer eina Reglu og Rettar-snwru um alla ydar Lijfdaga, og laated þessa Audmyktarennar Jmynd alltijd vera ydur fyrer augum.

So sem Bænen duger ecke neitt fyrer utann Trwna, so duger hwn ecke helldur fyrer utann Lijtelæted. Audmykten er eitt yppar-legt Þeckingarlioos i Hiartanu, fyrer hvert vier siaaum a þa einu sijdu manneskiunnar Eymd og Slæmleika, en̄ a adra GUds haa Tig-narvellde og hanns yfergnæfannlega Giæsku. Þessmeire þecking sem Madurenn fær a GUds Haatign, Allmætte og Godgyrne, þvi framar þecker han̄ sin̄ Audvirdelegleika, og fyrer verd-ur sig, af þvi hann kemst ad raun þar um̄ i sijnu Hiarta, hvad Aumur og Vesæll hann sie. Hier af sier hann, ad sig vantar allt gott, tekur til med brennande Bæn ad bidia, ad han̄ faae ad nioota Naadar GUds og hans Misk-unnar, og ad hann meige fa ad þeckia sialfann GUd rett og sannarlega, so sem uppruna alls hins goda, sem og einnen ad vegsama, lofa og vidfrægia hans miklu Tign; hans Kiærleika og hans Naad. Þa taka Straumar Naad-arennar til ad flioota i giegnum raaser Bænar-ennar inn i trwada og lijtelata Saal: Fyrer soddann Naad verdur heilagur Ande alltijd meir og meir wthelltur yfer oss, hans Gaafur aukast, og GUds Kiærleike marg falldast i vor-um Hiortum.

Þegar trwud Saala virder nu fyrer sier sinn Eimdarhag og Overdugleika, og sier ad

siaalf-

siaalfur GUDsSonur hefur so miog lijtelækad sig, ad hann hefur ecke ad eins orded madur, helldur og einnen lided fyrer so vesæla og vanvirdeglega Skiepnu sem Madurenn er, hinar grimmustu og þyngstu kvaler; þa magnast þesse Elldur gudlegrar Astar i henne og stygur upp til GUDs fyrer Trwna, so hwn elskar i GUDe og Christo alla menn, huxande þar um̃, hversu mikelega ad GUD hafe þa i Christo elskad, so overduger og omakleger sem þeir hafe vered. Hwn gietur og ecke helldur annars, þvi soddann audmiwk saal er af Gude inteken, og af hans Kiærleika vid hann samteingd, so ad þad sem GUd elskar, þad elskar hwn.

Hier af kemur þad, ad Kiærleikurenn fagnar yfer þvi, þegar Naawnganum geingur Vel, enn hriggest ef hønum geingur Jlla. Og af þvi ad lytelaat Saal er vid Naawngann blijd og vingiarnleg, þa fordæmer hwn hann ecke strax, þo hann verde breiskur og falle; eda talar hønum illa til, miklu siidur blæs sig upp a mote hønum, til ad forakta hann og smaana, þvi hwn er vegna sannarlegs Lijtelætes, sier sialf medvitande um̃ siina Eimd og smaanarlega Vanvirdu; og ad hwn siaalf velkest i sama Saur eda verre, skilur og einnen vel, ef hwn stendur, ad þad er ecke af hennar eigen̄

Kroptum, helldur fyrer Naad GUds, og hans Hiaalp.

Lijtelaatur Kiærleike dæmer alltijd og afsakar sialfann sig, fyrr eñ adra, og þegar hañ sier yfer hormungar sijns Naawnga, þa horfer hañ a sialfann sig, og syrger sitt eiged Stand af annars falle fær han orsøk til ad huga ad sialfs sijns Brestumm, og sier so hvad tæpt hañ stendur, vegna sinna Synda og Misbrota.

Fyrer Lijtelæted stirkest Madurenn og so i Þeckingu GUds og Vonnenne; Þvi þegar Manneskiañ virder fyrer sier sijna Faavisku og Blindleika i gudlegumm efnumm, þa þackar hwn Gude fyrer openberan sijns ords, og leggur þad þvi innelegar uppa Hiartad, og nær hwn higgur ad þvi vandlega, ad aller sijner eigenn Kraptar sieu einger, stirkest hwn i heilagre Von, og setur hana uppa GUD alleina.

Lijtelæted giorer mann og so Hugþeckañ og Astudlegann i ytre umgeingnenne, þvi ad þesse Dygden lætur manneñ ecke gaanga fraũ dreissuglega eda vera þrætugiarnann, og kyfsamann; helldur audvelldann, blydann, og mannwdlegann vid alla; hwn lydur ecke ad hann sie hefndargiarn, og betale illt med illu, skamaryrde fyrer skamaryrde; helldur fylger

hann ſidum HErrans Chriſti, ſem ſo ſeger i Pſal. 38. Eg hlyt ad vera ſem einn Daufinge, og ſo ſem Maallaus; ſa ed ei upplykur ſijnum Munne; eg er ordenn ſo ſem ſa madur ſem ecke heyrer, og eckert Forſvar hefur i ſijnum Muñe. Soddann einn trwadur og lijtelaatur madur, er rettur limur JEſu Chriſti i hverium ad GUD lifer.

Lijtelæted aflar og einnen ſannarlegrar ſamviſkunar Rooſeme, og verkar þad, ad ein trwud Saal trublaſt ecke ofmiøg, nie hriggeſt af nockrum Eymdum, eda Olucku, helldur ſeger med St. Paulé. Hver vill ſkilia oſſ fra GUds Kiærleika? Rom. 8. Hann lætur ſier i øllum Tilfellum nægiaſt med GUds Naad.

Uñ ſijder verkar og einnen Andacktenn Døgn og Kyrlæte, þvi þegar ſa ſem med henne er giæddur, kannaſt vid ſiaalfs ſijns Faafræde og heimſku, aptrar hann ſier margt ad tala, og ødrum ad kienna: J ſannleika ad ſeigia, þad verdur ecke med ordum utſkyrt, hvilijkar og hverſu margar andlegar Nytſemder þeſſe Dygd hefur i ſier; hwn ma med riettu nefnaſt ein kongleg Hyrdſla himneſkra Fiaarſiooda. Vier meigum vita þad fyrer vyſt, ad ecke hefur þad ſkied an orſaka, ad Sonur GUds, vort Lios, vort Lijf, og vor Saaluhiaalp, ſkipade oſſ þennann edla Mannkoſten af ſier ad læra. O! GUD giæfe, ad aller

Chriſtner

Christner menn, villdu hlyda hans bode, og fylgia hønum epter i þessare Dygd.

Enn med hverium hætte, fyrer hvert medal, og um̄ hvern veg, kunnum vier þa ad komast til þessa dyrmæta Fiaarsioodar, sem̄ fœrer so margar himnesknar gaafur og giæde med sier? Med tvøfolldum hætte.

I. Fyrer brennande andacktuga, og Hiartannlega Bæn. II. Siifellda skodun Christi a Krossenum. Þad er fyrer Um̄þeinking hans Pijnu og Dauda, i hverre vier meigum, so sem annare Lærdooms Book, ydka oss og æfa, þar til ad þesse ypparlega Dygd Lijtelæted, med ødrum fleirum, tekur til ad rootfestast dag fra deige i vorum Hiortum, so sem ødrum frioofsømum Akre.

## Cap. XXII.

## Ad øll Christens mans Verk eige i Lijtelæte ad gioraſt, an hvers þau eru ecke utann andstygd, og Afgudadyrkun.

Luc. 16.

Hvad haatt er hia mønnunum, þad er svijvirdeglegt fyrer Gude.

Øll þau Verk sem Gude eiga ad falla vel i gied, og vera hønum ein þacknæmeleg foorn,

foorn, hlioota ad framgaanga af sannre Trw, hver ad verkar i Hiartanu Christelegt Lijtelæte, so ad madurenn, kannest þar vid ef nockud-gott finnst i hønum, þa sie þad GUds Naad ad þacka, so sem St. Paall seger 1. Cor. 15. *Ecke eg, helldur Naad GUds sem med mier er; þad er ad skilia, hefur þad verkad.* Enn hver sem þetta ecke giører, hann dryger tvøfallda Synd. Fyrst fellur hann fra Gude, þar hann snyr sier fra Gude til siaalfs sijns; þad er fra þeirre sønnu ædstu Veru, til þess sem ecker er. I annann maata dryger hann Raanskap og Þioofnad a moote Gude, med þvi hann eignar sier þann Heydur, sem einum Gude tilheyrer, hver þad a allt sem Gott er, enn ecke Madurenn. Þar fyrer seger Drottenn. Esa. 42. *Mijna Dyrd vil eg eingum giefa, nie helldur Skurdgodunum minn Lofstyr.* Hann lætur þar med merkiast, ad sier einum heyre til øll Dyrd og heydur, enn eingum ødrum.

Hier af kiemur þad, ad þeim sem vænt þyker um sig siaalfan, af þvi hann vite margt, megne mikels, gete margt, og hafe giordt; hann til leggur sier sialfum Dyrd og Heydur, sem einum Gude tilheyrer, og hefur sialfann sig fyrer skurdgod. Þar fyrer er eigen Vegsemd, eigen Elska, og eiged Hroos, hin allra svijvirdelegasta Afgudadyrkan, og sialf-

ur

ur Andskoten, sem er hennar Uppsretta heimter þess vegna þad, ad hann skule tilbeden verda.

Soddan einn Diøfull, sem stundar epter Lotningu af hverium Manne, bera aller Hofmooduger og Drambsamer i sijnu Hiarta, sem vilia vera heydrader og mikels-metner af mønnum. Sia þw þess vegna vel til miñ Vin, ad þw hnepper þetta hofmoduga Skurdgod wr þijnu Hiarta. Marger eru so Heilager, ad þeir vilia ecke sia fyrer sijnum augum utvortes Bijlæte, uppa þad þeir verde ecke af þeim so sem ødrum Skurdgødum fleckader; eñ þeir þeckia ecke þann stoora Afgud, sem situr i þeirra Hiarta, hvered þa so alldeiles saurgar, ad þeir eru Svivirding fyrer Gude. Þvi allt þad sem haatt er fyrer Heimenum, og kiemur af siaalfs Elsku og eigen Vegsemd, þad er Svivirding fyrer Gude. Sa sem stoolar uppa sialfann sig, elskar og tignar sialfann sig so sem Gud, eda i annann maata lytur stoort a syna eigenn manns Burde og Krapta, hañ er Afgudadyrkare, og af soddann Afgudadyrkun er allur Heimurenn fullur, og øll Hws full af lifande Afgudum.

Afgudadyrkunen flytur Innann fra; til hvers sem þitt Hiarta beiger sig, vid hvad sem þad haanger, i hveriu sem þad hefur sijna lysting, og hvad sem þad sierdeilislega elskar

jafnt vid GUD, eda meira enn GUD; hvert helldur þad kañ ad vera Rijkdoomur, Metord, Vellyſtingar, langer Lijfdagar, edur hvad annad þviumlijkt, þad er allt ſamann þinn Afgud, og þw fremur þar med Afgudadyrkan. Þar fyrer er Afgudadyrkun ecke einaſta wtvortes, helldur og innvortes; hwn kemur øll ad innann fra Hiartanu: GUD dæmer alla hlute epter þijnu Hiarta, þad ſkodar hann og rannſakar alleina, epter þinne Trw, edur Vantrw dæmer hann þig; þar fyrer ſeger Christur; Hvar þinn Fieſiooður er, þar er þitt Hiarta; þar er þinn GUD, þijn Rooſeme, þiñ Fridur og Trwnadartrauſt, þar er þijn Paradys, ja, þitt Himnaryke og allt þitt. Gief þeſſ vegna einaſta giætur ad, a hveriu þitt Hiarta med ſinne lyſt og epterlaangan ſig ſierdeilis hvijler, þad ſama er viſſulega þinn GUD, hvad hellſt ſem þad kann ad vera, ef ad þitt Hiarta, hefur alla ſijna hvyld og ro i Gude, þa er GUD, þinn GUD, og ertu þa Sæll og Heppenn, ſo ſem þar ſtendur i Pſal. 146. Sæll er ſa hvers hialp GUD Jacobs er. Og i Pſal.37. Hafdu þijna unadſemd i Drottne, og mun hann giefa þier oſk þijns Hiarta. Enn ef hugur þinn og ſine, helldur ſier til Heimſens, þa er Heimurenn þinn GUD, og eins er þad um allt annad, ſem þitt Hiarta, framar øllu odru helldur ſtoorar mætur a.

Hier af er liooſt, ad i Heimenum eru ecke onnur Skwrdgod, hellduren þau ſem mannſens Hiarta ſmidar ſier, og þeſſ vegna kallaſt ſiaalfur Dioſullenn GUd þeſſarar Veralldar, af þvi ad Ogudleger menn fylgia honum epter, hallda ſig til hans, giora hanns Vilia, elſka Myrkrenn, og hafa ſitt Epterlæte af hans Verkum, þvi med ſoddann Athæfe giora þeir Satan ad ſijnum Gude.

Fyrer Tre-Afgudum er hægt ad taka ſier vara, enn varadu þig fyrer þeim ſem eru af Gulle; i ſannleika kunna ecke þau daudu og lijflauſu Skwrdgod ſo ad draga a taalar, ſem lijfande Afguder: Þw hefur meſt ad vackta þig fyrer þeim lifendu, og fyrer ſiaalfum þier. So ſnart ſem þw metur þig mikels af þinne Uppheſd, Magt, Gaaſum, og Rijkedæme; þa giorer þw einn Afgud af ſiaalfum þier, og ſtrygder a moote GUds Bode, ſem ſeigeſt ecke vilia giefa odrum ſinn Heidur, og ecke Afgudum ſinn Loſſtyr.

Oll Æra, Prys og Vegſemd heyrer eingum eigenlega til, utann þeim ſem er allra Hædſtur og Heilagaſtur, ſem er ſa ædſte ypparſte og eilijfe Goode; ja Brunnur og Uppſpretta til alls goods, ſem er GUd alleina: Þar fyrer hver hellſt ſem þw ert, ſem ecke villt giora Skwrdgod wr ſiaalfum þier, ell-

egar

egar ad laata øll þijn Verk verda andstiggeleg fyrer Gude, þa lærdu hier af, ad tilreikna ecke sialfum þier nockurn Heidur, Æru og Vegsemd. Hafer þw giort nockud Gott, þa seg med Postulanum Paale. Ecke jeg, helldur hefur Guds Naad þad i mier verkad, 1.Cor.15. 10. hwn hefur ecke vered, (Gude sieu þacker,) i mier forgiefens. Jeg hefe ecke vered utann ensamallt Verkfære þar til, Gud er sa alleina hia hverium allt gott hefur siñ Uppruna, hañ veiter alla þa hiaalp sem a Jordu sker: Hañ giefur oss øllum Lijf og Anda, og allt gott, hañ er Lijfsens Fader fra hverium ad koma allar goodar Gaafur.

Ein sannarleg Audmykt aktar lijted fyrer faafeingelega Vegsemd a medal Mannañá, hwn reiknar þad med Paule fyrer lijtels vægann hlut, ad dæmast af mannlegum Dege edur Doome; hwn hefur ecke haa þanka, stundar ecke epter þvi sem er ypparlegt fyrer Heimenum, helldur giefur hwn sig til þess laaga, so sem Postulenn bydur, helldur sig eingrar Æru verduga fyrer Gude. Soddann ein Manneskia er daud fra Heimenum, og hefur daaed fra Heimsens lystum: Þvi þegar sw ofkickanlega sialfs Elska dempast og deyr i einum, þa dempast og deyr under eins i honum elska til Heimsens; sa sem er

riett Audmiwkur og Hoogvær, hann lifer riett-elega epter Christi edla Lijfernis Epterdæme.

Enn sa sem vill vera mikels metenn af mønnum, og reiknar mannanna Hroos og Virdingar fyrer einn kostulegann Fiesiood, hann er enn holldleg manneskia, lifer enn þa i þeirre gomlu Fædingu epter Holldenu, enn ecke epter Andanum, og hefur ecke i sijnu Hiarta þa sonnu saaluhialplegu Trw, wtaf hverre ad flytur sw rietta Audmykt, so ad Christur þess vegna sagde til þeirra vantrwudu Gydinga: *Hvernen kunned þier ad trwa, sem leited epter Vegsemd hver af ødrum innbyrdis, og sæked ecke epter þeirre Vegsemd sem er af Gude alleina*, Joh.5.v.44. Einn holldlegur og vantrwadur madur, vill giarnann upphefia sig siaalfur, og vill heita nockud af siaalfum sier, sem Teudas, er sagde sig ad vera nockud, Post. G.5. og Spaafarar madurenn Simon, sem hiellt sig ad vera mikels hattar Cap.8. Enn ein trwud og andleg manneskia, vill giarnann i siaalfre sier vera eckert, hwn vill giarnann nidurþrickia sier, og Audmykia sig siaalfa; þecker sig i sannleika ad vera fyrer Gude sem einn Skugge, og so sem ecke par, hwn seger med David: *Mitt Lijf er fyrer þier Drottenn, sem ecke neitt*, Psal. 39. *Hversuølldungis eckert eru aller menn. Þeir vega fyrer þier minna enn ecke par, so marger sem þeir*

þeir eru. Psal. 62. v. 10. Og med Esaia. Aller Heidingiar eru fyrer Drottne sem ecke par, ja minna eñ ecke par eru þeir ad reikna a moote hønum. Enn hvar mun nu meiga finna so Andlega og Riett-Christna menn, a þessum døgum, sem reikna sig einskis verda, og hyrda ecke um ad þeir sieu halldner i neinu gyllde, stunda ecke helldur epter nockrum Virdingum i Heimenum? Soddann menn eru skialldsieingner og harla lijtel Hiord.

Enn nu mætte einhver spyria, hvernen skal þa einn Christenn madur skicka sier, nær GUd veiter honum Naad og Heidur, so sem þar stendur i Psal. 84. Og hann er Christnennar Embættis madur; einckum þar Ande Drottens fyrer Munn S. Paals, bydur, ad madur skule heidra þann sem Heidurs sie verdugur Rom. 13. Og hver skule hafa annann i Virdingum ædre, Rom. 12. Skyllde madur þa ecke meiga taka a moote Soddann Virdingum? Hier til svarast a þennann haatt. A mote soddann Æru og Virdingu ma madur vissulega taka, nær hann skickar sier annars riettulega þar wti.

Enn þa skickar hann sier riettelega og tilbærelega i soddann Virdingum, þegar hann hverke virder sig ædre vegna þess Heidurs sem honum veitest, nie helldur minne, ef hann

ecke veitest; þvi hverke er sa sem nytur soddañ mañlegrar Æru, eitt korn betre fyrer Gude þar fyrer, ecke helldur hiñ, sem fer hennar a mis, i hinu minsta lakare; þvi Madurenn er, þad sem hann er, hvert hann verdur helldur af Mønnum tignadur eda forsmaadur. Ja hvert helldur menn vita af honum ad segia eda ecke vita.

Þarnæst wtheimtest þad og einnen til þess, ad madur skicke sier riettelega i þvi falle, ad hann tillegge þa Æru, sem honum veitest, Gude aptur a moot, og þad giøre hann, þegar hann þiggur ecke Virdingarnar i þeirre Meiningu, ad hann sie þeirra i GUDs Auglite i nockurn maata verdugur, helldur reiknar sig midt i Heidrenum, eingu sijdur ad vera i GUDs Auglite einn aumann Syndara, sem af GUDs Riettlæte hefur eckert annad forþienad, enn eilijfa Skøm og Vanæru; og virder soddann Heidur fyrer eitt skick og sidveniu a medal Mannanna, sem af Gude er tilsett; ad nockruleite þess vegna, ad þar kunne ad vera Trøppu-rader a mille Manna, og ecke hafe aller eitt Stand edur asigkomulag, epter þvi GUD upphefur einn og nidurþricker ødrum, so sem Asaph seger i Psal. 75. Og ad nockruleite, so ad þad kunne ad halldast

aſt hæferſkleg Samkvæme a medal foolcks, i þann maata, ad ſa eine ſie reidubwenn ad haſa annann i Virdingum ſier ædre.

So ſkal madur þa ſnwa Ærunne fra ſier til GUds med þvi mote, ad hann kanneſt vid þad, ad GUd hafe af Naad ſinne lagt hønum til ſoddann Heidur, jafnvel þo hann hafe hanns einganneigenn verdugur vered; og ad Gude heyre alleina til Æran, bæde i Upphafenu og Endanum, enn oſſ ecke utann Bligdan vors Andlitis ſem Daniel ſeger Dan. 9. Þar fyrer ef þw ert mikell gaafu-madur, lærdur, forſtandugur, og vel ad þier i mørgu, ſo ad hver madur tignar þig; ellegar menn veita þier ſtoora Lotningu, fyrer þijns Embættis ſaker, þa giefdu Dyrdena Gude i þann maata, ad þw vidurkenner i þijnu Hiarta, hann hafe þier ſijnum overdugum Þræl af Naad ſinne Gaafurnar veitt og þig upphafed, og þw ſkallt hverke med Munnenum, nie i Hiartanu hrooſa þier þar af, helldur kannaſt þar vid, ad bæda Gaafurnar og Ærann ſem þier veiteſt, heyre alldeilis og alleina Gude til, hvered þeſſvegna ſeger fyrer munn Spaamannſens, Jer.9. v.24.25. Sa hinn Vyſe hrooſe ſier ecke af ſijnum Vijsdoome, og ecke ſa Sterke af ſijnum Sterkleika,

og ecke sa Rijke af sijnu Rijkedæme, helldur hvered sier vill hroosa, hañ hroose sier af þvi ad hann veit og þecker mig, þad eg sie Drottenn, sa sem giører Miskunsemena Doomenn og Riettlæted a Jørdunne, þvi soddann þocknast mier, seger Drottenn.

# Cap. XXIII.

## Sa Madur sem ecke þecker sialfann sig ad vera Eckert, og ecke tillegur Gude einum allann Heidur, sa dryger eina skielfelega Hofudsynd og hrapar i somu Olucku, sem Diofulleñ þegar hann fiell fra Gude.

### Psal. 39.

Hversu aulldunges eckert eru aller Menn, þeired þo so athugalauser lifa.

Upp a þad ad Madurenn kanneſt vid ſinn Audvirdelegleika, ad hann er eckert, þa samlijker sa 39. Psal. honum vid Skuggann, segande: Þeir lyda i burtu sem Skugge. Og sa 90. Psal. lyker honum vid Draum, og seger; þeir eru so sem Svefn. Hvad er eiñ Skugge? Ein daud og dim̃ Mynd þess hlutar sem hañ hanger vid, enn hefur einga veru, edur Lijf i siaalfum sier helldur er hann eckert: Eins lijka hefur Madurenn af sialfum sier hverke Lijf

Lijf nie Veru, hverke Krapt nie megn, helldur haanger hann vid Glld, eins og Skuggenn vid Lijkamann, so sem Byrtan vid Soolena, og er sialfur ad ollu leite fyrer utann Lijf og Krapt, og alldeilis ecke neitt; hefur og ecke neitt sem hann kann ad segia ad sie sitt eiged. Hvad hefur Skuggenn, sem ad sie hans eiged? Þvi þar sem hann er sialfur ecke neitt, hvernenn kann hann þa ad hafa nockud sem sitt eiged? Og hvad er Draumurenn? Eckert annad enn Mynd fyrer utann Veru.

Þar fyrer nær Madurenn gleimer þessu, ad hann so sem Skuggenn haange vid Glld, sem er alleina allt, og lætur sier þikia ad hañ sie nockud, þar hann er þo eckert, hann svijkur sialfann sig skammarlega, þvi hann hrapar fra þeirre sonnu, eilijfu og hædstu Veru, sem er alleina allt, til sialfs sijns, sem eckert er; fra þeim oforgeingelega og oumskiptelega Goda, til Faafeingelegleikans, fra Sannleikanum, til Lygennar.

So er þa þetta ecke einunges Hofudsynd, helldur og einnen under eins hid skielfelegasta Hofud-straff; þvi þess meir sem Madurenn snyr sier fra Gude til sialfs sijns, til sinnar eigenn Elsku, Vegsemdar, Stirkleika, og Formegungar, þvi meir snyr hann sier til

sinna stædstu Eimda og Hormunga; og þad er einnen hans Straff og manneskiunnar eigeñ Skulld. Enn þa snyr Madurenn sier fra GUde, og yfergiefur Hellu siñs hiaalpRædes, þegar hann tilreiknar siaalfum sier Kraptana, Styrkleikann, Listernar, Vijsdoomenn, Heidurenn, og hvert annad hamingiu Laan, giorer sig til, og þikest vera nockud, enn kannast ecke vid þad, ad allt soddann heyrer ecke nockrum manne til, eda skapadre Skiepnu, helldur Gude alleina, þvi allur Kraptur, Lijf, Formegan, Stirkleike, Vijsdoomur, Æra, og Vegsemd er alleina GUds; Eign og eigendomur, kemur alleina fra hønum og heyrer hønum einasta til; enn Skiepnurnar eru ecke utan Skugge, og ecke neitt af sier sialfum, þeirra Lijf, Vera, Laan, Vijsdoomur, Kraptur og Stirkleike er GUds alleina, enn ecke þeirra.

Tileincke sier nu Madurenn annadhvert allt þetta, ellegar nockud af þvi, þa er hann strax fra Gude fallenn; þvi eckert var annad Andskotans Fall og glæpur helldurenn þad, ad hann hiellt sig ecke vid Skiepnunnar Tilstand og eigennlegleika, sem hefur og skal hafa allt sitt Lijf, Veru og Krapt i GUde, so sem Skuggeñ hefur sijna Hræring af lijkamanum; enn hripsade þad til sijn, sem GUds var, villde hafa eigen Æru, eiged Hroos, Vijsdoom og Her-

Herligheit, sem þo heyrer ecke neitt til Skiepnunne, helldur Gude einum, med þvi aller hluter eru GUds. Þessvegna liet GUd hañ epter maklegleikum hrapa, og vidhiellt hønum ecke þadann i fra med sinne Naad. So geingur þad og einnen til fyrer ollum mønnum sem af Drambseme og Metnad tilreikna sier sialfum þad nockud, sem einum Gude tilheyrer; þeir hliioota ad falla, þvi GUds Naad uppehelldur þeim ecke framar, epter þvi þeir so hatursamlega snwa sier fra Gude, og vilia jafnvel vera hid sama sem GUd er: GUd er alleina allt, hann einn er alleina goodur og allt gott verulega. Þessvegna, allt hvad gott er, skal Skiepnan ecke tileincka sier sialfre, og þvi seger Drottenn. Matth. 19. Eingenn er goodur nema GUd einn: Hier af kemur þad ad vor HErra i siinu Nidurlægingar Stande, villde sier þad ecke tileigna, sem Gude einum tilheyrer; med þvi hann var þa ecke hallden og reiknadur, nema einsamall madur: Og villde Drottenn þar med kenna oss, ad eingen Manneskia skyllde tileinka sier, þad sem Gude tilheyrer, og taka ad sier þa Æru, sem er GUds alleina. Enn giøre madurenn þar þvert a moote, þa dryger hann þa stærstu Høfud-Synd, og ræner GUd þvi sem hans er, ja vill vera sialfur GUd, og snyr sier so fra Gude

til

til siaalfs sijns. Þess vegna leitar ecke soddañ ein vesæl manneskia sier Hiaalparads og styrkleyka hia Gude alleina, helldur hia skepudum Skiepnum, og jafn vel stundum hia siaalfum Dioflenum, hvad heita ma hin herfelegasta blindne og vitleisa, sem er ad leita Goods hia þeim Vonda, Lijssens hia Daudanum, Hiaalpræđesens hia þeim Fordæmdu, Hiaalparennar hia þeim Fordiarfada, Blessunarennar hia þeim Bølvada, liossens hia Myrkrunum.

Þar a mote er þad su hædsta Speke, ad leita epter Goodu hia Uppsprettu alls Goods; epter lijfenu hia Høfdingia Lijssens; epter Sælunne hia Brunne Saaluhiaalparennar, og Hiaalpenne hia þeim sem allt kann og gietur, hverium eckert er ohægt, eda omøgulegt ad frammkvæma.

# Cap. XXIV.

## Um̃ þa Edla Dygd Kiærleikañ, hans Krapt og Hreinleika.

1. Joh. 4.

Sa sem ecke elskar, hañ þecker ecke GUd, þviad GUd er Kiærleikurenn.

KIærleikurenn er mestur allra Dygda, seger St. Paal, 1. Cor. 13. og fyrer utann Kiær-

Kiærleikann eru allar Gaakur odugannlegar: Þarfyrer seger hann og so: Lated øll ydar Verk skie i Kiærleika: HErrann Christur befalar einnen ad bidia i Kiærleika, segiande Matth. 5. Nær þu offrar þijna Gaafu a Alltarenu, og þier kiemur þar til hugar ad þinn Brooder hafe nockud a mote þier, þa far þu fyrst ad sætta þig vid Broodur þinn. Og i Drottenlegre Bæn, eru samteingdar Sætter GUds og Naawngans; þad er; sw Fyrergiefning sem vier eigum Naawnganum ad veita er bunden vid þa Fyrergiefning, um̃ hveria vier bidium GUd; aptur a mot, er sw Fyrergiefning, sem vier bidium GUd um̃, bunden þar vid, ad vier eigum vorum Naawnga ad fyrergiefa.

Enn so streingelega, sem Kiærleikurenn er oss bodenn, so mikelega høfum vier Orsøk til ad vara oss, ad vier førum ecke villt i vorum Kiærleika, þvi Kiærleikurenn er þess hattar, ad madurenn kann so audvelldlega ad fara villt i hønum, sem i nockru ødru: Þar fyrer byrjar oss i þessare Grein ad vera miøg giætnum og vareigdarsømum, einckum þar eckert er so krøptugt til ad beygia Giedsmunena, og iñtaka þa, sem Kiærleikurenn: Og ef hann stioornast ecke af þvi sanna Lioose Heilags Anda, þa er favysre Gaalu sw hætta bwenn, ad hwn steipest i þusundfallda Olucku. Enn þetta vil

eg

eg ecke meint hafa um̃ Elſku til þeſſ illa og orietta, ſem hver einn Chriſtenn madur, veit ad hann a ad flya og fordaſt, ſo ſem Diøfulſens Sæde; helldur vil eg hier med ſkiled hafa þann Kiærleika, fyrer hvern Madurenn a ad elſka GUd og Naawngann; þvi jafnvel þegar ſoddañ Kiærleikur ſtioornaſt ecke af gudlegum Vijsdoome, kann hañ andvelldlega ad dragaſt a taalar og villaſt fra rettum vege, ſo hann nær ecke þvi Takmarke, epter hveriu byriar ad ſekia.

Marger meina ad þeir elſke GUd, þar þeir þo i riettre raun og veru, eru uppkveikter af elſku til Heimſens, ſiaalfra ſinna, og jafnvel Diøfulſens. So ſem þegar einn elſkar GUd einaſta fyrer jardneſkra muna ſaker, ad hann ſkule annadhvert vardveita hann fra tijmannlegre Ohamingiu, eda veita hønum adſkilianlegar tijmannlegar Gaafur, Vitsmune, Forſtand, og annad þviumlijkt, ſo hañ kunne ad hafa gooda daga i þeſſum Heime, eda vera mikels virdtur og haatt metenn af mønnum. Soddann madur kann audvelldlega ad innbirla ſier, ad hann elſke GUd rietteleg, þar hañ þo i Sannleika þad ecke giorer, helldur elſkar hann ecke utann ſiaalfann ſig, med þvi hann elſkar ſig meira enn GUd, og virder ſinn eigenn Abata, Æru og Velferd,

meir

meir og framar enn GUd, hvern hann a þo ad elska fram yfer allt, og vegna hans ad hafa kiært, bæde Medlæte og Mootlæte. Sa sem skickar sier þannig, hann giører einn Afgud af siaalfum sier, þvi hann elskar alla hlute fyrer siaalfs sijns saker, vegna sinnar eigenn Nytsemdar, Abata og Upphefdar; enn ecke vegna þess Hædsta GUds, elskar og þarfyrer optlega Heilaga og Gudhrædda menn og jafnvel sialft GUds Ord, uppa þad hann kunne þar af ad ødlast Heilagleikans Prijs og Nafn, og verda so af mønnum heidradur og mikels metenn: hvert Athæfe ad so er laangt fra GUds Søñum Kiærleika, ad þad verdur ecke ÿr þvi annad enn eintómis Hræsne og Yferdrepskapur, sem plagar ad fella alla sanna Gudhrædslu og Kiærleika nidur i grunn, og uppræta hann aulldungis.

Þar fyrer er þess haattar Kiærleike alldeilis falskur og ohreirn, og so sem hann er i sialfum sier, so giefur hann og so af sier alldeilis falska og ohreina Avexte, sem ecke eru neitt annad, enn eigen Gagnsemd, eigen Æra, eigenn Vilie og Listeseme, og adrer hvilijker holldleger, enn ecke andleger eda himnesker Avexter.

So miked sem ahrærer Elsku til Naawngans, þa er þad ecke helldur riett, ad madur

elske

elske hann, annad hvert þess vegna, ad honum geingur vel; ellegar ad Trwfesten og Kiærleikurenn bindur so fast saman sumra Manna Hiørtu, so sem optlega skiedur, ad sa eine lætur sier þad i øllum portum þocknast, sem hinum ødrum fellur vel i gied; hvert þad er Dygd edur Odygd, illt edur gott, og þar med verdur þeim optlega bægt fra Bænenne og ødrum christelegum Dygdum, og leidast afvega til ogudlegs Athæfes; Hvilijkur Kiærleike er alldeilis falskur, og dregur mann a taalar.

Þess vegna er stor Naudsyn ad vor Kiærleike styrest og stioornest af Heiløgum Anda; og ad madur giæte vandlega ad Heilags Anda kienningu, sem er GUDs Ord, og riette sinn Kiærleika epter Reglu og Mælesnwru GUDs Vitnesburda. So hiaalpar þad og einnen til, ad planta þa riettu Elsku til GUDs i vorum Hiørtum, ef vier yfervegum og gaumgiæfum Christi Heilaga Lijferne og Pijnu, og giætum vel ad, hvad hreina Elsku hann hefur haft til GUDs og Manna; stundad alltijd epter GUDs Dyrd, og Mannanna Velferd og Saaluhialp; giørt alla hlute oss til gooda, og ecke veigrad sier ad lyda þa allra þyngstu Kvøl og Pijnu, so ad hann kynne ad fullkomna GUDs Vilia og vora Saaluhialp: Hann hefur þess vegna i þeirre stædstu Audmykt nid-

urlæck-

urlæckad sialfann sig, og gierdest oss ad ollu lijkur, ad fraatekenne Syndenne; vard fatækur sem vier; daudlegur sem vier, foraktadur og smadur sem vier; fullur Angistar og kvala sem vier: So sem sa plagar ad giora sem elskar einn af alvøru, ad hann tekur uppa sig Vanheilende þess sem hann elskar, og tekur til þacka med hønum sameigenlega, bæde Medlæte og Mootlæte, Sorg og Glede, Æru og Vanæru, Lucku og Olucku.

Þegar vier nu a þennann hatt, hugleidum i Andanum og Trwnne Christi Kiærleika, þa kunna vor Hiortu og so ad uppvekiast og hræraft til sannarlegrar elsku. Vor Is-kolldu Hiortu kunna þa, vid gloande Glædur og loga hans Kiærleika, ad upptendrast af Ast til hans. Þar fyrer seger hañ og einnen Luc. 12. Jeg er komen ad kveikia upp Elld a Jørdu. Ef vier elskum Christum rettelega, þa strefum vier epter ad verda lijker hans Imind og epterfylgia hønum. Og jafnvel þo eingenn kunne i þessa hollds Breiskleika, ad na Christi fullkomnum Kiærleika, þa kann Madur þo ad leitast þar vid ad epter fylgia hønum, so sem møgulegt vera kann, og umfram allt stunda til þess, ad sinn Kiærleike sie ecke falskur, helldur sannur og hreirn Kiærleikur; þvi Høfud-Summan af Gud Bodum og Befalingum til vor Mañanna

anna, er Kiærleikurenn af hreinu Hiarta, omeingadre Trw, og godre Samviſku. Seger Poſtulenn Paall. 1. Tim. 1.

Soddann hreinn og ſannarlegur Kiærleike lætur ecke helldur mannenn vera idiulauſan̄, helldur drifur hann og afyſer ſyfellelega til alls Goods, og til ad giora hvilijkt frijviliuglega fyrer utann Naudung: Riettur Kiærleike lætur ſier ecke naudga edur þvynga til þeſſ Gooda, han̄ giorer þad ecke med Tregdun og ovilia, helldur med Lyſt og loſtugu Giede; han̄ ſkipter ſier ecke af þvi, hvert veralldlegt Logmaal bydur ſlijkt, eda ecke bydur; hann ſeger ecke, eg er ei ſkyldugur þar til, Yfervallded hefur þad ecke befalad, helldur lætur hann ſier nægia þar med, ad GUds Ord hefur þad befalad, og ſa riette Kiærleike til GUds wtheimter þad.

Þeſſe Kiærleike ſier, og kemſt og ſo beſt ad þvi, ad GUd þreiteſt ecke i þvi ad giora gott, med þvi hann er ſa eilijfe Kiærleikurenn, ſem ecke kan̄ ad laata af ad giora gott, giorer og ſo gott i þvi han̄ ſtraffar og refſar; kann og ſo ad giora gott af illu, ſnyr øllum hlutum til hins beſta.

So verkar og einnen þeſſe ſame Kiærleike, i GUds elſkendum hreina trw, og riettſinnada Bæn, ſo ad þeir akalle GUds hiartann-

lega,

lega: Og þeſſhaattar Bæn er ecke o-avaxtarſøm, eda forgiefens, helldur ødlaſt hwn af Gude, hvad ſem hwn bidur hañ um̃ epter hans Vilia: Þvi lijka ſem einn Vinur fær allt hvad hañ vill hia ſijnum Vin, ſo fær og einn ein GUds Vin og elſkare alla hlute hia Gude, og ødlaſt hvad ſem hañ mæleſt til, epter hans Vilia: Lazari Syſter Martha, viſſe ad HErran Chriſtur var ecke einaſta GUDS Son, helldur og eiñen GUds elſkulegur Vin: Þarfyrer ſagde hwn til hans: *Jeg veit ad hvad hellſt þw bidur GUd um̃, þad vill hañ veita þier.* Maria elſkade JEſum, þar fyrer vard hwn og ſo af hønum bænheyrd, og hañ vakte heñar Brodur upp af Dauda og gaf henne hañ aptur: Þarfyrer ſeger og David um̃ ſoddann Elſku. *Haf þijna Unadſemd i Drottne, og mun hann giefa þier, allt hvad þitt Hiarta gyrneſt.*

Fyrer ſoddann gud-elſkande Manneſkiu, vill GUd einnen opennbera ſig, ſo ad hann þarfyrer ſeger, Joh. 14. v. 21. *Hver mig elſkar fyrer þeim hinum ſama vil eg mig opennbera.* Item Joh. 15. v. 14. 15. *Þier erud mijner Viner ef þier giøred þad ſem eg byd ydur, og ſege ekke ad þier ſieud Þioonar, þvi Þioonen veit ei af, hvad hans Herra giører, enn ydur hefe eg ſagt, ad þier erud Viner, þvi allt hvad eg heyrde af mijnum Fødur, þad kunngiorde*

eg ydur: Þad er sw yndislega og gledlega Opennberan, sem skiedur i Hiartanu fyrer Orded, og Hiartad fær þar af Himneska Glede, Huggun, Vijsdoom og Undervysun i øllu þvi sem þienar til Saaluhiaalpar: Og þetta er sa rette Haaskoole og einaste Vegur, til ad fa og ødlast þañ sanna Vysdoom, sem so mikelega verdur tignadur i Heilagre Ritningu, og verda sanner GUds Elskarar hans hluttakande fyrer Trwna og Bænena. Ef nockurn vantar Vijsdoom, hann bidie Gud uñ hann, sem giefur øllum einfalldlega seger Postulenn Jacob, Jacob. 1. Cap. Þar af kom allur Salomons Vijsdoomur; þvi Skriften seger: Hann bad GUd uñ Vijsdoom og Forstand, og GUd gaf hønum og so eitt Vijsdooms-fullt og forstandugt Hiarta. So seger og einnen sa Vyse i Spekennar Bokar 7. Cap. uñ sig siaalfann; ad hann hafe feinged Skinseme og Visku med soddann Slag: Jeg badst fyrer seger hañ, og mier var Viskann giefenn, eg kallade, og Spekennar Ande kom til mijn.

## Cap. XXV.

## Uñ nockur Teikn af hverium þeckiast kann, hvert ein Manneskia Elskar GUd rettelega og i Sannleika.

1. Joh.

1. Joh. 2. v. 15.
Ef nockur elskar Heiminn i hønum er ecke Kiærleike Fødursens.

Pad fyrsta Merke til þess ad vier i Sannleika þeckium og elskum GUD og Drottenn JEsum Christum er þetta, ad vier um̃flyum Elskuna til Heimsens og hofum GUD kiærann yfer alla hlute fram̃, og elskum eckert so sem hann. Hvilijk var Asaphs Elska, þar fyrer sagde han̄, Psal. 73. v. 25. Nær eg hefe þig ad eins Drottenn þa skeite eg hverke um̃ Himen nie Jørd. Hvilijk var og Moysis Elska, hvered wtvalde þad langtum framar ad þola mædu og Ervide med Jsraels Folke, enn adforlysta sig i sindsamlegu Epterlæte. Han̄ virdte Christi Forsmaan fyrer stærre Rijkdoom, enn alla Egypta-lands Vegsemd. Ja þvilijk er allra sannarlegra GUds Barna elska til GUds. Hver hann elskar Fødur eda Moodur, Systur eda Brodur, Son eda Dottur, Hws edur Heimile, og so sitt eiged Lijf meir enn mig, sa er mijn ecke verdugur, og kann ecke ad vera edur kallast minn Læresveirn seger Christur Matth. 10. 17. Sa riette kiærleike leitar yfer allt fram̃ GUds rijkis og hans rettlætis. Luc. 14. 36. Hann skickar sier sem sa, ed fann þann hulda Fiesiod a Akrenum, Matt. 6. gieck burt med Glede, og sellde allt hvad hann atte, og keipte þann sama Akur. Matt. 13.

Skriften setur þau Teikn til ad þeckia þa ogudlegu og vantrwudu, ad þeir elske framar illt enn gott, framar Lyge enn Sannleika, framar Vegsemd hia Monnum enn Gude, Psal. 52. v. 5. heidre og þioone framar Skiepnunne enn Skaparanum, sem er blessadur ad eilijfu. Joh. 12. 43. Pad er omøgulegt ad elska under eins GUD og Mammon, Rom. 1. v. 25. Christum og Heimenn. Ef þw hugleider þad med þier, hversu einskis verdt þad er, ad stunda uppa Heimsens Elsku, hversu ad hann yfergiefur þig a einu Augnablike, þa maattu maklega fyrerverda þig, ad vilia setia þitt Hiarta til soddann faafeingelegleika. Vilier þw virda fyrer þier riettelega i Trwnne Christi Faatækt Volæde, þa mun hans Kiærleike vissulega wtryma fra þier Elsku til Heimsens, og einganneigen leyfa ad hwn ryke i þier; so muntu giarnsamlega forsmaa alla Heimsens Lyst og Herlegheit, og eckert framar øllu aãad gyrnast, enn Drottenn JEsum Christum, og setia þijna Von og Traust til hans alleina.

Annad Teikn og Merke þar til ad Madurenn elske GUD i Raun og Sannleika, er þad, ef hann elskar hann bædi i Medlæte og Mootlæte: Þeir elska ecke GUD i raun rett-
re,

re, sem ecke vilia hallda sig vid hann, nema þegar vel geingur; þvi þeir elska meir Vellystingarnar enn GUd, Phil. 3. so sem Paall wtmaalar þa ogudlegu. 2.Tim.3. Þeir oviner Krossens Christi seger hann sem iardlega eru sinnader, hverra GUd Magenn er; þeirra Vegsemd verdur og einnen til Skamar, og þeirra Æfelok er Fyrerdæmingen. Ef vier vilium riett elska Christum, þa skulum vier og einnen elska hans Kross, eins og Moisses elskade framar Christi Forsmaan, enn alla Egyptalands Vegsemd: Vier vilium segia og alikta med siaalfum oss: Þo Drottenn vilie deyda mig, þa vil eg samt vona a hann. Eingen Hrigd edur Angist, edur Ofsookn, Ja hverke Daude nie Lijf, skal skilia oss fra GUds Kiærleika sem er i Christo JESU, Rom. 8. Vier eigum ad vera tilfrids med hvad eitt sem GUd vill oss til skicka, taka so giarnan a mootte Mootlæte sem Medlæte, medtaka so vel þad vonda sem þad gooda af hende Drottenns, Job. 1. giefa oss viliuglega under Krossens Ok og Byrde, lyda giarnann vegna GUds heilaga Vilia; og vita ad GUD skickar ollum hlutum vel, og þeim sem hann elska, snwast aller hluter til hins besta. Sa rette Kiærleike vykur ecke fra Gude, þegar hann hyrter oss, helldur hæneft hann þa enn framar ad honum. Þegar þeir riett Trwudu verda

daglega ihelslegner fyrer GUds skulld, og þeir eru aktader sem Slaatrunar fie; Þegar GUd sundurslær þa a medal Drekanna, og hilur þa med Myrkre Hørmunganna; þegar GUd so sem selur þa fyrer ecke par, og tekur eckert verd fyrrer þa, so sem Spaamadurenn ad orde kemst, Psal.44.13. þa fellur þeirra Hiarta þo ecke fra hønum, og þeirra Gaangur vykur ecke þarfyrer fra hans Vege, edur gleimer hønum. Psal.73. Þegar þeir verda eñ þa daglega plagader, og þeirra Hegning er alla morgna þar; þa alikta þeir þo med sialfum sier: Pad er mier gott ad eg helld mier til Drottens: Po ad þeirra Lijf og Saal Vanmegnest, þa er þo Drottenn þeirra Hiartans Traust og Hlutskipte, þegar þeir hafa hann ad eins, þa hirda þeir hverke um Himen nie Jord.

Kiærleike Christi knyr þa trwudu þar til ad þeir lyda og so giarnann fyrer Christi skulld Rom.5. so sem Postularner giordu, þegar þeir hroosudu sier af Hørmungunum, og geingu glader fra Augliti Raadsens, ad þeir høfdu vered verduger ad lyda forsmaan fyrer Christi Nafns saker. Giorn.B.5. Eiñ GUds elskare skeiter ecke miked þar um, þo hann sie lijtels virdtur i Heimenum; hañ hugleider, ad þad hefur eins geinged til fyrer sialfum Drottne JEsu, hann er a nægdur þar med, ad Christur er hans Æra, Prijs, Vegsemd, lioos,

Stirkleike, Sigurvinning, Viisdoomur og Speke: Hañ yfergiefur ecke þar fyrer Christi Lifnad, Ord og Lærdoom, þott Mennerner hate hann og offsæke þar fyrer, helldur blyfur hann eingu ad siidur þar vid, og aktar ecke neitt fyrer þad, þo allur Heimurenn yfergiefe hann i soddann Freistingum, og slaae hønum feil; þo øll Verollden sie hønum a moote, allteins og Christur um syder hafde eckert Traust eda glede af nockre skapadre Skepnu, og var af øllum fordæmdur. Sanner Gllds elskendur vita ad so sem þeir fa Hlutfall med Christo i Hørmungunum so mune þeir og so fa Hlutfall med hønum i hans Rijke Openb.B.1. Þvi ef vier lydum med hønum, þa munum vier og so rykia med hønum, þar fyrer seger og St. Paall. 2. Cor. 6. Audsynum oss i øllu, so sem Gllds Pienarar i mikellre Polenmæde, i Harmkvælum, i Haaskasemdum, i Pyngslum, i Hwdstrokum, i Fiøtrum, i Upphlaupum, i Erfide, i Vøkum, i Føstum, i Hreinlijfe, i Vitsmunum, i Bidlundargiede, i Hoogværd, i Heiløgum Anda, i falslausum Kiærleika, i sannleikssens Orde, i Krapte Gllds; fyrer Herklæde Rettlætesens, til hægre og vinstre Handar, fyrer Vegsemd og Vansemd, fyrer Vanrykte, og gott Rykte, so sem Falsarar, og þo Sannorder, so sem Okunnuger og þo Kunnuger; lijka so sem þeir ed deya, og siaaed þad vier lijfum; so sem hegnder enn þo ei lijflaatner;

so sem syrgendur, enn þo jafnann glader; so sem volader, enn þo þeir ed marga audga; lijka sem þeir ed eckert hafa eñ eignast Þo alla hlute.

Sa riette Kiærleike virder Krossenn Christi og hans Pijnu fyrer þañ ypparsta gooda, og langt fram̃ yfer alla Heimsens Fiaarsioodu. Þar fyrer seger og Paall. Eg hiellt mig eckert annad vita, enn þann Krossfesta JEsum Christum. 1. Cor. 2. Þad ord um̃ Krossenn, er ad vijsu þeim ein Heimska, sem fortapader verda, enn hinum sem Saaluhialpena erfa, er þad Gllds Kraptur, so sem St. Paall eñ aptur ad orde kemst 1. Cor. 1. v. 11. Hefdu ecke soddann giærde fylgt Krossenum og vered i hønum innebundenn, þa hefde Christur ecke sett þier hann fyrer siooner med sijnu Epterdæme. Og þu kant vel ad þeinkia, ad hann hefur ecke þar med viliad pretta þig, helldur vijsa þier til þess hædsta Gooda, til þess hædsta Vijsdooms, og þeirrar hædstu Glede a Himnum. Vegurenn er vel mioor, enn þu sier þo, ad hann sialfur hefur geinged þennann þrøngva og mioa veginn. Og med þvi þeir eru faer, sem fylgia hønum epter, og feta þennann Vegenn, þa seger hann og so, ad þeir sieu faaer sem hann rate. Þvi þad kostar so miked ad yfervinna siaalfann sig, ad deya og afneita sier sialfum, og hafna Heimenum, og setia þad allt i hættu fyrer Christi saker

sem

sem madur hefur; og giefa sig under hans Ok og byrde med goodum Vilia og bera Krossen̄ epter honum, þad er sa þraunge Vegurenn sem faaer gieta hitt.

Þad þridia Teikn til GUds Kiærleika i einum er þad, ef hann helldur GUds Ord og Bodord. Ef þier elsked mig seger Christur, þa hallded mijn Bodord; item þeir erud mijner Viner, ef þier giøred þad sem eg byd ydur. Joh. 14. v. 15. Sa sem ecke vill giora GUds Vilia og hirder ecke neitt um̄ þo hann brioote GUds Bodord motþrooannlega, hann þecker ecke GUd, og þar fyrer elskar hann ecke helldur GUd. Hver sem seger ad han̄ þecke GUd, og helldur ecke hans Bodord, han̄ er ein̄ Ligare. seger Johannes. 1. Joh. 2. Hafe nockur a sett ad brioota eitt einasta GUds Bodord mootþrooannlega, þa er GUds Kiærleike ecke i honum; þvi þad er omøgulegt ad einn kunne ad elska GUd af alvøru, og hafa þo i sinne under eins, ad brioota hans Bodord mootþrooannlega. Þar fyrer seger St. Paall 1. Thess. 5. Ad madur skule fordast allt þad sem hafe illt alyt. Og David seger: Psal. 179. Drottenn eg helld mijnum footum fra øllum Vondum vege, so ad jeg kunne ad hallda þijn Bodord.

Þad fioorda Teikned til GUds Kiærleika er þad, ef madur hatar ecke sin̄ Naawnga fyr-

fyrer þad hann hefur stigdt hann, helldur giefur hønum þad giarnann kvitt fyrer Christi saker. Hver sa sem vegna einhverrar mootgiørdar, hefur ofløckvanlegt hatur til sijns Naawnga i sijnu Hiarta, hann hefur ecke i sier GUds Kiærleika, sem hefur boded og sagt, Matth. 6. Fyrergiefed og mun ydur fyrergiefed verda, og ef þier fyrergiefed ecke Mønnunum þeirra breste, þa mun minn himneskur Fader ecke helldur fyrergiefa ydur ydar Synder. Sa sem ecke elskar sinn Naawnga hvern hann sier, hvernen skyllde hann GUd elska þann hann sier ecke. 1. Joh. 4.

Pad fimta og sydasta Teikn til GUds Kiærleika i Mannenum, er þad, ef hann hefur GUd sijfellelega i Hug og Hiarta, þvi þad sem madurenn elskar, til þess þeinker hann giarnann. Par fyrer seger David. Psal. 16. Jeg hef Drottenn alltijd fyrer Augum. Og þad er merke þeijrra Ogudlegu, ad þeir þeinkia ecke um̃ GUd, til hverra hañ þar fyrer seger. Psal. 50. Hygged þo ad þessu þier sem GUde gleimed, so ad eg burtsvipte ydur ecke eitt siñ, og þar sie þa eingen Frelsare leingur. Esaias hropar einnen Vei yfer þeim sem ecke þeinkia um̃ Verk Drottens. Es. 5. 12. So sem ad Augu Pienaranna horfauppa hendur sinna Laanar-Drottna, so horfa vor Augu uppa Drottenn, seger David Psal. 123. þar til hañ miskunar oss.

Einkum og sierdeilis horfer einn sannur GUds elskare uppa GUds Son JEsum Christum; ein rett Trwud Saal slepper alldrei JESU wr sijnu Hiarta; þarfyrer seger og St.Paall til Timotheum, 2.Tim. 2.v. 8. Hafdu JEsum Christum i minne sem er uppriseñ fra daudum. Þar til kann þad ad stoda, ef meñ yfervega giarnann Christi Kiærleiks Verk, og leggia þau uppa Hiartad.

A medal hverra ad er fyrst Christi Mañdooms Uppateking, i hverre ad vier so sem i lijfsens Book, siaaum tvo hans hellstu Velgiørninga. Sa eine er ad hann þar med uppfyller oss af sijnum Kiærleika annar sa, ad hann giører oss vissa og oefada, uñ vora eilijfa Velferd og Saaluhialp. O hvada owtsegannlegur Kiærleike var þad, ad GUd vard Madur og Mønnunum lijkur, uppa þad ad hann kynne ad giøra Mennena Gude lyka! O þa miklu stærd Kiærleikans, ad GUd i klæddest þioons Mynd, so ad hañ giørde oss Koonga, og prydde oss med konunglegre Koronu! O þann stora og furdannlega Krapt og magt Kiærleikans, ad GUd sem er oyfergrypannlegur og osynelegur, vard þreifannlegur og synelegur!

Hver kann ad rannsaka þetta Kiærleikans Afgrunn? O hvad oseigianlega stor

Vijs-

Vijsdoomur er þetta, ad GUd hefur af so miklu Skadræde, sem var Synden, framleidt so storann oendanlegann Gooda, til ad auglysa þar med, þad diwpa Afgrunn sijns Kiærleika! O þa stærstu Sætleiks Huggun, þad eg veit þig minn HErra JEsu minna vegna fæddann, þijna holldgan, minn nakomenn Skylldugleika vid GUd, og einn Hiaalpræbes-Brun̄, a mote Uppsprettu min̄a Synda.

Annad Christi Kiærleiks Verk, er hans heilage Lærdoomur, i hverium ad er sa eilijfe Vijsdoomur, Sannleikur, Lioos, Lijf og Saaluhiaalp; en̄ sierdeilis hans flecklausa Lijferne, med hveriu hann hefur oss fyrer siooner leidt eitt Form, hvernen vier eigum ad lifa riett christelega og GUdlega, þvi Epterdæme hans framferdes, er þad allra fegursta lioos, sem ei lætur oss gaanga i Myrkrunum.

Þridia Kiærleikans Verk Christi, er Leindardoomur hans Saklausu Pijnu og Dauda, hvar inne vier hofum sio Hofud-sticke ad yfervega. Þad Fyrsta er Uppfilling GUds Riettlætes; Annad fullnægiuborgun fyrer allar vorar Synder. Þridia Fridþæging vid GUd, þvi vier erum fyrer Daudann GUds Sonar vid GUd fridþægder. Rom. 5.

Fiorda; son̄ Raun og Auglysing a GUds omælannlegum Kiærleika; fyrer Pijnu og Dauda vors Endurlausnara.

Fim-

Fimta; GUDs eilijfur Sannleike i þvi hañ gaf oss Soneñ, og giørde þad sillelega opennbert ad hann være vor Fader.

Siøtta; Sigur a øllum ovinum.

Siøunda; Utvegun eilijfrar Farsælldar, og eilijst Lijf.

Fiørda, Kiærleiks Verk Christi, er hans Upprisa fra Daudum, sem gefur oss stoduga Von uñ Upprisu vorra Lijkama, sierdeilis þa andlegu Upprisu, ad vier fyrer GUds Naad og lijfs-krapt JEsu Christi, skulum verda af andlegum Dauda lifande i Christo.

Pad Fimta og sidasta Christi Kiærleiks Verk, er hans Uppstygning til Himna, sem er eilijf Fullkomnan vorrar Velferdar, Riettlætes og Saaluhialpar.

Þesser fiñ Leindar-domar Christi Kiærleiks Verka, meiga reiknast Christenna manna Schole, i hverium vier eigum alltijd ad ydka oss, og alldrei laata hann koma wr vorum Þancka, uppa þad vier kunnum ad bijhallda vorum HErra JEsu Christo i vorum Hiortum, og þar med alltijd uppvekia oss til þess ad umfadma hann med hreinum Kiærleika.

## Cap. XXVI.

## Uñ Fiñ þau hellstu Kiærleiks Verk GUDs, i hverium mest auglysest Naad hans og Godgirne.

Psal.

## Psal. 87.

Drottenn elskar Portenn Sions, fram yfer allat Tialldbwder Jacob.

Af medal annara Bevijsinga um̃ GUds Kiærleika, eru þessar Fim̃ sierdeilis. I. Holldgan JEsu Christi. II. Pijnan vors Endurlausnara. III. GUds Ibwd i oss. IV. Audsyning GUds Kiærleika i skøpudum Skiepnum. V. Astwdlegleike guddomlegrar Vernn, med hverium hann yfergeingur alla skapada Hlute.

Hvar Kiærleike er, þar er Sameigenlegleike; þar fyrer er Kiærleikans Art og edle, ad hann giører sameining med þeim sem elskast. Epter þvi GUd elskade Mannenn so heitt og hiartannlega, þa gat þad ecke ødruvijse vered, enn ad hann epter Falled samteingde sig vid hann af skiærre Elsku og miskunseme, og yrde Madur: Þvi kallar David upp i Psal. 8. Hvad er Madurenn þessad þw minnest hans og Mannsins Barn ad þw vitiar þess? Mannsens saal verdur so heitt elskud af Gude, ad lijka sem HErran Christur er bæde GUd og Madur, og sameiner sig vid mannlega Naattwru, og vid vora Saal og Lijkama, eins elskar GUd vora Saal so mikelega, ad hans lyst er ad innhella sier alldeilis i vora Saal, ef Hwn kynne ad vera gagn-hreinsud, og Mañ-

skepnan stæde þar ecke siaalf a mote; þvi GUd er ein oendanleg og owtseiganleg Elska. So er þetta þa hin viktugasta Bevijsing uppa GUds owtskyranlegann Kiærleika, ad GUd er ordenn Madur, og hefur med sinne Hollds tekiu, vottad sig ad vera Mannanna sannañ Astvin; med þvi hann hefur uppa sig teked þad mannlegt er, so ad hann kynne ad giefa oss þad, hvad guddomlegt er. Hann verdur eitt, mannsens Barn so ad hann kunne ad giora oss ad GUds bornum. Hann kemur nidur til vor a Jordena, so hann kunne ad færa oss upp i Himenenn. O þau furdanlegu Skipte og byte! sem þess vegna einasta eru ordenn, ad vier verdum i honum GUds elskuleger: Þad er so sem GUd hroope af Himnum ofañ segande: O þier Menn, sem a Jordunne bwed, siaed minn Hiartkiærann Son, hvern eg hefe þess vegna laated verda mann, ad þier skulud hafa lifande Epterdæme og bevijsing þar uppa, hversu heitt og hiartanlega eg hefe ydur elskad. Jeg hefe sendt hann til þess, ad hann fære ydur alla til mijn med sier, og ad þier verded aller fyrer hann mijn Oskaborn og Erfingiar! Og hier af kemur þad, ad JEsus nefner sig þraalega, af hiartanlegre Elsku til vor, Mannsens Son: Hann kallar sig skialldan GUds Son, helldur Mannsens son.

Onnur Bevijsing og vottur uppa GUds Kiærleika til vor, er HErrans Christi pijna og Daude fyrer vorar Synder, sem ad er eñ þa meire og sterkare, enn sw fyrsta. Hvi eingenn hefur meire eñ þa, ad hann giefe sitt lijf wt fyrer sijna vine Joh. 15. J þvi er Kiærleike GUds auglystur yfer oss ad hann sende sinn Son, til ad vera Forlykun fyrer vorar Synder 1. Joh. 4. Þetta er sa hædste og fullkomnaste Kiærleike. Sa gode GUd hefde ad vijsu epter sijnum oyfergrypañlega Vijsdoome og Almætte, kunnad vel ad finna annad Raad og Medal til ad Endurleisa oss, so sem augliooft er af Bæn Christi i Alldengardenum. Fader ef þad er møgulegt, þa tak fra mier þennann Kaleik. Enn þa hefde ecke GUd audsynt oss þañ hædsta Kiærleika; þar fyrer so þad yrde opennbert, ad hann elskade oss med þeirre heitustu Elsku, og vier skylldum ecke kunna ad segia; GUd hafde vel nockud so Kiært, ad hann villde ecke unna oss þess, þa hefur hañ giefed oss sinn elskulegan Son, og þad ecke lauslega eda til lijtellra Gagnsmuna, helldur til þess ad betala fyrer vorar Synder: Þess vegna kunne ecke GUd ad audsyna oss stærre Kiærleika, enn þennañ. J þvi auglyste GUd sinn Kiærleika vid oss, ad Christur er fyrer oss daaenn, þegar vier vorum enn Syndarar, seger St. Paall. Rom. 5. item, Rom. 8. hann

hlyfde

hlyfde ecke sijnum einka Syne, helldur gaf hañ vt fyrer oss alla: Hvernen skyllde hann þa ecke giefa oss alla goda hlute med hønum? Hafe hañ giefed oss þad meira, þa giefur hañ oss vel þad minna. J eilijfu lijfe verdur þad allt vort, sem GUds er, sa sem yfervinnur hann verdur Erfinge þess alls Openb. B. 22.

Þridia Bevijsing uppa GUds Elsku til vor, er hans huggunarsamleg Jbwd i oss, og a medal vor. Æ hvad stor Huggun og glede ma þad vera, ad GUd hefur helgad og innvygt vor Hiortu, sier til Bwstadar? Þegar Vitnesburdar Tialldbwden, og Helgedomurenn fordum, i Gamla Testamentenu var tilbwen, maatte Moyses vygia og helga hann, og dreifa yfer hann Foornar Bloodenu, þvi allt vard ad helgast fyrer Blooded, og þegar þad var bwed kom GUds Dyrd af Himnum ofann, og uppfyllte Talldbwdena. Eins lijka; þegar HErrann Christur var daaenn fyrer oss, og vier vorum med hans Bloode helgader, þa kemur GUd til vor, og giorer sinn Bwstad i oss. Þad er art Elskunnar, ad hvern sem vier hofum kiærann, þa vilium vier giarnann vera hia þeim sama. Med þvi ad GUd ummfadmade Mennena med heitre, ja brennande Elsku, þa var hans unun og Epterlæte, ad vere hia mañanna Sonum, og hafa Um̃geingne med Mønnunum, bwa i þeim, og a medal þeirra.

Eg vil bwa i Hædunum og i Helgedoomenum, seger Drotteñ, og hia þeim sem hafa sundurknosadañ og lijtelætañ Anda, so ad eg lijfge Andañ þeirra Litelætu og hiørtum þeirra Sundurmørdu. Hia þeim sem Madur er giarnan, þañ elskar hann miked; nu med þvi GUD er giarnan hia Mannanna Sonum, þa fylger þad a epter, ad hann elskar þa hiartannlega. Þarfyrer seger hann fyrer munn Davids i Psal. 16. A þeim Heiløgu sem a Jardryke eru, hefe eg alla mijna þocknan. Þetta skal vera vor Huggun i vorum Raunum, vorre Faatækt, Siwkdoome, Ofsooknum, Forsmaan og Fyrerlitningu, ad GUD elskar oss og er hia oss. Ef þw villt segia, mun hann og elska þa, sem hann lætur rata i margvijslegt Mootlæte. Ja ad vysu, þvi þad skiedur þessvegna, ad hann fyrer Krossenn kunne ad giøra þa Vegsamlega. Med þvi þeir lyda hier miklar Þreingingar, þa skulu þeir sijdar meir huggast rijkuglega: Þess meire Sorg sem uppafellur i þessu Lijfe, þess meire mun Gleden og Vegsemden verda i Ødru Lijfe.

Þetta er siw hellsta Orsøken, hvarfyrer GUD varpar Mønnum nidur i Hørmungarnar, ad hann kunne ad bwa i þeirra sundurmørdum Hiørtum, þvi eingenn Bwstadur þocknast hønum betur, Enn þau sundurknosudu Hiørtu. Þvi uppfyller hann oss hier med

sinne

sinne Naad, ad hañ sijdar oppfylle oss med sinne Vegsemd, so sem þa Himnesku Jerusalem.

Fiorda Bevijsingen um̃ Kiærleika GUds, tekst af skøpudum Skiepnum, fyrer hveriar Lioos hans Elsku fram̃ brunar til vor. Þegar S. Paall vilde oska þeim i Epheso þess sem allra best og veglegast kunne ad vera, þa oskar hann þeim, ad þeir meige þeckia GUDS Kiærleika, og skilia med øllum Heiløgum, hver ad sie hans Breidd og Leingd, Hæd og Dypt, sem villde hann segia; GUds Kiærleike er hærre enn Himenenn, diwpare enn Siaafar-hafed, breidare enn Jardar Kringlan, leingre enn Austred fra Vestrenu, so sem þar stendur i Psal. 103. i stuttu maale ad segia, Himen og Jørd eru full af GUds Kiærleika. Þvi hvad hellst sem hædstur GUd hefur skapad synelegt edur osynelegt, þa er þad þessvegna alleina skapad, ad hans oum̃ræde-lega Goodgyrne og Kiærleike vid oss skuli þar med auglysast. So meigum vier og einnen vita, ad þess vegna hefur GUd giefed Mannenum Skilningarvitenn, bæde þau innre og ytre, ad hann kunne med þeim ad formerkia hans Elsku og goodgyrne; þvi hvad hellst Madurenn kann med Skilningenum, Þonkunum, Hugskotenu, og Skinsemenne ad grypa, þad vitnar allt um̃ GUds Kiærleika. Ja

hvad hellst Madurenn hefur, og hønum er til einhverrar Nytsemdar, þad er allt Vitnisburdur um̃ GUds Ast og Elsku: Stuttlega ad segia allar skapadar Skiepnur, bæde synelegar og osynelegar, eru ecke annad enn HErrans Sendebodar, sem eru ad kunngiøra oss GUds Kiærleika, fyrer hveriar hann helldur vid oss daglegt Samtal. So sem hann segde, siaaed Himenenn, Jørdena, og allar skapadar Skiepnur, hveriar eg hefe ydur til gagns og þienustu skapad. Og þar vier ødlustum af þeim adskiliaunlegt Epterlæte og hagsmune, þa skiedur þad allt af GUds goodgyrne, so ad vier kunnum bæde med innre og ytre Skilningar vitunum, ad sia og smacka hvad GUd er goodur, Epter þvi sem David ad orde kemst i Psal.34. Soolen talar til vor med siñe Birtu, Liose og Varma, sem villde hwn segia; giæted ad mier, jeg er siw stærsta og fegursta Skiepna a medal þeijrra synelegu og skøpudu hluta, þad ma vera einn stor og ypparlegur Herra, sem mig hefur giordt: Ecke talar GUd einasta til vor fyrer þær føgru og ypparlegu Skiepnurnar, helldur og einnen þær vidbioodslegu, so sem eru Ormar, Pøddur og ønnur þesskonar Kvikende: Sem villde hann segia til þijn: Sia! þw maatt þacka mier þijnum Skapara, ad eg hefe giort þig

eina

eina Manneskiu, enn ecke Orm, edur annad þvilijkt Jardar kvikende, sem þesse eru. Sa GUd sem kunne ad hafa giørdt þig einn Orm edur Poddu, hann hefur af sinne Miskunseme skapad þig eina Manneskiu; þeinck nw uppa hann sem sagt hefur, *Eg em Madkur enn ecke Madur.* Med soddann hætte helldur GUd Samtal vid Mennena, fyrer allar skapadur Skiepnur, bodande þeim sinn Kiærleika, og þar med vill hann locka þa og lada til sijn. *Þetta er Speken GUds, sem allstadar, og a øllum Strætum hroopar, Ordsk.V.8. sw Speken, sem leykur sier a Jardarhnettenum, halldande þad sitt Epterlæte ad vera a Medal Mannanna Sona.*

Þegar ein Manneskia ihugar þetta riettelega, þa mun hwn finna ad vier erum aller innelucter i GUds Kiærleika, so sem vier erum aller af Himnenum ummkryngder. *Þviad vier erum aller, lifum og hrærustum i Gude. Giorn.V.17.* Lijka sem Madurenn kann ecke neinstadar þangad ad skunda, ad Himenenn sie ecke allstadar i kringum hann, bæde fyrer ofann og nedann, til hægre og vinstri sydu; Eins kann hann ecke helldur þangad nein stadar ad hlaupa, ad GUds Kiærleike fylge honum ecke epter, og hropi til hans, fyrer Skiepnurnar, ja fyrer sialfs hans eiged Hiarta og Samvisku; so sem med þessum

ordum: Kiæra Barn; hvert villtu hlaupa? J hvern Stad villtu flya, þar jeg er ecke? farer þw upp i Himenenn, þa er eg þar, bwer þw þier Sæng i Helvijte, þa er eg einnen þar; taker þw Vænge Morgunrodans, og bwer wt under þeijrre yrstu Hafsbrwn, þa skal þo mijn Hønd þar finna þig. Kom þessvegna til mijn, og kannastu vid mijna Naad og Elskuseme, med hverre og ummfadma þig i øllumm skøpudumm Skiepnumm. Hafer þw syndgad, þa lattu þier til hugar koma, ad mijn Miskun er meire enn Synder þijnar; hafar þw yfergiefed mig, þa samt hefur ecke mijn Trigd og elska enn nu yfergiefed þig, nie wtskwfad þier, helldur hefur hwn alltijd hlauped epter þier, kallad a þig, og leitad ad þier, so sem villurafande Saud; vilier þw kanskie trwa laust gloggvum og skyrum Vitnisburdum þess mikla Heims, og skapadra Skiepna, þa trwdu þo vitnisburde mijns Elskulega Sonar, hugleidtu hversu jeg hefe i honum Heimenn elskad; þw kant ecke neinstadar ad finna Hvijld, nema hia mier, þw maatt snwa þier hvert þw villt, og leita hvar þw villt; ecke neinstadar finnur þw þo hvijld og rooseme handa þinne Saalu, nema i minne Ast og Naad.

Sæll er sa Madur sem þad underskendur og skiniar, hversu Himen og Jord eru full af

af GUds Kiærleika, og hverſu menn hafa ſo mørg Vitne um̃ hans Elſku, ſem ſkapader Hluter eru marger til.

I Fimta maata þeckium vier GUds Kiærleika af hans dægelegre og aſtwdlegre Veru: Af Sioonum Spaamannanna og Opennberunnum Johannes, kunnum vier ad merkia, ad ſa Almaattuge GUd, er ſo yndeslegur, frydur og Fagur, ad hann yfergeingur langtum framar alla Pryde og fegurd og yndeslegleika i Heimenum, enn nockur madur kunne wt ad ſega; hañ er Fegurd allra fagra hluta, hann er Pryde og yndeſlegleike allra prydelegra og aſtudlegra hluta, hañ er allra lifendra Liif, ja allt Gott. Hier fyrer hefur eiñ af þeim Gømlu Lærefedrum ſagt. GUd er ſo dægelegur og yndeſlegur, ad þar ſem ein Manneſkia ſæte i brennande Elldſofne, og feinge ecke nema um̃ eitt Augnablik, ad ſia hañ i ſinne Pryde, Aſtudlegleika og Vegſemd; þa munde hwn fyrer ſaker ſo gledelegrar og yndeſlegrar ſioonar, ecke finna hid minſta til ſinna Kvala og Pyſla. Hier um̃ til eptirdæmis, er hiñ Sæle Stephanus: Hañ acktade ecke neitt fyrer þær Haadwngar og Kvaler, ſem hann leid, þegar þeir hnepptu hann wt af Borgenne og gryttu hann; þviad hann ſa GUds Dyrd, og hroopade upp af Hiartans

Feigenleik segiande: Siaaed, Eg sie Himnana opna; og Mannsens Son standa til hægre Handar Gude. Ja so stoor er Fegurd GUds, hans Vænleike og yndesleg Vegsemd, ad sa sem sæe hañ um̄ Þwsund Ar, ætlade ad þad munde ei leingur hafa vered, eñ eitt Stundarkorn, þvi med Skodun GUds Dyrdar og Dægelegleika, hverfur Tijmenn bwrt, og snyst i eilijfd, þvi leingur sem Madurenn sier GUd, þvi leingur vill hann sia hann, þvi meir sem hann elskar hann, þvi meire og heitare Astundan, hefur hann til ad unna hønum; þvi framar sem hañ vegsamar hann og lofar, þvi meir og framar oskar hann sier ad meiga hafa þa Idiu; So ad Lærefaderenn Xystus seger þess vegna: Saaler Rettlaatra eru ofedianlegar af Ast og Lofgiørd GUds. Og þad stemmer yfer eitt med þvi sem GUds Vijsdoomur seger Syrach 24. Hver af mier etur, hann hwngrar alltijd epter mier, og hver af mier dreckur hann þyrster alltijd epter mier. Þeir Heilogu Einglar hafa i fra Upphafe sinnar Skopunar ætijd sied GUds Auglit, samt eru þeir þo ecke fornægder þar med, helldur vilia eilijflega fa ad sia hann; þo þeir hafe fra Upphafe vegsamad hann, þa þyckiast þeir enn nu ecke hafa nogsamlega hann lofad og prijsad, þvi GUd er allre Lofdyrd lofsamlegre,

og

og allre Elſku elſkulegre / þvi hann er oendanlegur i ſinne Prijde / Fegurd / Elſku / og Yndiſlegleika; þarfyrer kann eingenn ſkiepna hañ noogſamlega ad elſka / lofa og vriiſa. GUd er ſo Elſkulegur / ad þvi meir Madurenn elſkar hann / þvi meir gyrneſt hann ad elſka hann: Hann er ſo Loflegur / ad madur kann ecke nockurn Tijma ad giøra Enda a hans Lofgiørd; ſo Indiſlegur ad ſia / ad madur kañ alldrei ad verda ſaddur af þvi ad ſkoda hañ; ſo Huggunarſamlegur ad heira / ad Madur kann alldrei af þvi ad lata ad heyra til hans: Taulerius kemſt ſo ad orde: Ef einhver mætte ſmacka einn lijteñ dropa af GUds fullkomnaſta Kiærleika / þa munde hann reikna alla Heimſens Glede og Vellyſtingar / fyrer þa meſtu Beiſkiu og Biturleika. Marger Heilager hafa vegna Elſkunnar til GUds / giarnann lided þær ſaaruſtu Kvaler og Pijntingar / og jafnvel ſialfann Daudann / og þad hafa þeir giort rettelega / þvi þar ſem einn hefde þwſund Lijf / þa byriade honum maklega ad ſetia þau øll i hættu / til þeſſ / ad hañ mætte bijhallda GUds Kiærleika. Þar fyrer ſtendur ſo i Pſal. 63. Þijn miſkunſeme er betre enn lijfed / mijnar Varer þær lofa þig. GUd er ſo ſtoor / agiætur / hreirn / og ſkiær goode / ad þeſſ meir og betur ſem hann þeckeſt / þvi framar og hiartann-

tannlegar er honum unnt; han̄ er og einnen so unnarsamlegur, og addaanlegur Sætleike, ad þess optar sem hann er smackadar, þvi sætare finnst hann, og þess heitara sem hann er elskadur, þvi elskulegar fellur han̄ i gied. O hvad sæl er su Saal, sem sedst af Gllds Astar Kiærleika, þvi so yndisleger Straumar Vellystinganna flooa yfer hana, ad hwn verdur sialf þad ad medkienna, ad þvilijka sie ecke ad sinna i nockre skapadre Skiepnu.

Hyred ydur nu þess vegna um̄, þier Mannanna Børn, hversu þier erud af Heimsens Elsku svikenn: Hvad hafa menn þo um̄sijder af Elsku allra tijmanlegre hluta, annad enn Sorg, Mædu og Hrigd, tøpun Tijmans og onytsamleg ord, fyrer hver þeir verda um̄ sijder ad giora skarpann Reikning: Af Elsku Heimsens kemur einnen Agg, Deilur, Øfundsyke, Hatur, Stryd, og Samviskunnar Kvalræde: So hver og einn mun taka þar Jdran fyrer um̄ sijder, ad han̄ hefur elskad of miøg þad jardneska; þar fyrer seger Johannes. 1.Joh. 2. Sona korn, elsked ecke Heimenn, nie helldur þad sem i Heimenum er, þvi allt þad sem i Heimenum er, þad er Gyrnd Holldsens, Fysn Augnanna, og Drambsamlegt Lijferne, hvad ei er af Fødurnum, helldur af Heimenum; og Heimurenn forgeingur og hans Gyrnd; enn sa sem giører Vilia Gllds, han̄ blyfur eilijflega.

Þar

Þar fyrer skal hver einn láata sig þad angra alla siina Lijfdaga, ad hañ hefur elskad nockurn Hlut meira eñ GUD. Ef ad GUD giefur þier þad i Hiarta ad elska hann fram yfer alla Hlute, þa hefur hann giefed þier þad allra besta hann hafde, þad er sig sialfann.

# Cap. XXVII.

## Hvernen DrotteñJEsus opeñberar sig fyrer einne trwadre Saalu, og lætur hana þeckia, ad hann er sa hædste Kiærleike, og ypparste Goode.

Joh. 14.

Hver mig elskar, hønum vil eg auglysa sialfann mig.

SA sem þann Kroßfesta Christum rett adgiæter, hann finnur eckert a hønum añad eñ hreinann, fullkomlegann Kiærleika; hañ syner hønum sitt Hiarta, og seger, sia þw og skoda mitt Hiarta, i hveriu ad eckert Fals, eingenn Flærd, eingenn Svik bwa, helldur stærsta Trigd og Sannleike. Halladu þijnu Høfde ad mier og hvyl þig a mijnu Hiarta, legdu vid Munnenn og drecktu þa sætustu Aast ur mijnum Saarum, sem fyrer mig af mijns Fødurs Hiarta upp sprettur og framflytur. Smack-

Smacker þw einusinne a þessum Kiær-leyka, þa muntu strax gleima Heimenum og fyrer saker þessa mikla Kiærleika, muntu hañ forakta, og ad eingu akta, og ecke neitt muntu gyrnast annad, enn ad þw meiger æfennlega bijhallda þessare GUds Elsku; og þitt Hiarta mun þa segia til GUds; Drottenn GUd, giefdu mier framar øllu ad nioota þinnar sætu Elsku, þo þw villder giefa mier allañ Heim-enn, þa virde eg hann þo næsta lijtels hia þijn-um Kiærleika. Jeg gyrnest ecke neitt þar af, utann þig og þijna Astseme. O! sæl og blessud er su Saal, sem þessa Elsku finnur, og fær hennar ad nioota; soddann Saal formerker i Raun og sannleika, ad HErrann Christur er eckert annad enn hrein Elska, og einka Unnuste Saalarennar. Ad HErrann Christur sie ein-ka ynde og Unun Saalna vorra, þad syner hañ fyrer sijna andlega Tilkomu og sætustu Hress-ing vorra Saalna, þvi þegar Saalenn for-merker einn lijtenn Dropa edur Smeck þar af, þa uppfyllest hwn af yfergnæfanlegum Fogn-ude? Þvi ad sa oendanleige Kiærleike, er so stoor, ad vort Hiarta getur ecke hañ yfer-griped. Þetta formerkte hiñ sæle Ignatius, sem alltijd nefnde Drotteñ JEsum sijna Elsku, segiande: Elskann mijn var Krossfest.

Þesse Christi Kiærleike er sa ypparste og hædste goode a Himne og a Jordu; þvi i þessum Kiærleika, er allt gott innefaled; GUD er fws og reidubwenn, til ad giefa og meddeila oss þessum ypparsta Gooda, og hefur þess vegna sendt sinn Elskulegann Son hingad nidur til vor i þennann Eymdar-dal, ad hañ i hønum og fyrer hann, kunne ad giora oss hluttakande þessa dyrmæta Fiesioodar fyrer Trwna. Ja hann er langtum viliugre og ferdugre til ad veita oss þennann gooda, enn vier erum til ad medtaka hann.

Enn hvar hellst þesse Kiærleike, sem fyrer Heilagann Anda er wthelltur i vor Hiortu, verdur af raun og reinslu þecktur, þa finnst hann ganga langt yfer alla Heimsens Glede, og so mikell er ylmur hans Lysteseme og sætleika, ad riettrwud og audmiwk Saal, skilur sig vegna hans sialfviliuglega fra ollu veralldlegu, og giefur sig helldur epter ununarsamre Raustu sijns elskuga JEsu, enn allra skapadra Skiepna blijdulaatum, þvi þesse Kiærleikeñ samannreirer og bindur Hiartad vid HErrann Christum, og uppfyller þad med langtum ypparlegre Heilags Anda Gaafum og giædum, enn nockurt annad sem vera kann i ollum Heimenum. Enn hvernen til þessara ypparlegu og ilmande Giæda i Saalunne og Andadanum

danum verdur funded, og hvernen þau smackast, kann ecke med ordum ad wtskyrast; og ecke helldur er nockra Gladværd og Lysteseme, i Heimennum so stoora ad finna, ad med hennar Samiosnude kunne hinn minste partur af þvi Sælgiæte syndur ad verde, sem sa hugur og Saal hefur, er innlijfadur er þeim hædsta Gooda. Og hier a þad heima, sem St. Paall seger, ad hann i sinne Uppricktingu til Himna, hafe heyrt outseigianleg Ord. 2. Cor. 12. Þegar þesse ilmande Sætleiks smeckur þess hædsta gooda, rienar og dregst i hlie, so Saalen finnur ei til hans, þa finst henne lijdannlegre hverskins Hørmung Heimsens, sem til falla kann, hroopar þess vegna og seger; O þw allrasætaste Kiærleike, hvernen yfergiefur þw mig so, þar eg hefe þig þo nawmlega smackad? Hwn seger sem Spaamadurenn: Þad geingur so til fyrer mier, sem þvi Barne, sem nijlega hefur vered vaned af Moodur-Briooftum. Psal. 131. Þijn Miskunsemd Drottenn er betre enn lijfed, lat mig hana formerkia. Psal. 63. Mijna Saalu þyrster alleina epter þier, og mijnu Hiarta er ecke rott, fyrer enn þad fær roosamlega hvilld i þier, eya, gled þw hiartad mitt, æ, lat mig nioota þijns oumrædelega Sælgiætes, og ununarsamlegustu Vellystar. So mikell er Kraptur þessarar AstarGUds, ad trwud Saal helld-

helldur sialft Lijfed aumt, Beyskt og hormungarfullt, ef hwn skyllde fyrer utann þennann andlega Sætleika lifa, so hwn verdur fws og reidubwen, ad leysa upp og vera med Christo, eins og Postulenn Paall fordum. 2. Cor. 8.

# Cap. XXVIII.

## Hvernen sa Hædste Goode þeckest og smackast i Saalunne.

Psal. 34.

Smacked og siaaed hvad sætur ad Drottenn er.

GUd er eilijfur, fullkomenn, oendannlegur, elskurykur og verulegur Goode, sem giarnann meddeiler sier sijnum elskendum, og vill ad þeijr fyrer lifande Trw, þecke sig i Anda og Sannleika so ad vera: Og skule soddann skie, þa hlytur þad i Mannenum ad finnast, sem hefur nockra lijking vid GUd, so hann kunne ad vera hæfelegur til ad medtaka þann hædsta Gooda. Þetta er Saal Mannsens, i hana villde GUd wthella sinne Giæsku, Ja bwa sialfur þar Inne, og alltijd meir og meir med o-wtskyrannlegum hætte sig fyrer henne opennbera.

Enn af þvi, ad Madurenn ratade i stora Olucku fyrer Syndena, þar hann miste þau

S hædstu

hædstu Giæde, og vard aptur a mot Andskotans Bwstadur, hvered æfer syndsamlegar Athafner i Mannenum, sem er, Drambseme, Agyrnd, Lostaseme, Reide, Ofund, og adrar þvilijkar Svijvirdingar; þa var naudsynlegt ad Madurenn fyrer Trwna, sem er GUDS Verk, snerest aptur fra soddann Odygdum, til GUds; fra Diøflenum til Christum JEsum; þvi omøgulegt er, ad i einne og hinne sømu Verkstøfu Saalarennar, handterest under eins, GUds og Diøfulsens Erendagiørder: Satans Verk og athafner meiga endelega vykia i burt, annars kann ecke GUd ad hafa sijnar Verkaner i Mannenum, og a medann fær Saalen ecke skyniad, hvad liwfur og sætur ad Drottenn er; Þar fyrer eru þeir so faaer sem þeckia riettelega hans Giæsku, þviad i flestum rykia Verkenn Myrkranna, og flester eru med allre Astundun Heimenum, Skøpudum Skiepnum, og sier siaalfum ahaangande.

Enn þeir sem astunda riettelega ad þeckia GUd, og smacka hann, þeir meiga hallda sig ad hønum, og verda einn Ande med hønum, og med þess meira Kappe og Astundun, sem þetta giørest, so ad Hiartad dregst fra Heimenum til GUds, þvi meir opennberar GUD sig, trwadre Saalu, og samteinger sig henne; þvi

þvi, so sem eg strax sagde, Elskan til Heimsens edur skapadra Skiepna, og elskan til GUds, kunna ecke ad vera til samans, epter þvi sem stendur, 1. Joh. 2. Sa sem Heimenn elskar, i honum er ecke Fødursens Kiærleike. Og hvar GUd finnur eina Saal lausa og frya fra Heimenum, þa uppfyller hann hana strax med Himnaryke, med sialfum sier og øllum siinum Giædumm; þvi framar uppfyller GUd Hiartad med siinu Lioose og huggun, sem hann fornemur minna vera i þvi af Elsku til Heimsens; hvar fyrer, ad einn af fyrre alldar Lærefedrum hefur sagt, ad GUd lieti eina liduga og kirrlaata Saalu framar formerkia, enn wtseigia hvad hann være.

Skule nw Madurenn fullkomlega og af Reinslunnar Peckingu vita, ad GUd sie sa allra hædste Goode, þa hlytur hann ad kienna a Giæsku hanns innvortis og i Hiartanu. Skriften vitnar þar um wtvortis, enn Hiartad ma hid innra fornema og smacka þad lifanda GUds Ord, epter þvi sem stendur Hebr. 6. Ad þeir trwudu hafe smackad þad gooda GUds Ord, og Krapt epterkomande Veralldar. Ad GUd sie ununarsamlega sætur og giæskurykur, kantu ecke betur ad skynia, hellduren þegar þw smackar hanns Huggun. Ja ad hann sie Vera full allskins Fagnadar, gietur þier eingenn betur kiendt nie undervysad, enn

siaalfur GUD, þegar hann gledur þig; eins er þvi vared uñ allt annad, sem Gude tileinkast, hann verdur siaalfur ad øllu leite þad i þier ad verka, so þu hafer þess sanna og lifande Þecking, þvi an GUds er omøgulegt ad þeckia GUD, so sem Augustinus ad orde kemst. Hverium þeim sem GUD opennberar sig ecke siaalfur, nie auglyser hvad hann sie, hann verdur alldrei sannarlega eda eigennlega skyliande hvad GUD er. So sem og lijka þar a mote, þad Hiarta sem hid innra finnur med sier lifande GUds Ord, þvi verdur reinslan Læremeistare til ad þeckia, ad GUD sie allt, og allt gott, og sa fullkomne eilijfe Goode, og betre enn allt þad mannlegur Hugur kann ad uppþeinkia og æskia sier.

Þegar GUD þeckest med þessum hætte og smackast i Saalunne, epter ordum Davids i Psal.84. og 63. Betre er þijn Mijskun eñ Lijfed, þa tekur Saalen til ad ovirda Heimenn, og hann med øllu sijnu Sælgiæte og Vellystingum ad forleggia, er einungis med GUD til frids ad vera, og ad hun eige i hønum allt, og þa verdur hun þar uñ fullskynia, ad Heimurenn og øll Heimsens Audæfi, sieu fallvøllt og skammvinn, og ecke annad enn Hiegome, Glingur og Barnaskrøpur; og GUD þar þvert a mote, sie sa sannarlege, fullkomlege,

lege, varannlege og eilijfe Goode. Hier uppa hliooda ord Asaphs i Psal.73. Nær eg hefe þig ad eins Drottenn, þa hyrde eg hverke um Himen nie Jørd: Soddann ein Saala, hefur smackad þann sanna og hædsta Gooda, fyrer hvern smeck, ad elska til Heimsens og allra skapadra Skiepna tekur til ad dvijna, so ad Madur hefur einga sierdeilis Lyst edur glede i þeim, helldur i Gude alleina, sem er sa ypparste Goode, og þetta er sa riette og tilfinnanlege smeckur GUds Kiærleika. Ja sa rette GUds Kiærleike, sem yfergeingur allt þad sem Madur kann ad uppþeinkia; þvi þad kann ecke ad skie, ad þar sem GUd þeckest riett og sannarlega, ad hann verde ecke strax yfer allt elskadur, lofadur og vegsamadur. Hver vill þa fella sig vid þau ofullkomnu Giædenn, þar so er haattad þeim hædsta Gooda, ad nær hann verdur einusinne i riettre raun og veru skodadur og þecktur, þa helgar hann sier strax, og eignar allan Mannenn, og verdur so af honum elskadur, yfer allt þad sem i Heimenum er. So siaaum vier þa, hvernen ad Þecking þess lifanda GUds wtslockur Elsku til Heimsens, og afmaaer hans Miñing, so ad Madurenn hroopar med Salomone, segiande, þad er allt samann Hiegome, allt þad sem skiedur under Solunne er ecke utann Eimd og Hiegome. So verdur Elsk-

an til Heimsens ad eingu i Mannsens Hiarta, enn elskan til GUd, sem varer æfennlega, bijhelldur einasta Vegsemdenne.

# Cap. XXIX.

## Hvernen ein riett Trwud Saal skodar GUd i sijnum Velgiorningum, so sem þan̄ ædsta Gooda.

1. Joh. 4.

I þvi opennberadist Kiærleike GUds vid oss, þad GUd sende sin̄ Eingieten̄ Son i Heimin, ad vier skylldum fyrer hann lifa. Þar inne er Kiærleikurenn, eige þad vier elskudum GUd, helldur þad hann elskade oss fyrre, og sende sin̄ Son til forlijkunar fyrer vorar Synder.

Allar GUds Hondlaner vid oss Mennena, eru af honum ætladar til þess, ad hann ummvende oss sem hofum fra honum brotist, og fære oss aptur til sijn. Enn med þvi vier eins og Fienadurenn erum af Naattwrunne so dauser og heimsker, ad vier ecke underſtondum, hvar fyrer GUd veiter oss so stora Velgiorninga, vier laatum oss þad, sijdst i hug koma, ad þeir eru oss þessvegna veitter, ad hann þar med vill locka oss og lada til sijn, so ad vier skulum elska hann sem þann ypparsta Gooda; giætum ecke helldur ad þvi, ad GUd legg=

leggur þessvegna straffed a, ad Madureñ snwest aptur til hans, og ummvendest: Par fyrer vilium vier yfervega þessa GUds Velgiorninga; Fyrst þa Lijkamlegu, þar næst þa Andlegu. GUd hefur ecke neitt þad skapad, sem ecke sie Mannenum til gagns og Gooda. Þeim sem GUd elska, þiena aller hluter til hins besta, bæde syníleiger og osyneleiger. Þeir osynelegu hluterner sem oss þiena, eru Heilager GUds Einglar, þeireru þienustusamer Andar, wtsender vegna þeirra sem erfa skulu Saaluhialpena, hverra Vijsdoome, Styrkleika, kostgiæfelegre Vøktun og varatekt yfer Mønnum, ad Ritningen hrosar allvijda.

Hier ad huygur Historiann um̃ Patriarchann Jacob og Elisæum, 2. Konga. B. 36. hvar af vier Lærum, ad so sem marger vonder Andar setia sig þar til, ad einn Madur fordiarfest, so eru fleire Heilager gooder Einglar af GUds skipan tilsetter, einn Mañ ad vardveita. Þvi seger David. Psal. 91. Hann hefur boded sijnum Einglum um̃ þig ad þeir bere þig sier a Høndum. Item Psal. 34. Einglar GUds setia Skialdborg i kringum þa sem ottast Drotteñ. Og ad þeir hafe stort Epterlæte af voru Apturhvarfe og Bæn, kienner HErrañ Christur. Luc. 15. Þar er seger hann, Føgnudur fyrer Einglum GUds a Himnum yfer einum Syndugum sem Jdran giører. Þesse GUds Vel-

giørningur er osynelegur, og skiedur i osyneleg-ann maata, þar fyrer verdur hann af þeim vantrwada Heime lijtels aktadur. Enn einn viis og trwadur madur, sem ei ad eins skodar þennann synelega Heim, helldur og einnen þann osynelega, hañ virder hañ næsta mikels, og skilur vel, ad i þeim osynelega Heime, hvern sialfur GUd bigger hlytur ad vera langtum stærre Vegsemd, langtum ypparlegra Folk og Strydsher, langtum stærra HErradæme, enn i þessum synelega Heime, og er þad þess vegna einn ometannlegur Velgiørningur, ad GUd giefur oss sijna eigenn Þienara, sijna Fursta og Underherra til Verndar og Vok-tunar. Þad þyker stor Velgiørningur i þess-um Heime, ad ødlast einhvers veralldlegs Stoorherra Þienara tilfylgdar, sem epter sialfs hans skipun fylgia einum, og viisa høn-um ohætta Leid yfer Eydemerkur og Ovina Lands-Alfur; hvad miklu ædra, ja hvad o-utseigianlegum mun meira ma þañ Velgiør-ning hallda, ad GUd, sem er Drottenn Drott-nanna og Kongur Konganna, skickar sijnum Eingla her ad viisa oss leid i giegnum Villu mørk þessa Heims; og Ummsaatur vorra o-teliande andlegu Ovina.

Ef vier lytum til Himensens, þa siaum vier ad GUd hefur skickad hann oss til Sagns

og

og þienuſtu. Soolen og Twngled ſem eru tvø ſtoor Lioos, ſnwaſt i krijngum allt Jardrÿked, takande ecke hvylld unn eitt Augnablik, og þad ſkiedur þeſſ vegna ad þau ſkule upplÿſa Jørdena, og vera Mønnunum til Nytſemdar ſo ſem adrer koſtgiæfner og arvakrer Þienarar, ſialfur GUd hefur einga þorf a þeirra Þienuſtu þeirra Verkum, og Upplÿſingu, helldur Madurenn.

Soolunne ſer alÿka ſem Hollum og dygdugum Þion, ſem upprÿs ſnema hvern Morun, og ber fÿrer oſſ Liooſed, ſo ſem hid fegurſta blis, og þar hwn helldur allann dagenn a þeſſare leiſtrande liooſlikt, fÿrer oſſ, þa miñer hwn oſſ under eins a þad eilijfa lioos JEſum Chriſtum og hans guddomlega Ord, ad þad ſie logande Lampe vorra Saalna, ſo ad vier gaungum i liooſenu ſo ſem Børn Liooſens. Notten færer oſſ til Sængur, og breider ſinn ſkugga yfer oſſ, ſem eitt Sparlak, hwn veiter oſſ þreittum Hviſld og hreſſing, og minner oſſ a þad, ad vier kwrum og hofum ſkiool under Skugga þeſſ allra hædſta. Twngled ſkickar ſier ſem ein dÿgg og hÿrteñ þioonuſtu Stwlka, hwn ber Vatn til ad vøkva Jørdena, ſo hwn verde frioofſøm. Þar er eingen ſw Stiarna, hverſu lijtel ſem vera kann, ad hwn hafe ecke af Gude feinged ſijna Bleſſan og Krapt, Man-

nenum til Nytsemdar, og ad lysa hans vegna. Nu ef vier athugum Lofsted og Vindana, þa er liooſt ad þeir giora Lofsted klart og skyrt, tviystra stundum Skyunum, og hneppa þau stundum þickt samann, so ad þau hallda miklu Vatne i sier, sem fløskur eda belger, og dreifa þvi sydañ yfer Jørdena, og er þad undrunarlegur hlutur, hversu ad GUd hleiper Vatnenu saman i Skyunum, so sem þad sie styblad, Job.26. 8.9.10. og Lopted edur vindblærenn ma hallda þvi upp enn Skyen eru eckert annad enn Vesser, sem leggia upp af Jørdunne i Lopted, og verda ad dropum. Reidar-Drumunnar og Hagled eru oss og einnen til gagns, so ad vier skilium af þeim maatt GUds; giørum til hans vorar audmiukar Bæner, og þockum hønum hiartannlega fyrer þad, ad hann verndar oss fra Sterkvidrum, og hrædelegu Vedrakaste. Ef vier giætum ad Vindunum so mørgum og margvijslegum, þa er liooſt, ad med þeim framm kvæmast Siglingar, Sioreisur og Høndlaner um̃ Heimenn, og Skipenn berast yfer siaafar Bilgiurnar fyrer Krapt Vindanna, alijka sem Fuglarner um̃ Loffted; med soddann hætte, verda kønnud okiend Plats Veralldarennar adskiliannleg, so þad hyliest ecke neitt sem GUd hefur skapad, Mannenum til Hagnadar, gagns og nota. Ei sijdur er

undrun-

undrunarlegt þad margvijslega Fiska-kin siafarens, sem hid grandvarlegasta giæter ad vissum punctum Maanadanna, so þad sæker epter þa, ad komast uppur Afgrunne Siaalfarens til Grynninganna, halldande sig samann med mikellre Mergd i flockum, sem Korned a Morkenne, og byda epter Monnunum, so sem þeijr villde tala til þeirra a þennann hatt: Siaaed vier erum hier a vissum Tijma til reidu, siaaed Kornskieru Siafarens, i hveria þier meiged innfalla, og na þvi sem ydur hagar. Sama er uñ Fuglana, sem hnappa sig hoopum saman, eins og þeir biode frañ sijna Hialp, vegna Manneskiunnar Nadusynia. Lijted a Jordena Gllds Børn, hwn er so sem nockurskonar Fiehirdsla þess allra hædsta, eitt stoort Hws i hveriu hann geymer sijnar Vister, eitt Smyrsla Herberge i hveriu Læknings domar eru vardveitter. Af Jordunne hofum vier aller Mat og Drick, Klædnad, Lækning, hws og allskonar Maalm. Af Jordunne uppspretta a hverium Manude viss Blomstur og Avexter, og so sem avarpa oss a þennann haatt. Hier erum vier framberande vora Gaafu, og latum ydur hana i tie, so gooda sem vier hofum hana ødlast af vorum Skapara. A Jordunne eru Skoogar, og Fylsne Villudyranna, sem Glld hefur giefed i Mannanna
Valld

Valld og Makt. Vilde madur bera sig ad telia alla GUds lijkamlega Velgiørninga, þa være hønum þad alldeilis omøgulegt, jafnvel þa sem eitt Land edur Herad hefur ad framvijsa; þvi hvert Eple og hver Jurt, er GUds Gaafa, og þær eru oteliande, og bera vitni um̃ Giæsku GUds og hans Kiærleika. Ef ad einn Storherra a Jordunne liete ganga wt Befaling til allra sinna Fursta, Macktarmanna og allra Undersata, og til segde þeim ad vera þijner Þienarar, taka vara a þier, vardveita þig, klæda, lækna, fæda, og endurnæra þig, item vissa Skatta og Skylldur þier ad lwka, og legde þar vid Lijfstraff ef nockud abryste: Sannlega helld eg ad þw munder þann HErra elska, og hans godgiørdum a lopt hallda. Hvad kiemur þa til, ad vier skulum ecke miklu framar elska GUd vorn, sem hefur allt þad Mønnunum til Gagnsemda epterlaated, er Himen og Jørd hafa inne ad hallda. Þvi hann sialfur þarf eingrar skapadrar Skiepnu vid, og ecke hefur hann neitt undanteked af øllum sijnum heilaga Herskara, øllum Heimensens Stiørnum, og ødrum skøpudum Skepnum, ad þad skule ecke þiena oss. Ecke helldur er Helvijte sialft hier fraskiled, þad fæter oss Hrædslu og Otta, so ad vier syndgum ecke so hrapsarle-

arlega, og lifum i Idrunarleise; þad straffar einnen og plaagar alla Ogudlega, vora Ovine, framar enn nockur kann ad æskia.

Nwvilium vier fyrer þennann Stigañ skapadra Skiepna, upp komast til sialfs GUds, sem er allra hluta Skapare. Hefur ecke sw Heilaga Þrenning og hver eiñ Persona Guddoomsens, audsynt oss hina stædstu Naad og Velgiorninga? Faderenn hefur skeinkt og giefed oss sinn Son, og þvi skyllde hann þa ecke giefa oss alla goda hlute med hønum, seger Paall. Rom. 8. Sonurenn hefur giefed oss sialfann sig med ollu þvi hann hefur, epter þvi sem þar stendur, GUd prijsade siñ Kiærleika vid oss i þvi, ad Christur er fyrer oss daaenn, þegar vier vorum enn Syndarar. Heilagur Ande byr i vorum Hiortum, hann upplyser vorar Saaler, hreinsar þær, fræder og huggar, hañ pryder þær med sijnum gafum og vitnar med vorum Anda, ad vier sieum GUds Børn. Rom. 8.

I stuttu maale ad segia, Miskunseme GUds heller sier allre yfer oss, og lætur eckert tilvanta, sem oss kann ad locka og lada til ad elska hann. Spyried ydur fyrer hia GUds Orde, aller þier sem nu hlyded a mijna Rædu; Spyried Einglana, Spamennena og Postulana, og alla GUds Heilaga, ja allar skapadar Skiepnur ad; hvadann komed þier fra?

Þa

Þa munu þeir svara, vier erum Sendabodar GUds Miskunar til ydar, vier erum aller Elldur og loge, til þess ad Mannnanna Hiortu sem af Daudlegu Froste eru gagn-tekeñ, og ordeñ ad Jis, mættu aptur af GUds Kiærleika vermast og hitna. Enn þad er hørmulegt ad vita, ad aller þesser brennande og logande GUds Sendebodar kunna ecke ad verma ydar daudkølldu og stockfrosnu Hiortu. Eg helld þad vera eitt af Undrum Andskotans, burt wr Diwpe hañ Vondsku, ad hann kunne ad giora Mannsens Hiarta so Jiskallt og freded, ad so marger Kiærleiks Elldar GUds kunna þad ecke ad þijda.

Giored vel þar fyrer, daudleger Menn, og giæted ad, hvar ydar Skapari hefur ydur sett, sem er midt a medal so margra logande og lysande Velgiorninga, hvar þeir skynande Einglar ganga alla vega i kringum ydur med þeyrra brennande Elsku, og so margar Skapadar Skiepnur, hveriar so sem Bottar og Sendibodar GUds, eru ad predika fyrer ydur utaf hans Kiærleika. Hvad hefur þa hædstur GUd til saka, ad þid kunned hverke ad elska hann, nie gyrnest ad vegsama hann? Og ef ydur synest þad enn þa lijted, sem hann hefur hingad til ydur veitt og audsynt. Siaed! þa bydur hann sig til ennnw ad giora meira

ad

ad verkum, hann vill giøra fyrer ydur nyann Himen og nya Jord; Hann vill biggia handa ydur eina ypparlega himneska Borg, hverja hans vegsemd mun uppfylla; Ja hann vill sialfur med sinne Dyrd og sijnu Lioose, upplysa ydur. Seged mier: Hvernen kynne ein ung Jwngfrw ad vera so kølld i Elskunne, at hun ecke villde elska einn ungann dægelegann Brwdguma, hvers fegurd, Dygdum og Daadumm, hun heyrde Nott og Dag vered ad hroosa, ja sem hana hefde frelsad fra Daudanumm, hana klædt i Skrwd og Skart, og med ymislegre pryde tignad? Være hun ecke daarlega heimsk, ef hun hann ecke elskade? Merk þess vegna Christen Saala, hversu Diøfullenn hefur giort þig kallda, ad þw kant ecke ad verda heit af Guds Kiærleika. Og fyrst GUD hefur Kiærleikann innrætt, i allra Manna Hiørtu. Seig mier þa, ef þijn Elska være føl, hverium villder þw helldur selia hana, enn GUde þijnumm HErra? Eda meinar þw ad GUD hafe ecke nogu dyrt keipt þijna Elsku og betalad hana? Hefur hann ecke fyrer þijna Elsku giefid þier sinn Elskeluga Son, og Himen og Jord þar ad auke? Allt þad sem þu vænter epter af Heimenum ad hann mune giefa þier, fyrer þinn Kiærleika, þad er einskis verdt, hia þvi sem

GUD

GUd hefur giefed þier, og hann hefur fyrer bwed þeim sem hann elska.

Heimurenn giefur þier kanskie einn hnefa, edur handfylle af Vegsemd og Rykdoome, og þar med nockra Sorg og Mædu, og þo elskar þw hann; Hvarfyrer elskar þw ecke GUd langtumm framar, sem er sa eilijfe Goode? Enn faest Þijn Elska ecke fyrer neitt, hvad soomer henne þa betur, enn ad hun Elske þann ædsta, eilijfa og allra dægelegasta Gooda? Þvi hver sa Hlutur sem vier elskum, hann er vor Fegurd og Pryde; Þar fyrer ef þw elskar GUd, þa hefur þw þa bestu Fegurd og Pryde, og kann eingen ædre og betre ad faast. Ad sijdustu er þad tilhlydelegt, ad vier elskumm þann, sem oss hefur fyrre elskad. Reiknadu sammann Velgiorringa GUds, og muntu reina, ad allar skapadar Skiepnur, eru fullar af hanns Kiærleika. GUds Kiærleike epterfylger þier og ummfadmar þig, so þw gietur ecke ummflwed, hann er þier yfersterkare; þw hlytur endelega hans ad niota, nema þw vilier ecke lifa. Allar skinlausar Skiepnur elska þa, af hverium þær verda elskadar, og þeimgiora til gooda; Villtu þa vera verre eñ þau skinsemdarlausu Dyrenn, og hata þinn Elskara? J hvers Kiærleika þw lifer og hrærest, stendur

og

og geingur, vaker og ſefur? Enn lijka ſo ſem Menn hallda þeim Hlut ſo leinge vid Elldeñ, i hveriumm kvikna ſkal, þar til hann tekur til ad loga; Eins verdur þw ad hallda þijnu Hiarta ſo leinge vid GUds logande Aſtar elld, med þvi ad grunda jduglega, GUds Velgiørninga vid þig frammkomna, þangad til þad verdur i Gude glooande. Og ſo ſem Kienni mennerner fordum brendu upp Foornernar, med þeim heilaga Ellde, ſo verdur ſa hædſte Kiennemadur JEſus Chriſtur, med Ellde ſijns Heilaga Anda ad upptendra Offur þijns Hiarta: Hver hans Kiærleiks Elldur hefur vered breñande til vor fra eilijfu, þvi i HErranum Chriſto høfumm vier elſkader vered, adur enn Grundvøllur Veralldarenar var lagdur. Hans Elſka hefur og ſijdann fagurlega ſkyned med fullkomnumm loga, i hans Holldgan og Fædingu; enn ſierdeilis og einkannlega i hans Pijnu og Dauda, hvarmed hann hefur oſs audſynt ſinn hædſta Kiærleika, og mun þeſſe hans Kiærleiks Loge ecke wtſlokna umm alla eilijfd. Þar fyrer ſkalltu leggia þitt kalda Hiarta vid þenann Elldenn ſo þw kunner ad verda varmur og med Chriſti Kiærleika uppkveiktur, og vid hann ſamteingdur umm alla eilijfd.

# Cap. XXX.
## Hvernen Gud openbere sig fyrer elskande Saalu, so sem hann fullkomnasta Frijdleika.

Psal. 104.

Drottenn minn GUd nærsta Vegsamlegur ertu, fagurlega og dyrdlega ertu prijddur, Lioosenu ertu skrijddur so sem Klæde.

So sem ein trwud Saal hefur eckert kiærara, og reiknar einganñ gooda ypparlegre enn GUd sialfann, so er og eckert dæelegra fyrer hennar Augumm, enn GUd sialfur, þvi hwn sier GUd so sem þa ædstu Prijde og Dægelegleika, vid hvern eckert aa Himne og Jördu kann ad jafnast, þvi aller Heilager Einglar, kunna ecke umm alla eilijfd nogsamlega ad lofa og prysa þessa GUds Fegurd og Prijde. Ef ad giörvallur Skare Einglanna i þeirra Glansa, og aller Wtvallder i þeirra Forklaaran stæde i einum Hoop tilsamañs med allri sinne skijnande birtu, þa kynne Madur ad sia, ad öll þeirra Prijde, Lioome og Fegurd være so sem eckert ad reikna hia GUds Prijde, Liooma og Fegurd, sierdeilis med þvi ad öll þeirra Fegurd og Blijdleike hefur sinn Uppruna af GUde alleina, so sem þeim eilijfa Biartleika, Fegurd og Dæelegleika, og af þvi eilij-

eilijfa og oendanlega Liooſe og Glanſa; Þvi lijka ſo ſem GUd er allt gott, ſo er hann og einnen øll Fegurd Prijde og yndislegleike; ſa ſem i Andanum ſkodar hans fegurdar Prijdi hann gleimer ſtrax vænleik Skiepnanna, ja allra Eingla Fegurd og Dæelegleika, og er ecke af nockrum hlut ſo hriggur, ſem af þvi ad hann hefur med ſinne vondſku ſoddañ einn ypparlegann Gooda; og med ſijnumm Ohreinleika, ſoddann eina eilijfa owtſkyrannlega Fegurd, Prijde og vænleika, ſtyggt og modgad.

Þegar ſa vyſe Plato var ad gaumgiæfa Fegurd og Prijde ſkapadra Skiepna, lioos Heimſins, Bloomſtur Jardarennar, Eykur Skooganna, Tegunder Maalmſens, ſem og einnen þau maallauſu Dyrenn, þa aliktade hann, epter þvi ſem lioos Lugvitſens gaf honumm ad ſkilia, ad ſialfur GUd kynne ecke annars, eñ ad vera ein eilijf, og yferburda fogur og dæeleg Vera, ſem hefde i ſier allra ſkapadra Skiepna Prijde og Vænleika: Hvad miklu framar mætte þa Saalen ſem i Trwnne og Andanum, ſier GUDS Yndeſlegleika og Vegſemd, alyckta, ad GUd ſie ſa hædſte og ypparſte Dæelegleike. Þeſſe hin hædſta Prijde og ypparlegleike ſieſt og einnen i vorum HErra JEſu Chriſto med hinum fegurſta

Glansa, Dyrd og Vegsemd, hviad i hønum er allur Fullkomlegleike, og Gude hefur þad so þocknast, ad i hønum skyllde bwa allur Fullkomlegleike, Col. 1. 19. og aller Hluter skyllu i Christo innelukter vera bædi þeir sem eru a Himne og a Jørdu, Eph. 1. 20. hvad eingen Skiepna kann ad wtgrunda. Þarfyrer hlioota aller Einglar og Meñ sig ad forundra, yfer Christi fegurdar Lioma og Friidleika, og i þessum Friidleika hefur GUD einnen giort siin trwud Børn hluttakande, þar þau fyrer Trwna eru hluttakande orden guddomlegrar Naattwru, sem St. Petur seger; 2,Pet.1. og eru þess vegna, og so ordenn hluttakande i hans Dæelegleika og fegurd, so ad aller sem fyrer trwna eru i Christo, eru fyrer Gude friider og fagrer; hvar-fyrer Drottenn seger so til þeijrra; Psal. 16. A þeim Heiløgu sem eru a Jørdunne, og a þeim Dyrdlegu, hef eg alla mijna þocknan. Og til þeijrra sialfra seger Drottenn, Lofk. 1. Siaa mijn Unnusta þw ert dæeleg, dæeleg ertu, þessvegna seger David, Psal. 45. Konungsens Dotter, edur sw andlega Brwdurenn, er hid innra næsta dæeleg: Þvi þo þar kunne ad vera Brester og feil hia þeim trwudu, þa aslytur GUD þad þo ecke; Glanse Christi Vegsemdar og priide, hilur þa, og bæter þad sem a kann ad vanta, en langtum dæelegre og vegsam-

samlegre munu þeir þo verda i ødru Lijfe, hvar þeirra Vegsemd og prijde, sem nw er hulenn med Gude i Christo, skal openber verda, um̃ hveria Johannes seger 1.Joh.3. Pad er enn nw ecke opennbert hvad vier munum verda, enn vier vitum ad nær þad verdur opennbert, þa munum vier verda hønum lijker; þvi ad vier munum sia han̄ so sem han̄ er: Vier munum þa vakna upp efter GUds Mynd, og GUds utvalenna Barna Lijkamer, munu þa verda forklaarader, og lijker vors Herra JEsu Christi forklaarudum lijkama. Phi. 3. v.21. Hier a þad nw heima sem Skriften seger Daniel.12. um̃ þa heilogu, ad þeir mune skijna sem Himensens geislar, og lijka sem stiørnur um̃ alldur og ad eilijfu. Og af þvi ad i Psal. 104. stendur, ad GUds Klædnadur sie lioosed, þa fylger a epter, ad vor Klædnadur mune og so verda Lioos og Biartleike.

## Cap. XXXI.

## Hvernen ad GUd openbere sig fyrer þeyrre Saal, sem hann elskar so sem omælannlegt Almætte,

Psal. 89.

Drottenn GUd Zebaoth, hverer so mekrugur Gud so sem þw? Og þinn Sannleike er i kringum þig.

GUds Kiærleike vill, ad sw Saal sem elsk-ar GUd, skule giøra hverium Manne til Gooda, og þiena bæde Vinum og Ovin-um, og ad hwn skule þad frammkvæma, eige vegna sialfra sinna Gagnsmuna, helldur sier-deilis fyrer saker GUds Elsku, sem þvi velld-ur, ad þad o-wtseigianlega GUds Almætte, lætur sig þar til hræra, ad stijga ofann til vor, og giefa oss af sijnum oþriotande Rijkdoome alla gooda hluti, til þess ad vier laatum, ød-rum aptur i tie af einfalldri Elsku hvad hans Kiærleike oss meddeiler, af Fiesiodum sijns Almættis.

Þessvegna skalltu varast O! Madur ad tileigna þier sialfum nockud, helldur tileinka þw GUds Almætte allt hvad þw hefur, og þad þw ert, þvi eingen skøpud Skiepna kañ af sijnum eingen krapte neitt þier ad giefa, eda fra þier ad griipa, GUds Almætte giører þad alleina; Vor Hiaalp kemur fra Drottne sem skapad hefur Himenn og Jørd, seger Ande GUds. Eingen skøpud Skiepna kañ helldur þier Huggun ad veita, GUds Kiærleike giør-er þad alleina. Jsoddann Kiærleika, sier trw-ud Saala oyfergrypanlegt Almætte GUds, sem hefur i sier Himen og Jord, Hafed og Þurrlended, eñ kañ af eingum hlut yfergriped ad verda, þvi allur Heimurenn, vid GUds

Al-

Almætte ad jafna, er ſo ſem ſandkorn, edur vatns drope. Eſ. 40. v. 15.

Af þeſſum fullkomlegleika Guddoomlegs Almættis, hafa aller Kraptar Einglanna, Mannanna, og ſkapadra Skiepna ſinn Uppruna. J hønum er innefaleñ Feſting Himnanna, af hønum kemur Hræring Siaafarhaffſens, og Jardarennar Styrkleike, ſo ad Himenn og Jord eru full med GUddoomlegañ Krapt og Verkaner, full med Anda Drottens. GUds Vellde innebindur i ſier alla hlute, og uppfyller alla hlute, enn eingeñ hlutur kañ ad yfergrijpa hañ, edur iñelikia; ſo hatt ſem GUd er yfer ollum hlutum, ſo diwpt er hann i ollum hlutum og aller hluter i hønum, ſo ſem St. Paall ſeger Rom. 11. 36. Ad af hønum, fyrer hann, og i hønum, ſieu aller hluter. Item hann er yfer øllum, fyrer øllum og i øllum. Eph. 4.

Nw af þvi ad GUd er hædſtur allra þa kann eingenn hønum lijkur ad vera, og hver ſem ſtundar ad vera hønum lijkur, hañ gierer ſig ad Gude, dryger þa ſtærſtu Synd, og hrapar i Afgrun Fyrerdæmingarennar. Og med þvi ad GUd er allt, þa fylger þad epter, ad hvad hellſt ſem fyrer utann hann er, þa er þad eckert. Af þeſſum rokum, ſem er af Almætte GUds, kannaſt Madurenn vid, hvad audvirdelegur hañ ſie, lærer ad ottaſt GUd.

Hvar fyrer Drottenn hefur og alleinasta velþocknan a þeim sem audmykia sig under hans volduga Hønd.

Þess ædre og hærre sem GUd nw er i siinu Almætte, þess minne og lægre giører hans Kiærleike hann. Littu til HErrans JEsu Christi GUds Sonar lifanda, þess volduga Kraptar GUDS, fyrer hvern aller hluter eru giørder, og i hverium aller hluter standast, hversu hann af Ast og Kiærleika til vor stie nidur hingad, liitelæckade sig og audmykte under allar Skiepnur; þar fyrer, so sem eingen kañ þar ordum ad koma, ellegar þad ad grunda, hviliikt ad Almætte GUds er, so duger ecke helldur þar til vort Hugskot, ad skilia og grunda JEsu Christi Liitelæte og Nidurlæging. Enn so diwpt sem hann er nidurstigeñ, so hatt er hann upphafenn yfer alla hlute, hønum sie Lof og Dyrd ad eiliifu, Amen.

O GUd, O JEsu, O Heilage Ande, þw sem ert eitt oumbreitannlegt Sinne,
Eitt Lios owtslockvanlegt,
Fridur oraskanlegur,
Eining o-adskilianleg,
Sannleikur obrigdanlegur,
Godgyrne owtskyrannleg,
Mattur omælannlegur,
Speke oendannleg,

Giæska

Giæska oyfergrypannleg,
Eilijfd allstadar nærværande,
Einfalldlegleike sem uppfyller alla hlute,
Upphaf øllu stioornande,
Stødugleike sem hrærer alla Hlute,
Lijf allra lifendra,
Skinsemd allra þeirra sem nockud skinia,
Einn Kraptur sem giefur allann Krapt,
Upplys þu mig, Helga þu mig, Lijfga þu mig.

# Cap. XXXII.

## Hvernen ein elskande Saal, kañ ad þeckia GUd, so sem þad Hædsta Riettlæte og Heilagleika.

Psal. 36.

Þitt Riettlæte stendur lijka sem FiøllennGUds, þijner Doomar, so sem miked reigenn Diwp.

Allar þær Saaler sem elska GUd, þeckia hañ ad vera þad Hædsta og Heilagasta Riettlæte, sem i giegnum fer alla hlute, og alla hlute yfergeingur. J Gude er GUds allra heilagaste vilie, i Einglunum heiløg Hlydne, i Mønnunum Samviskunnar Vitnisburdur, i øllum skopudum Skiepnum Nidurradan Naattwrunnar; fyrer hveria ad hædstur GUd hefur sett skøpudum hlutum vissa tølu, vigt

og mæler; hvad sem skiedur þar a moote, er bæde Gude og Naattwrunne gagnstædelegt.

Þessvegna gioraſt allar Synder i Heimenum a mote guddomlegu Riettlæte, og þar med brytur Syndarenn a moote ollum skøpudum skiepnum, og jafnvel a moote Einglunum og sialfs sijns Samviſku, og giorer sig þeim ollum ad Ovin. Þegar madureñ stigger GUd, stigger hañ under eins allar skapadar Skiepnur, og giorer þeim i moote. Eins er haattad um Fridþægingena; þegar GUd er fridstilltur, þa eru allar Skiepnur til frids vid þann syndugu, og hafa ecke neitt a moote hønum ad segia. Þvi kemst St. Paall so ad orde; ad fyrer Christum sieu aller hluter forlykader, bæde a Himne og a Jørdu, af þvi ad GUd er forlyktur fyrer Christum; og sialfur Endurlausnarenn seger, Luc. 15. ad føgnudur mune vera fyrer Einglunum yfer einum Syndugum sem Afturbot giører; þvi þeir gledia sig bæde fyrer GUds saker og Manna. Eñ sie GUd ecke forlijktur vid Mennena, þa verda allar Skiepnur til, bæde Einglarner og øll Naattwrañ, ad straffa þann Synduga; og hier af koma þeir hrædelegu GUds Doomar, ad allar Hofudskiepnurnar, eru þesshattar Manne reidar, og er omøgulegt ad hindra soddann Hefnder og Dooma, so ad jafnvel allt Jardryked,

ma skielfast þar af og þagna, og a þad hier heima sem Asaph syngur i Psal. 76. Þw ert Skielfelegur, og hver fær stadest fyrer þier i þinne Reide? Soddann ma og merkia af Egyptalands Plaagum, sem eru berlegt Lærdooms Skial; þar til, hvernen ad allar Skiepnur heimta þa ogudlegu under Refsingena, þad verdur og so med mørgum ordum syndt i Spekennar Bokar 16. og 17. Cap. Af yfertrodslu GUds Bodorda, a mote hans allra heilagasta Riettlæte, kemur og so Bølvaneñ, so sem Moysis GUds madur vitnar i Løgmaalenu. Ef þw hlyder ecke Raustenne Drottens GUds þijns, seger hann, þa skaltu vera bølvadur. Item Bølvadur sie sa sem ecke helldur allt þad sem stendur i løgmaals Bokenne. Eñ þad er Bølvaneñ; ad GUds haatignar Riettlæte brwkar so Hefndena, ad sa bølvade kañ ecke neitt gott ad hreppa, hverke af GUde sialfum, nie nockre skapadre Skiepnu, so ad hann þar fyrer verdur ein Andstigd fyrer øllu hollde, og fyrer øllum Skiepnum. Es. 66. v. 24.

Maledictio est ad æternam miseriam obligatio & condemnatio. Bølvaneñ er eilijf Fordæming. Af þessu GUds allra heilagasta Riettlæte koma þeir forundrunarlegu, orannsakanlegu, heimuglegu og skielfelegu

felegu GUDs Doomar a hveria David minnest i Psal. 36. segiande: Piiner Doomar Drottenn, eru eitt mikedreigenn Diwp. Og Heilagur Paalus Rom. 11. mæler þannig. Hvad oyfergrypanleger eru hans Doomar, og hvad ofinnannleger eru hans Veger? Þegar meñ horfa a þessa GUDs Dooma, þeckia þeir þar med hans Riettlæte. Hvar uñ Moysis so talar, Deut. 32. Miijn er Hefnden, og vil endurgiallda, seger Drottenn. Nær eg hvesse mitt Sverd so sem Elldinng, og miijn Hønd tekur til ad reffa, þa vil eg hefna miijn a miijnum Ovinum, og endurgiallda þeim sem mig hata. Gledied ydur þier sem erud hans Foolk, þvi hann mun hefna Bloodsins sinna Þienara, og miskunsamur vera yfer Landenu siins Foolks. J þessum ordum bodar Moysis straff øllum ogudlegum, sem motstanda guddoomlegu Riettlæte: Þar sem hann seger, ad GUD vilie briina sitt Sverd, so sem adra Ellding, þa meinar hann þar med hrædelega Dooma þess allra hædsta, vid hveria Jorden ma skielfast, so sem Ellding og Reidarþrwmur, og eingeñ skøpud Skiepna kann ad standa þar a moote, Psal. 76. Soddann mønnum, hveria GUD dregur fram under Refsingena, gietur ecke jafnvel øll Verøllden hiaalpad. J þeim 94. Psalme seger David. Drottenn GUD, hvers ad Hefnden er, audsyn þig; upphef þig þw

Doom-

Doomare Veralldarennar, endurgiallð þeim Dramblaatu þad sem þeir verdskullda. Hversu sem Gud er þeim miskunsamur, milldur, laanglundargoodur, þolennmoodur, lijfsætur og goodgiarn, sem hann ottast og elska, þa er hann þo epter sijnu Rettlæte hardur og straangur Doomare, i giegn øllum ogudlegum, sem falla i hans reidehendur.

Þar fyrer setur GUD oss fyrer sioøner i sijnu Heilaga Orde, ecke einasta Epterdæmeñ uppa eina Naad og Miskunseme, helldur og einnen sitt Riettlæte og hefndar Straff, so sem var Syndaflooded, Eydelegging Sodomæ og Gommorhæ, Refsing Pharaonis bæde i Egyptalande og i Hafinu rauda, einnen synde GUD syna Reide, a Core, Datan og Abiran, Saul, Achitophel, Achab, Jesabel, Nebucadnezar, Balthasar, Senacherib, og Antiocho. Eins lijka i Nia Testamentinu a Herode, Nerone, Juliano, Diocletiano, og ødrum fleirum, af hverra Dæmum vier meigum læra ad þeckia GUDs hrædelega Dooma, og skielfelegt Hefndarstraff. Hier fyrer kallast og einnen GUD, Deus ultionum, GUD Hefndanna, þvi hønum einum heirer Hefnden til, hann er sa allra riettlaataste GUD, ja sialft Riettlæted, sem ecke kann ad lyda Raanglæted til leingdar. Þessvegna hroopa Saalar þeirra

Heiløgu i Openb. B. Cap. 6. Uppa GUds Riettlæte, segiande: Hversu leinge villtu Drottenn ecke dæma og hefna vors Blods a þeim sem a Jørdu bwa? Ja Himin og Jørd, og allar skapadar Skiepnur, hroopa hefnd og Doom yfer þeim Ogudlegu, og soddann GUds Doomar skie daglega, enn þeckiast ecke nema af Heiløgum og trwudum Møñum, uñ hveria David talar i Psal. 91. Þu skallt sia þinn Vilia med þijnum Augum, og lyta a þad hvernen þeim Ogudlegu mun endurgollded verda. Hver Malsgrein ecke høndlar uñ holldlegar GUds Tilhneigingar, helldur Andann, og lijtur þar ad, ad vier færum Gude vorum Riettlætesens Lofstyr, segiande med David i Psal. 19. Riettlaatur ertu Drottenn, og Riettferduger eru þijner Doomar. og i Psal. 144. Riettlaatur er Drottenn i øllum sijnum Vegum, og Heilagur i øllum sijnum Verkum. Þeir Heiløgu og riettferdugu siaa sijna Lyst a GUds undarlegum Doomum, ecke epter holldenu, so sem þeir ed af Hefndargyrnd glediast yfer Fordiørfun og Olucku þeirra Ogudlegu; helldur epter Andanum; ad þeir þeckia og prijsa GUds Riettlæte, þad hann uppfyllt hafe sijn Ord, og bevijsad sig ad vera einn riettlaatann GUd. Eingu ad sijdur eru þeir stwrande og graatande yfer Fordiørfun þeirra Ogudlegu, eins og HErrann Christur þa hann griet yfer Jerusalem,

uſalem, og David yfer Abſolon. Menn hlioota ad alijta þetta Efne i tvøfalldañ mata, bæde uppa GUds ſydu og Mannanna; ef vier horfum a Mannanna Fordiørfun, þa meigum vier maklega ſturlaſt af henne, enn lijtum vier til GUds, þa meigum vier prijſa hans Riettlæte, þvi hann giører eingum Oriett.

# Cap. XXXIII.

## Hvernen trwud Saal ſkodar GUd, ſo ſem þa eilijfu Speke.

### Giorn. B. 15.

Drottne eru kunnug øll ſijn Verk fra upp hafe Veralldarennar.

GUd nidurſkickar, hrærer, ſtyrer og ſtioornar øllum hlutum epter ſijnum orañſakanlegum Vijsdoome, ſo ſem þar ſtendur Eſ. 45. Eg kallade þig med Nafne ſeger Drottenn, og nefnde þig, þar þw enn þa þeckter mig ecke, eg em Drottenn, enn eingenn annar, og fyrer utann mig er eingenn GUd, eg ſem giøre Lioſed og ſkicka Myrkrenn: Eg ſem Fridenn gief, og ſkicka hid Vonda, Eg em Drottenn ſem allt þetta giørder. Vei þeim ſem møglar a mote ſijnum Skapara, ſem er Skurned med ødrum Leyrkierum; ſeger nockud Leyred til ſijns Leyrkiera-Smids, Hvad giører þw? Eige audſyner þw þijnar Hendur a þijnu Verke. Vei þeim ſem ſeger til Fødur ſijns, hvar fyrer

hefur

hefur þw gieted mig? Og til Kvinnuññar hvar fyrer fædder þw mig? Þetta seger Drottenn sa Heilage i Israel og hans Meistare, spyried mig ad Teiknum, wysed mijnum Børnum, og Verkum minna Handa til mijn; eg hefe Jørdena giørt, og mannenn þar Upp a skapad, mijnar Høndur hafa wtþaned Himnana, og eg hefe þeirra herskara boded.

Þessar Greiner hafa inne ad hallda, þa vigtugustu Vitnesburde um GUds eilijfa Speke, og hans forundrunarlegu, og oyfergrypannlegu Stioorn og Nidurskickan allra hluta, hvered vottast fyrst af þvi, ad hañ hefur kallad oss alla, hvern einn med sijnu Nafne, adur enn vier þecktum hann; Ja fyrer enn vier vorum gietner og fædder. Enn Nafn vort, med hveriu GUd hefur kallad oss, er vor Trw, vort Kall, og vort Embætte, Ja allt vort Lijfsins Skeid, vier erum med Uppbyriun vors Lijfs, þess Framleidslu og Endingu, med vorum Inngange og wtgange, hvern Drottenn vardveiter, innelukter i GUds eilijfa Vijsdoome og Forsioon Psl.121. hañ telur Stiørnurnar og nefner þær med Nafne seger David i Psal. 147. Þad er, hann nidursetur allt þeirra Hlaup, Krapt og Verkaner, hvad miklu framar audsyner hann þa sijna Speke a Mønnunum? GUd til setur Liooséd og Myrkred, hann giefur Frid og skickar Stryd; Es. 45. v. 7.

A giefur ei Enfta þ A hann A

þad Gooda, helldur og einnen þad Vonda; malum Pænæ Syndarennar riettferdugt Straff. Hann kallar Sverded, og befalar þvi ad giøra þad sem hans riettlæte wtheimter. Jer. 47.

J Stuttu maale ad segia. GUd nidurskickar øllum hlutum med Vijsdoome, hañ sier alla hlute fyrer, hann heyrer allt, so sem stendur i Psalm. 94. Hygged ad þier Vitleisingar medal Foolksens, og þiner Faavysu, hvenær vilied þier Skinsamer verda; sa sem Eyrad hefur plantad, skyllde hann ecke heyra? Sa sem Augad hefur skapad, skyllde hann ecke sia? Sa sem typtar Heidingiana, skyllde hann ecke, straffa? Saed mønnum kieñer hvad þeir vita. Med þessum ordum kienner David, ad GUd hafe sett Speigel sinnar Alvisku og eilijfrar Speke i mennena; þad er ad skilia, i þau heyrande Eyru og siaande Augu, sem ad eru undarleger Kraptar, a medal mansens Sex Skilningar-vita. Nw ef Mannenum fellur þad illa, þegar hann heyrer edur sier eitthvad slæmt og vidbioods legt; skyllde þa ecke Gude, sem hefur þad Auga, sem allt sier, og þad Eyra sem allt heyrer, laata sier þa misþocknast Mansens Vondsku og Oþacklæte? GUd hefur fyrer sinn eilijfa Vijsdoom, so øllum hlutum nidurskickad, ad þeir skule vera Mannenum til gagns og gooda. Hans Vijsdoomur hefur

Solena giordt, ad hwn lyse ecke sialfre sier, helldur oss. Vatned vøkvar edur endurnærer ecke sig sialft, helldur oss. Jorden færer ecke avøxtenn siin vegna, helldur vorra vegna. Elldurenn vermer sig ecke sialfur, helldur oss. Lofted giefur sier ecke sialfu Andann, helldur oss. Brauded mettar sig ecke, helldur oss. Jurternar ryma ecke Krankdæmenn fra sier, helldur fra oss.

Speken GUds hefur inngiefed so mikla Krapta i skapada hlute, og þeim so viisdomlega wtdeillt, ad þeir eru ecke annad eñ hendur GUds, fyrer hveriar ad hans Giæska og Speke meddeiler og afhender oss siina Fiaarsiodu, so sem þar stendur Job.12. Hver er sa sem ecke veit þad, ad Hønd Drottens hefur allt þetta giørt? J hvers Hende ad eru Saaler allra þeirra sem lifa, og Ande alls Hollds? friettu Kvikfied ad, og mun þad kienna þier, og Himensens Fugla, og munu þeir segia þier þad, tala þw vid Jørdena, og mun hwn vysa þier þad, og Fiskarner i Sioonum munu framtelia þier þad, þvi ad hia hønum er Viisdoomurenn og Styrkleikenn; hann hefur Raad og Skilning, ef hann nidurbrytur, þa hialpar þar eingenn uppbigging. Ef hann innelykur Mannenn, þa er eingenn sem upplykur. og i 26.Cap. Hann bindur Vatned i Skyunum, og Skyenn rifna ei þarunder. Hann wtbreider Nordred yfer eckeneitt, og uppheinger Jord-

ena

ena a ecke neitt: Og ſo ſem GUd hefur fyrer ſijna Speke nidur ſkickad øllum hlutum, ſo hefur hañ og einnen af ſijnum Vijsdoome tilſkickad oſſ vorn Kroſſ, Mootgang og Hørmungar, a mote hverium vier meigum þar fyrer ecke knurra, helldur pryſa i þvi GUds Speke, og læra þolennmoder ad vera; þvi þad kann ecke ødruvijs ad ganga til fyrer oſſ, enn GUd vill, og hañ hefur adur fyrirſied og aliktad: Annad hvert ad giefa þad epter, ad þad og þad ſkule ſkie; ellegar ad frañkvæma þad og þad krøptuglega; hañ alleina er Doomare a Jørdunne hann upphefur þann eina, og nidur þricker hinum ødrum; ſo ſem allar goodar Gaafur koma fra hønum, ſo kemur og ſo allt Straff og Refſing, fra hønnum, af hønum og fyrer hann, og i hønum eru aller hluter: Þar er eingenn Olucka i ſtadnum, ad Drottenn tilſkicke hana ecke. Fyrer utann hans vilia og ſkickun, kann þar ecke ad falla eitt Haar af voru Høfdi. Epter hans vysdoomlegre Stioorn og niddurradan, hlytur þad ſo til ad gaanga um̃ alla hlute, bædi i þvi ſem ſierdeiliſlega, og lijkamlega tilfellur.

Allar Landplaagur, Hwngur, Stryd, Drepſott, Ummbreiting Rykia og Hofdingiadæma, og annad ſoddann, kemur allt af hans allra ſkinſømuſtu Stioorn, Skickun og Nid-

ursetningu: Þegar vier eckert annad siaum og formerkium, enn Umtwrnan Fordiersun og Eideleggingu hlutanna, þa skiedur þad fyrer GUds tilhlutan og tilstille. Ad nw geingur sa eine, nw sa annar, stoor Herra til grunns, eitt Maktar vellde epter annad; einkumm ad Gydinganna stioornar stand, hvar inne GUd sialfur hafde sinn Bwstad, er so hrædelega foreidt og nidurbroted, þar i kann sw blinda Skinseme eckert annad ad sia, enn hrægelegt ofkick og liota uñturnan, enn trwud Saala sier þar inne GUDS undarlegan Vysdoom og Regiering, og talar þessvegna þar uñ a þennann hatt. Ps. 46. Komed og skoded Verkenn Drottens, hvered giører sodd=ann Billtingar a Jørdunne. Jeg merkte seg=er Prædikarin ad allt þad sem GUd giører blijf=ur stødugt; Præd. 3. v. 14. Madur kann eingu ad bæta þar vid, og ecke taka þar neitt fra, og GUd giører soddann, ad menn skule ottast hann. Item Siaed GUds Verk, hver kann ad giøra þad beint, sem hann giører bog=ed? Præd. 7. v. 13.

Þegar vier nw grundum ad þessu med giætne, þa verdum vier berlega ad medkienna, ad GUd hafe ecke kunnad þad vysdoomlegar ad giøra. Og eins lijka er þvi haattad og vared uñ offokner Christenna-Manna i Nya Testamentenu, uñ Pijnu og Kvaler

vors

vors Lausnara JEsu Christi, um̃ Pijslar-vottana og alla adra þvilijka hlute. Þetta synest ad vera a moote Skinsemenne, og so sem ein Heimska, enn þar er þo GUds Vysdoomur vidridenn, hvern vier eigum i soddann furdannlegum heimsens ummbreitingum, ad þeckia og vydfrægia, einnen þar vid ad kannast ad GUd kann ad giøra gott af illu, og snwa øllu a godann veg til hins besta.

So sier og einnen trwud Saala GUds Vysdoom i Endurlausn og vidriettingu mannlegs Kins, med Endurnyungu Saalarennar og hennar Krapta; þvi þad hefur GUDS Speke so þocknast, ad GUDS Mynd sem i Mannenum var fordiorfud, skyllde fyrer þa guddoomlegu og verulegu GUds Mynd, sialfann JEsum Christum aptur endurnyast: Þvi søkum þess ad Madurinn fyrer Syndena miste þañ heilsusamlega Vysdoom og Skinsemeñar lioos, i hveriu hañ þeckte GUd rettelega, og fiell i þann stærsta Blindleika; ja, i þau eilijfu Myrkur; þarfyrer er Sonur GUds, sa eilijfe Fødursens Vysdoomur ordenn Madur; hann er ordenn Mønnunum ad Lijffens Lioose, so ad hann kynne ad færa þa villtu a riettann Veg aptur, kienna þeim Saavysu, locka og lada Syndarana til sijn, og fyrer Trwna og Heilagann Anda uppkveika i þeim

aptur Lioos GUds Þeckingar, og sameina sialfann sig vid Mansens Saal, og i henne lioma og leiftra.

Þar næst med þvi Mannsens Vilie og Giedsmuner voru Gude alldeilis frasnwner, og gagnteckner af Ohlydne og vondsku, Gude i øllum hlutum motstædeleiger, þa vard GUds Sonur Madur, so ad hann kinne ad lagfæra og lækna vorn vondann Vilia, Naattwru og Sinnislag; og fyrer Heilagan Anda oss ad endurnya, og med þeim hætte innræta sinn gooda Vilia, og allt gott i vor Hiortu, og giora oss hluttakande i sinne heiløgu Hlydne med Trwnne, fyrer hveria vier ødlustum þann fyrerheitna Anda. So sem þar stendur Gal. 3. Uppa þad, hann kinne med þvi moote ad samteingia sig oss, og lifa i oss, so ad vor Vilie og Giedsmuner, kunne ad verda Gude svipader og lijker, og ad hann giefe oss so alldeilis eitt nytt Hiarta, Innplante i oss GUds Kiærleika, hiartanlega Andmykt og Hoogværd, og bwrttake fra oss þad gamla hollds Hiarta, og vier mættum so hafa eitt Hiarta, einn Anda, eitt Sinne og Giedsmune med hønum, hvad allt ad eru Avertter hans heilaga Mandooms-tekningar i oss.

Og þetta er GUds hædste Vysdomur, ad hann so fyrer sinn Elskulega Son endurnye Mann-

Manneskiuna: Þvi lijka so sem GUD fyrer sinn Vysdom, hefur Mannenn skapad epter sinne fullkomenne Mynd og lijking; so hefur hann og einnen fyrer sinn Elskulega Son, sem er sa eilijfe Vysdoomurenn, iklæddann mannlegu Hollde, endurskapad og endurfædt Mennena til einnrar nyrrar GUds Myndar, i hverre hans Speke, Vegsemd og Riettlæte, skyllde æfennlega skyna og skarta. Med þessum hætte er nu sw GUds Mynd, sem Diofullenn fordiarfade, fyrer þa verulegu GUds Jmynd Christum, i Monnunum aftur endurnyud.

# Cap. XXXIV.

## Hvernen Madurenn fyrer Bænena a ad leita epter guddomlegum Vysdoome, i tolf Hofud-Punctum innebunded.

## Fyrste Hofud-Punctur.

### Hvad vier hofdum mist i Adam, þad finnum vier aftur i Christo alludunges og fullkomlega.

Col. 2.

J Christo eru hullder aller Fiesioodet Virskunnar og Vidurkienningarennar.

GUD skapade Mannenn i Fyrstu af Jard-

ar leire, og begafade hann siidann med einne lifande odaudlegre Saalu, sem prydd vár med fullkomnum Vysdoome, Riettlæte, Heilagleika, og Saaluhiaalp, so sem med sialfs GUds Mynd, þvi hvar sem gudleg Speke er, þar er og so Saaluhialpenn, og hvar Saaluhialpenn er, þar er og einnen gudlegur Vysdoomur, þviad GUd elskar eingann nema hann blyfe vid Spekena: So sem sa Vyse kienner i Spek. B. 7. Og i so maata vantade þañ fyrsta Mañ, eckert af þvi sem heyrde til fullkomeñar Sælu: Eñ þegar Madureñ vard fyrer Hoggormsens Slægd tældur fra Gude, og fiell i Synd og ohlydne, þa vard ad eingu þesse GUds Mynd i Mañenum, hañ vard sviptur þeim gudlega Vijsdoome, komst undér Diøfulsens og Daudans Makt og valld, og ratade i allskins Eimd og Olucku: Þvi þegar GUds Mynd var fyrer Yfertrodsluna tøpud, sa og fann Madurenn epter Synda-Falled eckert annad i sier, helldur enn Ohamingiu Blindleika og Fyrerdæming.

Enn til þess ad þad heila Mannkin skyllde ecke med øllu eideleggiast, helldur aptur vidriettast og komast fra soddañ uppafallenne Olucku, þa vard sialfur GUd Maddur, og GUd liet sinn Son fædast, af einnre oflecкadre Jungfru, i uppatecknum Manddoome. Þesse GUds

GUds Sonur vidreiste aptur, þad sem nidur var falled, og med sijnum bitra Dauda, leiste oss af øllum vorum Syndum, og allre vorre Oluku; hann uppvakte oss aptur af Syndanna Dauda, endurfædde oss med sijnu Orde og Anda, til ad verda GUds Børn, so ad vier erum nu ordner GUds Børn i Synenum og med Synenum; þviad lijka so sem hann er, so erum vier eirnenn i þessum Heime. 1. Joh. 4.

J þessum GUds Syne liggia hulder aller Fiesioder vitskunnar og vidurkienningarennar Col.2. þarfyrer, þa finnum vier þad aptur øll-dungis og fullkomlega i Christo, sem vier høf-dum adur mist i Adam.

So framt sem vier nu i þessu Lijfe gyr-nunst ad fa Forsmeck af Fiesiod soddann Vit-sku, hann eignast, og hans ad niota, þa ma þad skie med þvi mote, ad vier alvarlega bid-ium leitum og aknium Matth. 7. Þvi ef ein hvern vantar Vijsdoom, hann bidie af Gude; sa er einfalldlega giefur hverium Manne seiger Postulenn Jacob. 1. Cap. Sa riette Vijs-doomur er hverge utann i GUds Ryke, og i OttaDrottens og þess vegna seger Job Cap. 28. Otte Drottens er Vijsdoomurenn. Enn ein-genn kan ad hafa Hlutdeild i GUds Ryke, og ottast GUd riettelega, nema hann frammgan-ge i nyrre Endurfædingu, og bidie þar um id-uglega. Eingenn kan helldur ad fryast fra

Syndenne, og Dioflenum, nema hann giore Jdran og bidie i JEsu Nafne um Naad þar til. Hvi jafnvel þo ad oss sie allt gott adur wtvegad fyrer Christum: Þa kann þo eingen i þeim Giædum hluttakande verda, utan fyrer Triwna, i hverre hann ma og einnen bidia þar um, leita, og aknya. J stuttu maale ad segia, allt soddann hlytur ad faast hier ad ofann med Bænenne Jacob 1. O! þu eilijfe GUd og Fader, kienn mier fyrer þinn Anda þad riettelega ad þeckia, ad lijka sem jeg i Adam deyde, og miste allt gott, so kunne eg ad endurlifna i Christo, og fa þad aptur sem eg miste. Gief eg meige deya mier sialfum med daglegu Angre og Jdrann, og olldungis af hende og offre mig þier, so mun eg vissulega i mijnum Frelsara Christo þad gooda sem eg hefe mist, allt samann aptur fa og odlast, Amen.

# Annar Hofud-Punctur.

## Hversu stort Skadræde þar kome a epter, ef menn forsmaa Bænena.

Jacob. 4.

Þier hafed eckert, þvi þier bidied ecke.

Fyrst verdur GUds og JEsu Christi bijfaling þar med yfertroden, sem skipar oss ad bidia an aflats Matth. 7. Ecke syn vegna þvi hann veit vel, hvers vier vid þurfum, Luc. 18.

18. helldur vegna vor sialfra, so ad vier kunnum ad formerckia, fa ad vita, og komast ad þvi i riettre raum, hvada Rykdoom, og Arfleifd vier munum fa hia Gude. Þarfyrer verda þeir storkostlega seker bæde vid fyrsta og annad Bodord Gllds, sem gleima Bænenne; ad forsoma Bænena, er so vidursttiggeleg Synd, sem ad bølfa og formæla, ja so stoor Synd, sem ad sla sig i hel, ef ecke stærre.

Þarnæst verda med Bænræktarleisenu Glløs dyrmætar Lofaner foraktadar, hveriar hann hefur, lated filgia sijnum Befalningum. Akalla þw mig i Neidenne, og mun eg frelsa þig, seger hann fyrer Munn Davids. Psal. 50. Item Christur til sinna Læresveina, Hvers þier bidied, Fødurenn i mijnu Nafne, þad mun hann veita ydur. Joh. 16. Ef Bænen er forsomud, þa verdur Glld ecke meir metenn, enn einn fanytur, og liettvægur Madur, sem lofar og helldur ecke syn Ord; ellegar sa hvers gafur a eingu ryda, og ecke eru þess verdar, ad giøra sier omak þeirra vegna.

J þridia maata, ef Menn gleima Bænenne, þa minckar smasamann og veikest Trwen, hwn wtslocknar þa um siider olldungis, hvad þo er einn obætanlegur Skade. Þvi Trwen er Mannsens Kraptur og Stirckleike, og ecke verdur Synden, Dauden, nie Diøfullen med Vopnum edur lijkamans Skrickleika sigradur,

ur, helldur med Trwnne a JEsum Christum. Enn Bænen er Trwarennar Næring og Stirckur, og fyrer hana eiga menn ad efla Krapt Trwarennar. Og þvi meir sem vier bidium, þvi sterkare verdum vier i Trwnne, og þess minna vier bidium, þvi veikare og breiskare verdum vier. Þegar Moysis upplifter siinum Hondum, þa yfervinnur sa riett trwade Israel, enn þegar hann lætur þær syga nidur, þa yfervinnur Vantrweñ, Hollded og Amalech.

J fiorda maata viisкur Drottenn JEsus fra þeim sem ecke bidia, so þeir verda blinder, gaanga i Myrkrunum, þeckia hverke sialfa sig nie Gud, og hans vilie verdur fyrer þeim huleñ? Þeir skilia sig sialfer fra Gude og hans Ryke, og þar þeir eru oupplyster i þvi ad þeckia GUd, þa lyda þeir stoor afoll i Freistingunum, so ad þeir falla stundum i Orvænting: Enn hvar Heilagur Ande er, Trwen og Bænenn, þar verda allar Freistingar um syder yferunnar.

J fimta maata, kemur þar af andvaralaust liiferne med allskins Vommum og Skømmum, so ad Madurenn fellur ur einne Synd i adra, þvi sa sem ecke bidur, hann finnur ecke til þess, hvad diwpt hann sockur nidur i Saur Syndanna, hañ slær opnum fyrer Dioflenum øllum Dirum og Vindaugum, so hañ hefur frii=

frijann Gang til hans. Pad tijmanlega sem GUd veiter soddann Manne, so sem er Heilsa Heilbrigde, Rykdoomur og annad þviumlijkt; helldur hann ad sier hafe af hendingu tilfalled, edur fyrer sijna eigenn Kostgiæfne og Atorku, enn ecke GUds Forsioon og tilhlutan, og verdur so i allra mesta maata ovacklaatur vid GUd sinn Skapara.

J Siötta maata af þvi ad Madurenn sijdann Falled, lifer alltijd i mestu Haaskasemdum Salar og lijkama, þa fleiger sier soddann ein bænarlaus Manneskia under valld og yfergaang Diøfullsens, vondra Anda og ogudlegra Manna; sem eru Satans Verkfære, og sitia a Svikraadum vid þa Froomu bæde leint og liost til ad fordiarfa þa. Sa sem lifer fyrer utann Bæn og Akall til GUds hann hrekst af soddann ymislegre Olucku sem hønum tilfellur, eins og Skip a Siooar-Bilgium, og finnur einga Hiaalp, Huggun nie vørn a moote slijkum Haska.

J siounda maata er þvilijkur Madur hiñ allra Oluckusamlegaste under Solunne, hann velkest i sijfelldum Otta og angist, er oviss og efasamur þar um, hver Ending ad verda mune a hans Ogiæfu; hann slær uppa margt med storre Mædu og Erfide, og ber lijtedur bytum, og þo hann giete nockru af stad komed, þa verda

verda hans Afdrif þo vond og skielfeleg um̃ syder. Vegsemd þeirra Ogudlegu varer ecke leinge, og Hræsnarans Glede stendur eitt Augnablik, Job 20.5. Þeir grænka og blomgast um̃ vissann tijma, enn fyrr enn menn giæta ad, þa eru þeir burtu Psal. 37. 15. 36. og sia alldrei Liooſed framar meir. Psal. 49.20. Þeirra stundlegt Priaal og Vegsemd er strokenn burt sem ein Pijla, eda Fugl sem flygur i giegnum Lofted, og lætur eckert Spor epter sig, Spek.B. 5.11. þeir verda ad eingu sem Dupt og Agner hverium Vindurenn burt feiker, Psal. 1. 4. Ja, hverfa eins og Reikur, og lijka sem Draumur, hvers eingar meniar kunna sydañ ad formerkiast. Psal. 73. 20. Eñ þeir Froomu sem hropa til GUds Noott og Dag, bidia kostgiæfelega og akalla Drottenn, Þeir blomgast sem Palmavidur og eru sem Eikur a Vatnabøckum, er giefa af sier Avøxt i riettann tijma, hverra Laufbløđ ecke visna; og hvad þeir giøra i GUds Nafne, hlytur um syder ad farsælast; Psal. 1. 3. Þeir halldast ætyd vid makt, og þeim geingur jafnan vel. GUds Naad upprennur yfer þeim hvern morgun fersk og ny, Harm. 3. 23. Giæska og Myskunseme Drottens hlytur ad fylgia þeim alla þeyrra Lijfdaga, þeir eru blessader a øllum sijnum Vegum, og sitia jafnann under Skioole og Vernd þess Hædsta, Psal. 23. 6. falle þeir, þa verdur þeim so ecke burtkastad, Psal. 37. 24. og þo þeir Riettvysu

verde

verde miked adlyda; ja meira i þessum Heime almennelega, enn þeir ogudlegu, so ad St. Paall seger þess vegna 1. Cor. 15. Ef vier vonudum einasta a Christum i þessu lijfe, þa værum vier vesælaster allra manna, samt hafa þeir þo alltijd i sijnu Mootlæte sier til huggunar GUds Naad og vingan og allra sinna Synda Fyrergiefning; GUd giefur og einen um sijder goodann Enda, a øllum þeirra Dreingingum, so ad aller hluter meige verda þeim til hins besta, sem elska GUD. Rom. 8. Eñ þeir Ogudlegu eru alltijd under GUds Reide og Bølvan, hwn rennur inn i þa sem Vatn, og lijka sem Vidsmiør i þeirra Bein Psal. 109. Bolvadur er Avøxtur þeirra Fienadur, þeirra Jardar Avøxtur, og þeirra Lijfs Avøxtur, Deut. 28. Bølvadur er þeirra Jngangur og Wtgangur; Bølvader eru þeir a øllum þeirra Vegum, og þar med hlioota aller hluter ad snwast þeim til Fordiorfunar, og þeir meiga uñ sijder lenda i eilijfre Fyrerdæmingu. Marger af þeim hlioota og einnen hier i Heime ad lyda so miked fyrer eilijfa Olucku, sem nockrer Froomer fyrer eilijfa Glede, og þad sem mest er, ad þeir eru jafnann under GUds hrædelegre Bolvan, og hlioota uñ sijder ad swpa Dreggiarnar af Guds eilijfre Grimdar-Reide. Þeir Ogudlegu hafa margar plaagur, seger Spamadurenn; Psal. 32. enn þa sem ottast Drottenn skal Miskunseme

unseme ummkringia; Drottenn mun frelsa þa GUddhræddu af Sex Hrellingum, enn i hinne Siøundu mum eckert vondt snerta þa, enn Oluckann mun i helsla þa Ogudlegu. GUD setur þa ogudlegu uppa þad haala, þeir hliota ad forganga, og um syder ad fa Enda med hrædslu. O! miskunsame GUd og Naaduge Fader, þw veist vel ad Madurenn fyrer sijna eigenn Lete, Hirduleise og Forsoomun plaagar sialfann sig og fordiarfar, þar hann yfertredur þijn Bodord, gleimar Bænenne, og lijtels virder þijn obrigdannlegu og sterku Fyrerheit, þar fyrer dryfur þw sialfur Mannenñ til Bænarennar, af þvi þw hefur stoora Elsku a hønum, og villt ecke ad nockur fyrerfarest; kienn mier soddann ad yfervega, uppa þad eg meige riettelega bidia i þijnum Syne JEsu Christo, og mun eg visseluga verda fry fra øllum soddann Boda og Olucku, Amen.

# Pridie Høfud-Punctur.

## Ad Madurenn hafe stoort Gagn og Nytseme þar af, ef hann æfer sig i Bænenne.

Joh. 16.

Bidied, og munud þier ødlast so ad ydar Føgnudur verde fullkomlegur.

SYdann-Falled er Madurenn ordeñ ohlydenn og tregur til allra goodra hluta, sierdeilis

deilis til Bænarennar, enn so ad hann bliife ecke i soddann skadlegre Vondsku, og fyrerfarest, þa skal hann uppvekia sig, og hvetia til Bænarennar, med adskilianlegum gudlegum Þonckum og Hugleidingum. Fyrst og fremst skal hann hugleida, þa stooru Huggun Gagn og Nytseme, sem Bænen med sier fær-er, sem er, ad hann medhenni jaati, heidre, og tilbidie þann eliifa, sanna, og lifande GUD, hallde sig ecke til nockra annarlegra GUda, nie tilbidia þa, helldur til þess eina og sanna GUds, hvers Bod og Befalningu, hañ so sem eitt hlyded Barn hafe i Æru og Virdingu, bidie, leite, og knie a, akalle og pryse sinn Skapara, Fodur og Frelsara.

Þar næst foraktar hann ecke GUds Loforner, helldur vottar med sinne Bæn, ad hañ þær mykelsvirdi og vissulega trwe ad GUd sie sannordur og hverke vilie nie kunne ad liwga.

Iþridia maata eflest og þrooast Trwen fyrer Bænena, og vex daglega so sem ein Eyk. Enn i Trwnne er innefalenn allur vor Kraptur, Huggun og Styrkleiki a mooti ollum vorum Ovinum, og odru þvi sem a mooti blæs, ja, hwn er sw Sigurvinning sem yferbugar Heimenn, og þa Vantrwudu, er vilia oss illa.

J Fiorda Maata, odlustum vier fyrer Bænena Heilagann Anda, þad er vier giefum honum Rwm og Plaats i oss, so ad hann hefur sinn Bwstad i oss, og stiornar oss, vier styrkiustum og einnen i þvi sanna GUDS Liooſe og Peckingu, so ad vier skilium giorla hans Vilia, og blyfum i hans Ryke og verdum hluttakarar allra himneskra giæda.

J Fimta Maata, friustum vier fyrer Bænena fra Andvarleiſe, stondum a moote Syndenne og i moot Hollde og Bloodi, heyjum goodann Bardaga, og holldum Trwnne og godre Samvisku.

J Siotta Maata, yfervinnum vier þar med allar Freistingar og Haaskasemder, sem oss af Dioflenum og vondum Monnum uppa falla, þvi GUd er einn sterkur Twrn a mote Ovinunum, og hid oruggasta Vyge ad flya til med Bæninne, og hvada Afall sem Dioflullenn og vonder Menn kunna ad giora oss, og hversu sem þeir Astryda oss, þa kunna þeir þo ecke meir ad wtretta, eñ GUd þeim eptertætur til ad reina oss, og þad hlytur allt samann ad snwast oss til hins besta.

J Siounda Maata, kann alltijd einn kostgiæfenn GUds Tilbidiare ad gledia sig i Heilogum Anda, med Packargiord, epter Lær-

Lærdome St. Paals 1. Theſſ. 5. Vered jafnann Glader, bidied oaflatannlega, giøred þacker Gudi i øllum hlutum: Þvi eingen Angiſt, eingenn Harmur, og eingen Hrelling kiemur af Bænenne, helldur Føgnudur, Fridur, Unadſemd, og Huggun, þvi Bænen er eitt Kiærleiks Samtal vid GUd þañ eiliifa Konung. Hier ad auke, þegar vier erum bwner ad giora vora Bæn, þa verdum vier viſſer og vonargooder þar uñ, ad Efne vor og hager mune vel lukaſt, varpande allri vorre Ahiggiu uppa GUd. 1. Pet. 5. Drottenn er nalægur, vered ecke higſiwker ſeger St. Paall. Phil. 4. og David i Pſ. 37. Befala þw Drottne þiñ Veg og vona þw uppa hann, og mun hann þvi vel tilvegar koma, hann mun frammleida þitt Riettlæte ſem liooſed og þinn Riett ſem Middeiged. Øll Sorg og Angurſeme kiemur af Vantrwñe; Eñ Vantrwen kiemur af Bænarleiſenu. Hier a moote, hefur Trwen og Bænen Trauſt a Gude, og dryfa i bwrtu alla Hugſyke og Ahiggiu, og giefa eitt gladvært rooſamt og fridſtillt Hiarta.

Drottenn minn GUD giefdu mier ad kannaſt þar vid, ad þad er mier til hins beſta, ad þw dryfur mig til Bænarennar, og ad allt gott og ſaaluhiaalplegt kann þar med ad faaſt, vek þw mig, ſo vakna eg upp, rek þw epter mier, og mun eg uppſtanda, og fylgia epter mijnum Frelſara JEſu Amen.

# Fiorde Høfud-Punctur.

## Ad einn Riett-Christenn Madur vilie langtum helldur gaanga a Christi Mioa Vege, helldur enn Adams Breida Vege.

### Rom. 5.

Vier hroosum oss af Hørmungunumm.

ADam var settur i Paradis, og Gud syndi honum Lijffens og Daudans Trie, og sagde honum ad vara sig vid Daudans Trie. Þar var hañ settur a mille tijmans og eilijfdarennar, so ad hañ skylldi stunda epter þvi eilijfa; Devt.30. 15. honum var fyrerlagt bædi lijfed og Daudenn, lioſed og Myrkred. So sem þad gieck til med Adam, so geingur þad og einnen til fyrer oss: Þvi epter Syndafalled kiemur Christur og vysar oss fra Tijmans og Daudans breida Vege, til þess mioa Vegar lijffens og eilijfdarennar, ad vier skulum feta hann med goodum Vilia fyrer utan Naudung, þvi hann vill eingann þvijnga, hverke til Saaluhiaalparennar, nie Fordæmingarennar; hann hefur noogsamlega syndt oss vegenn, fyrer undannfarna Naad, hveria eingenn skylldi forsma, hverke Ungur nie Gamall. Christur seger, Mat. 7. Ganged iñ um̃ þad þrawngva Ported: Hann kienner þar med

med, ad þar sieu Tveir Veger; Annar Heimsens Vegur, a hverium fiølldi Manna reikar, þviad þeir bliifa i Adam, og vilia ecke Christo epterfylgia. Enn Annar er GUds Vegur, a hverium faaer gaanga, þvi flester hafa þann breida Vegenn i Adam langtumm kiærare. Enn hvern Vegenn sem þu geingur, þa verdur þu þo margt ad liida, og þier vill adskilianlegt tilfalla þungt og mædusamt. Samlager þu þig Heimenum, þa verdur þu ad þola margt, og kemst þo ecke ad Sannleikans Grundvelle, og hefur til Launa um̃siider eiliifa Fyrerdæming. Enn ef þu geingur a GUds Vege fyrer Christum, og æfer þig i Bænenne, þa hlytur þu ad sønnu margt ad lyda, med þiinum Frelsara Christo, enn fær ad þeckia under eins Sanleikann, og kemst um̃ siider til Roosemdar eiliifs Liifs. Sa sem er kostgiæfenn i truadre Bæn, hann stryder a moote sialfum sier Heimenum og Dioflenum, hann yfervinnur sialfann sig, þann gamla Adam og alla siina Ovine, og geingur um̃ siider med Hertuga siinum og Leidtoga JEsu Christo inni eiliif gledennar Roolegheit. Þar a mote, sa sem ecke bidur, hann berst ecke vid Ovine siina, helldur er hann i þeirra Vallde, og hlytur þo ad liida margt af Heimenum, og hrapar um̃ siider med Myrkranna Hofdingia

ingia ofann i eilijfa Fyrerdæming. So er þa langtum betra ad stryda ørugglega og epter þad Sigurenn er feingenn, ad inngaanga i eilijfann Fognud, helldur enn ad heya eingañ Bardaga, og verda þo samt margt illt ad lijda, og med þad sijdasta ad verda kastadur, sem einn Faange, i eilijf Helvijtis Myrkur.

AE kynne Mannskiepnan ad þeinkia um̃ þetta riettelega, þa mundi hwn vissulega flioott fa leida og ogied a Heimenum, hwn munde afneita siaalfre sier, og einum JEsu Christo epterfylgia a þeim mioa Vegenum. Ad vier soddann alltijd med kostgiæfne mættum yfervega, dempa þan Gamla Adam, iflæra oss þeim Nya Mannenum, og þreingia oss so i giegnum þad mioa Ported, til eilijfs Lijfs, þad virdest i oss ad framkvæma sa sanne GUDs Sonur JEsus Christus. Amen.

# Fimte Hofud-Punctur.

## Hvad einn Madur a sierdeilis ad þeinkia, so ad hans Hiarta kunne þar med ad hrærast, til ad bidia GUD.

Jer. 23.

Er eg ecke sa GUD, sem er harla Nalægur seger Drottenn? og ecke sa GUD, sem er langt i burt?

Uppa

Uppa þad ad vier einfalldar og faavysar Manneskiur kunnum þess betur ad uppvekiast, og afysast til ad bidia GUd i Anda og Sannleika, so sem hann af oss wtheimter, þa vilium vier framsetia nockrar Greiner, sem eiga ad vera so sem Underbwningur og Uppvakning til Bænarennar: Og er þvi adgiætande.

I. Ad GUd veit vel, adur enn vier førum ad bidia, hvers vier vidþurfum. Matt.6.

II. Lockar GUd, aminner og knyr alla Menn til Bænarennar, og heiter þeim þar med Bænheirslunne fyrer vißt. Psal.50.

III. Fer GUd ecke i Manngreinar alit, helldur hefur alla jafnkiæra i Christo. Giorn. B. 10.

IV. Er þad eins stor Synd, ef Madur i Bænenne stoolar uppa sinn eigenn Froomleika, Verdugleika og Riettlæti, so sem þad, ef hann forsoomar Bænena vegna sijns overdugleika og undannfarenna Synda. Luc.18.

V. Þarf Madur ecke ad hlaupa laangt epter Gude til nockurs viss Stadar, helldur kann hann allstadar funden ad verda, er og nalægur øllum þeim sem hann a kalla. Job.4

VI. Er GUd Oummbreitannlegur i sinne eilijfd, og ecke bundenn vid nockurn vissann Tijma, Es.6. helldur er hann reidubwenn

enn a øllum tijmum ad heyra vorar Bæner. Hebr. 13.

VII. Verdur GUD fyrre til enn vier bidium, ad giefa oss so vel naattwrleg Giæde sem yfernaattwrleg, og eingenn fær þau þo, eda nytur þeirra i blessan, nema sa sem um þau bidur.

Hver sem hugar daglega um þessa Sio Posta, og skickar sier þar epter, hans Hiarta og Sinne endurnyast og Vaknar upp, einkum hreinsast þad fra villu og blindleika, styrkest og stadfestest i Grundvelle Sannleikans, verdur upphafed til GUds og tendrast til Bænarennar, og hier medfylgia þesser Lærdomar.

I. Ad GUD kallar, aminner og ørfar oss til Bænarennar, ecke siaalfs sijns vegna, so sem hann vite ecke alla Þørf og Naudsin vora, helldur vegna vor sialfra, so ad þegar vier erum fyrer Bænena uppvakter konnustum vid og þeckium, hvad stor Naudsyn ad oss þreinger.

II. Ad GUD þurfi ecke þess vid, ad vier med løngum Bænum frammtelium fyrer honum vorar Naudsiniar, helldur vite hañ af þeim løngu adur epter sinne Alvisku, sem er allstadar nærværande.

III. Ad GUD sem er alltijd eitt vakande Auga, vakne ecke upp af voru Kalle, Føstum, edur

edur Bøkum, helldur ad vier fyrer soddann Idkun Bænarennar uppvekiustum af Svefne Syndanna og holdlegs Andvaraleises. Psal. 33. og 34.

IV. Ad Gud sie þwsundsinnum fwsare til ad heyre og giefa, enn Madurenn vid ad taka.

V. Ad Gud sie vid Mennena oendanlega goodur og miskunsamur. Psal. 109. enn Meñerner aptur a moot skamlega dofner og hirdulauser til ad bidia, leita, og knia a. Matth. 7.

VI. Ad Gud sie i øllum sijnum Verkum Riettlaatur, og giefe einga orsøk nie tilefne til vors Blindleika, Faavisku nie Eymdar, helldur sie sw faavijsa og frasnwna Manneskia sialf Søk þar til, sem ecke vill bidia nie leita.

VII. Ad sanner Tilbidiendur hafe i øllum stødum, og a øllum tijmum frijann gaang til Fødursens i Christo, til ad høndla vid Gud i Anda og Sannleika, so framt sem þeir sialfer þad ecke forsooma.

VIII. Ad sa sem forsomar og foracktar Bænena, svitpe sialfañ sig þvi lifsæta og saaluhiaalplega Samtale vid Gud, sem gioerest fyrer Bænena, og er sialfur þessvegna Orsøk i sijnum Skada og Fordiorfun.

IX. Ad sa sem i sannre Idran og Yferboot er kostgiæfenn ad bidia, hann giorer sial-

sum sier gott gagn þar med, ecke af sijnum eigenn Namleik, helldur fyrer undankomande Naad GUds, sem an Manngreinar alits verdur fyrre til ad giora øllum Mønnum gott.

Sa sem i þessum Punctum er okunnugur, hann er enn nw laangt fra Christo, og hefur enn þa ecke smackad Sannleikann? Eñ sa sem veit þetta ad sønnu, eñ trwer þvi ecke hann afneitar Gude, og seger sig fra hønum alldeilis, og ecke er sa stoorum betre sem veit þetta og trwer þvi, enn geingur þo fram i Hyrduleise epter Munne og Maga, so sem hann efest þar um: Og betre hann sig ecke, þa ma hañ bwast vid stooru straffe og Fordæmingu, eñ hver eiñ skyllde sia ad sier, og bæta Raad sitt, so hann fyrerfarest ecke i sijnum Syndum.

O! þw Naaduge GUd og elskulegaste Fader uppvek þw mig fyrer þinn Heilaga Anda, so ad eg bæde vite þetta og lijka skicke mier þar epter i riettre Trw, og verde alltijd sannur Tilbidiare i Anda og Sannleika Amen.

## Siøtte Høfud-Punctur.

### Ad sa Alvyse GUd vite allt, og heyre hvers vier høfum Þorf, adur enn vier tøkum til ad bidia.

Psal.

Psal. 139.
Þu formerker mijnar Hugrenningar aleingdar.

CHristur seger Matth. 6. Ydar Himneskur Fader veit ad þier þurfed alls þessa vid. Og David i Psal. 139. Drottenn þu formerker allar mijnar Hugrenningar aleingdar. Item i Psal. 94. sa sem Eyrad hefur plantad skylde hann ecke heyra? Sa sem Augad hefur skapad, skylde hann ecke Siaa? Og Postulenn seger: Hebr. 4. Hañ er Doomare Hugrenninganna og Hiartans Hugarlundar. Madur þarf þess ecke vid, ad telia upp fyrer Gude sijnar Naudsyniar med morgum ordum, so sem fyrer einum daudlegum Manne: Ad vijsu er þad gagnlegt fyrer mannenn sialfann, þessa millum þegar hann hefur Toomstund til, ad lesa goodar Bæner, so ad hann kunne þess betur ad ørva og uppvekia sitt Hiarta til eiñrar heitrar og alvarlegrar Bænar: Enn GUd hefur þess alldeilis ecke þorf, hann sier fyrer fram alla vora Þancka, hann þeckar alla vora Hiartans Gyrnd og Andvarpan; aller Tijmar eru fyrer hans Augum so sem einn Tijme, ja, so sem eitt Augnablik, a hveriu hann sier ecke einasta nærverande hlute, helldur og einnen ummlidna og epterkomande so sem nærverande: Hann hefur taled øll vor Høfud-

haar

haar fyrrenn vier vorum fædder; hann veit af øllum vorum Hugrenningum fyrrenn vier bidium. Stuttlega ad segia: Aller hluter eru berer og nakter fyrer hans Augum.

Þegar eg geing a heidskyrum Dege um̃ vijtt Sliettlende, þa ummkrynger Liooßed mig a allar sijdur, og være þad andlegt enn ecke lijkamlegt, þa geinge þad og so i giegnum min̄ Anda. Eins eru allar skapadar Skiepnur naalægar fyrer Guds Augum, hvert sem þær eru synelegar edur osynelegar, han̄ i giegnumgeingur og yfergrypur alla hlute hindrunarlaust, Myrkurenn eru ecke Myrkur fyrer honum, Nottenn ma lysa fyrer honum sem Dagurenn, epter þvi sem stendur i Psal. 139. J einum skiærum Chrystall, edur og so i einne hreinne Vatnsboolu kann ecke hid allra minsta Haar edur dupt ad vera huled fyrer vorum lijkamlegum Augum, hvernenn skyllde þa nockur Skiepna, nockur Þaancke edur athøfn vera hulenn fyrer Guds Anda, sem er i sialfum sier, so sem eitt skiært Auga, og rannsakar og so dypt Guddoomsens: þad er bæde stoor Faviska og Blindleike, og lijka eitt miked Straff yfer þeim manne, sem villde innbirla sier ad þad sem hann ecke sæe edur visse, þad sæe ecke helldur Gud, nie visse. Helvijte og Fordiorfunnen, eru enn þa ber og auglioos fyrer Drott-

ne;

ne. Ecke einasta er hvers Mans Frammgaangur og Jþrott, helldur og einnen Hugskotsens Þanckar strax auglioser og opennberer fyrer Gude. Þetta er harla naudsynleg Umþeinking og þienar til þess, ad Mansens Hiarta kunne þar med ad hreinsast af Faviskunar og Blindleikans þickvu Myrkrum og Þoku. Það giører og einn swsare til Bænarennar, hvar med vier vekiustum upp til ad sia og þeckia, það vier høfum ecke adur sied og þeckt.

O! þw Almaattuge GUD og eilijfe Fader, sem ert Hiartnanna og Nyrnanna rannsakare, og dæmer yfer Hiartans og Hugskotsens Þonckum, þw sem alla hlute sier, heyrer og veitst adur enn þeir gioraft; jeg kem og framber fyrer þig mijnar Naudsyniar, ecke i þeirre Meiningu, ad eg vilie vekia þig upp med mijnu Kalle, so sem þw visser ecke af þeim adur, helldur uppa það, ad eg uppvekie sialfann mig, til ad skilia og þeckia, hversu ad þier er alkunnug øll mijn Þorf og Naudsyn, ja, ad þw telur øll mijn Høfud-haar: Hialpa mier hiartkiære Fader ad eg skilie og yfervege þetta riettelega, og setie alla hlute i þinn naadugann Vilia, þvi hann er það besta, og ad eg i sannre Undergiefne vid þig, Von og Þolennmæde, bijde epter Farsælld eilijfs Lijfs, Amen.

Sig-

# Siøunde Høfud-Punctur.

## GUd hvetur, lockar, aminner og knyr alla Menn til Bænarennar og lofar þeim fyrer viist Bænheyrslunne.

### Joel. 2.

Hver sem akallar Nafned Drottens, m. holpenn verda.

ÞEtta a framar øllu ad athugast, þvj þad er ecke nog, ad vita ad GUd veit alla hlute fyrer fram, Madur hlytur einnen ad vita þad og hugfesta, ad GUd wtheimter Bænena, og lofar ad bænheyra. Hier a heima þad sem stendur Joh. 16. Cap. Hvers þier bidied Fødurenn i mijnu Nafne, þad mun han giefa ydur. Item Matth. 7. Hver sem bidur, hann mun ødlast, hver hann leitar, hann finnur, og hver sem klappar uppa, fyrer hønum mun uppłoked verda. Item: Allt hvad þier ummbidied i ydar Bæn, þad skulud þier fa, ef þier trwed. Item: Madur skal alltijd bidia, og ecke þreitast. Og Postulenn Jacob seger: Jac. 1. 5. Ef nockurn a medal ydar vantar Vysdoom, þa bidie hann GUd þar um̃, sa er yferfliootannlega giefur øllum, og bregdur þar eingum um̃, so mun hann giefast hønum. Ef vier bidium um̃ nockud seger Johañes, 1. Joh. 5. epter hans Vilia, þa heyrer hañ oss. So høfum vier

vier þa ecke einasta GUds Befaling þar uñ, ad vier skulum bidia, helldur og einnen hans Fyrerheit. Sa sem ecke viknar vid þetta, hann ma hafa eitt Stein-Hiarta, og sa sem ecke trwer þessu, hann hefur tvijlraadugt og efasamt Hiarta, og er ecke verdugur ad bera Mans Nafn. Og ef vier vitum slijkt, þvi trwum vier þvi þa ecke? Ef vier trwum þvi, hvar fyrer bidium vier þa ecke? Þvi verdum vier þa ecke bænheyrder? Þvi ødlustum vier þa ecke Heilagann Anda? Marger bidia og fa ecke, þvi þeir bidia ecke epter GUds Vilia, þeir bidia ecke i rettre Trw, ellegar þeir hallda ecke a fram i þvi ad bidia, og bijda ecke epter GUds tijma. Sw rietta Trw er stillt og stødug fyrer Gude i Undergiefne, knyr fastlega a, og giefst ecke upp, helldur trwer støduglega, ad GUd mune alijta sig naadarsamlega. Sa sem efablanden er, hann hefur einga Trw, og gierer sialfur sijna Bæn ad eingu, helldur GUd og so fyrer einn Ligara, edur einn Vanmaattugann GUd, sem annad hvert ecke vill, edur ecke kañ ad veita oss þad sem vier vidþurfum, og hann hefur oss lofad. Enn Trwen veit efunarlaust ad hvad GUd hefur lofad, þad vill hann hallda, og vissulega hiaalpa i allre Naud; helldur þvi Hiartanu i Stillingu og skilur þad fra Oroa Heimsens, Vantrw-

arennar

arennar, og vondra Lystinga, og giorer þad hæfelegt til ad medtaka GUds Naad. Vor Ande og synnislag er sem Vatned i fyrstu Skopun, yfer hveriu ad GUds Ande sveimade. Strax sem Hiartad er roosamt, og skiekst ecke af Stormvidre soddann Vantrwar, og veralldlegra Lystinga, þa hviiler GUd þar inne, og talar sitt kroftuga Ord i so lignu Vatne; og er soddann Blælogn betra og agiætara enn oll Verollden: Hvar um̃ lesa ma þa Þijsku Theologiam og Bækur Tauleri. Lign Votn vermast fliott af Soolunne, enn þar a mote volgna straangar Elvur seint, edur alldrei, Vantrwen ræner GUd sinne Vegsemd, Trwfeste og Sannleika, þar med verdur Christeñ Madur einn Heidinge, og afneitar Gude aulldungis, og hallde hann vid þad sama, þa verdur hann eilijflega fordæmdur, enn Trwen samteinger Hiartad vid GUd, og giorer þad hluttakande i ollu goodu.

O þw eilijfe og trwfaste GUd, sem ecke kant ad liwga, og kannast vid þad, fyrer þijna naad, ad þw afsyser, upphvetur og aminner alla Menn til Bænarennar, þeim sialfum til hins besta, bydur þig til ad meddeila þeim þiñe Naad, veit mier hiart kiære Fader, ad eg huxe hier um alvarlega, og komest so til sannrar stodugrar og riettrar Trwar, uppa þad eg late

ecke þijna storu Naad a mier til onytis verda, helldur meige eg fyrer Trwna vera stilltur i þijnu Auglite, og med stødugre Þolennmæde vænta epter liooſe þinnar Naadar til mijn Amen.

# Attunde Høfud-Punctur.

## GUd ser ecke i Mannvirdingar, helldur hefur hann alla eins kiæra.

Psal. 145

Drottenn þw ert goodur og naadugur, fullur af storre Miskunseme vid alla þa sem þig akalla.

EInfølld Manneſka kann hier ad þeinkia: Nw veit eg ad Gude er mijn Þørf og Naudſin kunnugre, enn eg hefe Gaafu til, hana fyrer hønum ad wtliſta, hann hefur ſkipad ad bidia, og lofad ad bænheira: Eg efaſt ecke, utann um̃ þad, hvert hann mune vilia, ad eg, ſem hefe ſo mikelega ſyndgad, ſkule hann bidia, og hvert hañ mune vilia mig bænheyra. Þarfyrer er naudſynlegt ad vita, ad GUd ſer ecke i Mañgreinaralit, þvi þo ad nockrer blinder og Blindra Leidtogarar, vilie ſyna af faeinum vanſkilianlegum Skriftareñar greinum, ſem þeir ranglega wtleggia, ad GUd ſie miſiafnlega giediadur, og hate ſuma Menn, þa er þad þo, af ødrum fleirum og augliosum

Skriftarennar Vitnisburdum omotſeigiannlegt, ad GUD vill allra Manna Velferd og Saaluhiaalp, og hefur eckert Manngreinar alit. A medal ſoddañ greina ſem vier ſkulum leggia uppa Hiartad, og einganneigenn laata oſſ fra þeim hrekia, eru þeſſar epterfylgiande:

Act. 10. Nw reine eg i ſannleika ſeger St. Petur, ad hia Gude er ecke Manngreinar Alit, helldur a øllu Foolcke, ſem hañ ottaſt, og giører Riettwyſena, þa er hønum Pocknan. Deut. 10. Og Moyſis kiemſt ſo ad Orde: Drottenn ydar GUD, er einn GUD yfer øllum Gudum, og einn Drotten yfer øllum Drottnum, einn mikell GUD, mektugur og hrædelegur, ſem ecke alytur Perſonuna, og ecke Mwtutnar, hann giører Doom þeim Fødurlauſa og Eckiunne, hann elſkar þann Framande, og giefur hønum Fædu og Klæde. J Piſtlinum til Gal. 2. ſtendur ſo, GUD alytur ecke Perſonu Mannſens. og Col. 3. Hia Gude gilder eckert Manngreinar-Alit. Jtem ſeger ſa Vyſe. Spek. 6. Hann ſem er allra Drottenn, mun ei hrædaſt nockurs Perſonu nie fordaſt Maktena, hann hefur giørt bæde þann ſmaa og ſtora, og hefur jafnt Umhiggiu fyrer øllum: So ſañarlega ſem eg life ſeger Drotteñ, fyrer muñ Spamanſens, Ezech. 33. vil eg ecke Dauda þeſſ Ogudlega, helldur ad hann ſnwe ſier fra ſijnum vonda vege og life. Ef ſa Ogudleige giører Jdran, þa ſkal hañ ecke ſkada Ogudlegleikenn, allar

hans Synder sem hañ hefur drygt, skulu honum ecke tilreiknast. Og St. Paall mæler þañig: i Tim. 1. Pad er sannarlegt og dyrmært Ord, ad Christur JEsus er komenn i þennann Heim, syndugo Menn saluholpna ad giøra, a medal hverra ad eg er hinn stærste. Enn mier er þvi Miskunsemen yferkomen, ad Christur JEsus villde audsyna a mier sierdeilislega alla Polennmæde, þeim til Epterdæmis sem a hann skylldu trwa til eilijfs Lijfs. 1. Tim. 2. Item GUd vill ad aller menn verde saaluholpner, og komest til Sannleikssens Vidurkienningar. J 2 Peturs Pistil 3. Cap. stendur: GUD vill ecke ad nockur tapest, helldur ad aller snwest til Jdranar.

Pessa og þvilijka Ritningarennar Vitnisburde skulum vier i Minne festa, vitande ad aller eru Gude jafnkiærer, og hann elskar eingan i Adam fram yfer annann, helldur alla eins fyrer utann Mismun, og þar af kann Madur og so ad sia, ad GUd hefur skapad alla epter sinne Mynd, og endurleist alla fyrer JEsum Christum. Hier ad auke hefur hann svared vid sialfann sig, ad hann villde ecke dauda nockurs Syndugs Mans, GUd kiemur og alltijd ad fyrra bragde til vor, med sinne Naad, og bydur ecke þangad til vier verdum af oss siaalfum til, verduger hana ad medtaka, þvi so feingum vier hana alldrei. Hañ kiemur til vor, fyrreun vier til hanns,

hann þeckte oss fyrrenn vier þecktum hann, adurenn vier elskudum hann, elskade hann oss, hañ elskade oss þegar vier vorum hans Oviner, so sem þar stendur Rom. 5. Þar fyrer er sa Madur bæde Blindur og Ogudlegur sem þorer ad segia, ad GUd sie ecke jafn a allar voger, hañ sie meir hollur ødrum enn ødrum i Adam, og hafe Manngreinar-Alit.

Enn þad sem þar stendur Rom. 9. Ad GUd hafe elskad Jacob, enn hatad Esau, þad a ecke ad skiliast um þeirra Mannlegar Personur, ecke helldur um einfallt Hatur fyrer utann allt tillit til Syndarennar: Helldur er þad Meiningen, ad GUd hafe wtelukt Esau fra Arftøkunne i þvi fyrerheitna Landenu, þad snerter ecke Arf eilijfs Lijfs, helldur hañ jardneska og tymañlega Arfenn. Advysu elskar GUd þa sem hann elska, langtum meir og framar, enn hina, sem lifa i sijnum Syndum, og Blindleika, og vilia ecke þeckia GUD fyrer sinn Fødur, nie giøra Jdran. Eingu ad sijdur hefur GUD einga velþocknan a þeirra Fordiørfun, helldur vill giarnann ad aller Menn verde saaluholpner. Þad sem þar stendur i sama stad, ad GUd miskune sig yfer þann sem hann vill, og forherde þann sem hann vill; er vel satt; enn þo er þar hia vel adgiætande, ad GUd forherder eingan,
nema

nema þann sem fyrer sijna Vantrw og Jdrunarleise forherder sialfann sig: Soddann meñ lætur hann frammgaanga epter þeirra eigeñ Sinne, jafnvel þo hann giøre þad ogiarnann. Og þegar hann lætur þa so fara fram eptur þeirra eigenn sinne, þa eru þeir af sialfum sier adur allt ofmiked forherdter. Þad sem Heilagur Ande þar mæler; ad þad stande ecke i nockurs Mans Vilia edur tilhlaupe, helldur GUds miskunseme, hjalpar ecke helldur slikum blindum leidtogurum, þvi GUd kiemur til vor ad fyrra bragde, hann wtvelur oss, enn vier ecke sialfer, þar fyrer er þad allt samann GUds Gafa og Naad, og skiedur fyrer utann alla vora Forþienustu og Verdskulldan.

Þetta er riett Wtlegging yfer soddann Greiner. Enn þau siersinnudu Høfud beigia þær og sveigia epter sijnum eigenn Heila, og giøra GUd ad einum Manna-hatara og øfundsiwkum Saturnus, sem hatar og uppetur sijn eigen Børn: Hvar af eckert annad kiemur, enn Trwarennar Umtwrnan, Efablendne, og andvaralaust Lijferne, so sem Menn meiga nw sia daglega fyrer sijnum Augum. GUd vardveite oss alla fra soddann Andskotans Viela-snørum. Amen.

O þw eilijfe og riettferduge GUd, sem ecke hefur Mangreinar-Alit, helldur elskar

alla Menn, og villt ad aller komest til Sannleikssens Vidurkienningar, og faae hlutdeild i þijnu Ryke, kemur og til allra ad fyrra bragde med þinne Naad, og bydur ecke til þess ad Madurenn af sialfum sier verdur hæfelegur til þijns Rykis, helldur giörer oss verduga og hæfelega þar til, med þiñe Undanngãgde Naad, kiendu mier fyrer þinn Heilaga Anda, ad kanast vid soddann þijna omælannlega Giæsku vid alla, med þacklaatu Hiarta. Laattu þitt Lioos upprenna i mijnu Hiarta, so ad eg afneiti, med þeirri blindu Verolldu þeijrri dyrmætu Arfleifd þijns Rykis, og þeim liggiandeFiesiod aAkrenum, helldur leite æfenlega epter hönum af Hiarta, finne hann, og faae hlutdeild þar i, fyrer JESUM Christum Amen.

# Nijunde Höfud-Punctur.

## Pad er eins stoor Synd, ad stoola uppa sitt eiged Riettlæte, og Verdugleika i Bæninne, sem ad forsoma Bænena vegna drygdra Synda og sijns Overdugleika.

Luc. 15.

Fader eg hefe syndgad i Himenenn og fyrer þier, og þvi em nw, ecke verdugur ad kallast þinn Son.

Ef

EF nockur i Bænene, reider ſig uppa ſialfs ſijns eigenn Heilagleika og Gudhrædſlu, og meinar ad hann þar med hafe forþienad, þad ſem hann umbidur; þa rammar hann ecke medalhoofed i Einfalldleika, ſem eitt Barn, helldur vijkur fra þvi til ſijdu, hleipur fram̃ fyrer Chriſtum, ſo ſem einn Þiofur, og Mordinge, og ſtelur fra hønum hans Heidre og Virdingu, ſem er þo einſamall vort Riettlæte, og hefur alleina utvegad oſſ og forþienad allt gott; hañ tileinkar Æruna ſijnum odugannlegum Verkum, eins og madurenn forþiene hana, eñ ecke Chriſtur alleina; og ſo ſem ad GUd bænheire fyrer ſaker mannlegra Verka, enn ecke vegna ſijns Eingietna Sonar alleinaſta. Hier hefur eingen mannleg Forþienuſta nockud ad ſegia, af ſkiærre Naad i Chriſto JEſu meigum vier allt gott ødlaſt, þarfyrer ſeger David i Pſalm. 130. Hia þier Drottenn gillder alleina Naad og Miſkunſeme. So lijted ſem menn hialpa Soolunne til ad ſkyna ſo lyted hialpa vor Verk til þeſſ, ad GUds Naad yfer oſſ wthelleſt. Abraham, Iſaac, Jacob, Elias og aller adrer Heilager, hafa fyrer GUds Naad Saluholpner orded, og maatt ſegia; Drottenn, gack ecke i Doom vid Þræl þinn, þvi fyrer þier er einginn lifande Manna riettlaatur.

Eñ forsome nockur Bænena fyrersaker drygdra synda, og siins overdugleika, þa svijfur hann uppa hina Syduna fra Medalhofenu, og fellur i adra Synda Ohæfu; þvi hann ryrer og klienar GUds Sonar dyrmæta Forþienustu, og Verdskulldan, og skickar sier so sem Christi Forþienusta, Pyna og Daude, være ecke nogsamlegur Betalingur fyrer Heimsins Synder; og ef hañ helldur afram i soddañ, þa fellur hann alldeiles i Orvæntingu. Þarfyrer skal Madur stirkia sig vid GUds Lofaner og Fyrerheit, og vita fyrer vyst, þo ad Synden sie margfalldleg hia oss, þa er þo Naaden hia Gude langtum meire; Rom. 5. þvi so stendur þar: hvar Synden yfergnæfer, þar yfergnæfer Naaden mikluframar, Psal. 42. Vor Eimd akallar GUds Miskunseme, vor Breiskleike GUds Stirkleika, vor Overdugleiki GUds volldugu Haatign, vort Ranglæte GUds Riettlæte. Pad er verdugt og dyrmætt Ord, seger S. Paall, 1. Tim. 1. ad Christur er komenn i Heiminn synduga Menn saaluholpna ad giøra. Item, Þar er eckert fordæmannlegt i þeim, sem eru i Christo JEsu. Rom. 8. So sañarlega sem eg life, seger Drottenn, fyrer munn Ezech. 8. vil eg ecke Dauda hins Synduga, helldur ad hann snwe sier og life. Item, Nær sa hinn ogudlege snyr sier fra siinum vonda Vege, og giører Riett, þa skal hañ

lifa

liſa og ecke deya. Þar um̃ munu aller Heil-ager bidia GUd i hagkvæmann tijma, ſeger David i Pſal.32. Og nær þar kiemur Flood mik-ellra Vatna, þa nær þad ecke til þeirra hinna ſømu. Ef vier medkiennum vorar Synder ſeger Johannes, Joh.1. þa er GUd trwr og Ri-ettlætur, ſo ad hann fyrergiefur oſſ vorar Synder, og hreinſar oſſ af øllu Ranglæte. Sannleikurenn uppvex af Jørdunne, og Riett-læted ſier nidur af Himnum ſegia Børn Ko-ræ. Pſ.25.

Skillde eg ecke bidia fyrr eñ eg finde mig verdugann þar til, þa munde eg alldrei bidia. Skillde GUd ecke hialpa mier, frelſa mig, edur giefa mier nockud firr enn eg være verd-ugur þeſſ, vegna mijns eigenn Heilagleika, þa frelſade hann mig alldrei, edur giæfa mier neitt gott. Hvad kanntu o madur, ad giefa þeim, ſem ecke þarf þijns Gooda vid. Hvad villder þw med þijnum oduganlegum Verkum, og Fromleika forþiena hia Gude? Alldeiles ecke neitt. Aller verck-Heilager meiga packa ſig, og i burtu vykia; Allar ſkapadar Skiep-nur þeigia fyrer hønum. Þinn eigenn Ver-dugleike ſtodar þig alls eckert; þinn eigen O-verdugleike ſkadar þig ecke helldur; Chriſtur hefur hann huled og kvittann giefed. Seig þar fyrer med ſialfum þier, ſo ſem einn Dro-pe Vatns er i mote þvi diwpa og vijda Siaf-

ar-hafe, so eru mijnar Synder ad reikna a mote oyfergrypannlegre og omælanlegre Naad JEsu Christi.

O þu goode og miskunsame Fader, sem mig uppfræder og mentar i þijnu Orde, hvernenn eg eige ad lifa i JEsu Christo þijnum Syne, so ad eg kunne ad rata Medalhofed, og vijke hverke til hægre nie vinstre Handar, i þann maata, ad eg hverke reide mig uppa mitt eiged Riettlæte, og Verdugleika, nie falle i Mistraust og Efaseme, fyrer saker minna drygdra Synda og Overdugleika. Laat þad alvarlega rootfestast i mijnu Hiarta, ad minn eigenn Verdugleike kunne mier ecke neitt ad hialpa, nie helldur mijnar þungu Synder, nockra Hindran ad giøra i JEsu Christo, so ad eg stande stødugur i øllum Freistingum, og hverke laate mig inntekenn verda, af þeim Heilaga og hvijta Siergiædesens Diøfle, sem uñ Middeiged fordiarfar; nie helldur þeim svarta Tvilsemennar Anskota, sem mig med Nætur-ogn, og Mirkre minna margfalldra Synda skielfa vill; helldur meige eg vercka mijna Saluhialp med Ugg og Otta, og so lijka med hugprwdu Trwnadartrauste stødugur blyfa. Þetta vyrdstu o GUD naadarsamlega mier ad veita og framm kvæma, i Nafne JEsu Christi. Amen!

Tiun=

# Tiunde Høfud-Punctur.

## Sannur GUds Dyrkare þarf ecke ad hlaupa vijda epter Gude, nie laangt i burt til nockurs viſſ Stadar, helldur kann hann ad finna GUd allſtadar i Anda og Sannleika.

Joh. 4.

Sw Stund kiemur, ad hverke a þeſſu Fialle, nie til Jeruſalem munu þeir til bidia Fødurenn, þvi ad ſanner tilbidiendur, munu tilbidia Fødurenn i Anda og Sannleika.

HVar mun eg nw finna GUd; kañ einhver ad ſegia? Hvert nockud hia St. Jacob? Eda a Enda veralldariñar? Eda hia ſtiornunum mot ſudre? Eda til Jeruſalem, hia þeirre heiløgu grof, og a fiallenu Tabor? And ſvar: J anda og ſannleika finnur þw hañ allſtadar. Joh. 4. 24. Til Herra og Furſta meiga menn, reiſa langann Veg, til ad tiaa fyrer þeim ſijnar Naudſyniar. Enn GUd er allſtadar til ſtadens, hañ uppfiller Himeñ og Jørd Jer. 23. v. 24. Og er øllum ſkøpudum Skiepnum nalægare, enn þær eru ſier ſialfar; Hann er i øllum, kryngum alla, og hia øllum; aller Stader eru fyrer hønum einn einaſte Stadur, aller tijmar, einn tijme. Þegar einn a biortum Dege geingur um ſliett Bydlende, þa er Lioosed i kryng-

i kryngum hann, hvert semm hann er blindur eda siaande; eins, og enn þa nær, er GUd øllum skøpudum Skiepnum; GUd er einn ande sem þreinger sier giegnum alla anda, hversu skiærer og hreiner sem þeir eru, Spek.7. GUd er oss øllum nærverande, enn vier erum ecke aller hønum nalæger; þad er; vier merkium ei aller hans nalægd, so sem einn blindur sier ecke med Augunum Lioos Dagsins. sem um hañ leiftrar, og i kringum hañ lyser. GUd snyr sier ecke fra oss, enn vier snwum oss fra hønum, so ad vier føllum þar fyrer i Blindleika. Umbreitingen verdur ecke nema i oss sialfum, og vorum Hiørtum, þar finnum vier til þess og tølum þar um, so sem vier askinia verdum. Hver einn syndare skadar sialfann sig, med sinne Burtvikningu fra Gude, enn GUd er alltijd hinn same, oumbreitanlegur, goodur, og riettlatur, i øllum sinum Verkum, hvert sem Mennerner vita þad, ellegar ecke vita; hvert sem þeir hallda sier til hans ellegar ecke; þar fyrer, þad sem stendur i Evangelio, ad GUds ryke sie ecke fyrer utann oss, helldur i oss, Luc.17. Og þad sem Postulenn seger, Hvad kiemur þad vid mig sem þar fyrer utann er, ad eg skule þad dæma? 1.Cor.5. A ecke adskiliast um nockurn utvortes stad, helldur a þad heima hia Trwnne, Andanum, og þeim innra Mann-

Mannenum. Vilie Madur binda GUds ryke vid vissann Stad, þa er hann sem einn Antachristur (a) hvarum vor HErra hefur spaad: Sia! Hier er Christur, Sia! Hann er þar, Stadurenn eda Plaʒed kann Mannenn hverke holpenn nie fordæmdann ad giøra; kinne Stadurenn i hverium einn være, ad giøra hann holpenn, þa hefde ecke Lucifer, eda Satan i þeim sæta og indeslega Himinsins Stad, orded ad Diøfle; ecke helldur Adam i þeirre heillasømu Paradis, falled i Syndena. Og skillde Stadurenn fordæma nockurn, þa yrde eingenn Mad-

(a) Hier med rekst fyrst til baka, sw Antachristens Pavavilla er bindur GUds-Ryke vid vissa Stade, til hverra menn verda med mædusamre pylagryms reisu, ad sækia naad og Fyrergiefning Syndanna, þar næst verdur og einnen hier med skwfad, Hræsne þeirra Munnchristnu, sem meina ad þeir sieu midt i GUds-Ryke, nær þeir ad eins koma til Kyrkiu, og finnast þar sem GUds-Orda Prædikun er fram flutt, jafnvel þo þeir sieu hver med ødrum Idrunarlauser og vantrwader.

Doctor Lutherus seger: Sa Christne Søfnudur finst i Kyrkium, i Schoolum, i Herbergium.

Hvar sem hellst tveir eda þryr eru samañ safnader i Nafne Christi, þar byr GUd sialfur, ja, þegar einhver i saunre Trw og Akalle til GUds, ihugar GUds Ord med sialfum sier, þa er GUd þar til Stadens med sijnum Heilogum Einglum, og lætur Inngangin til Himnarykes standa openn.

Madur holpenn; þvi vier erum i þessum Heime, hvers Hofdinge Diofullenn er, midt a mille hans Lima: So kann hver einn, þott hann sie a Mararbotne, eins og Jonas, ad vera i GUds-Ryke, nær hann ad eins hefur Saaluhialplega Trw og ydkar sig i sannre Idran: Og þar þvert a mote, kann einn fyrer Vantrw og Idrunarleise, ad vera i Diofulsens-Ryke, þo hann sie i midre Kyrkiunne heire Prædikunina, og brwke Sakramentinn, þvi soddann einn er þo fyrer GUds Augum, þar fyrer utann.

O HErra JEsu Christe, þw sem alleina ert Vegurenn Lioosed, og Hlid Himnarikes. Eg prysa þig af mijnu innsta Hiartans Grunne þar fyrer, ad þw med soddann Undervysan kienner mier, hvernen ad eg sie i þier, og þw i mier, hvar hellst eg kann i Heimenum ad vera. Ja þw kienner mier, hvernen þw sanne einaste og ypparste Prestur ert hia mier, og afleiser mig af mijnum Syndum, so opt sem eg þar um andvarpa, þar fyrer, þo eg raafe i mirkrum Dal, þa hrædest eg eckert, þvi þw ert hia mier: Giefdu mier Drottenn, ad eg alltijd kannest vid soddann, uppa þad eg forsoome ecke, eda misse þijna Naad med þeim o-þacknæmelega Heime, helldur, ad eg i sannre trw, meige hennar nioota og henne bijhallda Æfennlega, Amen.

# Ellefte Høfud-Punktur.

## Bæn Trwads Mans er ecke bundenn vid vissa Tijd eda Stundu, helldur kann hann ad akalla GUD a øllum Tijmum, so framarlega sem hann sialfur hindrar sig þar ecke fra.

### 2. Cor. 6.

Nw er sa þægelege Tijme, nw er Dagur Hialpræðessens.

### Esa. 55.

Leited Drottens amedann hann ma finna, kalled a hann a medann hann er naalægur.

SO ad vier itrekum aptur nockud af þvi sem adur er sagt, um Stadenn, þa ma sa Madur sæll kallast, sem er i GUDs-Ryke, þvi hann hefur þann allra ypparlegasta GUDs Fiesiood i sier, hvar hellst, sem hann kann ad vera i Verølldenne; enn hver hann fyrer saker sinnar Vantrwar, er ecke i GUDs Ryke, hañ er þar fyrer utann, þott hañ a samt med ødrum heire GUDs Orda Prædikun, og brwke Sacramentenn, þvi Stadurenn giører hverke holpenn nie fordæmer nockurn, helldur einasta Trwen, og Vantrwen, sem er i Mannsens Hiarta og Anda.

Einn Christenn-Madur hefur med sier GUDs Naad og Fyrergiefning Syndanna; hvar

hvar sem hann er, þvi Christur er i hønum: Enn ecke er þetta so meint, ad Madur meige þar fyrer forakta þad munnlega Prædikunar Embætte; helldur er þetta sagt øllum froomum Mønnum til huggunar, ad hvert sem þeir eru stadder i Siwkdoome, edur annare þvilijkre Neid og mootgaange; og hvar hellst sem þeir eru, þa meiga þeir vita, ad þeir eru ecke utelukter fra Ryke Christi og GUds, helldur hafa þad alltijd hia sier.

Þetta er og sagt þeim Ogudlegu, og Jdrunarlausu til advørunar og skielsingar, ad þeir skule vita og þeinckia, ad þott þeir sieu midt i samkvæme Christinna manna, þa eru þeir þo fyrer GUds Augum þar fra uteluckter þvi hver einn Vantrwadur, utelikur sialfann sig, og ræner sialfañ sig þeim himneska Fieslood, sem annars kinne i hønum ad vera, og hann kinne ad hafa hlutdeylld i.

Eingenn Prestur, edur Sacramentum kann ad hialpa þeim neitt i sijnum Siwkdoome, og mootgauge, sem er ogudlegur og vantrwadur, þo hann sie midt i Kyrkiunne; enn ef hann trwer, og vill betra sig, þa skadar hann þad ecke, þo hann deye i Tyrkerienu, eda a Siafar botne, og kunne þessvegna ecke ad fa neinn Prest, eda Sacramentum, þvi hann hefur Christum þann ypparste Høfud-Prest,

og

og GUds-Ryke i sier; so ad Christur þessvegna seger til þeirra trwudu: Luc. 17. GUds-Ryke er innvortis i ydur: Matth. 28. Item; Eg vil vera hia ydur alla Daga: Item: Nær þw geingur i giegnum Vøtninn, þa mun eg hia þier vera, so ad Vatnsføllenn skulu ecke dreckia þier; og þa þw geingur i giegnum Elldinn, þa skallt þw ecke brenna þig, og sa Elldslogenn skal ecke upptendra þig. Es. 43.

Aumer og vesæler eru þeir, sem leita epter sinne Velferd hia daudlegum Manneskium, binda hana vid Jardneska Stade, og alyta ecke annad, enn þad sem er wtvortes. Enn mørg þwsund Manna eru þad, sem so giora, og missa þessvegna þann innra Fiesiod Saalarennar. Wtvortes hluter eru ecke annad enn Medøl þaug, sem menn eigā ecke ad forackta, enn þeir eru ecke sialft Hnossed, og Fiesiodurenn, (a) helldur er Christur og GUd, Hnossed og Fiesiodurenn; hañ kañ og so adkoma til vor fyrer utann Medøl, þegar vier



(a) Heilog Ritning er so sem eitt ypparlegt Kier edur Fat, a hveriu HErrann Christur sw lystelega Saalarfæda og Himnabraud, verdur oss frambórenn, hwn er einn Vitnisburdur um Christum, og kann þessvegna ecke ad vera sialfur Christur: Taulerus: Heilog Ritning syner oss, hver ad sie Beaurenn, Naadar-Stollenn, og Liifed, enn hwn er ecke sialf þad sama, Drottenn vor JEsus Christur, er þad sialfur alleina.

faum þeim ecke naad. Vier komum aller til samans i Kyrkiuni, og tekur hver sitt Sæte, uppa þad vier i Eindrægne, minnum hver annann a GUds Nærveru, og bidium hann aller sameigenlega, um Naudsyniar vorar og annara wtefra, med þvi hann hefur sett þar Minning sijns Nafns, og lofad hann villde þar sierdeileslega koma til vor og blessa oss: Enn vier bindum ecke þar fyrer GUds Naalægd og Bænheirslu vid þann Stad alleina, helldur vitum ei ad sijdur, ad GUd er ecke laangt fra einum og sierhverium af oss, Giorn. B. 17. Þar fyrer utann; hañ er allstadar nalægur, so ad hann uppfiller Himeñ og Jord; og þad sem enn þa er meira; aller Himnanna Himnar, kunna ecka hann ad innelykia; 1. Kong. B. 8. Hañ er Hærre eñ Himmarner, Dÿbere enn Helvite, leingre enn Jørden, og Vijdare enn Siaafar-Hafed, so sem Job ad Orde kiemst, i sinnar Bokar 11. Cap. sømuleides er hann milldur vid alla þa sem hann akalla, hvar sem þeir eru, Rom. 10.

So sem þvi er nw vared um Stadenn, so er þad einnen um Tijmann; þvi þo þad sie ecke onytsamlegt, og þiene vel, ad Madur brwke vissa Tyma til ad bidia GUd sierdeileslega, þa er GUd þo ecke med sijnne Eilijfd bundenn vid nockurn vissann Tijma, med þvi hann

hann er alltiid Oumbreitannlegur, og heyrer Bænernar, so vel a einum Tijma sem ødrum.

Einn Jardneskur HErra giegnir ecke alltijd þa hans er leitad, helldur allskialldann; stundum sefur hañ, stundum er hañ ad fremia Veideskap, eda hefur annad ad sysla, og er þvi hindradur: Enn vor GUd hindrast ecke af neinu, hann sier alla Hlute a einu Augnablike, heyrer og veit alla hlute, jafnvel þijna þanka, fyrr enn þw varst fæddur; Psal. 139. Hann telur øll þijn Høfud-Haar. Matth. 10. Þwsund aar eru fyrer hønum sem einn Dagur, Psal. 90. Og þar þvert a moote, eiñ Dagur sem þwsund aar. Hann kiemur hverke, nie fer, hefur hverke Tijma nie stad, 1. Pet. 3. Er alltijd reidubwenn til ad hialpa, stendur a hveriu Augnablike fyrer vorum Dyrum, og bydur epter þvi, ad fyrer hønum verde uppløked. Opinb. B. 3. Hans Tijme er alltijd, eñ vor Tijme er ecke alltijd: Og ef vier hølldum vid ad bidia, tokum vara a þvi, og laatum oss ecke draga þar fra, þa verdum vier sliott bænheirder. O Drotteñ, þw villt hugga þa tyk-udlega, sem forlata sig uppa þig, þijnar Naadar-dyr verda ecke apturlucktar. Ef ad vier med vorum Hiørtum hengum vid þa tijmannlegu Hlutena, þa giøra þeir Umbreiting i vor-

um Giedſmunum, og hindra oſſ fra Bænenne, hid innra; þar fyrer hliootum vier i Bænenne ad ſnwa vorum Hiörtum fra ollum ſkøpudum Skiepnum, og ollu tijmannlegu, ſo ad vier kunnum riettelega ad bidia; vier hliootum ad gleima Tijmanum, ſtadnum og ollum ſkøpudum Skiepnum. Þar fyrer ſeger ſw Þijſka Theologia i 30 Capitula; þw hlytur ad yfergiefa hitt og þetta, þad ſem er hier og hvar, i Dag og a Morgun, og komaſt i ro, og hvijldar ſtand, (b) þinna Krapta og Giedsmuna. Þegar þw bidur, þa ma ſoddann Hvyld og Stilling finnaſt i þijnu Hiarta, ad þw hvyleſt fra ollum jardneſkum Þaunkum, og Oroſeme; þa kiemur GUD med ſijnu Orde af hædum; þa verdur þw var vid og ſmackar GUds Trwfeſte, Giæſku, og Sannleika; ſier þa lijka ſo, hverſu leinge hañ hefur adur beded epter þier, og firrenn þw þeckter hañ; og ad hann kiemur til allra, adur enn þeir bidia; ſo ad þw maatt þa ſegia med Moſe; Drottenn, Drottenn, er einn miſkunſamur GUd, naadugur og þolennmodur, og miog lijknſamur og trwr. Exod. 34. Þw munt þa undra þig þar yfer

(b) Þetta er ecke Hvyldarſtand, edur Frahalld fra andlegum Verkum, þeim ed gioraſt af Elſku, til GUds, og Naaungans, helldur fra veralldlegum Athofnum.

yfer, ad þw af þijnum eigenn Blindleika hefur meint, ad sa Heilage Gud yrde fyrst (c) med Hroope og Bæn ad uppvekiast, ellegar hañ þirfte med laangre Bæn, og mørgum Ordum tilknwdur ad verda; munt þw kannast vid, ad hann hefur sied þitt Hiarta, og formerkt alla þijna Þaanka fyrr eñ þw nockurn Tijma varst i heimenn fæddur. Psal. 139.

O þw almattuge eilijfe og miskunsame Gud og Fader, þijn Goodgirne og Sannleike er hærre enn Himenenn, diwpare eñ Afgrunned, breidare enn Jorden, fyrer þier eru aller Stader einn Stadur, og aller Tijmar einn Tijme; þw ert yfer øllum Stødum og Tijmum; þw þreinger þier i giegnum, og uppfiller alla Hlute, þw ert mier nær, enn eg mier siaalfur, þw kiemur til mijn fyrer fram med þinne Naad, og elskar mig aumann Syndara, firr enn eg kann ad skinia þad. Kienn þw mier fyrer þinn H. Anda ad grunda og yfervega allt soddann med stærstu Alvorugiefne; so mun eg O þw allra vysaste, og allstadar



(c) Hier verdur ecke burtkastad Bæn og Akalle til Guds, helldur einasta, þeirre folsku Innbirlingu, sem margann dregur ataalar, ad þegar þaug itre verkenn eru framkvæmd, þa meina þeir ad allt sie giort, sem vera eige, jafnvel þo Hiartans Andakt og Þankar, hafe þar ecke vered medfilgiande.

nærværande hiartans Fader, ecke framar, af minne Favitsku hafa þa þaanka um þig, ad eg med mijnu Hroope þurfe fyrst ad vekia þig, og hlaupa hingad og þangad til ad leita epter þier, ellegar eg kunne ecke nema a vissum Tijmum ad tala vid þig: Helldur mun eg þa fa skiled, ad þeir riettu tilbidiendur gieta funded þig i øllum Stodum og a øllum Tijmum, og ad þijn Naad sie allstadar nalæg; eñ eingeñ verde þo hennar hluttakande, eda smacke þinn Sætleika, utann hann fyrer eina heilaga og hiartannlega Andvarpan, verde af þier uppvakenn og tilknwdur þar um ad bidia. Ad eg mætte nw þvilijkt fa og ødlast, þad virdstu sialfur fyrer þinn Anda Nadarsamlega i mier ad verka, og mier epter ad giefa. Amen.

## Tolfte Hofud-Punctur.

**Af framsettum Hofudpunctum og Umþeinkingum, verdur hiartad ecke einasta reidubwed til Bænarennar, helldur koma þar af adskiliannleger Lærdomar, sem oss eru næsta þarfleger ad vita.**

Esa. 65.

Adur enn þeir kalla, vil eg svara, og a medann þeir eru eñ þa ad tala, vil eg bænheira þa.

### Lærdomarnir eru þesser.

Sa fyrste, ad Gud skipar oss ecke ad bidia fyrer sialfs

sialfs sijns saker, med þvi hann veit alla hlute fyrer fram; helldur giorer hann þad þessvegna, ad vier skulum med Bænenne uppvekiast, og kannast þar vid, ad hann veit þad allt adur. Þvi GUd ber soddann um uhiggiu fyrer oss, ad hann vill ecke vita af einum hlut, firr enn vier og so kønustum vid þad i vorum Hiortum, ad hann veit alla hlute. Þegar vier bidium ecke kostgiæfelega, þa synest oss, so sem GUd vite ecke af vorum Naudsynium; enn þegar vier æsum oss kostgiæfelega i Bænenne, þa merkium vier sioott, ad GUd veit þad alltsamann, og ad vor Høfud-Haar sieu af honum talenn, firr enn vier nockurn tijma fædder vorum: Hvad allt ad er huled fyrer þeim, sem forsomar Bænena. Matth. 10.

Sa annar Lærdomur er þesse, ad GUd þarf ecke vid laangra Fraasagna, so sem einn Madur; helldur er þad einasta vegna sialfra vorra, ad vier meigum stundum bidia leinge, þvi þad stodar þar til ad vort Hiarta kunne ad uppvekiast, til Andaktar og Alvorugiefne i Bænenne, og sa innre Madurenn kunne ad snwa sier til GUds-Rykes.

Sa þridie Lærdomur; ad GUd hefur þwsundsinnum meire Gyrnd, so sem Taulerus seger, til ad giefa, enn vier hefum med Bænenne og Bonenne til ad medtaka.

Sa fiorde; ad GUD hefur ecke þorf a vorum vøkum, Føstum, og Hroope (a) til ad vakna upp, þvi hann sefur alldrei. Psal. 121. Hann kiemur vel firre til vor, enn vier bidium hann, ja, firr enn vier þeckium hann; Jer. 1. Helldur hlytur sw lata og svefnuga Manneskia, med soddann hætte, ad leidast, knyast, og uppvekiast, þar til, ad hwn kunne þad ad yfervega, hvad trwlega sa himneske Faderenn sorge fyrer øllum Mønnum.

Sa fimte Lærdomur er sa, ad vier lærum ad þeckia GUds oendanlega Giæsku trwfeste og Miskunseme vid alle Menn; og þar a moote Mannanna Blindleika, Vantrw, Slensiu, Dofenleika, og oseigiannlegt Daadleise, i þvi, ad þeir gaumgiæfa ecke soddann trwfeste, og Goodgyrne, og ad þeir forsooma ad bidia, leita og knya a.

Siotte

(a) GUd þarf ecke vid vorrar Bænar, hefur og ecke finna vegna til sett, ad hañ þar med skyllde tilknyast, og upporfast; þvi hann sier alla hlute fyrer fram, og veit um hvad vier vilium bidia; hann verdur og einnen firre til ad hiaalpa oss, med sinne Naad, enn vier bidium: Enn fyrer vora skulld, hefur hann Bænena tilskickad, so ad vier daufar maneskiur, mættum þat med uppvekiast, bæde til ad þeckia vora eigenn Ørbirgd, og Voləde; so og lijka GUDS Naadarryka Goodgirne.

Siotte Lærdomurenn er þesse, ad GUd er alltijd heilagur, og riettlaatur i ollum sijnum Verkum: Psal. 145. Hañ er eingannvegenn Orsøk til vorra Baagenda, Bresta, Blindleika, og Vanvitsku, helldur vier sialfer, sem ecke vilium epter hans Befalningu, bidia, leita, og knya a; Med soddañ hætte ber siaalf Vondskan og Laatmennskan sitt Straff epter sier. Hver einn Syndare, er siaalfur sinn Hegnare, enn sa gagn hreine GUd, er alljafnt riettlaatur i ollum sijnum Verkum.

Sa siounde, og sijdaste Lærdomur er þetta, ad GUd er hverke bundenn vid Stad edur Tijma, helldur þar laangt yfer upphafenn, og vill ad ollu leite, a øllum Stundum, tilbedenn verda. Joh. 4. 23.

Þesser Lærdomar og Umþeinkingar, leisa og fria Mannenn fra morgum Villum, og so sem liwka upp a honum Augunum, til ad þeckia þad, sem annars hefde fyrer honum vered byrgt, og huled; Þad er stoor Vanvirda fyrer einn Christenn Mann, ad vita ecke af soddann: Enn ad vita af þvi og skickia sier þo ecke þar epter, þad er eñ þa stærre Skom.

O GUd virdstu ad uppvekia oss, þa voknum vier; drag þu oss epter þier, þa hlaupum vier, fyrer JEsum Christum, þañ rietta Veg til GUds-Rykes. Amen.

# Cap. XXXV.

## Bænen er eins Trwads-Mans, þad er, þess smurda Drottens, riettur Eigennlegleike og Audkienningar-Teikn.

### Psal. 86.

Drottenn beig þijn eiru, og bænheir mig, þvi eg er aumur og vesæll.

AF þessum Ordum siaum vier og lærum, ad Bænen er eins Riettchristens Mans, Eigennlegleike og Audkienningar-Teikn, og ad þreingingarnar uppvekia hann til Bænarennar; Sa sem er Riettchristenn, hann er smurdur og skyrdur med H. Ande. Þegar einn Trwadur madur giefur H. Anda Smurnigu, stad og rwm hia sier, og ecke hrigger hann, edur hindrar; þa uppvekur H. Anda o-aflatannlega Andvarpan i hans Hiarta. Rom. 8. Hann Upplipter Mannsens Anda til GUds, og fœrer hann med sier fra þvi Jardneska. Lijka so sem sterkt Vatn edur Dampe, tekur Kraptenn til sijn af dyrmætum Jurtum, og fœrer hann upp med sier fyrer Varmann; eins lijka fœrer Lijfsens Vatn H. Ande upp med sier til GUds, andlegann Krapt og Kiarna af trwudum Mønnum; þeir eru so sem

Jurter

Jurter og blømstur i Gllds alldenngarde. Es.61.v.3. Psal.92.v.14.

Einn Gudhræddur Madur reine til, um soddann; vere stillenn fyrer H. Anda, og hindre hann ecke, hann skal ecke þurfa ad byda leinge epter þvi, ad þar mun uppstiga ein heit Andvarpan, hann mun segia: O gode Glld! miskuna þw þig yfer mig: O Glld! vertu mier aumum syndara lijknsamur O Sæte JEsu! miskuna þw þig yfer mig. So fliott sem madur leggur Reikelse, myrrhu, edur adrar velluckande Jurter a Elld, þa stygur þar upp Jafnoodum Reikur, sem giefur af sier einn sætann Jlm; eins lijka, ef H. Anda Elldur hrærer vor Hiortu, og fær einga Hindran, þa uppstygur þadann strax ein listeleg Andvarpan, og agiæt Bænar Reikelsis-Jlman.

Hier eiga heima þau fogru Rekelsis Kier, og þær Gullskaler fullar af Reikelse, um hveriar Johannes skrifar Apoc. 5. Cap. ad hann sied hafe i hondum Olldunganna, og bæter þvi vid, ad þad sieu Bæner Heilagra. Þess vegna er andaktugt akall, og Bæn, vist Merke þar til, ad Ande Glds bwe i einum Manne.

Þad sama verdur og einnen bevijsad, af H. Anda bwstadar og Musteris Eigenlegleika. Hvar H. Ande hefur sinn bwstad og Heimele, þar meiga endelega gioraſt Bæner; þvi ad Glds hws er eitt Bæna hws, Matth. 21. og

H. An-

H. Ande er Naadarennar og Bænarennar Ande. Zach. 12. Þar fyrer er Bænen eitt viißt Audkienningar-Teikn og merke H. Anda Nærveru. Ecke tala eg hier um þa Hræsnes Bæn, eda þad bera Munnflapur, yfer hveriu Gud klagar hia Esaiam i 29 Cap. segiande: Þetta Folk nalægest mig med siinum Vørum, enn þeirra Hiarta er langt fra mier: Helldur tala eg um þa riettu Bæn, sem kiemur af Hiartansgrunne, og H. Ande verkar og frammleider af innstu Hiartans Rootum; Ur þvi meira diwpe Hiartans, sem Bænen fellur og bryst fram, þvi framar stygur hun upp til Guds i Hædina. So sem þeir vatnsmiklu og fersku Brunnar, hafa diwpar Ædar, og Nedanngøngu; og þvi diwpara sem Menn verda ad grafa nidur epter Brunnenum, þvi Hærra stygur hans Vatn upp i giegnum rennurnar. Christur er sw rietta vatnsryka Hialpræde sins Uppspretta, af hverre soddann bænarvatn utflytur i Mannsens Hiarta. Nw vel, aller þier sem þirster erud, seger hann, komed til Vatnsens og drecked. Esa. 55. 1. Siaed hvad diwpann Afgrunn ad þesse Brunnur hefur, sem er, hann eiliifa Guddom; og hver sem trwer a hann, seger hann sialfur, af hans liife skulu framflioota Straumar lifande Vatns, Joh. 7. 38. þad er Bænen, og H. Anda Gaafur.

Hvilijkt stadfester og einnen H. Anda Embætte, hann er vor Læremeistare og Huggare. Sie hann vor Læremeistare og Huggare, þa ma hann tala; meige hañ tala, þa ma hann hafa eina Kirkiu eda Mustere i hveriu hann skal tala; hans Kirkia er Mannsens Hiarta, hans Tal, er Hiartans Andvarpan, sem hann uppvekur; hann hefur eine hulda og himneska Rødd (a) vort Hiarta formerker hana; þvi hann ber Vitnesburd med vorum Anda ad vier sieum GUds Børn; og vier hroopum fyrer hann, Abba elskulege Fader. Rom. 8. Skule Heilagur Ande hugga, þa hlytur hann ad hafa þad Hiarta til ad hugga, sem er hæfelegt til ad medtaka hans Huggun; þad er ad skilia, eitt harmþrwnged og sundurknosad Hiarta, so sem David þad nefnir þar hann seger: Þad offred sem Drottne þocknast er einn harmþrwngen og sundurkrameñ Ande. Þar finnur H. Anda Huggun þann rietta stad; Þegar einn Armlegur edur bein i sundurbrotnar, og lemstrarsared verdur smurt med kostulega Balsame, so ad Verkureñ linest, og Lidamootinn komest aptur i stille, eins og

þau

(a) Hier verdur talad um trwarennar innvortes Hugprydе, og Stødugleika, sem kiemur af Vitnesburde Heilags Anda; enn ecke um nockra merkianlega Raust edur Opennberan sem einn kann wt af þessu, sier falsklega ad innbirla.

þau ſoſe rooſamlega; þa kann Madur ad ſia med riettu Krapt Lækningsdomſens: Eins lijka, þegar Hiartad er ſært med Hrigd, og þad er af Angiſt ſundurkramed, og knoſad; þa kann H. Ande ad brwka ſitt Hugſvolunar Embætte med Avexte, og þar innhella ſijnu himneſka Balſame, þa munu þau beinen glediaſt med riettu ſem ſundur brotenn voru. Hann læknar þa, ſem hafa ſundurknoſud Hiørtu, og bindur um þeirra ſaarende, ſeger David. Pſ. 147.3. Item Jeremias 17.14. Drottenn lækna þw mig, þa verd eg heilbrigdur; frelſa þw mig, þa verd eg hoolpenn, þvi þw ert minn Lofſtyr.

So ſiaum vier og einnen i framſettre Grein, Gagn og Nitſeme þeſſ heilaga Kroſſ; þvi heiler þurfa ecke Læknarans vid, helldur þeir ſem ſiwker eru: O þw himneſke Lækner, kondu til vor, vier þurfum þijn aller vid. Drottenn hneig þijn Eiru og bænheir mig, þvi eg em aumur og fatækur. ſeger Spamadurenn. Pſal. 86.1.

Hann ſeger, eg er aumur og faatækur, viſſulega er ein Manneſkia aum og faatæk, hwn er alldeiles aum og faatæk, ſo miked ſem ahrærer Riettlæted. Ef ad GUds Miſkunſeme klædde oſſ ecke, og Chriſti Riettlæte ſkylde oſſ ecke, þa mættum vier ſtanda berer og nakter fyrer GUds Doome og ſkammaſt vor

fyrer

fyrer øllum GUds H. Einglum. J þessu eru allar Manneskiur af Naattwrunne so faatækar, ad eingenn skøpud Skiepna kann faatækare ad vera; jafnvel þo marger, annad hvert vite ecke, eda vilie ecke vita soddann; til þess slags Manneskia, seger Drottenn; Apoc. 3. *Þw veist ecke, ad þw ert aumur, vesæll, og voladur, blindur og fatlaus.*

Þarnæst seger Spamadurenn; *Jeg er vesæll:* Vesølld plagar giarnann ad filgia Faatækt og Volæde; sa sem er aumur og faatækur, verdur fliott vesæll. Hvad er þad ad vera Vesæll. Svar: Þad er ad hafa eingañ blyfannlegann Samastad, ad vita ecke hvert Madur skal hallda, ad vera yfergiefenn af øllum Mønnum, og finna einga hiaalp edur Lijkn i øllum Heimenum. Æ! hvad vesæler eru aller Menn af Naattwrunne til? Hvert skulum vier fara? Hvar kunnum vier ad stadnæmast? *Ef vier høfum ecke neitt annad ad vona uppa, enn þetta Lijf, þa erum vier hiner allra Vesøluſtu a medal allra Manna.* Cor. 15. 19. Lærum þessvegna ad þeckia vora Eimd og Volæde þegar þad skiedur, þa er sa himneske Læremeistarenn, sem huggar oss i vorum Eimdum, til reidu, og kienner þier, mitt Barn, i þijnu Volæde ad andvarpa epter Rijkdoome GUds Miskunar og Heilagleika, og i þinne Anaud og Wtlendingsskap, ad upp-

lipta

upplipta þijnum Augum til GUds, sem byr a Himnum. Þa finnur sw Huggun stad, og ræteſt, sem Christur um talar þegar hann seger; J mijns Fødurs Hwse eru margar Verur. Joh. 14. Þa uppfilleſt þad sem David seger: Fader minn og Mooder mijn yfergaafu mig, en þw Drottenn annadeſt mig. Psal. 27. 10. Siertu hier aumur og Landflotta, þa er þitt Fodurland a Himnum. Ef þw ert hier Faatækur og nakeñ, þa er Christi Riettlæte þiñ Klædnadur, og þinn hialprædes Kirtell. Esa. 61. 10. Þar fyrer vert vakande, og tak vara a þijnum Klædum so ad þw gaanger ecke nakeñ, og ad þijn Bligdan siaaeſt ecke.

# Cap. XXXVI.

## Um Nytseme Avørt og Krapt Bænarennar, og hver ad eige ad vera Grundvollur vorrar Bænar.

### Hebr. 5.

Fyrer þvi laatum oſſ gaanga med Hugarhreiſte til Naadar-stoolſens, so ad vier ødluſtum Miſkunſeme, og finnum Raad a þeim tijma, nær vier þurfum Fulltinges vid.

DRottenn heirdu mijna Rauſt epter þinne Miſkunſeme seger David i Psal. 119. Sa fyrſte Grundvollur Bænarennar er Naad GUds i Christo vorum Drottne, hverad er full-

fullur Naadar og Sannleika, af hvers fyllingu vier meigum aller fa Naad fyrer Naad, Joh. 1. hann er sa naadarstoll Rom. 3. v. 25. til hvers vier eigum i Bænenne ad snwa vorum Trwar augum, eins og Israels Børn snern sijnu Andlite til Naadarstoolsens fordum, þegar þau baadust fyrer, HErran Christur hefur og lofad oss Bænheyrslunne i sijnu Nafne, hvers þier bidied Fødurenn, seger hañ, i mijnu Nafne, þad mun hann veita ydur Joh. 16. v. 23. Þetta hafa þeir heiløgu GUds Spaamenn, gaumgiæfelega athugad, og þvi andvarpar Daniel þannig: Bænheir þw oss vor GUd, fyrer saker Drottens. Daniel. 9. v. 17.

Eñ Gagn og Nytseme Bænarennar, er innebunden i þvi, sem Heilagur David enn framar bidur i sama Psalme a þennann haatt: Lijfga þw mig Drottenn epter þijnum Riette; þviad af Naadenne kiemur lijfed vissulega, og fyrer utañ GUds Naad, er Madureñ lifande Daudur, og hlytur endelega ad vera under GUds Reide; hvad stodar oss vort Lijf, ef vier erum fyrer utann Naadena? Þvi seger David. i Psal. 63. Drottenn þijn Miskunseme er betre enn Lijfed.

Þesse lijfgunar Kraptur flooar til vor fyrer JEsum Christum, hver þess vegna took vort Holld og Blood uppa sig, ad vier fyrer hans Lijfkreptuga Holld, skyldum Lijfed od-

last. Þennann Lijfsens Krapt finnum vier i Bænenne, og fyrer Bænenna, so sem þeir ed snertu HErrann Christum a hans Hiervistardøgum, feingu aptur Heilsuna fyrer þann Lijfgunar Krapt, sem wt af hønum gieck; eins lijka, þegar vor Saala andvarpar yfer sijnum Vanheilendum, og vier med Trwnne og Bænenne, snertum vorn Endurlausnara JEsum Christum, þa geingur sa Lijfgunar Kraptur wt af hønum, sem oss endurnærer og lijfgar, so sem margar sorgmæddar Saaler kunna af Reinslunne ad fornema; hvar af vier lærum, ad eckert sorgfullt Hiarta kann ad fa Hressing og Glede an Bænarennar, þar fyrer maatte og sialfur HErrann Christur i sinne Heiløgu Pijnu leita Trausts og Endurnæringar med Bænenne, og erum vier vorum gooda Gude skylduger um Þacklæte þar fyrer, ad hann vyrdtest ad veita oss og giefa, þad agiæta Medal, Bænena, so sem heilsubootar Lækning, handa vorum sorgande Hiørtum.

Þar næst seger hinn Heilage David: *Bænheyr þu mig epter þinne Miskunseme*, i þessum ordum giefur hann oss ad merkia, ad Bænen sie eitt kostulegt Medal til ad ødlast GUds Miskunseme, og Naadarennar giafer, so sem er; Aukning Trwarennar, Kiærleikurenn, Þolennmæden, GUds Þecking, Au-

Andakt, Hiartans Fridur og Glede, hveriar allar ad eru þær vegleguſtu Gaafur Naadarennar, Kraptar og Fieſiooder himneſker, dyrmætare enn Himen og Jørd ſo og lijka ſtyrkur og Sigurvinning a Heimenum, Dioflenum og øllum vorum Ovinum, hver andlegur Styrkleike, ad i einneſaman Bænenne er falenn! med hverium David og adrer heilager hafa ſigrad ſijna Ovine, ſo ſem vottaſt af Dæme Moyſis, Eliæ, Joſaphat, og annara, hverra Afl og Sigurvinning, ad var innefallen i Trwnne og Bænenne. So hefur og hver einn ſtora þørf a Bænenne vegna ſinnar Køllunar og Embættes, ad hann kunne i þvi riettelega ad ſtanda, og þad kunne ad fa luckulegann Frammgang.

Men eiga og ſo ad bidia GUd i allſkins Neid og Hørmungum um̃ H. Anda Hiaalp og Huggun epter þvi vier erum enn þa i þeſſu Lijfe ſtadder, ſo ſem a Brim-ſio og millum hættelegra ſkeria dags daglega. Þar fyrer ſeger David enn framar: *Mijner Illſkufuller offækendur vilia til vid mig, þad er, vilia giora mier ſkada, og eru ſiarlager fra þinu Løgmaale:* ſo ſem hann ſegde; miøg er Bænen naudſynleg: Þvi þad ſem Diofulenn gietur ecke ſialfur giørt, þar til brwkar hann ſijn Verkfære ogudlega Menn ſem ſtunda upp a þad

Nott og Dag, ad frammkvæma hans Vilia og giøra Skada. Eingenn ma vera ugglaus fyrer þesshattar ogudlegum Monnum, og er þad þvi hid besta og krøptugasta Raad þeim a moote, ad bidia GUd, og syngia hønum einn fagrann Lofsaung, so sem þar stendur i Ps. 18. Jeg vil lofa Drottenn, og kalla til hans, og hann mun frelsa mig af mijnum Ovinum, og i Psal. 25. til þijn Drottenn upplifte eg minne Saal, GUd minn a þig treiste eg, laat mig ecke til skammar verda, so ad mijner Oviner gledie sig ecke yfer mier, þvi eingenn verdur sa til skamar sem þijn bydur; enn til skamar hlioota ad verda þeir faanytu forsmaanarar. Hier er þad miøg athuga verdt sem David seger, ad Ovinerner sieu langt fra GUds Løgmaale; þvi þess hattar eru aller þeir sem adra ofsækia, þeir eru langt fra GUds Orde og hans heilaga Otta. Þar fyrer er þeirra Fall nærre, og þeirra Tøpun og Olucka fyrer Dyrum. Enn einn riett-trwadur og audmiwkur madur hell-dur sier innelega til GUds fyrer Bænena, og þar hann upplypter daglega sijnu Hiarta til GUds, og hefur vid hañ idulegt Sidblendne og samlag, þa verdur hann hønum þvi meir og meir innlijfadur, sa hinn same gleimer all-tijd hvad af hveriu Heimenum, og þvi tijmañ-lega, og verdur af jardneskum Manne and-legur og himneskur, lijka sem Moysis fordum, af

af þvi ad hann hafde haft Samtal vid GUd i 40. daga og 40. nætur, þa fieck hann liomande og skynande Asioonu. So sem vier nemum giarnann Side þess Mans og Dygder, sem vier høfum daglega Ummgeingne med, og gyrnustum ecke ad vera helldur hia ødrum, enn þeim sem vier høfum leingst elskad og haft Ummgeingne med, so lærum vier og iñdreckum fyrer siifellda Bæn, himneska Side og Twngu Maal, og faum alltijd meir og meir brennande Elsku til GUds. Ja sw Edla Bæn burtrymer og so margar Synder, og er Børn og Veria a moote yferhangande Olucku og Freistingum. So ad Drottenn seger Matth. 26. Vakid og bidied, so ad þier falled ecke i Freistne; og ef eitt hvad mootkast fellur oss þa uppa, þa vitum vier, ad þad er oss til skickad af þeim almattuga, hvers vilia vier eigum med allre þoleñmæde ad lata a oss framkvæmast, ad bidia um Huggun, og Linun i Mootlætenu.

Enn fer David aframmleingra; segande. Nalægur ertu Drottenn, og aller þijner Veger eru sannleike. J þessum Ordum setur hiñ h. David Annann og hiñ Þridia Grundvoll til vorrar Bænar, sem er GUds Naalægd og GUds Sannleike.

GUds Nærvera huggar oss i vorre hædstu Neid, og þvi seger hañ fyrer muñ. Esa. 41. v.

10. Ottast þw ecke, þvi ad eg em med þier, vijk þw ecke þvi ad eg em þinn GUd. Þess vegna meigum vier allstadar med storre Hugarhreiste leita hialpar hia Gude. Frelsarenn seger ad sonnu Matth. 6. Þegar þw bidst fyrer þa gack inn i þitt Svefnhws, og ad luktum Dyrum, bid þw Fødur þinn sem i Leine er, og Fader þinn sem i Leine sier, mun veita þier þad opennberlega. Enn i þessum ordum bindur GUd ecke Bænena vid nockurn vissann Stad, helldur talar hann þetta sierdeilis vegna Hræsnaranna, sem einasta af Yferdrepskap, og fyrer sida saker giora sijnar Bæner fyrer Manna Augsyn.

Þad er skrifad um Forfodurenn Isaach ad hann hafe a mote Aptne geinged wt a Akurenn ad giora sijna Bæn; Gen. 24. 63. og um vorn Frelsara lesum vier, ad hann hafe fared einsamall uppa Fialled til ad bidiast fyrer, og hafe vered a Bæn til GUds alla Nottena. So kunnum vier og einnen ad bidia GUd i øllum Stødum, og a øllum Tijmum, enn þa allra hellst, þegar vier erum einer, og verdum ecke af ødrum hindrader, hver Hendtugleike oss skal afysa þar til, ad vier holldum giarnan Samtal vid GUd, og Minnustum alltijd þess, sem David hier seger: Naalægur ertu Drottenn, sie Drottenn nalægur, þa kunnum vier eckert betra ad giora enn ad tala vid hann, epter

epter þvi sem stendur hia Esa. 55. Kalled a hann a medann hann er Naalægur, og i Psalm. 145. Naalægur er Drottenn øllum þeim sem hann akalla. Hier ad auke styrkest vor Bæn mikelega af GUds Sannleika, þvi vier vitum ad hann hefur boded oss sig ad bidia, Akalla þu mig i Neidenne seger hann, Hann hefur og einnen lofad ad bænheyre oss, so sem þar stendur Esa. 65. Adur enn þeir kalla, vil eg svara þeim, og a medann þeir eru enn ad tala, vil eg bænheyra þa. Og ecke hefur hann alleinasta med Ordum lofad ad bænheyra þa Truudu, helldur og einnen hefur hañ audsynt þad i Verkenu, so sem sia ma af Dæme Moysis, Samuels, Davids, Josuæ, Cornelii, og annara, hverra Bæner og Ølmusur hafa styged til Minningar fyrer Drottenn. Giorn. B. 10. Skriften er full af soddañ Epterdæmum. Eñ ef þu kant ad þeinkia og segia, være eg sem Moysis, Elias, David, og adrer Heilager, þa mætte eg vænta þess hins sama, enn nu er eg, þvi midur, langtum odruvise. Þa svarar Postulenn Jacob þier og seger, þesser hafa vered Menn lijka sem þu. Jacob. 5. Hver var Cornelius sem umgietur i Giorninga Bok Postulanna? Hañ var eiñ Heideñ Madur. Hver var Manasses? hiñ mesti Stoorsyndare. So hefur og GUd lofad ad hann villde bænheyra þa aumu. Þegar sa faatæke kallade, þa

bænheyrde Drotteñ hañ, ſeger David. Pſ.34. Og eñ aptur. Pſal. 102. 18. Hann aleit Bæn þeirra lijtelmootlegu og fyrerleit ecke þeirra Bæner. Item Pſal. 9. 19. Vonen hins Volada mun ei glataſt æfenlega

Frammveiges ſeger Pſalmiſteñ Pſal. 119. v. 152. Adur viſſa eg þad fyrer ad þw hafder þijna Vitnesburde eilijflega grundvallad. Þetta er ein Krøptug Maalsgrein, og ſtirker magnlega vora Bæn og Trw, hwn er hiñ fiorde oraſkanlegur Grundvøllur vorra Bæna. GUds Ord og Fyrerheitenn hafa eilijfann Grundvøll, ſem er ſialfur GUd, og hans Sonur JEſus Chriſtur, uppa hañ er GUds Ord bygdt, og vor Saaluhiaalp, og þad adurenn Grundvøllur Veralldarennar var lagdur. Hvad hellſt ſem hefur eilijfann Grundvøll, þad kann ecke af nockrum tijmanlegum Hlut ad raſkaſt nie umutturnaſt; þar til hefur Heilagur Paulus lited, þar ſem hañ ſeger Rom. 8. 38. Ad hverke Hæd nie Dypt, ecke þad Nærverande, nie þad Okomna, ecke Einglar nie Maktarvellde kunne ad ſkilia oſſ fra þeim GUds Kiærleika ſem ſie i Chriſto JEſu. Er þad ecke ein ſtor Huggun, ad vor Trw og vor Bæn, hefur einn eilijfann Grundvøllia, eiñ eilijfann Upprunna! þad ma hreſſa oſſ og gledia, ſo opt ſem vier þeinkium þar uñ, og þetta er þad ſem Drottenn talar uñ þegar hann ſeger hia

Eſa-

Esaiam 28. Sia þw ad eg legg i Zion einn Grudvallar-Stein, einn proovadann-Stein, einn kostuleganñ Hyrningar-Stein, sem vel er grundvalladur. Hver hann trwer, hann flyr ecke; Ellegar so sem St. Petur þad wtleggur, Hann skal ecke til skammar verda 1. Pet. 2. Par til lytur og St. Paall, þar hann seger. 1. Cor. 3. Anann Grundvøll kann eingenn ad leggia, enn þann lagdur er, hver ad er Christur JEsus. Item. Grundvøllur GUds stendur stødugur, hafande þetta Teikn. Drottenñ þecker þa sem hans eru. 2. Tim. 2. A mote þessum Grundvelle megna ecke Port Helviitanna, so er þetta þa lijfatkier vorrar Saaluhialpar og Festing vorar Trwar, sem er stødugre enn Himen og Jørd.

## Umñ Krapt og Averte Bænarennar.

Bænen er Samtal vid GUd;
Likell Himensens;
Blomstur Paradiisar;
Frygangur til GUds;
GUds hwstyra;
Pecking GUds heimuglegra hluta;
Opennberan GUds Leindardoma;
Wtvegun GUds Gaafna;
Eitt andlegt Giestabod;
Himneskt Sælliife;
Driwpande Varanna Hunangs seimur;

Foostur mooder Dygdanna;
Sigurvinning Lastanna;
Afbeidsla Syndanna;
Heilbrygde Saalarennar;
Breiskleikans Lækning;
Veria fyrer eitre Glæpanna;
Stitta Heimsens;
Forlykun Folcksens;
Sæde Blessunarennar;
Alldenngardur Farsælldarennar;
Eyk Unadsemdarennar;
Aukning Trwarennar;
Stod vonarennar;
Mooder Kiærleikans;
Braut Riettlætesens;
Vernd Stødugleikans;
Speigell Forsialnennar;
Kiensłumadur Hossemennar;
Styrkur Skyrlijfesens;
Pryde Heilagleikans;
Upptendran Elldræknennar;
Lioos Viskunnar;
Herberge Spekennar;
Trwnadar Traust Hugarens;
Hugdeigunnar Lækning;
Grundvøllur Fridarens;
Fognudur Hiartans;
Hugskotsens Lisleseme;

A hei-

A þessare Pylagrims Reisu trwverdug Fylgdar Syster;
Skiølldur Christens Stryds-Mans,
Audmyktarennar Mæleswra;
Forstada Hæverskunnar;
Næring Polennmædennar;
Vøktun Hlydnennar;
Kyrrlætesens Uppspretta;
Einglanna Eyterbreiting;
Flotte Diøflanna;
Huggun Hrelldra;
Føgnudur Riettlatra;
Glede Heilagra;
Hiastod Nidurprícktra;
Hressing Piaadra;
Hvilld Þreittra;
Pride Samviskunnar;
Aukning Naadargiafanna;
Sætleiks Ilmur Þackar-Offursins;
Uppørvan Godvilians;
Lietter Mædunnar;
Myking Daudans;
Forsmeckur tilkomanda Lijfs;
Og epter langan eilijfrar Saaluhialpar.

## Cap. XXXVII.

### Rok og Grunddvollur þar til, ad GUD vill an alls Efa naadarsamlega heyra vorar Bæner.

Psal. 86.

## Psal. 86.

Þw Drottenn ert sætur og mylldur og mikellrar Miskunar, vid alla þa sem þig akalla. Heir þw Drottenn mijna Bæn, og hygg, ad Kveinstafan minnar graatbeidne. A Deige minnar Hørmungar kallade eg til þiin, ad þw villder bænheyra mig.

J Harmagrat Jeremiæ Cap. 3. stendur, Miskunseme Drottens er þad, ad vier erum ecke Aulldunges geingner til grunna; þvi ad hans Minskunseme hefur eingann Enda, helldur er hwn ny hvern Morgun, og þijn Trwfeste er stødug: Mitt Hlutskipti er Drottenn seger mijn Saal, þarfyrer vil eg vona a Hann. Hier huggar heilagur Ande oss i vorum Krosse og Hormungum, þar med, ad GUds Godgyrne og Miskunseme vidhalde oss an hverrar vier anars fliotlega forgeingum. Liika so sem Gud i þvi naattwrlega Lijfe nu lætur ganga a vyxl Liooſed og Myrkred, eins lætur hañ þad skie i þvi andlega; ad þar er bæde Lioos og Myrkur, Sorg og Glede, so ad i Gudhræddra Hiortum, ma Liooſed alltyd upprenna, epter Myrkur Sorganna, og gledia þau; þad er GUds Miskunseme, sem vidhelldur ollum Monnum, og giefur þeim Lijf og Lucku, þvi ad i GUde, erum vier, lifum vier, og hrærunst vier, Giorn. B. 17. GUd er Brunnur og uppspretta Lijfsens og alls Gods; þad votta hans Giorn-

Giorningar, þviad sierhvert verk priisar sin Meistara: Med þvi GUd hefur skapad allar lifande Skiepnur, þa ma hann sialfur vera Liifed; med þvi hann hefur giordt alla hlute vel, þa ma hann sialfur vera sa hædste Goode; med þvi hann hefur giort alla hlute yndeslega, þa ma hann sialfur vera Kiærleikurenn: Hier fyrer nefnest hann GUd lifande, Matth. 18. Þu ert Christur Sonur GUds lifanda seger St. Petur. Hann er GUd lifande; ecke alleinasta ad verunne, og af þvi ad hann lifer af sialfum sier; helldur einnen ad Verkunenne þvi han giefur ollum hlutum liifed og helldur þeim vid Liifed, *veiter ollum hlutum Liif og Anda.* Act. 17. Þar fyrer sagde Daniel til Balthasar. Dan. 5. Þu heidrader Dauda GUde, enn þann GUd, sem hefur þinn Anda, og alla þijna vege i sinne Hende, hefur þu ecke vegsamad. Og Moysis seger, Deut. 30. Þitt Liif er hia Gude og þinn langiædlegur Alldur. So kallar og GUd sig hia Jer. Cap. 2. Þa lifande Uppsprettu, segande: Þeir yfergafu mig Brunnenn lifanda Vatns, enn groofu sier Brunna sem ecke gaatu Vatne hallded. Og David mætli þannig i Psal. 27. Drottenn er verndare mijns Liifs. GUd er i sine Verkan Liif alls þess, sem liifs anda hefur, ja, hann sialfur giefur ollum Liifed, og þad utflytur fra honum, lijka sem Varmenn af Solunne, og ecke ein

einunges kemur þetta fram vid Mennena, helldur og einnen ahrærer þad allar skapadar Skiepnur eptur ordum hins Heilaga Pauls, Rom 11. Af hønum og fyrer hann, og i hønum er allt, hønum sie Dyrd um alldar Amen. Og til Col. 3. Christur er allt i øllum.

Nu þo allar skapadur Skiepnur hafe sitt Lijf af Gudi, þa samt hefur þo Madurenn þad af hønum i enn hærre og ypparlegre Trøppu: Þvi þar sem hann er pryddur og gafadur med Skinsemdarfullre Saalu, þa fylger þad epter, ad hann hafe ødlast enn veglegra Lijf, helldur enn adrar skapadar Skiepnur, og þar ganga ecke yfer nema Einglarner, hverra lijf, ad er miklu veglegra enn Mannanna lijf, saker Dyrdar og Tignarvelldis GUds, sem i þeim lioomar; hvers vegna þeir eru eingum Hiegomlegleika edur Spillingu underorpner, eins og Mennerner: Enn lijfed Drottens vors JEsu Christi er þo øllu lijfe ædra og ypparlegra, þvi hann er sa sanne GUd, og sialft lijfed, so sem þar stendur 1. Joh. 5. JEsus Christur er sannur GUd og þad eilijfa Lijfed, hann er GUd af Gude, Lioos af Lioose, einn Sannur GUd af Gude Sønnum; So sem lijfed er af Gude, so er og einnen øll GiæskA og Miskunseme i GUde og af Gude, þvi hann er sialfur sa hædste og eilijfe Goode, og eckert er gott, nie kann ad nefnast gott, utann þad

sem flytur ut af þessum Brunne. Þar fyrer hafa allar skapadar Skiepnur feinged so sem dropa af GUds Giæsku, med hverium þær bera vitne uñ sinn Skapara: Og so ad segia tala sijfellelega vid oss þar uñ: Vijntried mæler a þennann haatt. Þw skallt vita O Madur, ad þesse Sætleike mijns Vøkva, med hverium eg endurnære Hiarta þitt, er af mijnum Skapara; og Brauded seger so; Kraptur sa sem stiörkur þitt Hwngur, er mier veittur af beggia ockar Verckmeistara. Hier a þad heima sem einn af Lærefedrunum seger, ad GUd hafe ynferstöckt allar Skapadar Skiepnur, med Dropa sinnar Guddomlegrar Giæsku, so þær skule, koma Mannenum til Gooda. Item seger David: Þw Coronar Ared med þinne Goodgyrne, og þijn Footspor driwpa af Feite.

Hvad hellst sem nu kallast i Bok Naattwrunnar GUds Goodgyrne, þad kallast i Ritningunne Naad; þetta ahrærer Saalena, hitt Lijkamann. Þar fyrer so sem GUd hefur i þeirre storu Bok Naattwrunnar, audsynt Mønnunum sijna Goodsemd i þwsund falldann maata, so hefur hann og einnen i Skriftenne þeim opennberad sinn Kiærleika; og Miskunseme, med otelianlega møraum hætte; hvad allt ad er fullkomnad i Frelsara vorum JEsu Christo, hver einn i sier hefur foolgna

alla

alla fiesioodu Giæskunnar og Kiærleikans, sem Himen og Jørd hafa inne ad hallda.

Enn af þvi ad sa er haattur alls Goods, ad þad meddeiler sier ødrum, og siinum Giædum, annars være þad ecke gott, þecktest ecke helidur ad vera gott; þvi hvernen kinne Madur ad vita þad være gott, ef þad giæfe ecke siin Giæde til vitundar? Hvernen kynnu Meñ ad vita, ad Viintried være gott, ef þad bære eingenn Viinber? Liika so hefde eingeñ vitad, hvad godur og Naadugur GUd var, hefde hann ecke sialfur auglyst ødrum og utdeillt siñe Naad og Giæsku: Hver hefde vitad hviliikur ad Christur var, hefde hann ecke auglyst oss sinn Kiærleika?

Enn hvar fyrer hefur GUd openberad sig, og auglyst, þad hañ være goodur Naadugur og Miskunsamur, nema til þess, ad vier skylldum a hann trwa, elska hann yfer alla hlute, og akalla hañ i allre Neyd, og ad hañ fyrer slyka Opennberan, kynne ad uppvekia i oss Bænena, og innplanta hana i vor Hiørtu; þvi hvernen kunnum vier hañ ad akalla, sem vier þeckium ecke? Þar fyrer þegar Moysis, bad GUd ad hann mætte sia hans Dyrd: þa fieck hann þad Andsvar; Exod.33. Þu kant ecke ad sia mitt Auglit, þvi eingenn Madur mun lifa, sem mig sier; Þad er, sem mig sier i min-

i minne Oyfergrypannlegre Veru. Sia hier er eitt Rum hia mier, þar skalltu standa yfer Steinenum og eg vil lata allann minn gooda fara fyrer þijnu Auglite. Merk hier trwud Saala: Drottenn villde ecke einasta laata Moysen sia lijtinn Dropa edur Part, af sijnum gooda og sinne Vegsemd, helldur villde hann lata hann sia allann siñ Gooda og alla sijna Dyrd. Enn hvernen skyllde þad skie? þw skallt seger Drottenn sia a bak epter mier; þad er, þw skallt læra ad þeckia mig af mijnum Verkum, eñ mitt Auglit mattu ecke sia. Eñ þegar Drottenn kom nidur i Skienu og allur hans goode, og øll hans Dyrd gieck fram fyrer Moysis Andlite; þa var þar hropad: Drotteñ Drottenn, einn GUD, sem er miskunsamur og naadugur, þolennmodur og miøg lyknsamur og trwr, þw sem audsyner Miskun i þwsund lidu, og fyrergiefur Misgiørdernar, Raanglæted og Syndernar, og fyrer þier er eingenn saklaus. So snart sem Moysis fornam þessa GUds Miskunseme, þa hneide hann sig strax til Jardar og akallde Drottenn.

So hefur nu sa almaattuge GUd opeñberad sijna Miskunseme, Naad, Kiærleika og Trwfeste fyrer Mønnunum; so vel fyrer oss sem Moyse, uppa þad vier skulum lijka sem Moysis hann akalla og tilbidia. Nw kann einhver ad segia; hverninn kann þad ad skie,

ad Gud hafe opinnberad sig fyrer mier, so sem fyrer Moyse? Þar til svarast: Pad er Skied i Christo JEsu, i hønum hefur Gud laated alla sijna Mislunseme og Dyrd synelega frammgaanga fyrer oss, þvi vier høfum sied hans Dyrd, Dyrd so sem eingietens Sonar af Fødurnum fullann Naadar og Sannleika. Joh.11.v.14. Nær vier leggium þad nw uppa a Hiartad, sem HErrann Christur leid og giørde vorra vegna, þa meigum vier maklega hroopa upp og segia. Drottenn, Drottenn, er einn miskunsamur og nadugur Gud, þolennmoodur og mikellrar Giæsku. Þa siaanm vier, hvernen ad þesse Figura Moysis er uppfillt, og hvernen Gud er komenn nidur i Skyenu af Himne, og hefur lated syna Giæsku frammganga fyrer oss i Holldgan og Hingadburde vors Lausnara.

Þegar Paulus og Barnabas giørdu Kraptaverkenn i Lystres; þa søgdu þeir Heidnu: Guderner eru ordner Mønnum lijker, þeir eru ofannstigner til vor: Act.14.v.11. Þetta var þeirra følsk Meining og villu-Domur. Hafe þeir nw i sinne Villu so aliktad af þeim Furdu verkum, sem Paall og Barnabas giørdu, ad Guderner være ordner Mønnum lijker, og komner nidur a Jordena, þa meigum vier langtum frammar alikta i sannleika, fyrer þa naad sem oss er giefen i Christo JEsu, ad Guds

Giæska

Giæfka og Miskunseme sie kominn fyrer Christum til vor a Jordena; þvi þad er allt skied til þess, ad GUd looke oss og lade til sijn, og uppveke i oss Trwna og Bænena, þvi GUd meddeiler oss siñe Naad og Giæsku fyrer Bænena. Og skal hier nu frammleida nockrar hofud orsaker og Grundvelle til þess, ad GUd vilie vissulega heyra vorar Bæner.

Fyrst er sa Kraptur Bænarennar, ad hwn gietur mykt ecke ad eins goodhiartadañ Mann, helldur og einnen hardann og þverlindann; hvar uppa vier høfum dæme a Ecktunne og þeim Ranglaata Domara Luc. 18. 5. Þvi þo hann være omylldur, gaf hañ sig þo um̃ sijder faangeñ fyrer hennar þralegre Bæn, og veitte henne asia. Epter þvi ad Bænen frammgeingur af Andanum, þa er hwn so sem styrkleike Saalarennar, þar fyrer hefur hwn Krapt og Verkun furdannlega til ad iñtaka Hiortu Mannanna, og sveigia þau. Nw med þvi ad vor GUd er eingenn hardur og omylldur GUd, helldur sa ypparste Fromleike, sw hædsta Þolennmæde hid liwfasta Blydlinde, stærsta Hoogværd, og mest brennande Elska, ja, øll Dygda Pryde i hinne hædstu og vegleguſtu Troppu; þa kann þad ei ad skie, ad hann medtake ecke audmiuka og brennande Bæn, þvi ef hann giorde ødruvijs, edur rein-

dest a annann haatt, þa fylgde þad a epter ad Gud være ecke sa hædste Ypparlegleike, Giæska Blydlinde. Þar fyrer, og so sañarlega sem Gud er hin hædsta Giædska og Miskunseme, so sannarlega verdur hann med audmiukre og heitre Bæn unnenn. Þvi seger Taulerus, ad Gud hafe so stoora Epterlaungun til vor, og stunde so mikelega epter þvi, ad upplwka fyrer oss øllum sijnum naadar Fiesioodum, og fillingu sinnar naattwru; ad hans Guddomleg Vera epter mannlegum hætte ad tala, vilie þarfyrer so sem bresta i sundur. Gud rekur hart epter, ad hans Giæska kunne oss ad meddeilast, og verda vor eigeñ. Item, vier erum skapader, kallader og bodner til stoorra oendannlegra og eilijfra hluta. Þar fyrer reidest Gud oss þwnglega, so opt sem vier tøkum fallvøllt og faanyt Heimsins Giæde frañ fyrer hann, þar hann er reidubwenn, ecke einasta oss allt ad giefa, helldur og einnen sialfañ sig. Item; þvi lijkur er Guds Kiærleike vid oss, ad hann kann ecke ad synia oss nockurs, ja, kemur undann vorum Bænum, mæter oss, leitar epter ad hafa vora Vinaattu, og er þwsundsinnum viliugre til ad giefa, enn vier til ad þiggia, þwsundsinnum reidubwnare til ad wtbyta, eñ vier til ad gyrnast og ummbidia.

Auw-

Aunnur Bevijsing til þess ad GUD vilie bænheyra oss, er hans Sannleike og fyrer heit: Akalla þu mig i þinne Neid, og mun eg frelsa þig, seger hañ i Ps.50. v.15. og i Ps.145. v.18. Naalægur er Drottenn øllum þeim sem hann i Sanleika akalla, hann giører hvad hiner Gudhræddu bidia hann heyrer þeirra kall og hialpar þeim. Og enn aptur i ødrum stad: Þu Drottenn ert goodur og lijknsamur, og og mikellrar miskunar vid alla þa sem þig akalla. Psal. 68. Drottenn er goodur seger David. og ef þad er oflyted, þa er hann og so naadugur; og ef þetta er enn þa ecke noog, þa er hann fullur af stoorre Miskunseme; vid hveria? Vid alla þa sem hann akalla. Hia Esa. Cap. 65. seger Drottenn, fyrreñ þeir akalla, þa vil eg svara þeim, og amedann þeir eru eñ nu ad tala vil eg heyra þa. Christur seger hia Johannem i 16. Cap. Hvers þier bidied Fødurenn i mijnu Nafne, þad mun hann veita ydur. Og hia Matth. 17. Cap. Bidied, og munydur giefast, leited, og munud þier finna, knyed a, og muñ fyrer ydur upploked verda: Sem villde hañ segia; bidied og lated ecke þar med blyfa, leited og so, og giefed ecke helldur þar med tapt, helldur klapped einnen uppa. Sijdann bæter hann þessu vid, hver hann bidur, hann mun ødlast, hver hann leitar hann mun finna, og hver hann banckar uppa, fyrer hønum mun upploked verda. Og hia Marc. 11. seger vor

HErra; allt hvad þier bidied i ydar Bæn, og trwed ad þier muned þad fa, þad skulud þier ødlast. Þessar sijnar Lofaner hlytur GUd ad hallda annars være hann ecke sa sem hann hefur i sijnu Orde vottad sig ad vera, og þess vegna hefur GUd skipad oss ad bidia optlega, ja an aflaats, ad hann vill an Efa bænheyra oss, og giøra oss sem flesta hluttakara sinnar Giæsku.

J þridia maata stirker sialfur HErrann Christur þetta, ad GUd sie miøg giefeñ fyrer þvi ad bænheyra oss þar hann so mæler Luc. 11, 13. Hver er sa Fader a medal ydar, ef Sonurenn bidur hann uñ Braud, ad hann bioode hønum Stein? Þar fyrer ef þier sem vonder erud, kunned ad giefa goodar Giafer Børnum ydar, hvad miklu framar mun þa sa himneske Faderenn giefa þeim Heilagann Anda, sem hann bidia? Hann er Fader yfer allt þad sem Børn kallast a Himne og Jørdu, epter þvi sem St. Paall seger Eph. 3. v. 15. Og kallar hann Fødur Miskunsemdanna, og GUd allrar Huggunar 1. Cor. 1. Ef ein Manneskia er goodgiorn og miskunsom, skyllde þa sa sem skapad hefur miskunsamt Hiarta, vera sialfur omiskunsamur? Þar sie langt fra. Hvar fyrer skyllde GUd hafa giefed sier Fødurs Nafn, ef hann hefde ecke Fødurlegt Hiarta? So ma hann þa endelega annadhvert nadarsamlega bænheyra, ellegar hañ er ecke eiñ Fader, og

og þvingast, þegar það verdur ad heyra Kvein og Graat sinnar Barnkyndar, sem siwk er; hvernenn kann það þa adskie, ad GUD sem er Verkmeistare modurlegs Hiarta, miskune sig ecke yfer oss, og bænheyre oss, þegar vier eimium uppa hann med Graate og kveine? Til soddann Ummþeinkingar vill GUD leida oss, þegar hann seger Esa. 49. Kann nockud Mooduren ad forgleima siinu Barne, so ad hwn siae ecke aumur a Syne siins Kvidar? Og þo ad hwn forgleime þvi sama, þa vil eg þo ecke þier forgleima. Sia þw i hondunum hefe eg teiknad þig, þiiner Mwrvegger eru jafnann fyrer mier. Ja, so mikelega Kiemst GUD vid af hroope sinna Barna, ad hann seger Jer. 31. Þvi hræreſt mitt Hiarta yfer honum, miskunande vil eg honum miskuna, seger Drottenn.

Fiorda bevijsing og Grundvollur til þess ad GUD vilie oss bænheyra, er HErrans Christi Medalgaanga og Fyrerbon, hvered a Tijma siñar lijtelmotlegrar ummgeingne hier a Jordunne befalade Christnena med brennande Bænar-ordum siinum himneska Fodur, og var Medalgangare a mille hennar og siins Fodurs, segiande hia Joh. 17. Heilage Fader geim þw þa i þiinu Nafne, hveria þw hefur giefed mier, so ad þier sieu eitt so sem vid. Helga þw þa i þiinum Sannleika, þvi ad þiin

Ord eru Sannleike: Eg bid eige ad þw takar þa af Heimenum, helldur ad þw geimer þa fra illu: Eg bid eige einunges fyrer þeim; helldur og einnen fyrer þeim sem trwande verda fyrer þeirra Ord a mig.

Fader, eg vil ad þeir sem þw hefur giefed mier, sieu hia mier, þar sem eg er; Eg bid ad sw Elska; med hverre ad þw elskader mig, sie i þeim og eg i þeim:

Enn ecke bad hann einasta fyrer oss a medan hañ ummgieckst vgr a medal i þessum Heime, helldur og einnen bidur hann nw fyrer oss til Fodursens hægre Handar. Postulen seger Rom 8. v. 35. Christur er til GUds hægre handar og bidur fyrer oss. og til Hebr. 4. Med þvi vier høfum eiñ Biskup sem mikell er JEsum Son GUds hver til Himens er farenn; laatum oss þvi ganga med Hugarhreiste til Naadar-Stoolsens so ad vier ødlustum miskunsemena, og finnum Naad a þeim Tijma, nær vier þurfum Fulltinges vid.

I fimta maata stadfester þetta, vitnisburdur Heilags Anda, sem ber Vitnesburd vorum Anda, ad vier sieum GUds Børn, Rom. 8. Pad er omøgulegt ad Heilags Anda Vitnisburdur kunne ad vera forgiefens i vorum Hiortum.

I siottu grein, af þvi ad GUd og Christur eru med oss, ja bwa i oss fyrer Trwna, þa kann GUd ecke annars eñ ad heira vort Kvein

og

og Andwarp, so sem þar stendur i Psalm. 139. Þar er ecke eitt Ord a minne Twngu, ad þw Drottenn viter þad ecke alltsaman. Þw þecker mijnnar Hugrenningar aleingdar. Mitt Barn þw þarft ecke ad þeinkia ad Gud sie nockrar þwsund mylur langt fra þier, og heyre ecke þar fyrer þijna Bæn. Act. 17. Hann er hid innra i oss og vier og so i hønum. Johan. 17. Þar fyrer, fyrst hann lifer i þier og þw ber hann og flitur, þa verdur hañ ad heyra þynar Bænar. Psal. 38. Drottenn fyrer þier er øll mijn Astundan og mijn Andvarpan er þier ei okunnug seger hinn Heilage David; og enn aptur, Psal. 19. Laat þier þocknast Ordrædur, mijns Muns og Maaled mijns Hiarta fyrer þijnu Auglite, Drotteñ minn Frelsare og minn Endurlausnare.

J siounda maata; Epter þvi Heilagur Ande sem er sannur Gud, er sialfur Zach. 12. Bænarennar Ande og verkar hana i oss; ja brist framm fyrer oss til hins besta med oum-rædelegum andvørpunum Rom. 8. Hvernen skyllde Gud þa ecke heyra, vita, og sia, þad sem hann sialfur frammkvæmer og verkar? Þarfyrer er þad omøgulegt, ad jafnvel sw minsta Andvarpan, sem af Heilegum Anda er upprunnen, og stefner til Guds, verde til forgiefens: Fyrst hwn kiemur fra Gude og uppstygur til Guds; i Gude kann ecke neitt

ad missast edur tapast, soddañ Bænaverk eru sannlega giørd i Gude og koma þvi til liooßins Joh. 3. v. 21.

Ad sijdustu er GUd ecke gleimsku fullur eins og Mennerner, helldur so sem hañ hefur giætur a øllum Godverkum eins og ødrum Signets hring, og hver einn gudhræddur er skrifadur i hans minnisf bok, Matth. 3. v. 16. So kañ hañ og ecke ad gleima vorum Bænum. Noncadit in Deum oblivio boni, sed oblivio peccatorum nostrorum. GUds Naader so stor og yfersliotannleg, ad hwn wtsliettер allar vorar Synder, so hann þeincker alldrei framar uppa þær; enn þess hins gooda, sem hefur sinn uppruna hia hønum, hlytur hann ad minnast; hann kann þvi ecke ad gleima, nema hann gleime sijnum eigenn verkum, og sialfum sier. Nw kemur vor Bæn af Heilogum Anda, hvernenn skyllde hann þa kunna gleima þeirre Bæn, og andvorpun, sem hann hefur sialfur i oss verkad, helldurен sijnum Ordum og Fyrerheitum? Er ecke Ephraim minn dyrmætur Sonur seger Drottenn, eg þeinke enn nw fastlega upp a þad, sem eg hefe talad vid hann. Jer. 31. Og i Psal. 56. seger David: Hann hefur Tølu a øllum vorum Taarum. Item lofar GUd i Psalm. 3. Ad hann vilie minnast um alldur sijns Saatmala. Sa Saatt-
male

male er eckert annad enn Fyrergiefning Syndanna, stadfest med Dauda JEsu Christi, og innsiglud med Heilögum Anda. Eph. 1. 13.

Nw þykest eg vita, ad þeir Panckar mune finnast hia nockrum, sem stryda hier þvert a mote; þvi þier vilia segia; ja, ef þetta er satt; hvar fyrer hefur GUD þa ecke heyrt mijna Bæn, og veitt mier þad sem eg hefe bedid hañ? Jeg hefe opt beded, andvarpad og kallad, og ecke orded bænheyrdur. Og þar uppa eru og morg Dæme, ad einn hefur beded um nockud, enn feinged þad þo ecke, orded bænheyrdur og ecke so miked sem Menn hafa kunnad ad merkia. Hvar er þa Bænheyrsluñar Obrigdañlegleike? Þetta er ad vijsu ein þwng freisting, sem, opt hefur vered þeim til Sturlunnar, sem hafa att ad beirast vid ymislegar Rauner og Motlætingar. Eñ hier tilheyrer þetta svar. Bænenn verdur alltijd heird, og þad er omogulegt, ad ödruvijse skule vera, so sem liost er af adur frammfærdum bevijsingum sem eru vissar og obrygdannlegar; so sannarlega sem GUD er einn naadugur GUD, so sannarlega sem GUD er sannordur GUD, so sannarlega sem GUD hefur miskunar fullt hiarta, so sanarlega sem HErrann Christur, er vor Medalgangare. So sanarlega sem GUD og Christur bwa i oss. Þar fyrer skal eingen trwud Saal efast um̃ soddann. Enn

Enn þad ad GUd veitir oss ecke strax þad sem vier vilium hafa, þad kiemur fyrst þar af; ad GUd bænheyrer oss ecke alltijd epter vorum vilia, helldur epter þvi sem vor Velferd og Saaluhialp wtheimter. Þar næst ad GUd vill lata þad standa i sijnu vallde, og vill vera sialfradur þar i, hvert hann veiter oss þad vier umbidium uppa lijkamans vegna, edur Saalarennar: Þegar vier bidium um lijkamleg Giæde og hann veit giørla, ad þad er oss ecke nytsamlegt, þa giefur hann oss ecke þad vier ummbidium i lijkamlegann maata, helldur giefur hann oss þad i andlegum hlutum, sem Saalunne eru hagleiger, og so ødlustum vier eingu ad sijdur þad sem vier ummbidium i andlegann maata, Saalunne til Lækningar og Hialprædes, þess veglegre sem Saalen er Lijkamanum, og andleg giæde þeim veralldlegu, þess hollara er þad og betra, ad GUd giefe oss þau andlegu giædenn sem Saalena pryder, Enn þau fallvøllu sem vier villdum hafa wtvortes i lykamlegann maata. GUd fullnæger vorre Bæn med þeim bestu og yppurstu Giædum, þad rydur þo ecke mest a lijkamans Velferd, helldur Saalarennar, þegar hun hialpast, þa er allt hoolped: Legge GUd þier uppa lijkamlegt Kraankdæme, og þu bidur ad GUd vilie giøra þig heilann, þa verdur

þijn

þijn Bæn vissulega heyrd, þad slær ecke feil, Enn giefe GUd þier ecke lijkamans Stirkleika, þa giefur hann þier þo Saalarennar Heilbrygde, sem er langtum ædre. Munder þu ecke helldur vilia hafa heilbrigda Saal enn heilbrigdann lijkama? Hvad kann sa heilbrigde lijkame ad hialpa þier, ef Saalen er vanheil, og eilijfum Dauda underorpenn? Enn sie Saalen heil og osiuk, þa meigum vier seigia med Asaph af Psal. 73. Nær eg hefe þig ad eins Drottenn, þa hyrde eg hvorke um Himenn nie Jørd, þo ad einnen mitt Lijf og Saal vanmegnest, þa ertu þo GUd alltijd mitt hiartans Traust og Hlutskipte: Og med þeim marg þiada Job Cap. 19. Eg veit ad minn Endurlausnare lifer; Og þar med var hans Saala holpenn. Hier fyrer virdte og einnen sa froome David þad Himneska langtum framar enn þad Jardneska, og seger þui i Psal. 119. Løgmaal þijns Munns Drottenn er mier betra og kiærara, enn mørg þusund sticke Gulls eg Silfurs. Nu kann einhver ad seigia: Jeg vil giarnann hafa hvortveggia, bæde heilbrigdann Lijkama og heilbrigda Saalu, bæde tijmanlega og eilijfa gooda hlute: Enn GUd svarar: Laat þier nægiast mijna Naad: 1. Cor. 12. Paall villde og giarnan hafa hvortveggia, enn fieck þetta sama svar; so er þad þa mergur alls maalsens, ad vier verdum alltijd af Gude heir-

der og bænheyrder, ef ecke i lijkamlegann, þa i andlegann maata.

So vill Gud lata þad vera i sijnu Vallde, ad veita oss vora Bæn i þessu eder ødru Lijfe. Þar fyrer ef þu fær ecke i þessu Lijfe þad þu ummbidur, þa mattu vita, ad þad hefur ecke vered þier gagnlegt edur heilsusamlegt; allt gott er þa ecke innefaled i þessa Heims Giædum; þad sem Gud giefur þier ecke i þessu Lijfe, þad mun hann giefa þier rijkulega annars Heims; þvi so sem þad er omøgulegt ad Gud kunne ad gleima vorum Bænum, so er þad og einnen omøgulegt, ad hann andsvare þeim ecke i Naad sinne: So margar Bæner sem vier giørum, so margar Gafur munum vier ødlast i eilijfu Lijfe, þvi þa munum vier an aflats uppskiera, þa vill Drottenn seigia til sier hverrar trwadrar Saalar, sia, þar hefur þu þijna Bæn þu sender til mijn, þar hefur þu þad sem þu badst um̃; þar hefur þu fyrer þijna Bæn þwsund falldar Gaafur og Giæde. Siaum̃ þvi til Børnenn Guds, ad vær med Þolenmæde kunnum ad byda epter soddañ Blessan.

Þad mætte vera einn daarlegur Akurirkiumadur, sem villde strax skiera upp Korned, epter þad hann hefde saad, geinge þvi og leite ecke af ad møgla, segiande: Jeg hefe saad, og sie

sie þar þo ecke neitt uppkoma: Menn mætte maklega segia til hans: Kantu ecke, Favyse Mann, ad bijda til þess Kornskeru tijmenn kiemur? Þa skaltu fa ad sia þitt Sæde aptur med miklum Averte. Þvilijka Fáavisku er ad finna hia mørgum einum, i þvi hañ seger; Jeg hefe nw so leinge og mikelega kallad, og fæ þo ecke neitt af þvi sem eg hefe ummbeded; Gud ma vijst ecke vilia bænheyre mig: Þw Heimske Mann; þw hefur nijlega saad, og villt strax fa ad uppskiera Avøxtenn, kantu ecke ad bijda um̃ nockurn tijma, þar til sw mikla uppskiera eilijfs Lijfs kiemur? Hvad Madurenn hier saaer, þad mun hann þa uppskiera. Gal. 6. v. 7. Saaer þw hier nidur miklum Bænum og taarafloode, þa er þad eitt yppar-legt Sæde, þw munt sijdar meir þwsundfalldt þar fyrer uppskiera med Glæde, þeir sem med Hørmungunum nidur saa, þeir munu med Føgnude uppskiera, þeir ganga wt og graata og bera agiætt Sæde, enn þeir koma um̃ sijder med Føgnude og bera sijn Byndene; seger David i Psalm. 126. Þad sem Gud hefur sagt og lofad, þad hlytur ad uppfyllast; uppfyllest þad ecke hier i Lijfe, þa skiedur þad vissulega i odru Lijfe.

Margur grætur og ber sig aumlega, af þvi hann hefur mist sijna Konu og Born og adra gooda Vine, enn veistu ecke minn Vin, ad

ad þetta er þinn Saadtijme; þu maatt fyrst saa og planta þijna gooda Vine, ja þinn eigenn Lijkama, adurenn þu haustar edur uppsker: Bijd þar til ad sa stoore Kornskieru tijmenn biriast, þa munu Kornskieru mennerner þeir Heiløgu Einglar safna samann þijnum Bindenum og bera þau i þa eilijfu Korn-Hløduna: Matth. 13. v. 30. Høystyrkian̄ er naaleg og stendur til, þa, munum vier rykulega finna vorar Bæner, Graat og Andvarpaner, sem vier so margfalldlega høfum sendt til GUDs, þa munum vier finna i Gude alla þa hlute sem vier nockurn tijma høfum kunnad ad æskia. Og þa munu øll GUDs Fyrerheit, og aller þesser orafkanleger Høfudgrundveller Bænarennar finnast Sannleikur um̄ alla eilijfd, so ad vier munum þar fyrer GUD prysa, og hønum þacker giøra.

## Cap. XXXVIII.

## Um̄ sio Stoder og Stittur handa vorre veikre Bæn.

Rom. 8.

So hialpar einnen Anden̄ vorum Breiskleika, þvi vier vitum ecke, hvad vier skulum bidia so sem byriar, helldur bidur sialfur Andenn fyrer oss, med oumrædelegre Andvarpan. Enn sa sem Hiørtum rannsakar, veit hvad Andenn gyrnest, þvi hann bidur fyrer ydur epter þvi sem Gude hagar. Af

AF þvi vier erum, þvi midur, af Naattwrunne miøg veiker og kallder til Bænarennar, þa vilium vier rannſaka, hvada hiaalpar Medøl, GUd hefur giefed oſſ þar vid i ſijnu Orde, til hverra vier eigum ad þeinkia i vorre Bæn.

Sw fyrſta Stod edur Stitta vorar Bænar, er vor einka Medalgaangare, Sonur GUds, JEſus Chriſtus, hañ er vor Talsmadur hia Gudi, þegar vier gietum ecke haft þad Twngutak i Bænenne, ſem vier annars giarnann villdum. Han kallaſt þad eilifa Ord Fødurſens, bæde þeſſvegna, ad GUd hefur auglyſt oſſ ſitt Raad og Vilia fyrer hañ, og ad hañ fram̃ber vort Maalefne fyrer GUd, þarfyrer er hañ og einnen vor Medalgaangare. Hier uppa høfum vier merkelega Fyrermyndan a Moſe, ſem var Medalgaungumadur þeſſ Gamla Teſtamentis, til hvers Folked ſkwdi fyrer Gudi hia Fiallenu Sinai og ſagde: Ex. 20. Tala þw vid oſſ; og lat ecke GUd tala vid oſſ, og þa talade Moſes fyrer Folked. Þetta hid ſama er oſſ og einnen Fyrermyndad a Aarone, þvi þegar Moſes, er hafde þrwngt Maalfære, og ogreitt Twngutak, ſkylldi ganga inn fyrer Pharaonem, þa ſagde Drotteñ til hans: Aaron Broder þinn er mœlſnillen, hann ſkal vera þiñ Munnur; Ex. 4. v. 10. 14. Allt eins

er þvi vared fyrer oss i Bænenne, vier høf-
um þwngt og stirdt Maalfære, eñ sa Himne-
ske Aaron HErrann Christur er vor Munn-
ur. Hier a og so heima Fyrermindun Naad-
ar-Stoolsens, uñ hvern Drottenn sagde,
Ex.25. Jeg vil vera til stadar og tala vid þig
af Nꝏdar-stoolnum: Christur skipar oss og
einnen ad bidia i sijnu Nafne, Joh.16. þess-
vegna er hañ og einnen vor eilijfur Erkebisk-
up, hafande eilijfann Kennemanskap, Hebr. 7.
Hver ed fyrer oss bidur, Rom.8. J hans floo-
de høfum vier Diørfung og frya Adgøngu til
Fødursens i øllu Trauste fyrer Trwna a hann.
Af Pistlenum til Ephesios 3. Cap. v. 12.

Aunnur Hiaalp og Stirkur Bænarenn-
ar er, GUD Heilagur Ande, so sem þar stendur
Zach. 12. v. 10. Eg vil wthella yfer Hws Da-
vids og yfer Jerusalems Jnnbiggiendur An-
da Nꝏdar og Bænar. GUds Ande giører
oss vissa uñ GUds Naad, og verdur oss gief-
enn af Naad: Hañ er vitni uñ Oska-barna
Arfleidsluna: Af þvi vitum vier ad vier er-
um i Gude, ad hann gaf oss sinn Anda, seg-
er Johannes, 1. Joh. 4. v. 13. Item Heilagur
Paulus, Rom. 8. Pier hafed ecke medteked
Prældoms Anda, so ad þier þurfed ad ugga
uñ ydur, helldur hafed þier medteked Oska-
barna Anda, J hverium vier køllum Abba
kiære Fader; þesse same Ande ber Vitnisburd
med vorum Anda ad vier sieum GUds Børn.
Petta

Þetta merkteſt med Preſtanna Smurningu i Gamla Teſtamentenu, Ex. 29. So ſem þeir voru Smurder med lijkamlegu Vidſmiore, ſo hefur og GUD ſmurt oſſ med Gledinnar Vidſmiore, þad er, med Anda Chriſti; ſo ad vier ſem andleger Kiennemenn, ſkulum offra hønum daglega Uxum̃ vorra vara. Pſal. 69. Þeſſe bleſſadur Andenn GUDs, uppkveiker i oſſ hiartannlegar Andvarpaner, ſo ad vier hroopum med Daniele, Dan. 9. v. 19. Æ Drotteñ, heyr þu, Æ Drottenn, vertu Miſkunſamur, Æ Drottenn, higg þu ad, og giør þad, tef ecke fyrer ſialfs þijns ſaker.

J Þridia Maata ſtyrkia einnen GUDs Fyrerheit krøftuglega vora Bæn. Akalla þu mig i Neidenne ſeger Drottenn: Jeg ſkal frelſa þig, og þu ſkallt vegſama mig, Pſ. 50. v. 15. Item: J Pſal. 91. v. 14. Hann hefur Lyſt til mijn, þarfyrer vil eg frelſa hann. Hann þecker mitt Nafn, þarfyrer vil eg vernda hann, hann kallar til mijn, þarfyrer vil eg bænheyra hann. David ſeger i Pſal. 145. Drottenn er nꝏlægur øllum þeim ſem hann akalla; øllum þeim ſem hann i alvøru akalla. Hver er ſa Fader a medal ydar ſeger Chriſtur, ef Sonurenn bidur hann um̃ Braud, ad hann bioode hønum Stein; Luc. 11. v. 11. Og enn aptur: Luc. 18. v. 7. Skyllde þa GUD ecke frelſa ſijna utvallda ſem til hans kalla Nott og Dag? Hver hann akallar Nafned Drottens, mun holpenn verda,

seger Spaamadurenn Joel. 2.Cap. v.32. Item David i Psal. 34. v. 16. Augu Drottens eru yfer þeim Riettlaatu, og hann heyrer þeirra Akall. Og St. Paall seger: Drottenn er mistunsamur yfer øllum sem hann akalla, Rom. 10. v. 12. Þad er allra eptertakannlegast sem sialfur Christur seger hia, Matt. 7. Leited og munud þier finna, Bidied og munu þier ødlast, Knijed a, og mun fyrer ydur upploked verda, þvi hver hann leitar, hann finnur, hver hann bidur, hann fær, og hver hann aknijr, fyrer hønum mun upploked verda.

Siw Fiorda Styrking Bænarennar, eru Epterdæme þeirra Heilogu, hveria GUD hefur bænheyrt; ef vier lytum til Fornalldar Mannanna i Gamla Testamentenu, þa styrkest vor Bæn mikelega af þeirra Dæmum, og hefur sterka Stod þaraf, ad vier leidum oss i Huga, Hialp og Adstod þess almattuga GUds, sem hann hefur þeim veitt a fyrre Døgunum: Þar uppa hafa og aller Spaamenn bigdt siinar Bæner. Þegar Israels Børn høfdu þwnglega syndgad a moote Drottne med tilbeidslu Gullkalfssens, so ad GUD þessvegna sagde til Mosen, Ex. 32. Sleptu mier, so ad mijn Brædi upptendrest a mote þeim, og eg afmæe þa. Þa stood Moses, Hans hinn vtvallde, i vege fyrer hønum, seger sa 106. Psalmur griet og hiellt hønum med sinne sterku Bæn,

Bæn, i hverre hann minte GUd a hans fyrre hiaalp, segiande: Drottenn þvi reidist þijn Grimd þijnu Folke, sem þw hefur wtleidt af Egyptalandi, i miklum Styrkleika og med øflugre Hønd? Hvarfyrer skulu þeir Egiptsku segia; Hann hefur wtleidt þa þeim til Olucku, so hann dræpe þa a Fiøllum uppe, og afmaade þa af Jørdunne. Snw þier fra þinne Grimdar reide, og vert nædugur yfer Vondskap þijns Folks. So idradest Drottenn þess hins vonda, sem hann hafde hotad ad giøra synu Følke. Sama lag brwkadi David þraavallt, þar hann hart nær i hverium Psalme, minti GUd a hans firri Naadargiæsku, og Trwfesti. J þeim 25. Psal. seger hann, Drottenn minstu þinnar Giæsku og Miskunar, sem vered hefur i fra Upphafe Verralldar. Og i þeim 77. Eg þeincke um̄ þa gømlu Tijmana, a þau fyrre Árenn, munt þw Drottenn eilijflega fordryfa og einga lykn nw leingur syna? Jtem i Psal.85. Drottenn þw hefur blessad þitt Land, og þw hefur frelsad hina Herteknu Jacobs, þw sem adur fyrergafst Misgiørdernar þijnu Folke, þw hullder allar þeirra Synder, þw sem adur mykter alla þyna Reide, þw burtsnerir þier fra þinne heiptar Brædi, hugga oss GUd vort Hiælpræde, og snw fra oss þinne Reyde, hvert villtu oss æfenlega reidur vera? og wtþenia þijna Reide fra kyne til kyns? GUd villtu en̄ ecke lyfga oss aptur, so ad þetta Folk meige gledia sig i þier?

Hvad agiætlega vel leider Spaamadurenn Esajas Gude fyrir sionir, hans fyrri Naad og Giedgiæsku, og opnar med soddann hætte Fiaarsioodu Gllds miskunar, segiande: Es.64. Hvar er nw sa sem wtleidde þa af Sionum med Fiarhyrdunum sinnar Hiardar? Hvar er hañ sem gaf sinn Heilaga Anda medal þeirra? Hvered Mosen leiddi vidhægre Hønd fyrer sinn dyrdarsamlegann Armlegg; hvered sundur skilldi Vøtninn frame fyrer þeim. So hann giørde sier eilijft Nafn. Hann sem þa leidde i giegnum diwpenn, lijka sem Hesta, i Eidimørkena þa sem ecke hnioota, so sem þann Fienad er ofanngeingur a Sliettlended. Ande Gllds var hans Leidtoge. Lijka so hefur þw þitt eiged Folk leidt, uppa þad þw giørder þier dyrdarsamlegt Nafn; So siadu nw þvi af Himni ofann, og lijttu nw nidur af þijnu dyrdarsamlega Heimile. Hvar er nw þijn Vandlæting? þijn Magt? þijn mykla hiartgroenn Miskunseme helldur sig hardt a moti mier, þw ert vor Fader, þvi Abraham veit ei af oss, og Jsrael þecker oss ei. Enn þw Drottenn ert vor Fader og vor Frelsare, þegar i fra langri Æfi er þad þitt Nafn. Þesse Spaamansens Bænar-Ord hafa epterfylgiande Grundvelle i sier.

(1) Drotten þijn Naad er eilijf, þar fyrer kañ hun ecke ad taka Enda a mier.

(2) Eg

(2) Eg er ad vijsu einn Syndari, eñ þw hefur tilforna audsynt þijna Naad øllum Jdrande Syndurum; Hvartil David og so lytur, þar hañ seiger i Ps.25. Minstu ekke a Synder mijns Ungdoms.

(3) Mijnar Synder eru ad vijsu storar, eñ laat þijna Miskunseme og so stora vera.

(4) Minstu þess, ad eg er þijn Skiepna. Uppa hvad Job og so stijlar þar hann seger Job.10. Minstu þess ad þw giørder mig af Jardar-leirj, og þad ad þw munt giøra mig aptur ad Jardar-dupte, þijn tilsioon vardveitti minn Andar draatt.

J fimta maata styrkest vor Bæn, af Guds storre Elskuseme, og hans huggunarsamleguñ Fyrerheitum, ad hann vilie naadarsamlega alyta þa aumu. i Ps.25, 18.seger David: Lyttu a Eymd mijna og armædu, og fyrergief mier allar mijnar Synder. Og i þeim 34. Psalme. Sa Fatæke kallade, og Drottenn bænheyrdi hann, og frelsadi hann af allri sinne Neyd. Hvaraf vier siauñ ad GUd foraktar ekke þa aumu, so sem drambsamer meñ giøra; Þvi GUd er ekke mannlega sinnadur, hañ hefur ekke lijkamleg Augu, og sier ekke so sem ein Maneskia sier: seger Job.10,v.4. Þvi aumari sem einn er, þvi leingra plaga meñ ad hallda sig fra hønuñ; en GUd er ekke so sinnadur, þvi aumare sem ein Mañeskia er, þvi

framar vill GUD nalægia sig til heñar. J Psalm 34,19. stendur: Drottenn er hia þeim sem sundurknosader eru i Hiarta, og hialpar þeim sem Sorgbitner eru i Huganum, og i þeim 10, 14. Pad sama sier þwvel; þvi ad þw lytur þa Eymd og Armædu. Pad stendur i þijnumm Hondumm. Hiner Faatæku befala þier þad, þw ert Hialparenn Fødurlausra. Hier fær GUD Efni til ad wthella sinne Miskunseme; og so ad einginn vegna sinna Eymda og Vesælldar skule falla i Mistraust og Efaseme, þa verda i Heilagre Ritningu marger Aumer og vesæler tilsamans upptalder. J Ps. 146, v. 7. 8. 9. stendur so, Drottenn giører Doom þeim sem ofbellded lyda, hann giefur Hungrudum Fædslu, Drottenn hann leyser fiøtrada, Drottenn giefur blindum Syn, Drotten riettег þa vid, sem nidur eru Slegner. Drottenn elskar þa riettlaatu, Drottenn vardveiter þa Framande, Fødurleisingiann, og annast Ekkiuna. Hier a og so heima þad sem Esaias seger Cap. 66,2. Hvern skal eg alyta, nema þann Faatæka, og þann sem sundurmarenn Anda hefur, og er hræddur fyrer mijnumm Ordumm? Og i Psalm 9, v. 11. Polenn mædi þeirra Voludu mun ey glatast æfinnlega.

J siøtta maata styrker umþeinking GUds owtseigiannlegrar Miskunsemi, krøptuglega vora Bæn; Hans Giæska virder betur vorar Bæner, eñ þær eru i sialfum sier, af oss

framm-

framfluttar; Hann þecker vora Neyd langtum giør, enn vier kunum sialfer yfer henne ad kvarta, bidium vier ekke so riett sem vera skal, þa helldur hann oss margann breiskleika og vannvisku til goda; Þar fyrer seger Abraham, Gen. 18. Drottenn reidstu mier ecke þo eg tale: Æ sia! Eg hefe teked mier þa Diørfung fyrer ad tala vid Drotten; Og Paull mælir þannig 2 Cor. 1, v. 3. Blessadur sie GUd og Fader Drottens vors JEsu Christi, Fader Miskunsemdanna og GUd allrar Huggunar, sem huggar oss i allri vorri Hørmung. Skodumm Ps. 103. þar stendur so: Lijka sem Faderenn er Børnunum lyknsamur, so er Drottenn miskunsamur øllum þeim sem hann ottast. Af þwi ad Drottenn er nu so miskunsamur, þa wthellest eingen Bæn forgiefens, og GUD telur øll vor Taar, og hvert einnasta Andvarp vort, og Hiartans stun, so sem þar stendur i Ps. 65. og þad giører hann vegna Taaranna JEsu Christi, hverium hann wthellti med øflugu kalle, a Krossens Alltare, a Dege sinnar Foornfæringar.

Siøunda Stirking vorrar Bænar, er Endurminning þess naadar Sattmaala sem Gud hefur giørdt vid oss, hvarum Drottenn taler Jer. 31. En þad skal vera Sattmaalenn; Eg vil giefa mitt Løgmaal i þeirra Hiørtu, og innskrifa þad i þeirra Hugskot, og þeir skulu vera mitt Folk, so vil eg vera þeirra GUd. Eg vil

fyrergiefa þeim þeirra Misgiørning, og all-drei framar i minne leggia þeirra Synder. Og Es. 54. Sattmaale miins Fridar skal ekke nidurfalla, seger þinn miskunsamur Drottenn; og i 55 Cap. v. 1. Aller þier sem þyrster erud, komed eg vil giøra vid ydur eylijfann Sattmaala. J þessum̃ naadar Sattmaala er þad og so innefaled, ad hann vill alyta vorar Bæner: Þessvegna stendur þar aftur; Leited Drottins medann hañ ma finnast, akalled hann a medann hann er naalægur. Þetta allt sem hingad til hefur vered tiaad og upptaled, er prydilega utskyrt i Bæn Danielis af hans Bokar 9 Cap. v. 4. Æ Drottenn seger hann, þu milldi og hrædelege GUD, sem helldur Sattmaalann og Miskunsemena, vid þa sem þig elska, og þijn Bodord vardveita, og nu Drottenn GUD vor, þu sem utleidder Foolked af Egypta-lande med øflugre Hende, og giørder þier eitt nafn epter þvi sem nu er þad, heyr þu GUD, Bæn þijns Þienara, og alyttu mildelega þinn Helgedom, sem foreyddur er, fyrer saker Drottens (þad er Frelsarans JEsU) Æ! Drottenn heyr þu, Æ Drottenn vertu miskunsamur, Æ Drotteñ hygg ad og giør þad: (Þetta eru andvarpaner Heilags Anda,) Hneig þijn Eyru minn GUD og heyr þu, upplwk þu þijnum̃ Augum̃ og sia (sem er fyrerheited) Snu þinne Reidi fra þijnu Heilaga Fialle, þvi vegna vorra Synda, og fyrer Mis-

giør-

giørninga ſaker Fedra vorra ber Jeruſalem ſmaan. (Sia hier Jatning Syndanna og yfervegun Eymdarenar) Þviad vier liggumm fyrer þier med voru Bæna Akalle, ekke uppa vort Riettlæti, helldur uppa þijna ſtooru Miſkunſeme. (Sia hier Þecking Overduglejkanns og Umþeinking GUds Miſkunnar:) Þvi þijn Borg og þitt Foolk er nefnt epter þijnu Nafne: Þad er Sattmaalenn.

# Cap. XXXIX.

## Samtal a millum trwadrar Saalar og GUds.

### Pſalm. 85.

Hvert villtu alla æfina oſſ reidur vera? Og wtþenia þijna Reidi um allder og æfe? Villtu nw enn ecke lijfga oſſ aptur? So ad þitt Foolk meige gledia ſig i þier, audſyn þw oſſ Drottenn þijna miſkunſeme, og gief oſſ þitt hialpræđi.

Þetta er vinſamlegt Saamtal riett-trwadrar Saalar vid GUd. Hver munde þora ſo ad tala vid nockurn Kong eda Potentat, einkum þegar hann er reidur? Enn GUD elſkar ſo heitt riett-trwada Saal, ad henne leifeſt, ſo ſem annari Herbergia Dioonuſtu, þegar hun vill, ad ganga inn til GUDS, þo hun klappe ecke adur a dyrnar. Strax hun kiemur,

mur, seger GUD; Hvad villtu? Kom inn og vert Ohrædd, þetta er fyrer myndad med Barsabæ Dæme, 1 Reg. 1. Hun geck inn i Høll Davids, og tilbad fyrir hønum audmiuklega: Enn Kongurinn sagdi til hennar: Hvad brestur þig? Og hann soor henne ad hann skylldi hallda þad hann hefdi henne lofad. Figura hier uppa var og so Ester, sem gieck inn i Forgaardenn hia Høllu Assveri Kongs og stood fyrer hønum, enn hann rietti ad henni sijna Gullspyru, og hun gieck ad og snart Oddenn a Spyrunne: Þegar Kongar og stoor-Herrar vilia tala vid sijna faatæka Undersaata, þa reikna þeir þad fyrir sierdeilis Naad og Miskun, og hroosa þeim þar fyrer mjkelega. Þar fyrer lesum vier ad Titus Keisare, hafe fyrer soddann Naad og Milldi vered so mikelega prijsadur, ad þeir hafi kallad hann Amorem & delicias generis humani: Þad er; Lyst og Eptirlæti alls Mannkynsens. Langtum stærri Vegsemd, Unun og Gledi er þad, ad GUD sem er Kongur allra Konga, og Drottenn allra Drottna; Hver ad nefnest i Ps. 47. sa allra hædste Drottinn, miøg hrædelegur og mikelshattar Kongur yfer allri Jardarkringlunni, helldur Samtal vid oss vesælar Manneskiur sem erum Dupt og Aska, epter þvi sem Abraham komst ad ordi, þegar hann var ad tala vid Drottenn: Ja, ad hann

vill

vill ſialfur hallda vinſamlegt Samtal vid Mennena ſem eru Syndarar, og fyrer Syndena fra hønum ſkylldεr. Þarfyrer þegar Chriſtens mans hiarta grundar Guds haatignar-velldi, og ſinn eigeñ, ſem og Manlegs Kins Sliettañ Uppruna, eymdar Tilſtand og ſyndugann Overdugleika, þa ma þad efalauſt, hroopa upp med David af Pſ. 8. Drottenn hvad er Madurenn þeſſ ad þw minneſt hans og Mannſins Barn ad þw vitier þeſſ? Med þvi hver og ein Mañeſkia, hvad haarrar Tignar og Heilog ſem hun kann ad vera, maa maklega reikna ſig overduga ad tala vid GUd: Hvad hinuṁ Heilaga Abraham og ſo gieck til Hiarta, þegar hann var ad bidia fyrer Foolked i Sodoma; og ad hans Ord ſkylldu ecke i onaad upptakaſt, ſagdi hann: Reidſtu mier ecke Drottenn þo eg tale enn framar, og ſo opt ſem Abraham taladi, ſo opt gaf Drottenn hønum vingiarnlegt Andſvar. Hvert ad er einn fagur Speigell uppa Guds Samtal vid trwada Saalu, þvi Abraham var Fader allra Rettrwadra. So er þad þa vyſt og oefanlegt, ad hvad opt ſem eitt riett trwad Hiarta hroopar til GUds, ſo opt ſvarar hañ þvi med ſætre Huggun. Þarfyrir finnaſt i Skriftenne uppteiknadar, bædi ſoddann Andvarpaner, og lijka Guds huggunarryk And

ſvεr

svør þar uppa: til Dæmis eru Ord Davids i Psalm 85. Þar hann so ad ordi kiemst; Drottenn þu sem adur varst miskunsamur þijnu Lande, og frelsader þina faungudu Jacobs, þu sem adur fyrergafst Misgiørdernar þijnu Foolke, og nidurbirgder allar þeirra Synder, þu sem adur aftokst alla þijna Reidi og burtsnerer þier fra Grimd þinnar Brædi. Villtu ecke endurnæra oss aptur? Þar uppa fieck hañ Svar i sijnu Hiarta, sem er þetta, er hann strax þar epter framfærer, segiandi: Þo er hans Hialp nærri þeim sem hann ottast: Þad sem hañ seger i sama stad: Æ! mætte eg heyra ad Drottenn vor talade, þar uppa svarar Drottenn i Ps. 50. Heyr mitt Foolk, laat mig tala. J þeim 6 Psalme bidur sorgande Saal: Æ! Drotteñ straffa mig ecke i þinne Grimd. Heñe andsvarar GUD i Psal. 103. v. 8. Miskunsamur og nædugur er Drottenn þolenmoodur og harla goodgiarn. J Psal. 139. v. 7. verdur spurdt; Hvert skal eg flya fyrer þijnu Augliti? þar til svarast hia Matth. 11. v. 28. komed til mijn aller þier sem ervided og erud þunga hladner og vil endurnæra ydur. Hia Jer. 10. v. 23. stendur so: Eg veit Drottenn ad þad stendur ecke i neins Mans magt, hvernen þad hañ skule ganga edur greida sijna Gaungu, þar uppa svarar Drotteñ i Psal. 32. Eg vil undervysa þier, og vysa þier þann Vegenn sem þu aatt ad ganga a, Eg vil

vil med mijnum Augum leida þig. J Psal.86. bidur trwud Saal, Drottenn; leid þw mig a þijnum Vege, so ad eg meige ganga i þijnum Sañleika. Heñe svarar Herrañ Christur, Joh.14.v.6. Eg em Vegurenn, Sanleikurenn, og Lijfed; sem villde hann segia: Ef þw willt ecke villast, þa em eg Vegurenn, ef þw villt ecke verda prettud, þa er eg Sannleikurenn, ef þw villt ecke blijfa i þeim eilijfa Dauda, þa em eg Lijfed.

J Psal. 38. v. 4. frammkemur soddann ein Ummkvortun: Par er ecke Heilbrigde i mijnu Holldi og einginn Fridur i mijnum Beinum søkum Synda minna, mijn hœr eru fwenn og rotenn fyrer Heimsku minar saker. Þar uppa verdur svarad, Esa.53. Hegningen la a hønum(þad er ad skilia Christo) So vier hefdum Fridenn, og fyrer hans Benjar erum vier heilbrigdir ordner. Hia Jer.17. v.14. seger rett-trwud Saala: Lækna þw mig Drottenn þa verd eg læknud, frelsa þw mig og mun eg hoolpenn verda. Henne svarast af Psal. 103. v.3. Hann fyrergiefur þier allar þijnar Synder og græder allar þijnar Meinsemder. Med Manasse kveinar og kallar ein harmandi Manneskia: Mijnar Synder eru fleiri enn siœfar Sandur. Henne svarar Gud fyrer Esa. 44. v.22. Eg hefe afmaad þijnar yfertrodslur, so sem annad Sky, og þijnar Synder so sem adra Poku. Og

HErr-

Herrann Christur, Matt. 9. v. 13. Eg er ecke kommenn til ad kalla Riettlæta helldur Synduga til Jdrunar. i Psal. 25. seger Saalen; Minnstu ecke a Synder minnar Æsku og a mijnar Misgiørdir. Henne svarar Ande Drottens fyrer Ezech. 18. Cap. Ef sa Ogudlege giører Jdran, þa skal hann lifa og ecke deya, allra hans Misgiørda sem han hefur giørdt, skal ecke minst verda. J Psal. 51. hroopar sa synduge: Drottenn þvo þw mig af Jllgiørd minne og hreinsa mig af minne Synd:. Hønum svarar GUD fyrer Esa. 1. Cap. Þo ydar synder sieu raudar sem Purpure, þa skulu þær verda hvijtar sem Smioor, og þo þær sieu raudar sem Roos, þa skulu þat verda hvijtar sem Ull. J Psal. 143. Andvarpar Mannskiepnann: Drottenn gack ecke i Doom vid Præl þinn, þviad fyrer þier er eingenn lifande Manna riettlaatur. Henne svarar HErrann Christur, Joh. 3. v. 17. Eige sende GUd sinn Soni Heimenn, ad hann fyrerdæmde Heimenn, helldur ad Heimurenn frelsadest fyrer hann, sa sem a hann trwer, fyrerdæmist eige. J Psal. 51. v. 12. bidur Saalen: Hreint Hiarta skapa þw GUd i mier, og gief mier nyan styrkvan Anda: Henne svarar Ande Drottens hia Ezech. 36. Eg vil giefe ydur nytt Hiarta, og nyann Anda vil eg setia i ydur, og eg vil giøra þad ad þier gaanged i mijnum Bodordum.

J Psal.

J Psal.38. verdur klagad a þennañ haatt: Eg geing lotinn og miøg beigdur, allann Dagenn þa geing eg hriggur. Þar uppa svarar Christur, Esa.61. v.61. Drottenn sende mig, til ad færa þeim Aumu godann Bodskap, og ad hugsvala øllum Sorgmæddum. J Psal. 25. v.18. bidur trwud Saala; Lyttu a eymd mijna og Armædu: Þar uppa svarar henne sa allra hædste, Esa. 66. v.2. Til hvers skal eg lyta, nema til þess Volada, og þess sem hefur sundurknosadann Anda? J Psal. 42. v. 3. hroopar Saalen. Hvenær mun eg fa, ad komast þangad, og sia Guds Auglit? Henne svarar HErrann Christur hia Joh. i 12. og 16. Þar sem eg er, þar skal og minn Þienare vera. og Innann lijtels tijma munud þier sia mig.

J Psal.13. v.2.3. Klagar Saalen þwnglega: AE! Drottenn, hversu leinge villtu hilla þitt Andlit fyrer mier? Hversu leinge skal eg þannen kvalradur vera i minne Sælu? og angra mig so i mijnu Hiarta daglega? Hversu lenge skal minn Ovinur forhefia sig upp yfer mig? Henne svarar Ande Guds hia, Esa. 54. Umm lijtenn tijma hefe eg þig yfergiefed, enn med mikellre Miskunseme vil eg, samann safna þier; eg hefe mitt Andlit a Augabragdi reidinnar, umm litla Stund hulid fyrer þier, enn med eilijfri Miskunseme þa mun eg þier miskunsamur vera, seger Drottenn þinn Endurlausnara. Ber þinn Kross og þijna Pijnu

samann vid mijna eilijfa Miskunseme. Og ef Fyrerheitenu seinkar, þa byd þw epter þvi þolinnmodlega, hialpen skal vissulega koma, og ecke bregdast. J Psal. 22. v. 12. bidur sw angraada Saal. Þw ert minn GUd, vertu ecke fiærre mier, þviad Hørmungen er naa- læg, og þar er eingenn sem hialpar. Henne verdur so svarad i Psal. 91. v. 15. 16. Eg em hia hønum i Neydenne, eg vil hønum þadan wtrjckia og hann vegsamlegann giøra.

J Psal. 13. v. 4. bidur Saalen, upplys þw mijn Augu, so eg sofne ecke utaf i Daudan- um. Henne svarast Os. 13. v. 14. Eg vil leysa þig wr Helvijte, og frelsa þig fra Daudan- um. J Brefenu til Philipp. 1. 23. seger Saal- en med Postulanum Paale: Eg gyrnest ad skilia hier vid, og vera med Christo. Heñi svarar sialfur Endurlausnarinn vor, hia Luc. 13. J Dag skalltu vera med mier i Paradijs. Sluttlega ad segia, oll Heilog Ritning, er eckert annad enn Samtal trwadrar Saalar vid GUd, og so opt sem hun kveinar og klag- ar yfer synne Neyd fyrer hønum, so opt and- svarar hann henne med innvortis Huggun wt af sijnu Orde.

## Cap. XL.

## Samtal a millum Trwarenn- ar og GUds Miskunar.

Psalm.

# Psalm. 85.

Miskunsemen og Sannleikurenn mættust sijn a mille, Riettvysen og Frydurenn kyssa hvert annad.

MIskunseme Gllds geingur fram̃, og gefur sig i vingiarnlegt Samtal vid vora Trw, þvi Gllds Miskunseme ummkrynger oss, so sem þar stendur i Psal. 32. 10. og seger af Jer. Spaadoms Bokar 3. Cap. Snw þier, þa vil eg ecke laata mijna Reidi koma yfer þig, þviad eg em miskunsamur, og vil ecke vera æfenlega Reidur, medkienn alla þijna Misgiørninga, þad þw hafer syndgast a moti Gudi þijnum Skapara: Trwen svarar af Psal. 51. Miskuna mier GUD epter mikelles Miskunseme þinni, og epter Mikeleik Miskunsemda þinna, afma þw mitt Raanglæte, þvi eg medkienne mijna Misgiørninga og mijn Synd er jafnann fyrer mier, þier einum hefi eg a moti broted.

Gllds Miskunseme mætir oss, segiande af Joh. 6. Allt hvad minn Fader hefur mier giefed, þad kiemur til mijn, og hver sem til mijn kiemur, þann skal eg ecke fra mier reka.

Trwen svarar af Lofkvædi Salomonis 1. Cap. v. 3. AE! hialpa þw mier Drottenn, so ad eg kome til þijn, drag mig epter þier þa hlaupum vid. Gllds Miskunseme seger til vor af Esa. 61. Cap. Drottenn sende mig til ad

binda vid þau ſundurknoſudu Hiørtunn, og færa þeim veſølu god Tijdende.

Trwen ſvarar af Pſal. 51. Lææt mig fa aptur Føgnud þijns Hiœlpræðis og þinn matt- ar Ande Stirke mig. GUds Miſkunſeme ſeg- er, hia Eſa.43.og 44. Eg afmae þitt Rœng- læte ſo ſem Sky, og þynar Synder ſo ſem adra Poku. Trwen ſvarar af Pſal. 55. Lijttu a mijna Eymd og Armædu, og fyrergief mier allar mijnar Synder. GUds Miſkunſeme hugg- ar oſſ og ſeger af Pſal. 103. So ſem Faderenn er Børnunum liknſamur, ſo er Drotteñ miſkun- ſamur þeim ſem hann ottaſt. Trwen ſvarar af Eſa. 64. Drottenn þw ert vor Fader og Frelſare, þad hefur vered þitt Nafn fra eilijfre Tijd. Miſk- unſemen ſeger af Matt. 11. Komed til mijn aller, ſem erfided og þwnga erud hladner, eg vil ydur endurnæra. Trwen ſvarar af Pſal. 25. til þijn Drottenn upplypti eg Sææln minne. GUds Miſkunſeme ſeger af Jer. 3. Cap. Þw hefur Saurlifnad framed med þijnum Filgiu mønnum, kom þw þo aptur til mijn ſeger Drottenn. Trwen ſvarar af Luc. 15. Eg vil uppſtanda, og fara til Fødurs mijns og ſegia hønum, Fader eg hefe ſyndgad i Himenenn og fyrer þier, og er þvi ecke verdugur ad kall- aſt þinn Sonur, giør þw mig ſem einn af þijn- um Daglaunurum. GUds Miſkunſeme uñ- fadmar oſſ og ſeger af ſama Cap. Þeſſe miñ Sonur var Daudur og er nu Lifandi, hann

var

var tijndur, enn er nu aptur fundenn. Trw=
en ſvarar þar til, af Pſal. 13. v.6. Eg treiſti
uppa þijna Miſkunſemie og mitt Hiarta mun
gledia ſig i þijnu Hiaalpræði. Miſkunſemen
geingur wt a mote oſſ, ſegiande af Eſa. 55. 1.
Aller þier ſem þyrſter erud, komed til Vatnſens.
Trwen ſvarar af Pſal. 42. So ſem Hiørtenn
langar epter ferſkum Vøtnum, ſo langar
mijna Saal til þijn GUd, mijn Saala er þyrſt ept=
er Gude, epter þeim lifande Gude, hvenær mun
eg þangad koma og ſia GUds Auglyte.

Miſkunſemen ſeger af Pſal. 103. Hann
ſem fyrergiefur þier allar þijnar Synder, og
græder allar þijnar Meinſemder. Trwen
ſvarar af Pſal. 143. Drottenn gack ecke i Doom
vid Præl þinn. Miſkunſemen ſeger af Joh.
Gudſpialla B. 15. Cap. Eg em Vegurenn Sañ=
leikurenn og Lijfed. Trwen ſvarar af Pſal. 25.
v.4. Drottenn vyſa þw mier þijna Vegu, og lær
mig þijna Footſtygu; leid þw mig i þijnum San=
leyka, og kieñ mier: Miſkunſemen ſeger af Oſeæ
Spad. B. 13. Cap. Eg vil leyſa þig wr Helvijte,
og frelſa þig fra Daudanum, Daude eg vil vera
þinn Bane, Helvijte eg vil vera þijn Drepſott.
Trwen ſvarar af Pſal. 68. Vier høfum eiñ GUd
ſem hiaalpar, og þann Drottenn, Drottenn
ſem fra Daudanum frelſar. Miſkunſemenn
vitnar hia Joh. 11. v. 25. Eg em Uppriſann
og Lijfed, ſo ſem a mig trwer, hann ſkal lifa,
jafnvel þo hann deye. Trwen ſvarar af Jobs

B. 19. Cap. Eg veit ad minn Endurlausnare lifer, og hann mun mig hier epter af Jørdunne uppvekia. GUds Miskunseme kiemur a mooте oss og seger hia Esa. 41. 13. og Joh. 10. 28. Ottast þu ecke sia eg hefi teiknad þig i mijnum Høndum, þu ert minn, og eingenn skal slijta þig af minni Hendi. Trwen svarar, Drottenn i þijnar Hendur fel eg minn Anda, þu hefur frelsad mig Drottenn GUd Sannleikssens.

# Cap XLI.

## Um̃ þann kostulega og heylsusamlega Krapt, sem GUds Lofgiørd hefur i sier, og hvad ypparlegt Gagn og Nytseme hun med sier fœrer.

Psal. 77.

A mijnum Mootgangs Tijma leyta eg til Drottens; nær ad eg em hriggur þeincke eg til GUds: A Naattar tijma hupa eg til mijns Hlioodfæris, og mæle med mijnu Hiarta, minn Ande grenslast þar efter.

Þesse Maalsgrein er hin fegursta Lijfs-regla fyrer oss i Krossi og Mootlætingum, og kienner oss hvernin vier eigum ad skicka oss, og hvad vier eigum til bragds ad taka, þegar a moote blæs. GUds Ord a ad vera yfer høfud, Mæles snwra alls vors frammferdis, so ad Drottenn seger þess vegna i Psal. 32.

Eg

Eg vil undervysa þier, og vysa þier þann Vegenn sem þw att ad ganga, eg vil med mijnum Augum leida þig. Og David seger til GUds i Psal. 73. Þw leider mig med þijnu Raadi, og medtekur mig endelega til Æru. Og i Psal. 119. Þitt Ord er lioos a mijnum Vegum og Lampe Foota minna. Hier fyrer og einnin bidur trwud Saala i Psal. 17. Drottenn halltu minne Gaungu a þijnum Vege, so ad mijn FootsporSkridni ecke. Nw lijka so sem GUds Ord er, og a ad vera, ein almenneleg Regla vors Lijfs i þessum Heime, so a þad og einnen ad vera sierdeilislega Mælesnwra vors Frammferdes i Krosse og Mootlætingum, synandi oss, hvernen vier eigum i þeim ad framganga.

Hvernen seger þad þa, ad vier skulum breita og haga oss a Hørmungartijmanum? þad auglyser Spaamadurenn i frammsettri Malsgrein, med þessum Ordum. Þegar eg er sorgfullur, þa hura eg til GUds. Þad er; Jeg fer ad þeinkia um Orsok til mijns Mootlætis og Hørmwnga, og af hverium mier sie Kross burdurenn uppalagdur, sem er af þeim goda Gude, hia hverium eg vil og einnen leita Raada i minne Neyd. Um þetta skyllde hvereinn Christenn-madur þeinkia, og læra, ad allt Mootlæte, Kross og hørmungar, koma fra Gude, skyllde þess vegna snwa øllum sijnum

um Þonkum til GUds, og leita hiaalpar og lijknar hia honum.

Hann seger eñ framar; Þegar mitt Hiarta er fullt af Angist, þa tala eg; það er, þa bid eg GUd og syng honum Lof: Þvi med soddann slag linast og mykest Sorg Hugarens. Voru Hiarta verdur liettara, so sem einni þwngri byrdi sie af þvi svipt, þegar vier klogum vora Neyd fyrer einum godum Vin; hvad miklu leittara mun þvi þa verda, þegar vier tolum vid GUd i vorre Angist, og syngium honum Lof? þarfyrer seger og Spamadurenn frammveigis: Mœttar þele huxa eg til mijns Hlioodfæris, og tala i mijnu Hiarta; sem villde hann segia; mig laangar mykelega epter Deigenum, so eg a Morgnenumm kunne ad lofa og vegsama mīn GUd, og eyda minne Angurseme, med einum Lofsaung: Eñ a medann tala eg i mijnu Hiarta, og bid heimuglega med sialfum mier. Og Drottenn, sa sem þecker rædu mijns Hiarta og heyrer mijna andvarpan, hañ huggar mig, og endurnærer midt i þessu.

Hier af ma sia, ad það hefur i sier storañ Krapt og Verkan, og færer med sier agiæta Nytseme, ad Madur vegsame GUd innelega af ollu Hiarta. Ecke ad vier med sodann moote kunnum ad forþiena edur forskullda nocł-

nockud gott hia Gude, þar sie langt fra: Þvi hver hefur hønum nockurn tijma giefed, ad hann skyllde þad aptur betala? Vier erum og einnen Syndarar og høfum ohreinar Varer, so sem Esajas yferklagar, ad vor Lofgiørd er þessvegna fleckud. So ødlustum vier og eiñen allt þad gooda, sem vier høfum af GUds skiærri Naad og Miskunseme, fyrer hveria vier erum, allt hvad vier erum. Eñ GUd hefur þad so nidurskickad, ad þegar vier løfum hann og prysum, þa vill hann audsyna oss sijna Giæsku. Hvar af þad kiemur ad vier fyrer GUds Lofgiørd, verdum hluttakarar og styrkver i þvi Gooda. Þessvegna vilium vier nockud framar høndla um þañ heilsusamlega Krafft, og Nytseme, sem þad færer med sier, ad lofa og vegsama GUd.

Fyrst verdur Madurenn þar med hentugri til ad ødlast meir og meir GUds Naadargaafur. Lijka sem oþacklætid tilstappar Brunn GUds Naadar, so helldur Lofgiørd og þacklæte openne fyrer oss GUds Naadar Uppsprettu, ad vier verdum hennar alltijd meir og meir hluttakande, og hwn maa jafnadarlega flioota til vor. Eitt þacklaatt Hiarta, er þad Kier, sem GUd uppfyller med storre Naad og blessan: Sa sem prijsar GUd og þackar hønum af Hiarta, hann þecker sig

ad vera alls goods overdugann, og hann er af ſialfum ſier ſnaudur af øllu Goodu, og bidur ad hañ af GUds ſkiærre Naad og Miſkunſeme, fae ad nioota þeſſ hins goda: Soddann toom Hiørtu eru þad ſem GUd vill filla, þvi ad hann fyller þa hwungrudu, med allſkins giædum.

Þar næſt dregur Madurenn GUd ſialfann til ſijn þar med, þegar hañ lofar hañ og pryſar af Hiarta, ſo ad hañ i þviƺlijkum Mañeſkium, vill hafa ſiñ Bwſtad og viſtar veru, og þeir verda hans Muſtere. GUd byr i þeim og hia þeim, ſem han lofa og Vegſama: Þu ert Heilagur ſem byr i Lofgiørd Iſraels ſeger David til Drottens, Pſal. 22. 4. GUd byr i kyrdumm til Zion, og þar lofa Menn hann i kyrdumm; Pſal. 65. v. 1. ſeger hann aptur: So ſem GUd er kunnugur i Juda, og hanns Nafn er vegſamlegt i Iſrael, ſo ad hañ ſundurbrytur þar Ørvarnar Bogans, Skiølld, Sverd og Stryd, ſo byr hann þar og einnin; hanns Tialldbwd er i Salem, og i Zion er hanns Heimele, epter þvi ſem þar ſtendur i Pſal. 76. v. 2. 3. 4. Hvar hellſt ſem ad er Minning hans Nafns, þangad vill hann og ſo koma. Sa ſem hiartannlega pryſar GUd, þann ſama elſkar GUd og einnin, eñ um̃ þañ ſem elſkar GUd ſeger Chriſtur, Joh. 14. v. 23. Hver ſem mig elſkar hann vardveitir mijn Ord, Fader

minn

minn mun elſka hann og vid munum til hans koma og Viſtar-veru hia hønum giøra. Eñ hvar ſem GUD kemur og byr, þangad kemur hann ecke toomhentur, helldur fœrer hann þangad med ſier allſkins Bleſſann og Saaluhialp, þarfyrer ſeger hann; Hvar eg hefe ſett Minning mijns Nafns, þangad vil eg koma til þijn og bleſſa þig. Exod. 20. v. 24.

J þridia maata veitaſt, aukaſt og eflaſt Heilags Anda Gaafur i einum, þegar hann innelega og i ſanarlegri Jdran, lofar og vegſamar GUD: Þier Heilogu bæde i þvi Gamla og Nia Teſtamentenu hafa med Lofſaung um til GUds, uppfylliſt af Heilogum Anda: Þegar Eliſæus heyrdi Hørpu-ſlagarann leika a ſitt Hlioodfœre, kom Anda Drottenns yfer hann. 2. Kong. B. 3. v. 15. Til Saul ſagde Samuel, 1. Sam. 10. v. 5. 6. Þar mun Spamanna Flockur mœta þier, og fyrer þeim munu ganga Pſalteria, Bumbur, Pijpur og Hørpur; og þeir munu vera ad ſpaa, og Ande Drottens mun koma yfer þig, ſo ad þu ſkallt ſpaa med þeim, og ſo ſkalltu verda ad ødrum Manne, ſem og ſkiedi. Þar fyrer ſeger og St. Paall: Eph. 5. v. 18. 19. Uppfylleſt af Anda, og tale hver vid annann, med Pſalmum, Lofſaungvum og andlegumm Kvædumm, ſynged og ſpiled Drottne i ydar Hiørtum: Ja, GUds Krafftur i ſannarlegri GUds Lofgiord

giørd og hrooſan er ſo ſtoor, ad þad ſkiedur þeſſ a mille, þegar þeir ogudlegu koma i ſamkvæmi þeijrra hinna Froomu, ſem loſa og vegſama GUd, ad Heilags Anda gaafur ſtriaalaſt nidur i þeirra Hiortu, ſo ſem Reidarþrumu Leiptraner, ſo ad þeir meiga fyrer Andann loſa GUd, og tala vysdomſlega, hvert þeir vilia, edur ecke, ſo ſem vier ſiaaumm i Hiſtoriunne af Saul, þegar hañ var fallenn fra ſijnum fyrre Froomleika og offokti David, þvi þegar David hafde flwed til Najoth i Rama, og Saul ſende Menn epter hønum, ſem ſkylldu grypa hann, og þeir komu i hoop Spaamannanna ſem ſpaadu, þa kom GUds Ande yfer ſømu Sauls Sendemenn, og þier ſpaadu og ſo: Þegar hañ ſende adra Meñ, giørdu þeir lijka eins, og ſem hann ferdadeſt ſialfur um̃ ſijder þangad, þa hendte hañ einnen þad ſama, og hañ gieck og ſpaade, ſo ad þar hooffſt ſa Ordskvidur, hvert er Saul og ſo a medal Spaamanna. 1. Sam. 19. v. 19. ꝛc.

J fiorda maata ſtyrkeſt og eykſt ſannarleg GUds Þeckind þar med, ad Madur i ſañarlegri Jdran loſar og vegſamar GUd innelega: Þvi þegar Madur innelega loſar og vegſamar GUd, þa yfervegar hañ undereins GUds Verk og Speke, og fryaſt þar med fra ſijnum eigenn Blindleika og Faaviſku, ſo ad mad-

madur þa finnur og formerker þad sem Spaamadurenn seger, Psal. 92. v. 6. 7. Drottenn hvernen eru þijn Verk so stoor og þijnir Þanckar so miøg diwper, einn Dære skilur þad ecke, og einn Gickur athugar þad ecke. Med þvi vier lofum og vegsømum GUD, ødlustum vier Heilags Anda Gaafur, sem sagt er. Eñ Heilagur Ande rannsakar alla hluti, einnin dypt Guddoomsens, hañ giefur oss Augu upplyst af forstandi, hañ leyder oss i allann Sannleika, hañ undervysar oss fyrer Orded, allt þad sem oss er þorf ad vita til Saaluhialpar; hañ kieñer oss ad þeckia GUD og hanns Son JEsum Christum, og þvi meiri GUds Þeckingu sem einn Madur hefur, þvi framar lofar hañ og vegsamar GUd, og þvi meir sem hann lofar og vegsamar GUd, þvi meir fer honum fram i þvi ad þeckia GUd, so ad hañ fellur ummsijder i þad Diwp guddomlegs Vijsdooms, ad hañ finnur i þvi eckert Grunn, og lofar og ottast GUd fram yfer alla Hlute.

Þvi þess hærra sem einn kemst i losgiørdar Hroosan GUds, þess diwpara fellur hañ i Heilaga Þaancka, og sockur nidur i GUD sialfann. Ecke þo so ad skilia, ad nockur af Forvitne Skule taka sier þad fyrer ad rannsaka þa hluti, sem eru orannsakanleger; helldur er þad Meiningen, ad GUD lætur optlega þær Manneskiur, sem hañ prijsa og elska,

sia

sia so yferfliotanlegann Nykdom sinnar Speki, ad þær verda auldungis hissa af þvi, sem ecke kañ med Ordi ad wtseigast. Hafe Salomon, med þvi hann auglysti Drottningunne af Arabia siñ Vijsdom og Fiesiodu, kunnad ad lata hana finna og formerkia so mikenn Lioma og Glansa sinnar Vegsemdar, ad hwn fiell i so diwpa forundran þar af, ad hwn gat ecke hallded sier leingur, og sagde: Þw hefur meyri Vijsdoom og Audæfe, eñ fra hefur sagt vered; farsællt er þitt Foolk, og þiner Þienarar sem allrijd standa framme fyrer þier og heyra þijnn Vijsdom. Hvad miklu framar kann þa GUd, ad audsijna sijnum Elskendum sem hann lofa og vegsama, so yferburda mikenn Glansa af sijnum Vysdomi og sinne Dyrd, ad þeir meiga þar yfer maklega forundra sig: Þad er sa Drottens Leindardomur, sem byr hia þeim er hann ottast: Umm hvern David talar i Psal. 25. og þeim 51. segandi: Drottenn þw giørder mier kunnann þiñ heimuglegann Vysdom: Og hafe Salomonis Þienarar vered lukkuleger i þvi ad standa frammi fyrer hønum, og heyra hans Vysdom, þa meiga þeir heita langtum lukkulegri, og fa Hlutdeilld i langtum stærri Vysdome, sem eru GUds þess eilijfa Vysdoms, Þienarar, og standa frami fyrer hønum, lofa hann og vegsama; þad er þad diwpa Haf og Af-

Afgrunn GUds Vysdoms i hveriu þeir verda hluttakandi sem hañ elska og vegsama: Stuttlega ad segia; þvi meir sem vier holldum oss ad Gude, med Lofgiørd og Þacklæte vid hann, þvi meir opeñberar hañ oss Rykdom og Fiaarsioodu siñar Speke, sem fyrer þeim ogudlegu og oþacklaatu verda æseñlega hulder og byrgder.

J Fimtu Grein, þegar vier lofum og vegsømum GUd, þa verdum vier og bænheyrdir, og Drottenn medtekur vort hiartans Hroop og Andvarpan. Sw rietta GUDS Lofgiørd, er ein sannarleg og trwud Bæn; enn einni riettri og trwadre Bæn verdur alldrei gleimt af Gudi og alldrei giørest hwn forgiefens. Drottenn, þw safnar mijnum Taarumm i þijna Fløsku seger David, þeir sem med Tærunum nidursaa, munu med føgnwdi uppskiera, seger hann og so i Psal. 126. Item i þeim 145. Psalme: Drottenn er nælægur øllum þeim sem hann af Alvøru akalla; Og Postuleñ Jacob seger: Þess Rettferduga Bæn mæ miked, þegar hwn er alvarleg. Þegar vier lofum og vegsømum GUd, þa forlistum vier oss og so i honum, enn ef vier forlistum oss i hønum, þa mun hann giefa oss allt hvad vort Hiarta girnist, Psal.37.v.4. Ef vier lofum og vegsomum GUd, þa leitum vier hans Andlitis, og holldum oss til hans, eñhver hañ leitar Guds Andlites, og helldur sig til hans, þeim skwfar

GUd

GUd alldrei, og syniar hoyum ecke þess sem hann bidur. Þegar eg leitadi Drottens seger David, þa svarade hann mier, og frelsade mig af allre minne Hrædslu.

I siøtta mata verdum vier hughrauster og glader þar af, ef vier lofum og vegsømum Drottenn, vier faum þa gott og gladvært sinne, uppvekinstum til Bonar og Andacktar, og finnum hia oss lifande Huggun, Frid og Rooseme; þa formerkium vier umsijder, og verdum varer vid þad sem Brwduren seger. Þegar eg kom nockud frammleingra, fann jeg þann sem mijn Sæl elskar; Lofkv.3.4. Og þad sem Spaamadurenn ummgietur Psal.94. v.19. Eg hafde stoora Sturlun i mijnu Hiarta, enn þijn huggun Drottenn endurnærde mijna Sæl. Þa giætum vier GUds Bodorda og Vitnisburda, og verdum ecke til skam̃ar, Þvi þeir sem i Sannleika lofa og vegsama GUd; Þeir sem hænast ad honum, Psal.119. þier verda alldrei til skammar, Psal.65. v.5. Sæll er sa hvern Drottenn þar til wtvelur, og lætur hann til sijn koma. Hann hefur ryk-uglegt Traust af GUds heilaga Mustere. Þarum̃ verdum vier og so visser, ad vier munum blysa hia Gude æfennlega; sem̃ hann hefur lofad og sagt: Hvar Jeg er, skal og minn Þienare vera: Joh.12. v.26. Med soddann hætte faum vier forsmeck eilijfs Lijfs, þvi vier smeck-

smeckum og siaum hvad sætur Drottenn er; vier bergium a þvi gooda GUds Orde, og Krapte epterkomande Veralldar: Þar af merkum vier, ad GUds miskunseme er betri enn lijfed. Og vorar varer og Hiarta vrysa Drottenn þar fyrer þegar vier lofum GUd, þa miklar vor Sæl Drottenn, og vor Ande gledst i Gudi Heilsugiafara vorum Luc.1. v.46.47. Þa gledia sig vor Hiørtu og vorar Sæler i þeim lifanda Gudi, Psal. 84. v.2.

J siounda mata yfervinnum vier og so vora ovini med Guds lofgiordar Hroosan, og siiium þar med þad sem Mosis seger: 2.Mos.B. 15.v.2. Drottenn er minn Stirkur, minn Lofsaungur og mijn Sæluhialp. Item David: Psal.34. v.23. Drottenn mijn frelsa Sæl siins Þienara: Þar med ødlustum vier eina Sigurvinning epter adra:

Þegar ad Josaphatz Saungvarar geingu undann hans Strijds-her, priisudu GUd og sogdu, 2 Chron.20. Packed Drottne, þviad hans Miskunseme varer æfennlega; þa liet Drottenn eitt Launsæteur koma yfer Ammons og Moabs Børn, so þau urdu slegenn. Þegar Silas og Paall laau i Fangelsenu, bundner med Jaarnvidium, og þeir lofudu Drottenn þa opnudust allar dyr, og øll fiotur losnudu, Giorn.B. 16. v.25.26. Þeir sem i sanre Jdran og Trw lofa GUd, þeir ottast Drott-

enn; Einglar GUds (seger David) filckia sier i kringum þa sem hann ottast, og frelsa þa, Psal. 34. v. 8. Og þa hlioota aller þeirra Oviner ad dempast og verda til skam̃ar: Þeir sem ad lofa GUd, sitia under Skugga og Verndþess Almattuga, þar fyrer kunna þeir ad standast i giegn øllum þeim, sem setia sig upp a mote þeim: Ja, so alldeilis verda vorer Oviner yferunner, fyrer þad Menn lofa og vegsama GUd, ad þeir jafnvel fyrer Lofgiord Ungbarnanna sigrast og steipast umm koll: Þar fyrer seger David: Af Munne þeirra Ungu briooskmilkinga hefur þu Drottenn Maktena til reidt a moti þijnum Ovinum, so ad þu fordiarfer Ovinenn og Hefnarann.

Ad sijdurstu yfervinnum vier med Lofgiørd og Hroosan GUds, allar vorar Hormungar, og hvad hellst sem ad oss kan̄ ad þreingia, Þvi hann sem GUd heidrar, hann vill han̄ heidra aptur a mot, So sem þar stendur i 1. Sam. 2. v. 30. Og þegar GUd vill veita oss Æru, þa er han̄ med oss, og ef hann er med oss, hver kann þa ad vera a mote oss? Enn soddann Krapt og Verkan, hefur ecke GUds Lof og Prys, þegar þad frammkvæmest i Jdrunarleisi, ellegar ecke, nema med munnenum, þvi þa er þad ecke utann einsamallt sladur og munnflapur, sem GUd kann ecke ad lyda, og er fyrer hønum ein Svijvirding; helld-

ur

ur einasta, þegar það kemur framm af idrandi og trwudu Hiarta, sem priisar og lofar GUd innelega.

# Cap. XLII.

## Hvad oss eige sierdeilis ad hræra og afysa til þess, ad lofa og vegsama GUd a hverium Dege.

### Psal. 106.

Þacked þier Drottne þviad hann er godur, og hans miskunseme varer eilijflega.

Davids Ord eru so hliodande i Psalm. 119. Sioslinnum a Degenum sagde eg þier Lof, fyrer saker Riettlætis þinna Dooma. Hier medlætur David merkiast, ad hann nockrum sinnum a Dege hverium, sege þacker guddomlegre Haatign, og syner oss med sijnu Dæme, ad Madur kunne ecke betur ad enda wt sijna lijfdaga, helldur enn so, ad hann nockrumm sinnum a hverium Dege, og ad minsta koste einu sinne a Dag, take sig af sijdis, og lofe sinn GUd i kirdum til Sion, sem David, ad ordi kemst i Psal. 65. Ellegar ef hann er i Erfide og umsvifum sinnar køllunar, þa renne hann þo sijnum hugskots Þonckum til Drottens, med Lofgiord og þacklæte fyrer veittar Velgiorder, og med audmiwkri Bæn umm

fyrergiefning Syndanna, og Heilags Anda hiaalp, hvar hellst sem hann er staddur: Þvi Bæn Christens Manns er hverke bunden vid Stad nie Stunder, helldur kann hwn ad giørast allstadar og a øllum Tijmum i Anda og Sannleika; einkum þegar Menn fa ecke hentugleika til ad wtvelia handa henne vissann Stad og Tijma; og þessvegna seger Paulus: Col. 3. v. 16. Sijnged og leijked fyrer Drottni i ydar Hiørtum.

Eñ med þvi vier erum aller af Naattwrunne kallder og treiger til ad lofa og prysa GUD, þa skulum vier burtrijma soddann Dofeñnleika med alvarlegre Ummþeinking GUDs Ords, so ad vier fyrer þær tilknijande orsaker, sem oss verda i Ordenu auglystar, uppkveikiustum til ad lofa og vegsama Drottenn.

Fyrst skal GUDs alvarleg Befaling afysa oss þar til. Lofed Drottenn allar þiooder og prijsed hann allur Lijdur, þviad hans Miskunseme og Sannleikur hefur yferræd yfer oss æfennlega; lofed Drottenn: seger Ande GUDs fyrer munn David i Psal. 117. v. 1. 2. Item i Psal. 105. v. 1. Þacked Drottne og prediked hans Nafn. Taled hver vid annann med Psalmum og Lofsaungvum og andlegum Vijsum, syngid og leikad fyrer Drottni i ydar Hiørtum, seger Paall Postule til Eph. 5. 19. og i ødrum Stad. Col. 3. v. 16. Lated Christi Ord bwa rykug-

ryskuglega a medal ydar med allre Virsku, Læred og aminned ydur sialfa med Psalmum og Lofsaungvum og andlegum Vijsum, syngeð yndislega fyrer Drottne i ydar Hiørtum: So seger og Postulenn Jacob: Jac. 5. v. 13. Ef nockur er Vitur ydar a medal, hann bidie, sie nockur med goodu Giedi, sa synge Psalma. Þess slags Maalsgreiner og GUDs Skipaner finnast og so vijda annarstadar i Bokumm Heilagrar Ritningar. Sie þad nu GUDS befaling ad vier skulum lofa GUD, þa stendur þad ecke i vorum frijvilia, ad giora þad, og giora þad ecke, helldur erum vier skyllduger til ad giora þad, og ef vier vilium þad ecke giora, þa færum vier Olucku og Bølvan yfer vor Høfud. Ef þu hlyder ecke Raustenne Drottens GUDs þijns, þa skalltu vera bølvadur, seger Moses, Devt. 28. 62. Og H. Paall: Ef þier lifed epter Holldenu, þa munud þier deya, Rom. 8. v. 2. Og hver sem sæer nidur i Holldenu, hann mun af Holldenu Skadsemena uppskiera. Gal. 6. v. 8. Og enn aptur: Ogunst og Reide, Hrigd og Angist skal koma yfer allra þeirra Saaler, sem giora þad vonda. Rom. 2. v. 9.

Par næst skal þad uppvekia oss þar til, ad allar Skiepnur eru Skapadar Gudi til Lofs og Dyrdar, og aller hluter a sinn maata pryssa GUD, þvi GUD giordi alla hlutt fyrer sialfs sijns saker, epter þvi sem Salomon seger,

Ordsk.B.16. v.4. J Psalmenum 148. wtmalast merkelega GUds Lof og Prys, hvar til allar Skiepnur eru giordar, og byriar Spamadurenn fyrst a Einglunum, og seger: Lofed Drottenn aller hans heilager Einglar, lofed hann aller hans Herskarar; kemur so til Himensens og seger: Sool og Twngl lofed Drottenn: Lofed hann allar lysande Stiørnur, lofed hann Himnanna Himnar, og þau Vøtnenn sem eru yfer Himnenum: þau skulu losa Nafned Drottens, þvi þegar hann baud, þa urdu þau skøpud. Siidann kemur hañ til siafar-hafsens og seger: Lofed Drottenn þier Hvalfiskar og øll Diwpen; þar epter til Loptsens; Elldur og Hagl, Snioor og Wdi, Stormvindar, sem hans Ord frammkvæmed, lofed Drottenn: Siidann giefur hann sig til Jardareñar segande; Fiøllen og aller Hæalsar, friossøm Trie, og aller Cedrus, Vidir, lofed Drottenn: Par epter til Dyranna; og allskins Fienadar, Orma og Fugla: Siidann til Mannanna, og byriar first a þeim yppurstu: Þier Kongar og Furstar og aller Domendur a Jørdunne, þier Rngis-menn og Meyar, gamler Menn med þeim ungu skulu losa Nafned Drottens. Um siider kemur hañ til GUds foolks og Safnadar, segande, þad Foolk sem hønum þienar, aller hans Heilager, losed Drottenn. J þeim 103. Psal. seger David: lofed Drottenn øll hans Verk i øllum attum hans Herradæms. Johann-

Johannes i Opennberingar B. 5. Cap. v. 13. Heyrdi ad allar skapadar Skiepnur, sem eru a Himne og a Jørdu, og under Jørdunne, og i Sioonum, og allt sem i þeim er, sagde til þess sem a Sloolnum sat, og til Lambsens: Lof, Heidur, Prys, og Vald fra eilijfd til eilijfdar. Øll GUds Verk lofa hañ i siñ maata, so sem sin Verkmeistara. GUd hefur med sijnum Fingrum skrifad sitt Lof uppa allar Skiepnur, og eingenn Skiepna kañ ad dylia GUds Lofstyr, so ad GUds Dyrd og Vegsemd ma a þeim vissulega þeckiast og merkiast. Himnarner frammtelia GUds Dyrd, og Festingen Verkenn hanns handa; seger David: Ps. 19. v. 1. Soolen Twngled og Stiornurnar, lofa GUd med þeijrra Lioose, og giefa ad merkia ad þad er einn Storherra, sem þau hefur giørt: Jorden lofar GUd, nær hwn bloomgast, og ber siñ Grooda, sierdeilis þar med, ad hwn hanger fyrer utanu stittu i loptenu, epter GUds skickan, enn fellur þo ecke, edur skeikar i nockurn maata. Trien, Jurtернar og Bloomstrenn, med þeijrra Ilman, Prydi, Avoxtum og ødru fleirra, lofa sinn Skapara og vijdfrægia GUds Vysdoom og Almætti. Fuglarner under Himnenum, lofa GUd med þeijrra Saung og kvake: Siooreñ lofar og vegsamar GUd med sijnu margføllдu Fiska-kine, og undarlegum Skiepnum, sem

hann i sier hefur. Ein og sierhver skøpud skiepna, talar til vor fyrer sijna Krapta og eigennlegleika, sem GUd hefur henne giefed, hwn opennberar fyrer oss Skaparann, vysar oss ad hønum og hvetur oss til þess ad lofa hann og vegsama: Allt hvad madur sier fyrer augunum vitnar um GUds Lof og Heidur; Nw med þvi allar Skiepnur eru giørdar Gudi til Lofs og Dyrdar, og hver ein þeirra a sinn maata, lofar og vegsamar Drottenn, afyser oss og einnen til ad gøfga Nafned Drottens, þa skulum vær og einnen heidra og prysa GUd, ef vier vilium ecke vera forgiefens skapader, og þad þo miklu framar, epter þvi GUd hefur giørdt oss so yppar-lega lifande og skinsemdarfullar Skiepnur, epter sinne eigenn Mynd, og ad vier skulum eilijflega med hønum lifa, þvi þar med hefur hañ sierdeilislega skapad oss sier til Lofs og Dyrdar; Hier fyrer seger og Drottenn hia Esaiam i 43. Cap. Jeg hefi þad Foolk mier tilbwed, þad skal kunngiøra mitt Lof.

Ef ad øllum skøpudum Skiepnum eingum undannteknum, byriar ad lofa og vegsama GUd, jafnvel þeim sem eckert Lijf eda hræring hafa, og ef þær eru allar þar til giørdar, þa byriar þeim langtum framar þad ad giøra, sem af hønum eru þar til sierdeilislega skapadar,

adar, og verda af øllum ødrum Skiepnum, þar til amintar. Allt hvad Andardrætt hefur lofe Drottenn; seger Spaamadureñ i Psalmenumm sijdarsta; þvi þa ecke miklu framar Mennerner, sem hafa ødlast Skinsemdarfullt Lijf og Anda, og eru GUds Mynder, giørder hluttakande i þvi eilijfa Lioosinu, og eru þar til skickader? Ein Manneskia, skyllde þa helldur ecke lifa, eñ ad lofa ecke og vegsama GUd sinn Skapara, og þad væri betra, ad sa Madur, sem ecke offrar Lofgiørd og Packlæti Gudi sijnum Skapara, hefdi alldrei fæddur vered.

J þridia maata skal þad ørfa oss til ad lofa og dyrka GUd, ad þad er allra GUds Barna og Pienara vijsa, ad þeir lofa og vegsama Drottenn. Lofed Drottenn þier Pienarar Drottens: Lofed Nafned Drottenns seger David i Psal. 113. Lijka sem einn Hwssbonde rædur einn Pienara til vissrar Pioonustu og Erfidis, so hefur og einnen GUd raaded øll sijn Børn og Pienara til þeijrrar þioonustu, ad þeir skule hann lofa og vegsama, Hann hefur sett oss til Barna Wtvalningarennar fyrer JEsum Christum epter sijnum þægelegum Vilia, til Lofs siñe dyrdlegri Naad, so sem H. Paall vottar til Eph. 1. 5. 6. Og þessvegna bydur hann oss annarstadar ad giøra alla hluti Gudi til Dyrdar 1. Cor. 10. v. 31. og vegsama hann i vorum Lijkama og Anda, sem Gu-

di tilheyrer, 1.Cor. 6. Og Postulenn Petur seger til þeirra trwudu ad þeir sieu þad wtvalda Sleckted, sa konunglege Kiennemannskapurenn, hin heilaga Piooden, og Foolk Eigenndoomsens, so ad þeir skule kunngiøra Dygder hans, sem þa hefur kallad, fra Myrkrenu til sijns Dasamlega Liooss. Þar fyrer hver hann ecke daglega prijsar og vegsamar GUd, hann er ecke GUds Barn edur Þienare, og heyrer þessvegna ecke Gudi til. Þad er sw ypparsta GUds Þienusta, ad vier hvern dag prijsum og losum GUd, þad mun og so verda sw ædsta GUds Þienusta i ødru lijfe, og i þvi er og øll ønnur GUds Þionusta innefalenn. Þar fyrer skal þad vera vor hædsta Vegsemd, lyst og gledi, ad vier daglega losum og prijsum GUd, so sem þad var og einnin Yndi hinns Heilaga Davids: Hvar fyrer hann seger i Psal. 63. v. 6. Drottenn þad er minn hiartans Føgnudur og Unadsemd, ad eg þig med gladværum munni lofa mætte: Og þar fyrer bidur hann i Psalmenum 50. Upplwk þw mijnum Vørum, so ad minn Munnur kungiøri þitt Lof: Sæll er sa sem so er langt kommenn i GUds Þionustu, ad þad er ordenn hans dagleg List og unadseind ad lofa Drottenn:

Hvada stærri Vegsemd kann einn Madur ad ødlast, enn þa, ad, hann, sem er Dupt og

og Aſka, ja aumur Syndare, ma fa ad vera Pienare ſo mektugs, ja þeſſ allra mektugaſta og veglegaſta Kongs? Hvad vænt þiker þeim um, ſem kann ad komaſt i Pienuſtu hia einum veralldlegum Storherra? miklu framar mættum vier þa glediaſt þar yfer, ad vier meigum þiona Gudi; vier mættum upporfaſt þar af alltijd meir og meir, til ad veita hønum trwa og holla Pioonuſtu, ſo ad vier an aflats ſyngium hønum Lof og Dyrd, og giørum audmiwkar Packer fyrer hans otelſannlega Velgiørninga.

I Fiorda maata meiga og eiñen annara froomra og gudhræddra Manna Epterdæme, i þvi ad lofa og vegſama GUd, uppvekia oſſ einnen til ad giøra hid ſama. Øll GUDS Born og hans heilager Aſtviner hafa med ſtorre Lyſt og alvørugiefni, ſunged Gudi Lof og Dyrd, og þar til hafa brwkader vered adſkiliannleger Pſalmar, ſem i Pſalltaranumm eru teiknader, hveria David Kongur hefur meſtann part ſamſett; hvar fyrir hañ kallaſt og einnen i 2. Sam. 23. Sa Madur, ſem ad ſie liſtugur i Iſraels Pſalma Saung. Nockrer eru og ritader i ødrum Bokum Heilagrar Ritningar, ſo ſem i Exodi Bokar 15. Cap. 1. Sam. 2. Hia Eſaiam i 12. 26 og 64. Capitulum; item i Jonæ Spaadoms B. 2. Cap. Habakuks 4.

Luc.

Luc.1. og so vijdar; synandi ad GUds-børn hafa med soddann Psalmum hiartannlega lofad og prysad GUd i imislegum Tilferlumm. Sumer af þessum Psalmum brwkast almennelega til ad gofga Nafned Drottens, Sumer a vissum Tijmum og i sierdeilis Tilfellum; nockrer eru Bænar-Psalmar; nockrer Huggunar-Psalmar; Sumer Jdrunar og Ummvendunar-Psalmar; adrer Lærdoms-Psalmar; nockrer Umkvørtunar-Psalmar; og enn þa nockrer ad sijdustu Spaadoms-Psalmar.

Sumer hafa brwkader vered i Sorg og hættulegu tilstandi, so sem er sa 91. Psalmur Davids, sem Menn meina hann hafe stylad i þeijrri storu Pestilentiu, um hveria skrifad stendur i 1. Kronickubok 22. Ad i henne hafe daaed miog hastarlega siøtiju þwsund Manneskiur; og er eingenn efe a ad þess slags Psalmar hafa vissulega komed mørgum GUds-Manne til hiaalpar, þegar drepsotter og stoor kostlegur manna Daudi, hefur upp afalled. J storri Neyd og hættu hefur, og sa 34 Psalmur i Psalltaranum brwkadur vered, hvern Davids saung þegar hann flydi til Achis, og ummbreitte sijnu Fase fyrer hanns Augsyn. Jtem sa þridie Psalmur sem hann dycktadi, þegar hann flwdi fyrer Absalon: So og einnen sa annar, hvern Postularner brwkudu i þeijr-

þeirra stooru Neyd og Offokn, sem þeir urdu ad lyda, þegar Stadurenn hrærdest i hverium þeir voru, so sem stendur i Giorn. B. 4. Cap. Item þesse; Packed Drottni þviad hans Miskunseme varer æfennlega, er Josaphat liet syngia, þegar Ammons, Moabs, og Edoms Børn heiudu Stryd a moote hønum, og urdu eydelogd, hvar um lesa ma i 2. Kronicu Bokarennar 20. Cap.

Nockrer hafa brwkader vered a Glede og fagnadar Tijmum, epter þad GUds Menn hafa vered leister wr þeirra Neyd og Mootgange, sem þeir hafa i ratad, so sem Mosis Dicktur i Exodi B. 15. Cap. Þegar Jsraels Børn voru wtgeingenn af Egyptalande, og Pharao med øllum sijnum Her var drucknadur i Hafenu Rauda. Item sa 18. i Psalltaranum, sem David saung þegar GUd hafdi frelsad hann af hendi Sauls og allra sinna Ovina. J sama maata hafa og adrer fleirri vered sungner i soddann tilfellum, sumer hafa og so vered hafder ummhønd hvern dag; so sem Lofsaungur Mariu: Mijn Ønd miklar Drottenn: Og Lofsaungur Zachariæ: Blessadur vere Drottenn Jsraels GUd: sem vijda eru enn nu daglega sungner, so sem Morgun-Offur og Kvølld-Offur; annar snemma, annar seint i Christelegre Kyrkiu.

Þad

Þad hafa og so i Gamla Testamentenu vered brwkud med Saungnum adskiliannleg Hliodfœre, til ad lofa og vegsama Drottenn, so sem Basunur, Psalltarar, Hørpur, Cymbala, og aunnur þvijlijk; og jafnvel þott sodd-ann Hlioodfœra brwkun, hafe sierdeilis heyrdt til þeim Levitisku Ceremonium, og vier þess-vegna høfum ecke Naudsyn fyrer þau a þess-um døgum, þar vort Hiarta, Andi og Saal, vort Hugskot og Munnur eru Ordenn Gllds Basunur, Psallteria, Hørpur og Cymbala: So ad H. Paall seger þar fyrer, ad vier skul-um syngia og leika fyrir Drottne i vorum Hiørtum: samt vitna þo slijk Hlioodfœre þar um ad þeir Heiløgu fordumm hafa lagt þa mestu Astundan a, ad lofa og vegsama GUD.

Sw hellsta Jþrott allra GUds-barna, hefur vered ad mikla Nafned Drottens, og hefur hartnær eingenn Spaamadur vered so i Gamla Testamentenu, ad hann hafe ecke haft sinn eigenn Lofsaung fyrer sig. Christ-ur hefur og sialfur haft vanda til ad syngia med sijnum Lœresveinum, þvi ad hans Pyn-ingar-Historia vottar, ad hann hafe ad end-udum Lofsaungnum, geinged med þeim til Fiallsens Oliveti, og aller GUds Astvinir hafa haft þann Asetning sem David hafde þar hann seger: Lofa þu Drottenn Sæla mijn og allt hvad i mier er, hans Heilaga Nafn: Item

Item; Eg vil alltijd lofa Drottenn, og hans Lroos skal jafann vera i mijnum Munne, og þeir hafa þar med giefed ad merkia, ad þeir hafa halldid GUds Lofgiørd fyrer þad yppar-sta Verk, sem ein Manneskia kynne sier fyrer ad taka i þessum Eymdardal: Þar fyrer ef vier vilium ecke wteloka oss fra Selskap þeirra Heilogu, þa meigum vier og so alltijd vera kostgiæfner i þvi ad prijsa og vegsama Drottenn.

I fimta maata skal GUds Vingiarnlegleike, hans Elska, Goodgyrne, Miskun og Medaumkunarseme, upphvetia oss til ad lofa og vegsama GUD dags daglega. GUds Miskunseme, Giæska og Kiærleike, verdur oss optlega i Skriftinni fyrer sioner settur, so sem ein tilknyandi orsok til ad lofa Drottenn: Lofed Drottenn þvi hann er vingiarnlegur hans Miskunseme varer eilijflega: Þad sege nu Hwsid Israels, hans Miskunseme varer eilijflega: þad sege Hwsed Aarons, hans Miskunseme varer eilijflega, þad sege þeir sem ottast Drottenn hans Miskunseme varer æfenlega. stendur þar i Psalmenum 118. og i Psalmenum 136. seger Spaamadurenn, þacked Drottne þvi hans Miskunseme varer eilijflega; þesse ord um GUds Miskunseme verda it ekud 26. sinnum i sama Psalme; hvar med oss verdur giefed ad merkia, ad GUDS Goodgirne og Misk-

Miskunsemi sie ein af þeim viktugustu orsökum, hvar fyrer GUd a ad lofast og priisast: þessvegna vilium vier og einnen höndla nockud frekara um̃ sömu GUds Giæsku, Vingiarnlegleika og Miskunseme.

GUds mikla Goodgirne og Miskunseme kann fyrst þar af ad þeckiast, ad hann talar so elskulega til vor i sijnu Orde, og afmalar sig so vingiarnlegann vid oss: Eingenn Fader edur Mooder kann bliidlegar ad avarpa sitt graatandi Barn, enn GUD avarpar oss. Ertu ecke minn dyrmætur Sonur og mitt elskulegt Barn, seger hann, hia Jeremiam. Jer. 31. v. 20. Mitt Hiarta brestur i sundur, so eg hlyt þier Miskunsamur ad vera. Item: þad skal vera mijn Lyst ad giöra þeim til Gooda. So naadugur og Miskunsamur er GUd ad hann gledur sig, þegar hann finnur nockurn þann, sem kann ad verda niootandi hanns Naadar og Goodgyrni, og af hans Giæsku er allt þad gooda sem vier höfum, vier höfum þad allt af hans Miskunseme, so og einnen þad ad vier lifum, þvi væri hann ecke so miskunsamur, þa kynne eingen Manneskia ad lifa: Af hans Miskunseme kiemur Lijfed; ja hans Miskunseme er betri enn Lijfed, og innebindur i sier allt þad gooda sem vier höfum, og þvi seger David: Þa sem vona uppa Drottenn, skal Miskunsemenn ummkringia:

Lijka

Liika sem ein Mooder ummfadmar sitt Barn, so ummfadmar oss og einnen GUds Goodgirni og Miskunseme, hwn ummfadmar oss a allar siidur, og er so stoor, ad ecke kañ nockurs Manns Skilningur hana ad grunda; skylldum vier þa ecke hver med ødrum, lofa og vegsama sliika GUds stooru Naad og Miskunseme?

Þarnæst þeckest GUds stoora Bliidlinde, Naad, og giæska þar af, ad hann er so Laanglundargoodur og Þolennmoodur vid oss auma Syndara, hann uppricker oss ecke strax hastarlega i sinne Reidi, so sem vier høfum i þwsundfalldann maata forþient, helldur sparar hann oss, og sier i giegnum fingur vid oss, hañ frambydur oss siina Naad, og giefur oss stund og tiima til Jdrunar: og þegar vier giørum Boot og Betran, þa fyrergiefur hañ oss vorar Syndir, og wtsliettir alla vora Misgiørninga, og þad ecke einu sinne, tvisvar, edur þrisvar, helldur alltiid og oaflaatanlega: So opt sem vier giørum Jdran, bidium um Naad, og Fyrergiefning Syndanna, so opt fyrergiefur hann oss þær, og tekur oss til Naadar, ja, er og langtum liwfari til ad fyrergiefa, enn vier ad bidia forlaats: Og hvad storar sem vorar Syndir eru, þa er hans Naad þo laangtum stærri,

þar fyrer skal vor Saal lofa Drottenn, sem fyrirgiefur oss allar vorar Synder, læknar allar vorar Meinsemder, og frelsar vort Lijf fra Glotunenne.

Framveigis siaaum vier og slijka GUds Goodgirni og Miskunseme a ollum hans skopudum Skiepnum, þær eru allar so sem nockurskonar Speiglar þar til: Er ecke Jorden full af hans Goodgirne? eru ecke allar skapadar Skiepnur skickadar Mannenum til Gagns og gooda? GUd hefur ecke skapad þær sier til gooda, þvi hañ þarf þeijrra ecki vid, hann hefur ecke þreingiande Naudsin fyrir neitt, hañ er sialfum sier fullnægia i ollum hlutum. Soolen, Twngled, Stiornurnar skyna ecke honum til nytsemdar, helldur oss til gooda. Elldureñ, Vindureñ, Vatned, Jorden, eru ecke honum, helldur oss til gagns. Þegar hañ sedur oss og uppfyller med Glede, smockum vier þa ecke GUds Giæsku og Miskunseme? Hefur ecke Madurenn fleiri GUDS Gaafur og Velgiorninga a sinne Saalu og Lijkama, eñ hañ kañ ad telia? Hann hefur giefed oss eitt skinsemdarfullt Hiarta, Saal, og Anda, hann hefur skapad oss epter sinne Mynd, hann giefur oss heilbrigdann Lijkama, heila og heilbrigda limi; hver skylldi vilia taka eitt Keysaradæmi þar fyrir? med hveriu kynnu

nu Menn ad betala þad eina Element, Vatned, ef ad GUd villde taka þad fra oss og snwa þvi i Blood, sem hann giørdi i Ægyptalande fordum; hvada vesælar Manneskiur værum vier þa? og hvada Furste og Storherra mundi kunna med øllum sijnum Vysdome, ad wtvega oss aptur Lioos dagsens, ef vier mistum þad? Tæke GUd þad i burtu og lieti oss sitia i sijfelldu Myrkri; hvert kynnum vier þa aumar Manneskiur ad komast, og hvad vesællt yrdi þa vort Tilstand? skylldum vier missa Lopted, sem vier drøgum med Andanum, eitt Augnablik, þa væri strax alldeilis wtgiørt med oss, og øll Heimsens Audæfe kynnu ecke ad hialpa oss:

Hvada ypparleg Velgiørd GUDS, og Auglysing hans Giæsku, sest og einnen þar fyrer utann i hans Stioornan, Forsioon, um̃hyggiu, og Verndan; ad hañ forsorgar bædi Meñ og Fienad; ad hañ giefur øllum Skiepnum Lijf og Anda, og allt gott, ad hañ hefur nidurskickad øllum hlutum med Vigt, Tølu og Maata, ad hans Naad hefur Vøktun og vardveitslu yfer oss Noot og Dag.

Ef ad vier eñ þa framar yfervegum vora Endurlausn og Helgun, þa audsyner GUds Miskunseme sig oss og einnen þar med; ja lætur sig so rikuglega oss i tie, ad vier høfum

i þeijrre grein alla vora Lijtdaga, ja, um̃ alla eilijfd nog efne til ad lofa og vegsama GUd; þvi þad er langtum stærra og ypparlegra Verk, ad endurleisa og saluholpna ad giora Menn- ena, en̄ ad skapa þa; ad laata þa fædast and- lega helldurenn lijkamlega.

Mootlæte og Medlæti hlytur og so ad bera vitni um̃ GUds Giæsku, og reka epter oss, til ad lofa og vegsama GUd. Þegar vier erum so Gaalauser, ad vier vilium ecki for- merkia GUds Goodgirni, eda so gleimsku- fuller, ad vier sleppum henne fliootlega i Vind, þa hlytur GUd fyrer Kross og Mootlætingar og svipter simia Velgiørninga, ad koma oss til ad athuga og underskanda, af hverium vier høfum þeiged allt gott; og ad han̄ alleina er Brunnur og Uppspretta til allra goodra Giafa. Af þvi hun vill ei vita ad eg er hann, sem gief henni Korn, Vyn og Vidsmiør, Gull og Silfur, þa vil eg taka þad burt aptur: seger Drottenn, um̃ Israels-barna þiood. Hos. 2. Eru þessvegna Kross og Mootlæting- ar eitt Lioos fyrer vorum Augum, fyrir hvert vier lærum ad sia, þeckia og þreifa a GUds Velgiorningum, og faaum so skiled under eins, ad Ohacklætid er ein yferbwrda stoor Blindne, og hinn hædste Oriettur og Vanæra vid GUd, af hvers Dyrd ad øll Jardar kryng-

lann

lann er þó full, Pſal.72.v.19. Eins lijka þegar Gllð reiner oſſ med Mootgaange og Hormungum, þa ſynir hann og einnin þar med, ſijna Velvild, og Goodgirni vid oſſ, hveria vier eigum ad pryſa og vegſama: Þeſſvegna lætur Gllð oſſ dæmaſt hier i Lijfi, 1.Cor. 11. v.30. ad vier ecke med Heimenum ſkulum fordæmder verda: Item ad vor Trw, kunne betur ad hreinſaſt, votar Odygder i oſſ ad dempaſt, ſa gamle Madurenn ad kroſſfeſtaſt, enn ſa Nye ad liſa, vaxa og þrooaſt, ad vier fyrer Þrauter og Þiaaningar bwuſtum til þeirrar eilijfu Vegſemdar, uppa þad, vier, ſem lydum med Chriſto, ſkulum og einnin med hønum rykia i Dyrdenne: Þad verdur oſſ ecke fyrer illu, helldur þvi hinu beſta, ad ſo ſkiedur: Ecke er þad Reidi-ſtraff Gllðs, helldur hans Naadarſamleg Hirting: Þann Son ſem Faderinn elſkar þann hyrter hann, og þañ ſem hann tekur ad ſier, þann ſtryker hann. Hebr. 12. v.6.

Ad ſijduſtu ſieſt Gllðs Giæſka, Elſkuſeme og Blijdlindi þar i, ad hans Náad varer alltijd og æfennlega hia þeim, ſem hann ottaſt, ſo ad hwn er hvern Morgun yfer þeim ferſk og ny. Jafnvel þo ad vondſkan flædi daglega wt af voru fordiarfada Hiarta, ſo ſem annari Uppſprettu, ja, ſo ſem einu Underdiupe; jafnvel þo þar ſieu ſtoor Feil og breſt-

er i voru fari, sieum stoor-syndarar og forsiaaum oss daglega, so ad ef HErrann villdi ganga i Riett vid oss, þa kynnum vier ecke ad svara hønum einu ordi a moti þwsund: Samt er þo GUds hiartalag til vor Afgrunn Giæskunnar, og lætur sier ecki fyrersaker vorra Synda og Oþacklætis, snwa fra sinne Miskunsemi; hann lætur eingu ad siidur sijna Naad alltijd vera yfer oss, nær vier ad eins lifum i sannri Idran, og yferboot, þa lætur hann oss nioota sinnar Naadar, hann lætur sijna Goodgirne og Miskunseme eptersilgia oss alla vora Lijfdaga, hefur alltijd giæsku rikt og elskusamlegt Hiarta til vor, bæde nw og hier epter um alla eilijfd.

Þo þad syneft so þess a millum, þegar Straff og Refsing uppa kiemur, ad GUd hafa gleimt þvi, ad vera nædugur, og hafe tillukt sijna Miskunseme fyrer reide saker; þa er þad þo ecke þarfyrer so i riettre raun og veru: Ef ad mijn Børn hallda ecke mijn Bodord, seger Drottenn: Psal.89. v.31. þa vil eg vitia þeijrra Synda med Hirtingar-vende, enn minne Miskunseme vil eg ecke fra þeim snwa; þegar hrigden er þar, þa minnest Drottenn a Miskunsemena; seger Spaamaduren Habacuc, Heb.4. v.2. Hann plagar, og hrigger sijn Børn þo ecke wt af Hiarta, Harmag. 3. v. 33. GUd er þeim alltijd ad vijsu naadugur, jafnvel þo

hann

hann læte þad vera huled i sijnu Hiarta, eptter þvi sem Job ad orde kiemst: Job.10. v.13. Hann straffar þaug ecke i sinne Reide, og tiptar þaug ecke i sinne Bræde, helldur i siñe Naad og Miskunseme: Psal.6. 2. Mootlæted varer og ecke æfenlega. Lioosed hlytur þo um̃sijdir þeim riettlaatu upp ad renna, og Gleden i Hiørtum þeirra Froomu, Psal.97.v.11. So sem eitt þickt Sky kañ ecke ad taka Soolena bwrt af Himnenum, ellegar hindra þad hwn skyne ecke aptur uppa ny; so kunna ecke helldur Mootlætinganna Sky GUds-Barna ad dempa, edur wtslietta GUDS Miskun og Hiarta giæsku. Og so sem þad er omøgulegt ad Siaafarhafed kunne ad tæmast edur uppþorna, so er þad þa eñ framar omøgulegt, ad Afgrunn GUds Naadar kunne ad uppþorna, edur enda ad taka. A litlu Augnablike, hefe eg huled mitt Andlit fyrer þier, seiger Drottenn, enn med eilijfri Miskunseme vil eg aptur samann safna þier; Fiøllenn skulu vijkia, og Haalsarner skulu falla, enn mijn Miskunseme skal ecke fra þier vijkia, og minn FridarSaattmaale skal ecke nidurfalla seger Drottenn, þiñ Miskunare. Esa.54. v.7.8.10. Og a þennann haatt skickar GUD sier vid oss, jafnvel þo vier stiggium hann þwnglega med vorum Syndum, og sieum Dupt og Aska, so vier meigum makléga segia med David: Drottenn hvad er Madurenn þess, ad þw minnest hans, og Mannsens Barn, ad þw vitier þess:

Og ef GUd lætur nw siina Miskunseme vera so mektuga yfer oss a Medann vier erum eñnw so langt fra hønum; hvad mun hann þa vel giora i þvi eilijfa Lijfenu, þegar vier munum sia hann med vorum Augum og reina þad, hans Miskunseme varir eilijflega. Ef hann audsyner oss i þessu lijfe, a medann vier høfum eñnw ad dragast med vora Synduga Lijkame, so miked gott, hvad munn hañ þa vel giora, þegar vier uñ siider verdum alldeilis hreiner, heilager og an Synda? þar fyrer skulum vier epter skylldu vorre alltijd lofa og vegsama GUd, sem er so godur og naadugur vid oss auma Syndara.

J siotta maata skal þad afysa oss til ad lofa og vegsama Drottenn, ad hañ er allrar Æru og Dyrdar verdugur: Þessvegna segia þeir 24. Olldungar i Openb. 4. Cap.. Drottenn þw ert verdugur ad medtaka Dyrd, Heidran og Krapt. Þvi þw hefur skapad alla hluti, og fyrer þiñ Vilia urdu þeir og voru skapader. Og i vorri Fader vor, lesum vier og bidium, þitt er Rijked, þinn er Mætturenn, og þijn er Dyrden, Drottenn GUd. J Exodi B.15.Cap. seger sa GUds Madur Moses: HErrann er minn Stirkur, minn Lofsaungur, og mitt Hiælpræde, hann er minn GUd, hann vil eg lofa, hann er mijns Fødurs GUd, hann vil eg upphefia. Moses seger hier, ad GUD sie sinn

Stirk-

Stirkur, þvi være ecke Gllds Kraptur og Stirkleiki hia oss, i oss, yfer oss, og med oss, og værum vier ecke iñelukter i Gllds Krapte, þa mættum vier verda sem Dupt fyrer Vindi, og hverfa sem einn Skugge, þarfyrer seger David: Psal. 39. Hversu alldeilis ecke neitt eru aller Menn, sem lifa þo so andvaralaust, þeir gaanga fram lijka sem einn Skugge: Eñ framar seger Moses: Drottenn er mitt hiaalpræde; sem villdi hann segia, Glld er mitt Riettlæte i giegn Syndenne, miñ Stirkur a moote mijnum Breiskleika og vanheilendum, mitt Hæle i allri Assookn, mijn Gledi i allri Hrigd, og mitt Lijf midt i Daudanum. Skylldi þad þa ecke vera tilheyrelegt Gllds Elskuleg Børn, ad prijsa þann og vegsama, sem Madur fær so miked gott af? hvar finna Meñ soddann eiñ Glld, hia hverinn ad er so stoort Hiaalprædi, hver ad er so megtugur, ad hann uppehelldur og ber Himen og Jørd, og Helvijti skielfur fyrer hønum og bifast? Hann sem ad er eiñ so hroosunar verdur Glld, ad allt þad hañ hefur giordt, er miog lofsverdt: Himen og Jord eru full af hans Dyrd, og allt þad sem lifer prijsar hañ og vegsamar sem siñ skapara: Hann giører so daasamleg Verk, hañ er sa sem af eingu kañ ad giora nockud, af Myrkrenu Lioosed, af Syndunum Riettlæted, og af Daudanum Lijfed. Hann liet

siñ einka Son verda Mannsens Barn, so vier kynnum ad verda GUds Børn; hann liet hañ lyda þær hørdustu Pijsler, so vier mættum fa ad nioota þeirrar eilijfu Glede: Hañ leit hañ verda þann allra forsmæanlegasta a medal Mannanna Barna, So vier kyñum ad komast til Æru: Hañ liet hann deya, so vier skylldum lifa: Hañ sem byr i oss, hvern aller Himnanna Himnar kunna annars ecke ad innelykia, hañ giorer vorar Saaler odaudlegar, og tekur þær epter Daudann til sijn; hañ mun og uppvekia vora Lijkami af Dufte Jardar, til þess eilijfa Lijfsens, og i færa þad daudlega odaudlegleikanum. Er nu ecke soddann einn GUd og Drottenn; allrar Æru og Lofs verdur? vissulega er hañ þad. Lofa þw þar fyrer Drottenn Saala mijn, og allt hvad i mier er, hans Heilaga Nafn.

Ja, so er GUd i allann maata Lofs og Æru verdugur, ad hañ er vegsamlegri og dyrdarlegri eñ øll sw Æra og Vegsemd sem hønum kañ ad veitast: Hañ er prijsanlegre og lofsverdugri, eñ allt þad Lof og Hroos, er hønum kañ ad tilleggiast. Hann er upphafenn yfer alla Blessan, Prijs og Lof: Þegar vier tignum GUd mikelega, þa er hann þo i oenndannlegann, oseigianlegann, og ouppþeinkianlegann maata, hærri, loflegri og dyrdarlegri: Allt hvad ein skøpud Skiepna

na kann, annadhvert med Ordum ad tala, edur Hugskotenu ad grunda, er ad reikna a moote GUDs Haatign og Verdugleika, sem einn Drope imoot Hafenu, sem eitt Sandkorn imoot allri Verølldenne, edur so sem ecke neitt a mooti øllum hlutum. O þad grunnlausa Diwp GUDs Hæætignar, Maktar, Vysdooms og Speke, hvad alldeilis ogrypanleger eru hans Veger, og orannsakanleger hans Doomar: hver hefur um̃ alldur þeckt Sinne Drottens, og hver hefur nockurn tijma hønum nockud fyrergiefed? af hverium, fyrer hvern, og vegna hvers ad aller hluter eru? Hver kann ad wtsegia hans miklu Giørninga og noogsamlega ad prijsa hans Dyrd, Vegsemd og Majestet? þar fyrer þegar þeir Heiløgu vilia lofa og vegsama GUD, þa forundra þeir sig meir yfer hans Giæsku, Haatign og verdugleika, enn þeir kunne ad prijsa han̄ þarfyrer noogsamlega, eda so sem hønum hæfer; Þeir hafa meire Vilia og gyrnd þar til, enn þeir kunna ad frammkvæma i Verkenu: GUD virder vel Veikleika þeirra trwudu af sinne føđurlegri Giæsku i Christo JEsu, og tekur viliann fyrer verked; mun og einnen i ødru Lijfe giefa þeim krapta til ad frammkvæma þad fullkomlegar. Þegar þad ofullkomna mun aflaata, þvi vier siaaum nw GUD fyrer einn Speigel i Raadgaatu,

tu, enn þa munum vier sioa hann Auglíti til Auglytis.

J siøndu grein skal þad og einnen hvetia oss til ad heidra og vegsama Drottenn, ad þad er i sialfu sier kostulegt og loflegt. Þad er þad besta vier kunnum ad giøra, og fyrir hvert vier verdum liiker GUds Heilögum Einglum; hvar um siidar i næst eptirfylgiande Capitula mun sagt verda.

J siydasta maata skal og einnen þar til afysa oss, sa Skade og Olucka sem vier hofum af þvi, ef vier forsoomum ad lofa og priisa þan allra hædsta; og þar þvert a mooti, þad heilsusamlega Gagn og Nytsemi, sem vier hofum þar af, ef vier i sannre og alvarlegre Jdran, innelega og kostgiæfelega lofum Drottenn. Sa sem ecke heidrar lofar og vegsamar Drottenn, hann er oþacklatur vid GUd sinn Skapara: Enn af Hwse þess Oþacklæta mun Oluckan alldrei viikia: So tekur og GUD siinar gaafur fra þeim Oþacklaatu; Þioonenn sem syner Oþacklæte Firer þad Pund, sem honum hefur lient vered, hañ fær ad missa þad, GUd vill ecke kasta siinum Perlum fyrer Svyn, nie siinum Helgedoome fyrer Hunda: Matt. 7. v. 6. Og ef ad sliiker oþacklater og ogudleger Menn bizhallda enn þa epter nockrum GUds Gaafum, þa verda þær þeim ecke til hins besta, helldur til hins versta; þeirra Bord hlyt-

ur ad verda fyrer þeim til Snøru og tilfalls, Psal. 69. v. 23. Pad hlytur ad verda fyrer þeim til Bølvunar og Olucku.

Hier þvert a moot, sa sem i sannre Idran og yferboot, astundar ad lofa og vegsama GUd, hann finnur og formerker þarmed allt gott. GUd þarf ecke vid vorrar Lofgiørdar, hann verdur þar med hverke hærre nie lægre, hann hefur eingenn Not edur Gagnsemd þar af, helldur vier sialfer, þad er oss til gagns og gooda, ef vier hann vegsømum, og sw Nytseme slær alldrei feyl, hwn innebindur i sier allt gott; þvi sa semi sannre Idran og yferbot tignar og prijsar GUd, hann verdur alltijd meir og meir hluttakande i GUds Naadar Gaafum, hann verdur GUds Heimele og Bwstadur, er alltijd i Naad hia Gudi, verdur alltijd meir og meir upplystur i GUds Kinningu, verdur i allre Neyd og hørmungum af Gude bænheyrdur; smackar i sijnu hiarta GUds Frid og lyf-krøftuga Huggun, situr jafnan under Skioole og Skugga þess almattuga, fær sigur yfer øllum sijnum Ovinum, og yfervinnur um sijder allar Prautter og Motlætingar, hvarum fleirra er adur talad i næst fyrerfarande Capitula; og þar fyrer segia Born Kore i Psalmenum 84. 5. 6. Sæler eru þeir Menn Drottenn, sem bwa i þijnu Hwse, og lofa þig þar æfennlega: Sæl-

er

er eru þeir sem hallda þig fyrer sinn Stirklei-
ka, og ganga epter þier af Hiarta.

# Cap. XLIII.

## Ad þad sie eitt kostulegur Hlut-ur ad lofa og prijsa GUD, og Mann-enum ein eingelsleg, og hin yppar-sta Vegsemd.

Psal. 92. 2. &c.

Þad er einn kostulegur Hlutur ad þacka Drott-ne og ad syngia þijnu Nafne Lof, þu hinn hædste. Ad Morne þijna Miskun og ad Kvøllde þinn Sannleika ad kunngiøra. Uppa tin Streinge og Psalltara, med Hør-pu slætte. Þviad þu Drottenn lætur mig gladværann syngia wt af þijnum Verkum, og eg hroosa Verkum þinna Handa. Drott-enn hvernen eru þijn Verk so stoor? þijn-er Þankar eru so miog diwper. Eirn oær-legur Madur trwer þvi ecke, og sa Heim-ske acktar þad ecke.

Sex eru þeir Psalmar i Psalltaranum sem hafa þa Yfirskrift, ad þeir kallast Gillene Clenodium, nefnelega sa 16.56.57.58.59 og 60. og a sw Yfirskrift ad vera til þess, ad minna oss a þad, og koma þvi i vorn Skilning, ad þad sie einn agiætur og kostulegur Hlutur, ad lofa og prijsa Nafned Drottens, og ad GUds

Lof

Lof og Prijs, og Bæn einnrar trwadrar Saalar, sie ein andleg og Himneſk Prijdi og Clenodium, og Mannſinns ypparſta Æra og Vegſemd. Annars kunna og einnen eptꝛ erfilgiande Greiner ad Syna, ad þad ſie eiñ koſtulegur og agiætur Hlutur ad lofa og vegſama Drottenn.

Sa ſem lofar og vegſamar GUd, hann hefur einn diarfann Adgang til GUds, og kann med ſtoorre Hugarhreiſte frammfyrer hann ad koma; þvi þar ſem hann heidrar GUd, þa vill GUd alltijd lijta til hans i Naad, og heidra hann aptur a moot; þvi GUD lætur ſig alltijd finna af þeim, ſem leita hans af øllu Hiarta. Þarfyrer ſeger Spaamadurenn, þegar hañ er ad aminna ſoddann Manneſkiur ad koma fram̃ fyrer Drottenn: Þad geingur agiætlega vel, og prydelega til fyrer Drottne, þad geingur vollduglega og loflega til i hans Helgedoome: Þier þiooder, færed hingad Drottne dyrd og makt: Færed hingad Drottne Dyrdena hans Nafns, og tilbidied Drottenn i heiløgum Skrwda. Pſal. 96. v. 6. ꝛc.

J annann maata verdur madurenn, nær hann lofar og vegſamur GUd, lijkur þeim Heiløgu Einglum, ſem alltijd ſtanda frammefyrer hans Stoole, lofa hann og vegſama og reikna ſoddann fyrer ſijna ædſtu Vegſemd.

Eg

Eg er Gabriel, sem stend framme fyrer Gude, sagde Eingellenn til Zachariam. Esajas sier og heyrer i einne syn, ad þeir heilögu Seraphim, Hroopa til Drottens med birgdum andlitum segande: Heilagur, Heilagur, Heilagur er Drottenn Zebaoth, øll lønd eru full af hans Dyrd. Esa. 6. v. 3. Lofed Drottenn þier hans Einglar, seger David: Psal. 103. 20. 21. Þier øflugar Kiempur; sem hans Erende wtrietted, so ad heyrest Rausten hans Orda; lofed Drottenn allar hans Hersveiter. Daniel sa þwsund sinum þwsund Eingla, sem þioonudu Drottenn og tiu þwsund sinnum tiu þwsund, sem stoodu framme fyrer hønum og vegsømudu hann. Dan. 7. v. 10. Og slikt hafa þeir giort fra upphafe Heimsens, so ad Drottenn spir þar fyrer Job ad, segande, Job. 38. v. 4. 7. Hvar varstu, þa eg lagde Grundvøll Jardarennar, og Morgunstiørnurnar hver med annare Lofudu mig, og øll GUDS Børn gløddu sig? Þeir munu og giora hid sama ad eilijfu: Þeir kunngiora alltijd og alla tijma HErrans Dyrd og Æru: Þeir bæde sia jafnann, og munu sia Fodursens Andlit, sem er a Himnum: og þarfyrer bidium vier ogso i vorri **Fader vor;** verde þinn Vilie so a Jørdu sem a Himne.

Þar fyrer ef ad vier i sama maata lofum og prisum GUD kostgiæfelega af Hiarta, þa epterfilgium vier þar med, þeim Heilögu Einglum, og giørum einn Eingla-Giørning.

Þegar

Þegar HErrann Christur i GUdspiallenu, wtmaalar tilkomande vegsemd þeirra wtvol-du i ødru lijfe, þa seger hañ, Matth.22.v.30. ad þeir mune verda lijka sem Einglarner, Luc. 20.v.36. J hverium ordum, hañ hefur viss-ulega tillit til Vegsemdar vorra forklaarudu Lijkama; hañ alijtur þær ypparlegu og eing-ilalegu Gaafur, med hverium GUd vill sijdar-meir prijda þa wtvøldu, fyrer hveriar þeir munu ei einasta verda sem Einglarner, helld-ur og einnen lijker Christi eigenn forklærud-um Lijkama, hvar uñ Johannes og einnen talar, þar hañ seger; þad er enn nw ecke op-ennbert, hvad vier munum verda; eñ vier vit-um, ad þegar þad verdur opennbert, þa mu-num vier verda hønum lijker, þvi vier mun-um siaa hann, so sem hann er. Jafnframt þessu hefur Christur og so i sømu ordum, Tillit til þess, ad vier munum þa og so i Verkum og Athøfnum verda lijka sem Einglarner; hvar fyrer þad er og so naudsinlegt fyrer oss, ad vier i þessu Lijfe stundum epter þvi, ad verda þeim lijker. Þvi lijka so sem eingenn verdur Christo sijdarmeir lijkur, nema hann verde hønum og so hier lijkur; þad er, trwe a hañ, life i hønum, og epterfilge hønum, i Aud-mykt, Hoogværd, og ødru þvi sem vier eig-um af hønum ad læra til epterbreitingar; epter þvi saaluhiaalpar verk vort, ma ecke

ødru viise afleidast enn so, ad þeir verde liik er Imynd þess Hoogværa, Audmiwka, Polennmoda og Krossfesta Christi, sem i ødru Liise vilia hans, dyrdarfullu og vegsamlegu Imynd liiker verda. Eins liika verdur eingenn Einglunum liikur siidar meir i ødru Liise, utann hann birie þad og so i þessu Liise þeim liikur ad vera, hvert ecke einasta skie kann almennelega fyrer eitt heilagt og gudlegt Framferde; helldur og einnen sierdeilislega, i þvi, ad Madur giarnsamlega og af alud lofe og pryse GUd; þvi þad er Einglanna Verk og Embætte, so sem vier adur heyrt hofum, ad þeir oaflatannlega lofa og vegsama GUd. Þar fyrer hver hañ lofsuglega og i sannre Audmykt, lofar og vegsamar GUd, hann giører einn Eingla-giørning, og verdur reiknadur i tølu þeirra sem eins og Einglarner þioona Gude og veita hønum Æru. Hvad kann ad vera pridelegra og ypparlegra eñ þad, ad ein breisk og syndug Manneskia ma nioota þeirrar Æru, ad hwn med innelegre og hiartannlegre Lofgiørd og þacklæte vid GUd, frañkvæmer Verk og Giørning eins Eingels, og so sem þeir himnesku Furstar, veiter Æru og þioonkan siinum Drottne Gude og Skapara.

I þridia lage er þad og einnen i þann maata einn kostulegur hlutur ad lofa Drottenn,

enn, ad Madur verdur þar med ad Verkfære Gllds, og so sem hans Harpa og Hliodfære, sem giefur af sier fagrann Toon, og listelega stemmu, hvar med Heilagur Ande wtbreider Gllds Lof og Prijs. Soddann verdur oss i Openberingar Bokini 14. Cap. þar med afmaalad, ad Johannes sa eiñ mikenn Skara sem filgde epter Lambenu, og þeirra raust var sem eins hørpuslagara. Pad var og so fyrermindad med þeim margføldu Hliodfærum i Gamla Testamentinu, um̃ hver Spaamadurenn talar; segande, Psal.150. v. 3.4.5. Lofed Drottenn medur Bæsunum, lofed hann med Pſølturum og Hørpum, lofed hann med Bumbum og Dansleikum, lofed hann med Streingium og Pijpum ꝛc. Soddann merker Heilags Anda margfalldar Gaafur, hvar med Gllds Nafn, Lofgiord, Æra, Pysdoomur, Velgiorningar, og daasemdar-verk wtbreidast; þvi i stadinn fyrer slijk saunglistar Hliodfære, verdur oss i þvi Nia Testamentinu skipad, ad brwka andlegar Hørpur og Psalltara, Gllds Lofgiordar. Hier med merkest þad einnen, ad sialfer þeir froomu og trwudu eige ad vera so sem Gllds andleger Psalltarar, Hørpur og Gyur: Pvi lijka so sem eitt Hliodfære er Mannsinns Verkfære ad Spila uppa, so er og einnen Saala Mann-

sinns þad HeilagsAnda Verkfære, fyrer hvert, og i hveriu hann verkar og frammfærer GUds Prijs og Lof: Þarfyrer stendur i Psal. 8. v. 3. Af Munne Barna og Brioistmylkinga hefur þu þier Lofed tilbwed: Hvernen kan Mañs sinns Hiarta, Munnur og Saal ad ødlast stærre Æru og Vegsemd en̄ þessa; ad vera Instrument og Verkstofa HeilagsAnda; hvert ad skiedur, þegar Madureñ lofar og vegsamar GUd innelega: þarfyrer aminner oss og ein̄en H. Paall, ad vier skulum uppfillast af Anda; syngia og spila fyrer Drottne i vorum Hiørtum.

J fiorda og sijdasta maata, er Yppar-legleike GUds Lofgiordar i þvi innefalenn ad Madur med henne ødlest miked gott, verdur uppfilltur med GUds Anda, Speke, og Vysdoome, yfervinnur alla sijna Ovine, og eider þar med um̄ sijder ollum sijnum Raunum, so sem adur er kient i þeim 41. Cap. Item ad madurenn med soddann moote finnur þa hæd-stu andlegu Glede, og Forsmeck af eilijfu Lijfe, hvar um̄ og so adur er talad. Þad meinar og so Spaamadurenn, þegar hañ kiemst so ad orde: Psal. 92. v. 5. Drottenn þu lætur mig syngia med Gledi wt af þijnum Verkum, og eg hroosa Verkum þina Handa.

Ad gledia sig i Gude er ein merkeleg Hlutdeilld af eilijfu Lijfe, og GUds Ryke hid inn-

ra

ra med oss, sem er Fridur og Føgnudur i Heiløgum Anda. Sa sem vill hafa Smeck af eilijfu Lijfe, og himneskum Paradijsar Fognude, hañ kañ daglega þess hluttakande ad verda, med þvi moote, ad lofa og vegsama Drottenn; þvi þegar Madurenn lofar og prijsar GUd innelega af Hiarta, þa gledst hañ þar af i insta Grunne Saalarennar, hver hiartans Fognudur i Andanum og Trwnne, er uppbiriun, og so sem firste groode af Glede eilijfs Lijfs, sem aller wtvallder a Himnum munu fa og odlast, þegar þeir um alla eilijfd smacka hvad sætur og vingiarnlegur ad Drottenn er; fyrer þeim mun þa vera gnoott Fagnadarens og gledelegt Lijf til GUds hægre Handar eilijflega. Psal. 16. v. 11. Sa sem slijkt vill fa og odlast i odru lijfe, hañ skal fyrer daglega GUds Gofgvan og Lofgiørd so skicka sier, ad Uppbiriunen þar af meige koma i Lioos, og syna sig hia hønum i þessu Lijfe. Hver hann hefur i þaanka ad komast i Samkvæme Heilagra Eingla, og allra wtvalldra epter þetta Lijf, og lifa sijdann hia Gude i eilijfre Glede, hans Saal ma endelega hier i þessu lijfe lofa Drottenn, og bidia hann innelega ad hann late alldrei sitt Lof wtslettast af sijnu Hiarta; hañ gange nw med trwarennar Lofgiørd i Samkundu þess sigre-hroosande Safnadar, so

hañ um̃ ſijder kunne og ſo ad giora þad i Skod-
unarennar Lofgiord og Hrooſan eiliiflega:
Hvad GUd virdeſt oſſ ollum ad veita fyrer
JEſu Chriſti ſkulld. Amen.

# Cap. XLIV.

## Um̃ Þoleñmædena, fyrer hveria meñ eiga ad yfervinna allt Mootlæte, og þreija ſo epter þeirre Dyrd, ſem oſſ er fyrerheiten.

Hebr. 10.

Þolennmæden er ydur naudſynleg ſo ad þier
giøred Vilia GUds, og bijhallded Fyrer-
heitenu.

SOnn og Chriſteleg Þolennmæde, er ſodd-
ann ein Dygd, fyrer hveria vier, i oll-
um þeim Hormungum, ſem ecke kunna med
leifelegum Medolum ad um̃flyaſt, giefum oſſ
under GUds naadugann Vilia, og laatum
hann giarnann ſkie og fullkomnaſt i oſſ, og
lijdum helldur alla hlute, eñ ad vier moglum
a moote Gude, eda føllum fra honum.

Høfud-orſok til þeſſarar Dygdar, er
GUds Raad og Vilie, fyrer hvern vier erum
under Kroſſ og Mannrauner ſkickader fyrer
fram̃, epter þvi ſem þar ſtendur i Piſtlenum
til Romveria 8. Cap. v.29. Hveria hann hefur
adur

adur fyrerhugada, þa hefur hann og tilſkickad, ad þeir ſkylldu verda ſamlijker hanns Sonar Jmynd. Þarfyrer, lijka ſo ſem ſa goode GUd fyrerhugade ſiñ Son til kroſſenns og piijſlanna, og villdi endelega viigia hann med Pijnunne; ſo hefur hann og ſo tilſkickad øllum Sønnum Chriſti Limum Kroſſ og Motlætingar, añars kynnu þeir ecke ad vera Chriſti andlegur Lijkame. Hañ hefur tilſkickad, meted, og afmællt þeirra Kroſſ og Mootgang, og hvad miked hver ſkilldi lijda. Þarfyrer kañ einginn ſoddann ad uñflya, miklu ſijdur med Oþolennmæde af ſier ad hrinda; helldur ſkyllde Madur bera ſig ad med Þolennmæde og uñburdarlinde ad mykia Kroſſenn, og fyrer Chriſtum hañ ad yfervinna.

J annann maata meigum vier þeſſvegna laga oſſ til Þolennmæde, ad Heimſens Ender naalgaſt miøg ſo, og er fyrer Hende. Og med þvi þad lijdur under Kvølld Heimſens, þa vill Ranglæted epter ordum Chriſti, Matth. 24. v. 12. hafa yferhønd, og Kiærleikurenn kolna: Hvers vegna þeir GUdhræddu verda margt ad þola, og wtſtanda allra handa Oriett, Ofſokn og Yfergaang; ja marger af þeim hliioota Lijfed ad miſſa, þvi aller þeir ſem gudlega vilia lifa i Chriſto JEſu, þeir hlioota Ofſókner ad lijda, ſeger H. Paall, 2. Tim. 3. og ſialfur HErrañ Chriſtur ſeger, Joh.

15. og 16. fyrer siinum Læresveinum, ad vegna Sannleikans og Riettlætessens verde þeir ad lijda Offokner og Hormungar. Og oll Opennberingar Bok Johannis vottar, ad Antichristurenn munne offækia GUds Christni allt til siidustu tilkomu Christi, og þa mune um siider Strydenu alldeilis linna, og Drekanum med siinum Fals Postulum, verda kastad i þad brennande Dyke Helvijtes.

Þar fyrer skal eingenn ætla uppa gooda daga, a medann hann lifer i þessum Heime, edur vænta epter þvi hier, ad hañ mune fa ad bada i Roosum; helldur skal hann bidia GUd ad giefa sier Naad H. Anda þar til, ad vera Polennmoodum, hvad sem uppa kunni ad falla.

J þridia maata a vor Polennmæde ad styrkiast med Vonenne, fyrer hveria vier erum visser um vora eilijfa Saaluhiaalp, og ad allt vort Efne mune a siinum tijma lagfærast, og hvad vier mist hofum, mune oss aptur betalad verda. Lijka sem Akurkallenn vænter epter Hauststirkiunne med goodu Umburdarlinde, og Jdrast þess ecke, þo hann hafe haft þwngt Erfide, helldur vonar epter þvi, ad oll hans Mæda og Omak mune honum med stoorum Abata launad verda, so sem Postulenn Jacob þar um talar. Jac. 8. So skal

skal og hver Christenn=madur eignast sijna Saal med Polennmæde, og trwa þvi fyrer vijst, ad sw mikla og almennelega Kornskiera a sijdasta Dege, myne þad allt aptur upprietta, bæta og betala, sem hier missest og tapast; þo ecke missest, riett ad segia, helldur nidursaaest, og plantast: Þvi so sem Akurmadurenn misser ecke þarfyrer sitt Sæde, þo hann kaste þvi i Jordena, helldur saaer hann og plantar i Vonenne; so skalltu ecke helldur meina, ad þw misser Lijf, Æru, Goots og annad þess slags, sem fra þier verdur teked, helldur ad þw saaer þvi nidur, og planter þad og maattu þvi vera viss um̃ þad i Vonenne, ad þw i þeirre stooru Haustyrkiu sem koma mun iñannskam̃s muner oaflaatannlega uppskiera; þarfyrer samlijker sa 126. Psalmur Davids vorum Krosse og Hørmungum vid Saadtijma, þar so stendur; þeir sem nidursaa i Taarunum munu med Gladværdinne uppskiera; Þeir gaanga wt grææande og bera agiætt Sæde; þeir koma med Føgnudi og bera sijn Bindena.

I fiorda maata a tilkoma vors Lausnara JEsu Christi til Doomsens, ad styrkia vora Polennmædi, þviad i hans tilkomu munu allar vorar Rauner og Mootlætingar taka Enda, og snwast i Fognud, og þa mun hver einn faa sitt hroos hia Gude; þa mun og so

GUds riettferdugur Doomur gaanga yfer alla vora Ovini: mijn er Hefnden, eg vil endurgiallda, seger Drottenn, Rom. 12. v. 19. Þesse tilkomudagur vors Herra er ecke lavngt i burtu, þvi Doomarenn er fyrer Dirum, seger Postulenn Jacob 5. v. 8. 9. Vor Hormungar Tijme er hia Eilijfdenne, sem eptir kiemur, næsta stuttur, og ecke mun laangt ad bijda epter Frelsenu.

J fimta maata eiga GUds Fyrerheit og eilijfur Sannleike, ad stadfesta og efla vora Polennmæde, og stirkia vor Hiortu, so þau verde ecke efasøm: Þvi lijka so sem Menn binda stittu vid eina graüna og nijvarna Eik, so Vindurenn brioote hana ecke i Sundur; og þegar Stormvidre uppa kiemur i Sioo-ferdum, kasta meñ wt Atkerum, so skiped verde fast, og þvi sie ohætt; eins eigum vier ad binda skialfande Eyk vors innra Manns vid staf og Stittu GUds Orda, og stødva Stipkorn vors Hiarta, sem vellteft i bilgium Freistinganna, med Atkere Vonarinnar, so þad bile ei, nie forgange. Heb. 6. Hvad mørg GUds Fyrerheit høfum vier þar um, ad hañ vilie veita oss Stod og stirk i Neidenne? hvad mørg Eptezdæme uppa hans undarlega Hiaalp og Frelse? Hvad mørg og oteliandi Raad og Medøl hefur GUd, þegar aliggur? Hversu opt hefur hañ hialpad i Soottum og Siwk-

doom-

doomum? 1. Reg. 5. Hverſu opt hefur hann frelſad fra Hwngurs Naud? 2. Reg. 7. Hvad mørgum ſiñum wr Stryds Faare, 2 Chron. 14. v. 12. og ovina Hondum? 2 Chron. 20. 22. GUD kañ ad ſemia Frid a millum ſtrijdande fiandmaña; Hañ kañ ad giora af einum Offoknara Vin og velgiørda Fødur, ſo ſem hañ ſyndi merke til a þeim offafulla Saul, hverium hann ſnere. Act. 9. Hvad opt hefur GUD hruñded um̃ koll og hindrad Ovine þeirra Froomu, og um̃vellt bloodgijrugum Raadagiørdum̃ Ogudlegra, ſo þeir hafa eige neitt megnad, a moote GUDs-børnum? Herodes ſookte epter ad mirda JEſum, enn Daudenn kipte hønum ſkiootlega i burtu, ſo þar komu þeſſar frietter, þeir eru dauder ſem leitudu epter Lijfe Barnſins; Matth. 2. v. 20. Adurenn Pirnarnir voru fullvaxner a Bwſkenum, upprikte GUDs Reide hønum; Saul Køngur villdi, ſo ad ſegia, uppſvelgia David, og hafdi hartnær um̃kyngt hann, ſo hann ſkillde ecke ſleppa; eñ GUD kallade hann i burt fyrer einn Sendeboda, 1. Sam. 23. ſem kunngiørde hønum ad Philiſtæi væru fallner inni Landed. Hia Joh. 7. ma þad leſa, ad Preſta-Hofdingiarner gaafu ſijnum Sveinum þa Bijfalning, ad þeir ſkilldu grijpa JEſum, og faanga hann; enn ſem þeir heyrdu hans Predikun, fiellust þeim

bæde

bæde Hugur og Hendur, og kunnu eckert ad giora. Stundum slær GUd Ovinina med Blindleika, so sem vier lesum i Loths, Elizæi og Athanasij Historium ad skied hafe. Gen. 19. 2 Reg. 6. GUd hefur einnen Fiollda Eingla, sem taka vara a þeim trwudu, og filkia sier i kringum þa; fyrer hveria þeir verda opt daasamlega frelsader, so sem vier hofum Dæme til a Petre Postula, Giorn. B. 5. og 12. Cap. v. 11. Hvad undarlega vard Postulenn Paall frelsadur, þar ed siw ogudlega Raadagiord sem hans Oviner bruggudu honum a moote, vard opeñber? Giorn. B. 23. v. 16. Ad sijdusta frelsar GUd sijn Børn fyrer tijmannlegann Dauda, og þa hefur øll þeirra Armæda enda.

J siøtta maata munu þeir Riett trwudu so rijkuglega huggader verda, af sijnum Sorgum i ødru lijfe, ad þeir munu ecke vilia taka øll Heimsins Giæde og Begsemd, fyrer þa Eymd og moottlæte, sem þeir hafa hier wtstaded: Sæler eru þeir sem harma, þvi þeir munu Huggader verda, Matth. 5. v. 4. seger Christur. Einnig stendur i Opinnberingar Bokeñe 21. og Esa. 25. ad GUD mune þerra øll Taar af Augum vorum. Enn hvernin mun GUD kunna ad af-þerra þijn Taar, hafer þw alldrei af Hiarta graated?

J siø-

J siøunda maata skulum vier lijta til Epterdæmanna. Vier erum ecke einer til þess kvadder af Gude ad lijda mootlæted: Adrer Heilager hafa og so matt lijda. Abel maatte lijda miked, lijka so Noe, lijka so Abraham, lijka so Jsaach, lijka so Jacob, lijka so Joseph, lijka so David, lijka so Job, og adrer fleire. Um þañ Gudsman Mosen vitnar H. Ritning, Deut. 12. v. 3. Ad hann hafe vered miøg hoogvær Madur, framar øllum Mønnum a Jørdunne: Enn hversu opt møglade þo Foolked a moote hønum, þraattade vid hann, og villde grijta hann? enn hann tiede sig þo jafnann hoogværann aptur a moot; talade vingiarnlega vid þa, bad fyrer þeim, og æskte helldur ad verda afmaadur af Bok þeirra lifendu, enn ad þeir skilldu fortapast, Exod. 23. 32. Eins lijka þott Elias være offooktur allt til sijdasta, fieck hann samt med Bæn af Gudi, ad frioffsamt Regn skillde koma aptur yfer allt Landed. 1.Reg. 18. 45. Um Spaamannenn Micheam stendur skrifad, ad hann hafe fyrer augum Kongsens Achab og Josaphat smaanarlega a Kinnvangann sleigenn vered, og þar med i Mirkvastofu settur, 1. Reg. 22. 24. 28. eingu ad sijdur varade hann Køngenn vid sijnum Skada. Esajas var fyrer sijna trwa Þienustu med einne Søg i sund-

ur-

urſkorenn. Hvad þwnglega plaagadur Madur hefur Jeremias vered? Jerem. 15. v. 10. Danieli var kaſtad i Leona Grøfena. Dan. 6. v. 17. Hvernen geck þad fyrer Johanni Skyrara? hann maatte fyrer Umtølur og Aeggian einnrar Hooru verda ſettur i fangelſe, og haals-hoggvaſt. Matth. 14. v. 10. Hvad leid ecke Poſtulenn H. Paall? 2. Cor. 11. v. 23. ꝛc. og hiner adrer Poſtular Drottinns. Hverſu grimmlega hafa þeir Heilogu GUds Piiſlar-vottar kvalder vered? leſtu þar um þw GUds Barn, Piſtelenn til Hebræos 11. Cap. ſem og 2. Bok Maccab. 5. 6. 7. Cap. ſpir alla þeſſa ad, um hvada Veg þeir eru geingner inni GUds Rijke, og munu þeir ſvara; *Hørmwnganna Veg*, Giorn. B. 14. v. 22.

Uñ þennann Vegenn hefur og ſo ſialfur Drottenn JEſus geinged til ſiñar Dyrdar, þar fyrer ſeger H. Petur, 1. Pet. 2. 23. *Chriſtur hefur fyrer oſſ lided og oſſ eitt Epterdæme epterlæted, ad vier ſkylldum filgia hans footſporum, ſa ecke formællte i giegn þa hønum var formællt, ecke ognadi þa hann leid, enn hann yfergaf þad hønum ſem Riettdæmer.* Hans Polennmæde var ſo ſtoor, ad þoott Soolen i hans Piinu formyrkvadeſt, og kinne ecke ad ſia uppa ſo ſtoort Raanglæte; og þoott Jorden ſkilfe, og klettarner Sprynge i ſundur, Luc. 23. 44. ꝛc. þo ſamt klagade hañ
ecke

ecke yfer sijnum Ovinum, edur liet merkia a sier eitt hid minsta Ovolenmœdennar Ord eda vidmot, helldur bad hann fyrer sijnum Ovinum, og villde giarnann giøra þa somu lifande, sem twthelltu hans Bloode. First Gud tiptar hvern þann Son sem hann elskar og ad sier tekur, Hab. 12. þa hlytur þw Madur annad hvert af honum tiptadur ad vera ellegar þw kant ecke ad vera hans Barn: Þessvegna villde ecke sa Himneske Faderenn, ad siñ einka Sonur, sem þo var i allann maata Syndlaus, skyllde vera fyrer utann allt Straff og Refsing: Nw med þvi Gud tiptade siñ verulega og Eingetna Son, i hverium eingenn Sind var; hvert meinar þw þa, ad þw muner komast hia allre Hirtingu og Straffe, sem ert einasta af Naad ordenn Guds barn og þar ad auke med oteliande Syndum fleckadur? Giefeiñen giætur ad þvi, hvad stoora Þolenmœde og Langlundargied Gud hefur yfer vorum Syndum; skylldum vier þa ecke hafa Þolenmœde yfer hans fodurlege Hirtingu, med hverre hann vill snwa oss til sijn? Verum þessvegna med goodu Giede, og gledium oss, so sem H. Petur seger, 1. Pet. 4. Nær vier med Christo lijdum, uppa þad vier a Openberingar tijma hans Dyrdar meigum med hønum gladiast og fagna.

So

So filger þa i attunda maata sw Huggun hier af, sem a ad hallda oss stødugum i Polennmædinne, ad HErrann Christur hefur med sinne Kvol og Pijnu, helgad og blessad vorn Kross og Mootlætingar, so þær skulu ecke verda oss til Fordiørfunar, helldur til Blessunar, til Lijfs, og til eilijfrar Vegsemdar. Luc. 14. 26. Þvi so sem Pijnan Herrans Christi snerest hønum til Dyrdar, so munu allra Christenna manna Hørmungar i Christo, snwast þeim i eilijfann Fognud.

J niundu maata ma þad styrkia vort Polgiædi, ef vier hugleidum hvad stoor Laun þeir hafa ødlast, sem med Polennmæde hafa Kross og Mootlætingar wtstaded. Þvi þo þeir Heiløgu Pijslar vottar, hafe med hrædelegum Plaagum og Pintingum vered kvalldir allt til dauda, sumum hafe vered kastad fyrer Villudyr, sumer sodner i vellande Vidsmiøre, sumer i bræddu Blije, og adrer eñ þa med ødrum tyrannalegum hætte aflyfader; þa er þo eingenn af oss so ogudlegur og vitstola, ad hann villde nw ecke helldur kioosa þeirra sømu Pyslarvotta Hag, eñ hinna, sem þa hafa pijnt og plaagad. Hver skulldi nw ecke helldur vilia bwa vid Kior þess Faatæka Lazari, eñ þess Ryka mans; vilier þw mitt Barn hreppa Dyrd og Vegsemd med þeim Heilogu

þa

þa hlytur þw og ſo med þeim ad gaanga Veg Mootlæteſens og Poleñmædennar, og þad meinar og einnen Chriſtur þar hann ſeger: Matth. 5. v. 11. Sæler erud þier, nær Menniꝛner hallmæla ydur, og offſookn veita, og tala i giegn ydur alla Vondſku, fyrer mijnar ſaker þo liwgande, fagned þier og vered glader, þvi ydart Verdkaup er nooglet a Himnum. Liſka einnen H. Paall þar hann ſeger, Rom. 8. v. 17. Ef vier lidum med Chriſto, þa munum vier og einnen med hønum dyrdarleger verda, Item: Eg helld ad Mootlætingar þeſſara tijma, ſieu ecke verdar þeirrar Dyrdar, ſem vid oſſ mun opennber verda.

J tiunda maata, ſkal GUds Hiartgrooen Miſkunſeme ſtirkia vora Polennmæde; þvi vier vitum wt af GUds Orde, ad hann gietur ecke gleimt oſſ Eſa. 49. 15. hellduren, mooderenn ſijnu Ungbarne. Hans Hiarta breſtur i ſundur af Elſkunne, epter þvi ſem Jeremias vottar, Jer. 31. So hann hlytur oſſ miſkunſamur ad vera. Hann er ſo trwfaſtur, ad hann freiſtar vor ecke yfer megn. 1. Cor. 10. 13. Vegna ſinnar brennande miſkunſeme tiptar hann oſſ, ecke til þeſſ ad vier ſkulum tapaſt, helldur ødlaſt eilijft Lijf; þvi nær vier dæmuſtum, þa verdum vier af Gude tiptader, ſeger Poſtulenn, 1. Cor. 11. 32. ſo vier fordæmuſtum ecke med Heimenum. Kroſſ og Mootlætingar er einn ſkiær GUds Kiærleike;

hh ke;

ke; og hvert munder þu helldur æskia vilia/ ad lita i Glede og listeseme faa ein ar/ med þeim Rijka sælkiera/ og verda so eilijflega fordæmdur/ ellegar ad þola Kross og Hørmung/ ar um lijtenn Tijma/ og verda sijdann holpenn um alla eilijfd.

Allt þetta upplyser merkelega Pistellenn til Hebræos i 12. Cap. Hvar Postulenn so ad orde kiemst; Lœtum oss hlaupa fyrer Polennmædina/ i þa Orustu sem oss er tilstickud/ og lyta til JEsum þess Uppbiriara/ og Fullkomnara Trwarinnar/ hvered/ þann tijd hann hefde vel mætt hafa Føgnud/ þolde hañ Krossenn/ og acktade forsmæanena ecke/ og sette sig til hægri Handar uppa GUDS Stoole: Minnest a þann/ sem þvilijk Mootmæli i giegn sier af syndugum þolde/ so ad þier þreitest ecke og uppgiefest i ydar Hugskotum/ þvi þier hafed enn nw ecke allt til bloodsins mootstaded i Strydenu mote Syndenne/ og hafed nw þegar gleimt þvi Trwnadartrauste/ sem til ydar seger/ so sem til Barnanna/ Son minn/ vird ei lijtels Typtan Drottens/ og ørvinglast ecke þa þw verdur af hønum straffadur; þvi hverned Drottenn elskar/ þann agar hann/ eñ hvern þann Son sem hann ad sier tekur/ þann strijker hann. Ef þier Tiptunena þoled/ þa frambydur GUd sig ydur sem Børnum; þvi hver Sonur er sa/ þann er Faderenn tiptar/ eige: Enn ef þier erud an Tiptunar/ hvertar hiner aller eru hluttakarar ordner/ þa eru þier

hier Hiaabørn, en ecke Børn. Og ef vier høf-um haft vora lijkamlega Fedur til tiptunar-manna og þa hrædst, skylldum vier þa ecke miklu meir undergefnir vera hinum andlega Fødur so ad vier lifum? Og hinir hafa sann-lega fæeina daga oss agad eptir sijnum Gied-þotta, enn þesse til Nytsemdar, so ad vier ød-lustum hans Helgun. Enn øll Tiptan nær hwn aliggur, þa þikir hwn oss eingen Gle-de, helldur Hrigd vera, enn eptir a mun hwn giefa fridsamlegann Avøxt Riettlætisins, þeim sem þar wti idkader eru.

# Cap. XLV.

## GUds Hugganir verka Poliñ-mædi hia oss i Hørmungunum.

Jacob. 1.

Sæll er sa Madur sem Freistingina lydur, þvi epter þad hann er reindur, mun hann ød-last Lijfsens Koronu, hveria GUd hefur fyrerheited þeim sem hann elska.

LIka so sem GUd hefur inngefed Lækningsdooma, handa lijkamanum, i Naattwr-una; so hefur hann og so gefed hialprædes Medal fyrer Saalena i Ordinu. Og med þvi einginn Manneskia kann i þessum Eymda og Taaradal, ad vera fyrer utann Kross, Hør-mungar, og Mootlæti, þa syneſt naudsynlegt ad vier nemum nockrar viktugar greiner, sem

meiga þiena oss til Huggunar, og leggium þær a Hiartad; so vier kunnum ad setia þær i giegn tilfallandi Freistingum, og lina þar med vorar Þreingingar.

Fyrst ma þad hugga oss, ad vor Hormung kiemur fra Drottne, hver ed deyder og lijfgar færer nidur til helvijtes og þadan aptur; so sem þar stendur 1.Sam. 2.Cap. Aller hluter koma fra Gude, Lucka og Olucka, Lijf og Daude, Faatækt og Audæfe: Drottenn gaf, Drottenn burttok, blessad vere Nafned Drottenns, seger Job i sinnar Bokar 1.Cap. Þad fellur ecke einn Titlingur a Jørd, fyrer utann GUds Vilia, seger vor HErra hia Matt. 10. Item H. Ande hia Esajam 45. Eg Drottenn sem giøre lioosed, og skicka Myrkrenn, jeg gef Fridenn, og tilskicka Oluckuna: Sæll er sa Madur sem af Gude er Hirtur, þarfyrer, fyrerlijt ecke Hirting Drottenns, þvi hann særer og græder, hann slær og hans Hønd læknar þad, af Jobs B.5.Cap. Þarfyrer er þad Daaruskapur, ad møgla a moote þvi, sem einum verdur af Gude uppalagt: Þvi møgla Mennerner so i Lijfenu seger Jeremias; Jer. 3. 39. Hver einn møgle a moote sinne Synd: Betrun Lifnadarens vill GUd hafa, eñ ecke Møgl.

Aunnur vor Huggun ma þad vera, ad þad skiedur ecke af Ovilld, edur Leida GUds til

til vor, ad hann leggur uppa oss Krossenn/ helldur af heitum Kiærleika til vor og fodurlegum Astarþela, uppa þad hann giore oss Saaluholpna; þviad vier i Medlæti og miklum Hollds Vellistingum, kunnum audvelldlega ad tapa Fiestood vorrar Trwar, og missa so Sælu eilijfs Lijfs; þad syner oss þad hrædelega Epterdæme þess Ryka mañs, so sem og dagleg Reinsla a morgum, sem laata Luclu og Velgeingne þessa Heims leida sig alldeiles fra Gude, þad syner oss og einnen Fall vorra fyrstu Forelldra i Paradijs, sem ecke kunnu ad standast þa Vegsemd og Epterlæte, sem þau hofdu, helldur lietu þau þann vonda Satan midt i Farsælldenne pretta sig med sijnum Glisyrdum, og fra GUde leida. Og þott GUd hafe ecke vegna þvilijks Falls, epter sijnu straanga Riettlæte, fordæmt, og fra sier skwfad ollum Monnum i eilijfa Fyrerdæming, helldur miskunad sig yfer þa, og skickad Medol þar til, ad þeirra Velferd kinne ad forbetrast: þa hefur hann þo ecke skiled Kross og Mootlætingar fra soddann Hiaalprædesens Medolum, helldur laated þær filgiast þar med, so sem eitt Medal sem kinne hellst þar til ad þiena: Þarfyrer dreif hann og einnen vora fyrstu Forelldra wt af Paradiis, þeim Gledennar og Vellistinganna Aldenngarde i

Eymdena, ad þau skylldu neita sijns brauds i sveita syns Andlites; og med Hrigd og Armædu vekiast upp til Jdrunar: Eins lijka skickar hann oss imislegar Þrauter og Mootblaastur, so ad epter oss verde reked med þvi moote til ad giora Jdran og Yferboot. Þa vier enn þa i þwsundfaldann maata stiggium hañ, þa er hañ samt so naadugur, ad hann leitar allra bragda vid, ad umvenda oss, og þessvegna heimsæker hañ oss epter sijnu Vysdooms Raade med hørdu Hryse og Ressingu, ad hañ þar med kunne ad hallda oss til alvarlegrar Jdrunar og Guds Otta; og þessvegna seger bæde Salomon i Ordsk. B. 3. Cap. og Postulenn Paall, Heb. 12. v. 5. Hvern þann sem Drottenn elskar, þann agar hann: Þad sama meinast og einnen þegar sagt verdur; 1. Cor. 11. Nær vier dæmustum, þa verdum vier tiptader af Drottne, uppa þad vier fordæmustum ecke med Heimenum.

J þridia maata skallt þw i þijnu mootlæte þeinkia um þijnar Synder, og hvert þw hafer ecke med þeim maklega forþienad soddann Ressing. Nær þw so giører, muntu sialfur þad med audmykt verda ad medkienna. Þarfyrer wtheimter þad Guds Rettlæte, ad Synden verde stroffud; og skule hwn endelega straffast, þa er þad langtum betra, ad hwn straffest hier eñ annars Heims,

þvi

þvi þetta Straffed er tijmannlegt, enn hitt eilijft. Hier huggar GUd einn i Mootlæte-nu, eñ sidar meir er ecke ad vænta nockrar Huggunar um alla Eilijfd; hier miskunar GUd og er naadugur, eñ sijdar meir er einga Naad eda Miskun ad fa ad eilijfu. Peink um þañ Rijka Mann hversu ad hañ hroopade forgefens; Fader miskuna þig yfer mig: Þarfyrer er þad Linun og lietter i ollum mootgaange, ad GUd hefur teked þad eilijfa Straffed fra þier, og snwed þvi til eins lijtels tijmanlegs Straffs.

J fiorda maata skulum vier laata oss til hugar koma i Mañraunumum hvad Drottenn vor Frelsara hefur lided fyrer oss: Hañ leid vorra vegna hina stærstu faatækt og Volæde, so hann hafde ecke hvar hann kinne Høfde sijnu ad adhalla: Hann leid og vorra vegna þa stærstu Smaan og Svijvirding: Var hinn allra fyrerlitlegaste og forsmaanarlegaste, so hañ klagar þar yfer, fyrer mun Esaiæ, segiande, Esa.53. Eg er Madkur enn ecke Madur, Spott Mañanna og Fyrerlitning Foolksens. Psal.22. v.7. Hañ leid og einnen stoora Pianing Hrigd og Angist, sem ecke kañ wt ad segiast: Hañ var fullur af Pijnu og Kvalræde, þar hañ maatte bera allar Mannanna Eymder, Pijsler og Kvalræde; Esa.53. so ad Sool og Twngl formyrkudust þar af, Jørd-

en skalf og Biørgenn brustu i sundur; Matt. 27. v. 51. Soddann leid hann allt samann af so haaleitre Polennmæde, so diwpre Audmykt, og heilagre Hoogværd, ad hann sem eitt Lamb, upplauk ecke sijnum Munne, Esa. 53. v. 7. jafnvel þo hann lide þetta allt saklaus, og fyrer sijna orgustu Ovine, af hreinnre og orannsakannlegre Elsku og Trwfeste. Laatum oss og einnen þeinkia um hans Giæsku og Goodgirne, i þvi, ad þott vier daglega stiggium hann med vorum otelianlegum Misgiorningum; þa helldur hann þo vid sijna Trwfeste, og er alltijd reidubwenn til ad taka oss aptur til Naadar, so opt sem vier snwum oss til hans. Ja være þar Naudsyn til, og ef sw Endurlasn, sem hann eitt sinn hefur wtvegad, væra ecke ein eilijf Endurlausn, þa er hans Elska so stoor, ad hann enn aptur einu sinne villde deya fyrer oss: So hefur hann og einnen Polennmæde vid oss, og bydur epter oss Nætur og Daga, til þess ad vier skulum giora Jdran og Yferboot, þvi hans Kiærleike er so heitur og brennande til vor, ad eingen Synd edur Ohacklæte kann hann ad wtslockva, a medann Naadartijmenn yferstendur, þar sem vier annars vilium giora Jdran: Hans Elska er hærre enn Himenenn, diwpare enn Siooarhafed, og aldeiles oraskannleg. Par fyrer

fyrer kallar hañ oss alla sameigennlega til sijn og seger, Matth. 11. v. 28. Komed til mijn aller sem erwided dryged, og Pwnga erud hlader, eg vil endurnæra ydur. Og hia Esa. 55. v. 1. 3. Hvern sem þyrster kome hann til mijn og drecke: Hann seger og þessvegna til þeirra Jdrunarlausu Gydinga: Matt. 23. v. 37. Jerusalem, Jerusalem, hversu opt hefe eg viliad samannsafna Børnum þijnum, sem ein Hæna safnar Ungum sijnum under Vænge sier. Þvi hann vill ad aller Menn verde sæluhoolpner og komest til Sannleiksens Vidurkienningar, 1. Tim. 2. v. 4. Ad sijdustu kallar hañ sig vorn Fødur, Eph. 3. v. 15. og þecker oss fyrer sijn Born; og þar fyrer kallast aller riettrwader GUds Born: Rom. 8. v. 16. og Christi Born, Hab. 2.

Hafe nw Christur lided so miked fyrer þig, mitt Barn, og kallar þig daglega til sijn, og vill ecke ad þw skuler tapast, skyllde hann þa gleima þier i nockre þinne Hormung, med þvi hañ kallar sig þinn Fødur, Matt. 6. v. 9. medtekur þig fyrer sitt Barn; þa miskunar hañ sig og einnen yfer þig sem einn Fader, vill og einnen þad hafa, ad þw elsker hann, og ottest; ecke sem einn Ovin, helldur so sem einn Fodur. Hvad hann þarfyrer, so sem þinn elskulegur Fader þier tilskickar, þad lydur þw med Polennmæde; og þeink þar um, ad

þad kiemur fra einne Kiærleiksfullre Hønd: Reiknadu GUDS Miskunseme fyrer þijna Saaluhiaalp, og vert viss þar um̃ ad þinn trwfaste Fader mun eckert annad þier uppa leggia, enn þad sem þier kann ad verda til hins besta, og eilijfrar Saaluhiaalpar.

J fimta maata skulum vier hugfesta JEsu Christi huggunarsamleg Fyrerheit, a medal hverra er þetta hia Joh. 16. Sannlega, Sannlega, sege eg ydur, þier munud skijta og grææta, enn Heimurenn mun fagna: Þier munud hryggver verda, enn ydar Hrigd skal snwast i Føgnud. So sem af einu Kornsæde vara upp aptur mørg Korn, so mun og af einne Sorg, kvikna margføld Glede. J Ps. 106. seger Drottenn, Þeir sem nidur sæ i Tæærum, munu uppskiera i Gladværd, þeir gæænga wt grææta nde, og bera agiæt Sæde, og koma med Føgnude, og bera sijn Bindine: Ef ad sa goode GUd kiæme til þijn minn Brooder og Syster, og lofade þier þvi, ad aller þeir Steinar, sem væru i þijnu Hwse, skylldu snwast i Gull og Gim̃steina; hvad grandvarlega munder þw þa vilia safna þeim Steinum samann, og reikna þa dyrmæta. Eins dyrmætann og ypparlegann skalltu reikna þiñ Kross, þijna Eymd og Mootlætingar, og hafa þær kiærar, þvi GUd vill um̃breita þeim i sætann Føgnud, og oumrædelegar Vellistingar,

ingar, so sem þar stendur i Spek. B. 5. Cap. Þeir munu ødlast eitt dyrdarlegt Ryke, og fegurdar Koronu. Þeinktu um̃ Postulans Ord, i Pistlinum til Romveria 8.Cap. v.18. Eg helld, seger hann, ad Mootlæting þessa-ra Tijma, sie ecke verd þeirrar Dyrdar sem sijd-ar meir mun vid oss opennber verda.

J siøtta maatta skalltu hugleida Dæmi Heilagra: Hefur nockurn tijma nockur Hei-lagur Madur, og GUds elskulegt Barn ver-ed fyrer utann Kross og Mootlætingar? spir alla þa ad, sem vered hafa; þeir munu svara þier, Act.14. v.22. Vier erum fyrer margar Hørmungar inngeingnir i Himnaryki: Spir þa H. Eingla ad: Hverier eru þesser sem standa frame fyrer Stoolnum, og Lambinu, og þeir munu svara. Þesser eru þeir sem kom-nir eru ur stoorum Harmkvælum, Opinb.7.v.14. Spir Abraham, Jsaac, Jacob, Joseph, Mosen, Aaron, David, Daniel, Job, og alla Spaamenn og Postula epter þessu; þeir munu allir svara, ad þeir hafe drucked af þeim sterka Krossbikar og Kaleik Drottens. Ps.116. v.13. Ef madur villde einasta lesa og yferve-ga þær hørdu Kvaler og Pintingar, sem þeir H. Pyslarvottar hafa wtstadid, þa mætti hann skielfast þar vid, og Haared mætti, so ad segia, reisa sig uppa hans Hofde, ad so stoor Pyslarvætti, sem þeir hafa wtstaded, þa ha-

fa þo eingeñ þvilijk Kvallrædi kunnad ad snwa þeim fra Christo. Hvad er þad vier lijduin, ad reikna a moote þvi sem þeir hafa lided? þad vegur ecke nærre vid þann tijundu Partenn þar af, vier høfum ecke enn nw strydt allt til Bloodsens, So sem þar stendur, Ebr.12. Þeir hafa fyrer Christi skulld med adskiliannlegum, smaanarlegum, og kvalrædeslegum Hætte vered drepner og myrdter; sumer hafa vered Haals høggnir, sumer gryttir, sumer heingder; sumum hefur vered dreckt i Vatni; nockrir hafa vered krossfester, nockrer steglder, sumer strykter, sumer lifande uppbrender, sumer sagader i sundur, sumer i Helskotner, sumer setter uppa Steingur, sumer hafa ordid ad gaanga med berum Footum a glo͞ande Elldsglædum, og hafa þo reiknad þær, vegna Christi, þeirra Lijst og Glede, og sagt þeir geinge a Roosum. Skylldum vier þa ecke fyrer Christi Skulld, vilia þola eitt vondt Ord, eitt lijted Spott og smaan, og annad þess slags:

J siounda maata skulum vier hugga oss i vorum Krosse og Hormungum vid Gllds Nærveru. Vier lesum hverge nockurstadar, ad Glld hafe sagt, ad hann biggi hia þeim, sem være gladir og listuger i þessum Heime, helldur hia þem hriggvu og sorgfullu, so sem
þar

þar stendur i Esa.57. Eg by, seger Drottenn, i Hædunum og Helgidoomenum, og hia þeim, sem hafa audmiukann og sundurknosadan Anda: Og i 41. og 43.Cap. ottast ecke, þvi eg hefe þig endurleist, nær þu geingur i giegnum Vøtninn, þa vil eg vera hia þier, so ad Straumarnir skulu ecke dreckia þier, og ef þu geingur i gegnum Elldinn, þa skal hann ecke brenna þig. Item i Psal. 91. Sia eg vil vera hie hønum i Neidinni, hønum þadann utrickia, og hann vegsamlegann giøra: Og 34. Psalme stendur so, Drottenn er þeim nalægur, sem hafa sundurknosud Hiørtu. Þegar þeir H. Piislarvottar fundu sætlega Huggun Gllds Nærveru, urdu þeir so friimooduger, ad þeir i siinum stærstu Pintingum og Kualræde spottudu Tyrannana; so sem sia ma i Historiunni af þeim sio Brædrum, i annari Maccabæorum Bókar 7.Cap. og viida annarstadar. Þegar vered var ad steikia hinn H. Laurentium a einne glooandi Rist, bad hañ Tyrannann ad snwa þvi upp sem steikt var og eta. Nær hinn H. Vincentius hlaut ad ganga berfættur a glooande Elldsglædum, sagde hañ, ad hañ geinge a miwkum og velluktande Roosum. Babylas bad, ad þeir Hleckir i hverium hañ var Fiotradur og bundenn, mætte filgiast med hønum i Grøfena, uppa þad hañ yrde ecke sviptur sinne Pryde. Þegar sa H. Ignatius

skyllde

skyllde uppetast af grimmum Villudyrum, oskade hañ þess, ad hann mætte vera fyrer sijnum Frelsara Christo, sem eitt hreint Hveitikorn, nær haun yrde sundurmulenn af Tonnum Villudyranna. Soddann er ecke mannlegur, helldur guddoomlegur Kraptur og Hiarta-pryde: So sem þar stendur um hinn H. Stephanum, Act. 6. ad þegar hañ var aklagadur, hafe hans Asiana vered so sem añars Eingels Asiana: Og þar med uppfilltest þad sem Spaamadurenn seger, Psal.94. v.19. *Mikla Hrigd hafde eg i mijnu Hiarta, enn þijnar Hugganir, þær gløddu mijna Saalu.*

# Cap. XLVI.

## Vigtugar Orsaker til Polennmædinnar, og um Gagn Krossiñs og Mootlætingana.

Jac. 5. v. 7.

*Vered þolennmooder Kiærer Brædur, allt til Tilkomu Drottenns. Siaed Akurmadurenn væntir agiætlegs Avaxtar Jardarennar: Pad þolennmoodlega ummlydande, þar til hann fær Morgunregn og Kvøldskwrer.*

POlinnmæden er soddann ein Dygd, fyrer hveria ad Madurenn i Krossburdenum bijdur med audmiukri Hlydni og Undergefni epter sijnum Gudi, felur øll sijn Efne, i hans gudd-

guddoomlegann Vilia, Forsion og Almætti; og fyrerskrifar honum eingann vissann Tijma, Stad, Adferd, edur maata, helldur gefur sig olldunges under hans miskunar Valld og Velþoknan: Til soddan Polennmæde skulu epterfilgiande Orsaker, oss afysa og upphvetia.

Fyrst ad allur vor Kross og Mootgaangur, kemur fra Drottne: Þvi þo ad Mootlæted og Hermungarnar falle oss uppa fyrer Tilstudlan Diøfulsenns og hans Verkfæra; þa skiedur soddann þo ecke af Hendingu, helldur af GUds sierdeiles Forsioon, og tilskickan: Hia Es. 45.Cap. seger Drottiñ, Eg giøre Lioosed, og skicka myrkren, eg gef Frid, og skicka hid Vonda; eg er Drottenn, sem giøre allt þetta, og i 1.Sam. B.2.Cap. stendur so, Drotten deyder og lijfgar, fører nidur til Helvijtes, og þadann aptur: Hvad villtu þa hier vid giera, villtu þraatta vid GUd, og strijda honum a moote?

Þarnæst meigum vier og so þeinkia, ad vier hofum Straffed vel forþienad, og allt þad Mootlæte sem vier lydum, ja laangtum stærra; þvi vorar Syndir eru alltijd stærre og þyngare, enn GUds Straff; og Hegningen er alltijd liettare og linare enn vorar Synder og Misgiørningar: Þu maatt og medkieña, ad sa goode GUd hefur allt i fra Moodur lijfe audsyndt þier meire Naad, eñ Reide, meira gott, enn illt; hvarfyrer villtu þa ecke i

stad-

staden fyrer so marga Velgiorninga taka i moote hans fodurlegre Hirtingu i Hlydne og Undergefne; sierdeiles af þvi ad hann lætur hana yfer þig gaanga til lijfsens betrunar, enn ei til þess ad þu skuler fordiarfast.

J þridia maata, fyrst vier høfum straffed margfalldlega forþienad, þa verdum vier ad medkienna med Daniele, Cap.9.7. ad GUd giøre oss ecke rangt til, þvi þad er vissulega tilbærelegt, ad sa sie hirdtur og straffadur sem hefur illa giort: Hvarfyrer villtu þa ecke þolennmoodlega fyrer utan allt Møgl, taka a moote GUds riettlætes Doome? þad er þo betra ad GUd refse þier hier tijmannlega; enn sijdar eilijflega. Þegar vier dæmustum, seger Postulenn, 1.Cor. 11. v. 32. verdum vier af Gude tiptader, so ad vier fordæmustum ecke med þessum Heime. Ef þu ert oþolennmoodur, og møglar a moote Gude, þa reiknar þu hann fyrer oriettvysann GUd, lijka sem hans doomar og giørningar væru ecke riettferduger; enn þar sie laangt fra; Drottenn er riettferdugur i øllum sijnum Vegum og Heilagur i øllum sijnum Verkum, seger David i Psal. 145. Item i Psal.119. Riettlaatur ertu Drottenn og riettet eru þijner Doomar.

Stillder þu ecke i fiorda maata hafa Þolennmæde vid þinn gooda GUd og bijda epter hønum, þar hann hefur so føðurlega Þol-

Þolennmædi vid þig og bijdur epter þier med stooru Laanglundargiede; so ad H. Paall kallar soddann, Rom. 2. v. 4. Rijkdoom hanns Giæsku, Þolennmædes, og Langlundargieds, med hveriu hann astundar ad leida oss til Jdrunar.

J fimta maata, skalltu laata Epterdæme, Frelsarans JEsu Christi, ætijd vera þierfyrer sioonum; hañ leid allt medu goduGiede, og bad þar ad auki fyrer sijnum Ovinum; enn var þo aldeiles Saklaus: Hann hefde vel kunnad a einu Augabragde ad sla nidur i grunn alla sijna Fiandmenn og GUds lastara; enn hañ braust ecke i þvi hinu minsta a mooti þeirra Ossa: Miklu framar biriar oss þa Þolennmodum ad vera, sem høfum allt Straff vel forþienad, ja, ad vijsu eilijfar Kvaler i Helvijte. Christur hefur af Kiærleika til vor allt þolennmodlega lided. So sem Jacob þioonade fyrer Rachel i sio Ar, eins hefur Frelsarenn vor JEsus Christur meir enn i 33. Ar þioonad vorra vegna, og lidid þær hørdustu Plaagur, vegna Elskunnar sem hann hafde til vor; O hvilijk Skom̃ ma þad þa vera fyrer oss, ad vilia ecke um̃bera neitt um̃ lijtenn tijma hans vegna: Lijtum til Þolennmæde þeirra Heiløgu; til þess GUDS Manns Mosis, sem maatte lijda margt illt af sijnu Folki, enn bad samt fyrer þvi, og

villde helldur deya, eñ Israels Synir skilldu tapast: Litum til Davids sem leid oriett, og sagde, Hafe eg funded Naad fyrer Augum Drottenns, þa mun hann leida mig heim aptur, enn ef hann seger til mijn, mier þoknast þw ecke, sia! þa er eg hier, giøre hann vid mig, so sem hønum þocknast: Giefum gaum ad Þolennmæde Jobs, Postulanna, og GUds Pyslarvotta.

J siøtta maata, eiga GUDS stooru og haaleitu Velgiørningar ad leida oss til Þolennmædennar. Þvi fyrst erum vier þar um visser, ad vier erum, fyrer Christi Forþienustu, fridþægder vid GUd, og kann þessvegna eingenn Manneskia, og einginn ovinur, ad skilia oss fra GUds Unnustu og Naad, hversu mikelega sem þeir ogudlegu, ja allur Heimurenn, villdu olmast a moote oss: Þvi ad Miskun Drottenns varer fra eilijfd til eilijfdar yfer þeim sem hann ottast: Psal. 103. v.17. Einginn Hlutur kann ad skilia oss fra Kiærleika Christi, seger H. Paall, Rom. 8. v.39. So vitum vier og so nogsamlega, ad HErrann Christur hefur endurleist oss til eilijfs Lijfs, hveriu eingenn skøpud Skiepna getur rænt oss. Nw med þvi þessu er so haattad og vared, ad eingenn kañ burt fra oss ad nema GUds Kiærleika, nie helldur þau hædstu og eilijfu Giædinn, þa kunnum vier hæt-

tu

tu laust ad forakta alla vora Ovine, Tyranna og Offoknara, med þeirra mikla Bramle, Prakt og Vellistingum, so sem þeir H. Pijslarvottar giørt hafa, med stoorre Hugarprydе.

J siøunda maata, skal GUds eilijfur Sannleiki og Trwfeste hans fyrerheita stadfesta oss i Polennmædinne: Þarfyrer bidleikar Drottenn GUd, ad hann Miskuni ydur, seger Esaias 30. v. 18. Hann dregur undann Straffed, so ad hann sie ydur lijknsamur, þviad Drottenn er einn GUd Doomsins, sælir eru aller þeir sem hans bijda. Og Postulinn Jacob vottar, Jac. 1. v. 12. Sæll er sa Madur sem lijdur Freistinguna, þvi epter þad hann hefur reindur vered, mun hann ødlast Lijffsens Coronu.

J attunda maata, skal Madur fyrer saker GUds Dyrdar vera Polinnmoodur, þvi þar med kañ hwn ad wtbreidast: Þeir þrir Sveinar i Elldsofnenum, og Daniel i Leona grøfinne vijdfrægda GUds Pecking og hans Æru: Sømuleides Joseph i Myrkvastofunne, og David i wtlegdinne.

J niunda maata, er oss stor þørf a Polennmædinni, vegna vors eigenn Gagns; vort Hiarta og Saal hefur nytsemi þar af, þvi Mootlætid, ef þad er vel umbored, eflir Mañ i morgu goodu. Poleñmædiñ verkar Reinslu, seger Postulenn: Rom. 5. v. 4. Krossen verdur og liettare fyrer Polennmædina: Taked

uppa ydur mitt Ok, seger Christur, og læred af mier Hoogværdina; og munu þier finna Hvijld Saalum ydar. Þar i moot færer Opolennmæden med sier stoora Sorg og oroosemi, og Madurenn avinnur þo ecke neitt þar med, helldur giörer sitt mein eñ þa stærra: Margur fellur med soddann hætte i stora olucku, og tapar sinne Velferd tijmannlegre og eilijfre. Þegar Israels Synir mægludu a moti Gude af opolennmæde, urdu þeir sleignir af brennande Hoggormum. Num.21.v.6.

J tynda maata, er Verdkaup þoleñmædinnar næsta miked, þvi fyrer hana ødladest Job aptur tvøfallt goots, vid þad sem hann hafde mist. Hier eiga heima ord vors Frelsara, hia Matth. 5.Cap. Sæler eru hoogværer, þvi ad þeir munu Jardryked eignast; enn opolennmooder verda ofarsæler þvi þeir munu Jardryked missa.

J ellefte maata, verdur þad ei wtskyrt, hversu nytsamleg Þolennmæden er i øllum Stiettum; so miked sem þvi andlega Standenu vidvijkur, er hwn ein hin stærsta Manndygd, og hiaalpar þeim miked vel, sem med henne pryddir eru, og kunna ad um̃bera sijna Offsoknarmenn: Fyrer þa Veralldlegu, er þad og mikell Prys, ad þeir sieu ecke hefndargiarner, helldur med Þolennmæde ad giefta

ta yferunnid sijna lastmælendur, og baktalara: Hier a moote vitum vier, ad bæde hafa Lond og Ryke eydelagst, fyrer Oþolennmæde og Hefndargyrnd.

Hvad stort Gagn og Nytseme Þolennmæden færer Hiwskaparstiettenne, þar kunna Hwsfedur, og Hwsmædur af Reinslunne best fra ad skyra; þarfyrer seger Ordskvida meistarenn, Prov. 16. v.32. Betre er þolennmoodur madur, enn sterkur.

J tolfta maata, er þad Herranum Christo ad þacka, ad allur vor Mootgaangur, og Hörmungar verda oss heilsusamlegar, og giora oss aldeiles eingann Skada, edur hindrun uppa vora Saalar Velferd; þvi hann hefur med sinne bitru Pijnu, og bloodugum Dauda, betalad fyrer allar vorar Synder, og uppa sig teked Straff allra vorra Misgiorninga: Þarfyrer med þvi ad Mootlætingar vorar eru med hans þyst helgadar, og umsnwnar i þau allra dyrmætustu, og kroptugustu læknings Medöl, þa filgir þad a epter, ad Hörmungar vorar sieu Stirking til vorrar Velferdar, so sem St. Paall seger i Pistlenum til Romanos 8. Cap. Þeim sem elska GUd, snwast aller hluter til hins besta.

Ad sijdustu skulum vier hugleida, hvad Hörmungar þessa Lijfs, sieu ad reikna, hia

eilijfre Vegsemd, og ad þær sieu aldeiles ecke verdar epterkomande Farsælldar, sem H. Paall vottar i Pistlenum til Rom. 8. Cap. Pad er stor Miskunseme, ad GUD tiptar oss hier i þessum Heime um lijtenn tijma, sem ecke er so sem neitt ad reikna hia Eilijfdenne, og ad þar skal koma a epter oendannleg Glede. Skillde þa ecke ein Manneskia þess æskia, ad GUD villde ecke spara Hrijsed vid hana i þessu Lijfe, uppa þad hwn mætte sijdarmeir um̃ alla eilijfd verda fri fyrer hans Hirtingum og Alögum; Pier sem nw um̃ lijtenn tijma erud hriggver, munud med oumrædannlegum, og dyrdarlegum Fögnude gledia ydur, seger H. Petur i sijns firra Pistels 1. Cap.

Nockrar stuttar Aliktunar-greinir, um̃ Gagn og Nytsemi Krossens.

Sa ypparlege edla Kross.

Er sa þraungve og miooe Vegur til Lijffsens.

Hañ er Vondur gudlegrar Hirtingar, sem oss vekur upp af Svefne Syndana.

Hañ er födurlegur Age.

Hañ er sw Morgunstiarna sem geingur undann Soolu Huggunarinnar.

Hañ er eitt Naadarteikn GUDs, lijka sem Regnbogenn.

Hañ giorer oss samlijka Christo.

Hañ fœrer oss wr Myrkranna Hervopnum.

Hañ

Hañ klædir off i Lijffenns Herklædi.
Hañ er einn Avortur, fullur af Balsame.
Ein oforgeingeleg Myrrha.
Ein heilsusamleg Jurt.
Einn heilnæmur Læknis dryckur.
Einn hialprædes Kaleikur.
Hañ er Proovan Trwarinnar.
Hañ er Uppbigging vors Naawnga.
Kiærleikans Barna Modir,
Filgdar broder Vonarinnar.
Undanfare Naadarinnar.
Lækningsdomur Saalarinnar.

Er Syndanna Apturhalld.
Dempar og deyder holldlegt Framferde.
Uppørvar og kveikir andlegt Lijferne.
Umbreitir iardneſku ſinni.
Kiennir ad yfergefa og afſeigia Heiminn.
Giører einn ad Gllds Vin.
Eikur i Manninum himneſkar Gaafur.
Dempar Drambſemina.
Hañ Fæder og foſtrar Audmyktina.
Kiennir Polinnmædina.
Endurnyar Andann.
Stirkir Dygdernar.
Tiptar og ſpekir Lijkamann.
Endurnærir Sinnid.
Aflar Manninum mikillrar Gledi.
Er Vysdoomſinns Moodir.

Hann
Rækir Hoogværdina.
Afyser og uppvekur til Bænarinnar.
Vaktar og vidhelldur Skijrlijfinu.
Færir med sier goda Samvitsku.
Er Nykdoomur innvortis Glede.
Er sa Carbunculus, sem leiptrar i Diaasnum þeirra Heilogu.
Er skijnandi Gimsteirn trwadra.
Er ilmande Roos Paradijsar.
Er Pyslarvottanna Corona.
Og Wtvalldra eilijf Æra og Vegsemd.

# Cap. XLVII.

## Nockrar Skriftarinnar Greinir, og Epterdæmi um Þolinnmædina, og Huggun i Mootlætinu.

Act. 14. v. 22.
Fyrer margar Hörmungar byriar oss ad ganga inni GUds Rijke.

MEd þvi ad Christins manns Lijf hier i þessum Heime, er eckert annad enn Kross og Mannraunir, fyrer hveriar oss ber inn ad gaanga i GUds Ryke; þa er naudsyn til, ad vier þeinkium ecke uppa marga gooda Daga i þessum Heimi, helldur uppa Mootlæte, og Dreingingar, og logum oss þessvegna til Þolennmædinnar, og bidium GUD um hana: þvi

þvi vier erum ecke, so sem eg strax sagde, fæd-der til Sælliſes og Velliſtinga, helldur til ad lijda Mootgaang, og til ad umbera Mann-rauner med Þolenmæde.

Hier uppa vilium vier yfervega epterfilg-iande Þria Puncta: Sem er, I. Maals-greiner og Vitnisburder Skriftarinnar. II. Epterdæme. III. Hugganir.

## I. Greinir og Vitnisburder Rit-ningarinnar.

Þolenmæden er sw Dygd, sem med hoogværu, kirrlatu, audmiwku, og hlijdugu Hiarta, giefur sig under þann edla Kross, og under allskonar Hørmungar, mootlæte, og offokner, bæde lijkamligar og andlegar; hwn tekur Christi Kross uppa sig, og fylger hon-um epter, fyrer utann allt Møgl og Treglei-ka: Kannast vid þad i Trwnne, ad vier hof-um einn naadugann Gud i HErranum JE-su Christo, og mijker so med Von Frelsisens, Verk og Saarinde Eymdanna; hwn er hog-vær a moote þeim sem oss sturla, og offookn veita, og befalar Gude Hefndina.

Þesse Edla Dygd, sprettur ecke upp af Mannsins Skinseme, edur hia Hollde og Bloode, helldur er hwn ein sierleg H. Anda Gaafa, og Avoxtur sannrar Trwar, sem

bindur i sier Trw og Kiærleika, Von, Audmykt, Hoogværd og Hlydne.

J þessum Dygdum meiga þeir aller ydka sig, sem heira til HErranum Christo, og eru til Himnarykes, og þess eilijfa Lijfsens endurleister: Þvi ad a moote þeim stryder Diøfullenn oaflatannlega, sa mikle Dreke, og gamle Høggormur, ja allur Heimurenn. J Opinb. Bokarinnar 12. Cap. stendur: Og Drekenn for i burt ad beriast vid þa, sem epter voru af Kvinnunnar Sædi, þeir ed vardveita Bodord GUds, og hafa Vitnisburdinn JEsu Christi.

Hier eiga og so heima epterfilgiandi Maalsgreinir, Matth. 16. Ef nockur vill mier epterfilgia, hann afneite sialfum sier, og take sinn Kross uppa sig, og fylge mier epter, þvi sa sem vill bijhallda sijnu Lijfe, hann mun missa þad, enn sa sem misser sitt Lijf fyrer mijnar saker, sa mun finna þad. So sem hann segde: Hver hellst sem ecke vill bera Krossenn vegna Christi, um þess Manns Saalar Velferd er wtgiort. Marc. 13. v. 13. Þier munud verda hatader af hverium Manne fyrer mijns Nafns saker: Þad er sannarlega einn þwngur Kross, ad vera hatadur af øllum; enn samt sem adur, fyrst þad skiedur fyrer Christi skulld, þa ma þad vera ein stoor Huggun.

Þeir munu leggia hendur a ydur seger Christur, Luc. 21. v. 12. og Ofsokn veita, og ydur

munu

munu þeir framselia i sijn Samkunda Hws og Myrkvastofur, dragande ydur fyrer Konga og Landshøfdingia, fyrer mijns Nafns saker, enn eignest Saaler ydar med Polennmæde.

Joh. 15. v. 18. 19. Ef Heimurenn hatar ydur, þa vited ad hann hefur hatad mig firre enn ydur. Ef þier værud af Heimenum, þa elskade Heimurenn þad hans være, enn med þvi þier erud ei af þessum Heime, helldur wtvallde eg ydur af Heiminum, fyrer þad hatar ydur Heimurenn; Hafe þeir offsokt mig, þa munu þier einnin offsokter verda:

Joh. 16. v. 2. Þeir munu forboda ydur, ja sw Stund kiemur, ad hver ydur Lijflætur, hann meinar sig ad giøra Gudi þægt Verk.

Giorn. B. 14. Cap. v. 22. Þegar Heilagur Paulus var grijttur i Borginne Lystris, þa styrkte hann Ander Læresveinanna, aminnandi þa, ad þeir væru stadfaster i Trwnne, og sagde: ad fyrer margar Hørmungar byriar oss inn ad ganga i Guds Ryke.

2. Cor. 4. 7. 8. 9. 10. Alla vega lijdum vier Harma, enn vier hriggiunst þo ecke, oss veiter torvellt, enn vier ørvinglunst ecke, vier lijdum Offsokn, enn vier verdum þo ei fyrerlætnir, vier verdum nidurþrickter, enn vier fyrerførunst ei, og ætyd berum vier med oss Dauda Drottinns JEsu i vorum Lijkama, so ad og einnin Lijf Drottinns JEsu, openbert verde i voru daudlegu Holldi.

2. Tim.

2. Tim. 2. 5. 6. Erfida þw, ſem godur Strijdsmadur JEſu Chriſti, og þott nockur berieſt, þa verdur hann þo ecke Coronadur, nema hann berieſt riettelega. Og Rom. 8. v. 17. Ef vier þolum ſo munum vier medrijkia.

2. Tim. 3. 12. Aller þeir ſem gudlega vilia lifa i Chriſto JESU, þeir hlioota Offſokn ad lijda.

Hebr. 10. 36. Polennmæden er ydur naudſynleg, uppa þad ad þier giøred GUds Vilia, og ødleſt fyrerheited.

Hebr. 12. 1. 2. 3. Lœtum oſſ hlaupa fyrer Polennmædena, i þa Oruſtu ſem oſſ er tilſkickud. Og lijta til JEſum, þeſſ Uppbyriara, og Fullkomnara Trwarinnar, hvered þann tijd hann hefde vel maatt hafa Føgnud, þolde hann Kroſſenn, og aktade ecke Forſmæanena, og ſette ſig til hægre Handar uppa GUds Stoole: Minneſt a þann ſem þvilijk Mootmæle i giegn ſier af Syndurunum þoldi, ſo ad þier þreiteſt ecke og uppgiefeſt i ydar Hugſkotum.

1. Pet. 1. 6. 7. Um̄ litla Stund ber nw ad hriggiaſt i margvijſlegum Freiſtingum, uppa þad, ad ydar Trw rietteleg, og miklu dyrmætare funden yrde, enn þad forgeingelega Gull, ſem i Elldi reint verdur.

Opennb. B. 3. 10. Med þvi þw hefur vardveitt Ord minnar Polennmædi, mun eg einnin vardveita þig a Freiſtingar Tijmanum, ſem koma mun yfer allt Jardryked;

Opennb.

Opennb. B. 2. 10. Hallt hvad þu hefur, so ad einginn take þijna Coronu.

## II. Epterdæmenn.

Abraham hefur matt lijda miked af þeim Chaldæisku, Kananituin, og þeim Egyptsku. Giorn. B. 7. 4. 5. 6. Hann for burt af Chaldæalande, og bio i Haran: GUd gaf hønum einga Arftøku þar inne, og ecke þverfootar breidd: Enn GUd talade so; þitt Sæde skal utlendt verda a annarlegre Jørdu, og þad, munu þeir þiaa i Prældoome, og þvijnga þad illa.

Hebr. 11. 8. 9. 10. Fyrer Truna vard Abraham hlijdenn, þa hann kalladur var ut ad ganga i þad Land sem hann erfa skyllde, og hann gieck ut, og visse ecke hvert hann munde fara. Fyrer Truna vard hann framandi i þvi fyrerheitna Landenu, so sem a annarlegu, og bioo i Tialldbud: þvi hann vonadi uppa þa Borgina sem Grundvøllenn hefur, hverrar Uppbiggingar-Meistare og Skapare GUd er.

Um Loth skrifar St. Petur i 2. Sende-Briefe 2. Cap. 7. 9. þanning: GUd frelsade hinn Riettlaata Loth, hverium sa skammarlege lijdur alla Meinsemd giørdi, med þeirra saurugu Lijferne; þvi Drottenn kann þa gudhræddu ut Freistingunne ad frelsa, enn hina Rangläatu ad vardveita til Kvalanna a Dag Doomsens.

Opinnb. B. 2. Cap. Vertu Trutt allt til Dauda, og mun eg giefa þier Coronu Lijfsens.

Prov. 15.

Prov.15. Adur enn madur kiemur til Heid=urs, (þad er adskilia, i eilijfu Lijfe) þa hlyt=ur hann ad lyda.

Um Jsaach vottar Moses i Genes. B. 22. Cap. v. 9. Ad hann hafe þvi hlydinn vered, ad verda fornfærdur eptir GUds Vilia. Skod. B. 26. og 27. Cap. &c. Hann hafe og lided med Polennmædi, ad Philistæarnir toku med rang=indum fra honum þañ eina Bruñ epter aunañ: Sømuleides hafe hann maatt heyra þad med hiartanns Angre, ad hans ohlyduge Sonur Esau hootade honum ad hann skyllde graata, þvi hañ villde sla siñ Brodur i hel: Hann matte umbera þad ad Esau kvinnur giordu honum stoora hiarta-sorg.

Um Jacob stendur og skrifad, i Genes. B. 27. 28. og epterfilgiande Capitulum, ad hañ vard margt ad þola; Hann hlaut ad flya fyr=er siinum Brodur Esau, og hafde ecke nema einn Staf sier i Hende, þegar hann gieck yfer um Jordan: Hann matti þræla i 20. ar, van=megnast af Hita a Dagenn, og a Nottune af Kullda, og um hans Laun var skipt Tiusinnum. Þarfyrer ma þad lesa um hann i Fimtu Bok=ar Mosis 26. Cap. v. 5. ad hann hafe vered einn aumur Syrlendingur, Prældome under=gefenn. Item hia Hoseam. 12. Cap. ad hann hafe gliimt vid GUd, af øllu siinu Afle; hañ hafe striidt vid Eingilenn, og unned sigur, þvi hañ hafe graated og beded hañ. Sokum alls

þessa

þessa seger hann sialfur so til Pharaonem, Gen. 47. v. 9. Dagar minnar Vegferdarreisu eru faaer og vonder.

Um Job talar Postulenn Jacob: Jac. 5. Þolenmmæde Jobs hafed þier heyrt, og ending Drottens hafe þier sied, þvi ad Drottinn er miskunsamur og lijknar.

Um Mosen mæler Ritningen, Num. 12. v. 3. ad hann hafe vered hinn Hoogværaste, framar øllum Mønnum a Jørdunne. Og i Pistlinum til Hebræos stendur, ad hann hafe helldur viliad lijda med Gllds foolke Sorg og Mædu, enn ad hafa syndsamlega Glede; hann virdte Christi Forsman stærre Rykdoom, enn alla Egyptalands Vegsemd.

Hvad hefur David ecke lided, sem var Figura og Fyrermindan Christi? Drottinn Glld minn, a þig vona eg, seger hann i Psal. 7. 2. Hialpa mier fra mijnum Offoknurum, so ad þeir grype ecke sem Lion mijna Saalu, og i sundurslijte, med þvi þar er einginn Frelsare: Og i þeim 9. Psal. seger hann, ad hann sie fatækur og aumur, enn sie þo vissum, ad Gud mune ecke aldeiles forgleima þeim fatæku, og Von þeirra aumu mune ecke eilijflega glatast.

Med hvad storre Þolenmmæde, maattu Postularnir taka a moote allra handa Offooknum. So og lyka þeir Menn þrir i þeim gloandi Elldsofne; og margir adrer þvilijker Pijslarvottar? Enn

Eñ Polennmædinnar Epterdæmi Frelsarans vors JEsu i hans Pijnu, geingur yfer Polinnmædi allra Manna; þvi þott hann være sa allra Hædsti, þott hann være GUds Eingetinn Sonur, heilagur, saklaus, ofleckadur, og syndugum fraskilenn, þa lytelæckadi hann sig þo i diwpustu Audmykt, og leid þann allra forsmaanarlegasta Krossins Dauda: Þad var Polennmæde yfer alla Polennmæde.

## III. Hugganir.

Matth. 5. 4. seger vor HErra, Sæler eru þeir sem harma þviad þeir munu huggader verda.

Matth. 11. 28. Komed til mijn allir þier sem erfvided drijged, og þwnga erud þiꝏder, eg vil endurnæra ydur: Taked mitt Ok uppa ydur, og læred af mier, þvi eg em hogvær og af Hiarta lijtelatur, og munu þier hvijld finña Sꝏlum ydar; þvi mitt Ok er lijdannlegt, og minn Byrde er liett.

Menn skulu koma til Christum og taka hans Ok uppa sig, og læra af honum Hoogværdina, og munu þeir endurnærdir verda, og finna Hvijlld og Roo fyrer sijnar Saaler; þvi Christi Ok er þolannlegt. Og epter þvi þad verdur bored fyrer Christi skulld, þa er þad og so Huggunarsamlegt; þarfyrer seger H. Paall i Pistlinum til Romveria, 5 Cap. 3. 4. 5.

Þier

Vier hroosium oss af Hørmungunum, vitande ad hørmung verkar Polenmmædi, Polinnmædi verkar Reinslu, og Reinslan Von, enn Vonin lætur ei til Skammar verda, þvi Kiærleiki GUds er wthelltur i vor Hiørtu fyrer H. Anda.

Jacob. 5. v. 11. Sæll er sa Madur sem þoler Freistingena, þvi þegar hann er reindur, þa fær hann Coronu Lijfsins, hverre GUd hefur heited þeim sem hann elska.

Joh. 16. 33. J Heimenum hafe þier Preinging, enn vered hughrauster, jeg hefe yfervnned Heimenn.

Rom. 8. 35. 37. Hver kann ad skilia oss fra GUds Kiærleika? Hørmung edur Mootlæte? Offokn eda Hwngur? Klædleise edur Haske? edur Sverd? so sem skrifad er, fyrer þig verdum vier deidder allann Dag, og erum reiknader sem Sauder til Dræps ætlader; enn i øllu þessu berum vier langt af, vegna hans er oss elskade. Þvi eg em þess fullørugur, ad hverke Daude nie Lijf, hverki Eingill nie Høfdingia stiett, eda Magt, hverke hid nælæga nie hid okomna. Eige Hæd, eda Dypt, nie nockur ønnur Skiepna, fær oss skiled fra GUds Kiærleika, hver ad er i Drottne vorum JEsu Christo. Item þeim sem elska GUd snwast aller Hluter til hins besta.

2. Tim. 4. 7. 8. Eg hefe barest godre Barattu, eg hefe Hlauped fullkomnad, eg hefe Trwnne hallded. Nw hiedan i fra, er mier afsijdes løgd Corona Riettlætesins, sem ad

Drottinn hinn riettlaate Doomare, mun mier a þeim Dege giefa, enn þo ei alleinasta mier, helldur øllum þeim, sem hans Tilkomu elska.

# Cap. XLIIX.

## Eingin Hørmung er so stoor, ad GUd hafe ecki tillagt henne Huggun, og GUds Huggun er alltijd stærri, enn vor Eymd og Motlæti.

Þegar hiñ H. Paall, er ad grunda, og yfervega, GUds vors Himneska Fodurs Millde og Miskunseme; og hvernenn hann hefur upplocked sijnu fødurlegu Hiarta, fyrer oss aumum og sorgfullum Manneskium, þa priisar hann þann gooda GUd haleitlega þar fyrer, og seger.

2. Cor. 1. 3. &c.

Blessadur sie GUD og Fader Drottins vors JEsu Christi, Fader Miskunsemdanna, og GUd allrar Huggunar, sem oss huggar i allre vorre Hrigd, so ad vier getum og huggad þa sem eru i alls hattudum Hrigdum, medur þeirre Huggan, þar vier verdum med af GUDE huggader. Þvi lijka sem Pijsler Christi yfergnæfa i oss, so verdum vier og so lijka rijkuglega huggader fyrer Christum. Vitande

de þad, ad lijka sem þier erud hluttakarar ordner Hrigdanna, so mumund þier og so verda hluttakarar Huggunarinnar.

MEd þessum lijfkroptugu, og yndeslegu Ordum, þackar Postulinn Gudi almattugum, fyrer sijna guddomlega og himneska Huggun; þvi hwn er sw besta Lækning vid ollum Mannraunum og Mootgange, og med þvi vier þiaaustum miøg so i þessum Heime, þa giefur hann oss under eins til vitundar, ad eingenn Hormung kunne so stor ad vera, ad GUd hafe ecke sett einhveria himneska Huggun henni a moote, og ad sw Hüggun sie langtum stærre, eñ allar Mannanna eymder kuña ad vera. Og þetta stadfester hañ med sio slags vigtugum Rokum og Bevijsingum, er hann upptelur eina eptir adra.

Fyrsta Bevijsingin er sw, ad GUd sie Fader Miskunsemdanna. Eckert kann sætara og ununarsamlegra ad upphugast, helldurenn þesse Titell, edur Nafn; med hveriu GUd verdur ollum sorgfullum Hiortum fyrer siooner settur, sem einn astudlegur Fader, er ecke einasta ber eitt Fodurs Nafn, helldur er hann i raun og riettre veru vor Fader: J hveriu munu vera innefalder Eiginnlegleik-

ar eins Fodurs? i þvi ad einn Fader elskar sijn Born; hefur Umhiggiu fyrer þeim, veiter þeim sitt Upphellde, nærir þau og fædir, verndar þau og vardveiter; tiptar þau og upptræder þau; hefur Umlijding med þeirra Breiskleika; kienner i briooſt um þau; og lætur þeim i tie sinn erfdahluta. Hver sa sem ihugar þetta riettelega, og ber samann vid GUds Velgiørninga vid oss. Hañ hlytur ad medkienna, ad þetta eina Ord, Fader; sie fullkommen Huggun, sem nægir a moote øllum Freistingum, og kann ad lina hverskins Eymder og Mootlætingar. Enn so ad vier lærum enn þa betur ad vita, hvad fyrer einn Fader, Drottinn er; þa kallar Paall hann hier Miskunsemdanna Fodur, af hverium øll fødurleg Miskunseme hefur sinn Uppruna, ja eilijfann Uppruna; þvi sialfur GUd er root, Upphaf, og Fadir, til allrar þeirrar Miskunar og Medaumkunar, sem er innplontud i so mørg þwsundsinnum þwsund Fedra Hiortu. Hier af kiemur þad, ad eingu GUds barni kañ so stoor Neyd, og Mootgaangur til ad falla i þessum Heime, ad hia Miskunsemdanna Fodur, sie ecke langtum stærre Huggun ad finna.

Onnur Roksemd og Beviijsing hier til, er þetta, ad GUD er GUD allrar Huggunar:

ar: J þessum ordum er aptur ein eilijf og oendannleg Huggun innefalenn. GUd er sa eilijfe, oendannlege, og hædste Goode, þar fyrer hlytur øll Huggun, i giegn øllum Hørmungum, ja enn stærri Huggun, enn nockurs Eymd kann ad vera, fra hønum adkoma, upprenna og framfliota; einkum med þvi, ad vor Krossburdur og Mootlætingar eru ecke utann tijmannlegar, og hafa vijst Takmark og enda.

Þridia Røksemd og Bevijsiing hier til, er sw, ad H. Petur setur sig sialfann, samt alla Heilaga, so sem Epterdæme oss fyrer sioner: GUD seger hañ, huggar oss i øllum Hørmungum vorum. Nær vier hugleidum margfølld Epterdæme þeirra Heilogu, hvad þeir hafa lided, og hversu GUD hefur þa huggad, og midt i Krossenum endurnært; þa finnum vier, ad vor Kross og Mootlætingar, eru ecke neitt ad reikna þar a moot; og þeirra Epterdæme med þeirra innvortis Hug svolunum, ganga laangt yfer vorar Þrauter og Hørmungar. Hver hefur lided so miked sem Job? hver hefur vered so mikelega plaagadur sem Jeremias? hver hefur af so stoorum Freistingum halldenn vered sem David? hver a medal vor hefur wtstaded so mikel Kvalræde sem þeir H.

Pijslarvottar? og þeir hafa aller so rijkugle-ga huggadir og endurnærdir vered, ad þeirra Hugsvølun hefur vered stærre, enn øll þeirra þreinging. Hvarfyrer mun GUd hafa sett oss þa fyrer sioner? so ad vier skylldum þar af læra, ad vier i Hørmungunum ættum og so von a rijkuglegre GUds Huggun. Og ad sa heilage Kross sie einn dyrmætur Helgidoom-ur riett Christenna manna; andleg og him-neskRegsemd; þeirraSigurvinning ogHerra-dæme, yfer Dioflinum og Heimenum; Und-erbuningur til Himnarykes; og ad einginn kunne fyrer utann Krossenn ad komast i GUds ryke. Krossburdurinn sie og Jmind Christi, og haleitur Leindardomur, i hverium GUds hædsta Raad, og Vysdoomur ligge hulenn, sem Holld og Blood kañ ecke ad grijpa, nie fyrer utann Krossenn ad smacka; þad himne-ska Manna, sem i Orde GUds er faled og foolged. Af þessu er enn ad niju audraaded, ad guddomleg Huggun er stærre, eñ hver-skins mannleg Hørmung.

Þa fiordu Røksemd hier til, framsetur Postulenn i þessum ordum: So ad vier get-um og huggad þa, sem eru i allshaattrudum Þrigdum, medur þeirre Huggun, þar vier erum med af Gude huggadir.

Enn hvar med huggade GUd þa H. Post-ula? og hvar med hugga Postularnir oss apt-ur

ur a moot? med þvi goda GUds Orde, og hanns dyrmætum Fyrerheitum, epter þvi sem þar stendur i Pistlenum til Romveria 15.Cap. Hvad hellst sem skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, so ad vier fyrer Polennmædina og huggun Ritninganna hefdum Vonena. Þegar vier alytum nw riettelega GUds Ord, hvad vingiarnlega GUd til vor talar, hversu mikellre Naad, og hvilijkum Himneskum og eilijfum Giædum hañ oss i þvi lofar, þa meigum vier vissulega medkienna og segia, ad sw Huggun gange langt yfer alla mañlega Eymd. Ad vijsu seger Syrach i sinnar Bokar 40.Cap. Ad þad sie einn aumlegur, og hørmulegur Hlutur, um allra Manna Lijf, fra moodur lijfe, þar til þeir kome aptur i Jørdina sem ad sie allra vorra Mooder: - Þar er ætijd, seger hann, Ahiggia, Otti, Von, og med þad sijdasta Dauden. Eñ þo sem adur, ef vier setium a moote vorum eymdar hag þad eilijfa og himneska Lijfed, med sinne Dyrd og Vegsemd, þa faaum vier skiled, ad føgnudur sa, sem GUD fyrerheiter i Orde sijnu, geingur langt yfer Hørmungar þessa Lijfs: Vel er þad og einnnen satt, ad Synden er skadleg Bondska, og einn skielfelegur Þwngе, sem liggur a vorum Herdum, vegna hvers vier erum so morgum Eymdum og Hørmungum underorpner; ei ad sijdur nær vier hug-

festum þad, ad HErrann Christur sie vort Riettlæte, þa er Huggunen stærre eñ vor synda Byrde, þvi i Christo er meira Riettlæte, enn Syndernar eru i oss. Jg stuttu male ad segia. GUds Ord er so yferfliotannlega fullt af himneskum Huggunum, ad Hiortun vor kuña ecke noogsamlega vid þeim ad taka. Þvi lijka so sem Vidsmiørs Krwsen þeirrar Faatæku Eckiu, vard so rijkuglega blessud fyrer Spaamannenn Elisæum, ad hwn gaf af sier meira Vidsmiør, enn Eckiann hafde kierenn til ad taka a moote þvi; 2. Bok Kong. 4. Eins kann oss optlega eitt Ordkorn i Skriftenne, framar ad hugga, enn Diøfullenn, og øll Verøllden, kañ ad plaaga. GUds Uppsprettu Kiellda hefur noglegt Vatn, seger David i Psal. 65. v. 10. Þw kant alldrei þad allt ad uppausa. Þarfyrer kallar GUD sig og einnin Brunn lifande Vatns hia Jeremiam, Jer. 2. og i Psal. 36. seger Spaamaduren, Hia þier Drottenn er Brunnur Lijfsinns, og i þijnu Lioose, siaaum vier Liooseð. Skillde sa synduge Daudans Brunnur kunna ad færa oss meire Hørmungar, enn sw heilsusamlega Lijfsenns Uppspretta, Hugganir? Þar sie laangt fra.

Fimta Bevijsingen er þad, ad H. Paulus kallar Kross og Mootgaang riett-trwadra Christ-

Christinna manna, ChristiPijsler; hañ seger, ad vier høfum miked af Christi Pijslum. Af þvi ad aller trwader, eru andleger Limer HErrans Christi. Lijka so sem Høfuded fiñur til Verkia, og meinsemda limanna, vegna þeirrar sameiningar og samlijdingar, sem þad hefur med limunum; eins fiñur og HErran Christur til Krossburdar og Hørmunga sinna lima: Christur byr og einnin i sijnum trwudum, og innlijfar sig þeim: Þessvegna lijdur hañ og so, og þiaaest i sijnum limum, verdur i þeim hrakenn, offoktur og illa wtleikenn so ad Drottenn hroopar þarfyrer af Himnum ofann, til þess offsafulla Sauls, sem var ad offsækia GUDS Christne, segiande: Saul! Saul! þvi offsæker þw mig? so erum vier og einnen af Christo endurfæddir, og hann er vor eilijfur Fader. Þarfyrer er vor Pijna, Christi Pijna, þvi hvad barned lydur, þad geingur Fødurnum og so til Hiarta: Hvernin kañ þa þijn Naud og Angist, ad vera so stoor, sem þesse Huggun; ad Christur er þitt Høfud, eñ þw hans Limur, hañ er samteingdur vid þig, og byr i þier; hañ lydur i þier, og reiknar allann þiñ Kross, fyrer siñ eigen; hañ er þiñ Fader, og finnur til allra þinna Hørmunga i sijnu allra heilagasta Fødurs Hiarta?

Pa siøttu astædu til siins maals, tekur Postulinn af Uppruna og grundvelle allrar vorar Huggunar HErranum JEsu Christo, so segiande: Vier verdum fyrer Christum rijkuglega huggader. Root og Uppspretta allra vorra Hørmunga er Synden; þar a moot er JEsus Christur Sonur GUds, Root og Uppspretta allrar vorrar Glede og Huggunar. Nw med þvi Christur er megtugre eñ Synden, þa er og lijka hans Huggun maattugre og kroptugre helldurenn øll siw Hrigd og Hørmung, sem kiemur af Syndenne: So ad H. Paall seger þarfyrer til Romveria i 5. Cap. Hvar hellst sem Synden yfergnæfer, þar yfergnæfer Naaden miklu framar, þvi so þocknadest Gude Fødur, ad i HErranum Christo bygge øll Filling, og rijkdoomur Naadarinnar, þar fyrer hefur GUd og sendt hann til ad hugga alla sorgfulla: So sem þar stendur hia Esa. 61. Cap. Og þessvegna er eingen Hrigd eda mootgaangur so stoor, ad vier høfum ecke i HErranum Christo eñ þa stærre Huggun og Hugsvølun þar a moote.

Siidasta Astæda og Bevijsing Postulans Paals hier til, er Dyrd HErrans Christi; vier vitum seger hann, ad lijka sem vier erum ordnir hluttakande Hrigdanna, so munum vier og so verda hluttakande Huggunarinnar. Eingin efi er a þvi ad Rijkdoomur Dyrdar vors

vors Lausnara, er owtseigianlegur: Eñ ecke er þad meiningen, ad hañ sie einasta fyrer sijna eigin Persónu vegsamlegur, og hans Søfnudur hafe eingann hlut i þeirre somu Vegsemd, helldur er hañ upphafenn til sinnar Dyrdar, so sem høfud Safnadarins, uppa þad, ad allir hans Limir, verde hlutakarar hans Dyrdar: Þar fyrer seger Heilagur Paulus i Pistlinum til Eph. I. Cap. Hann er Høfud Safnadarenns, og Filling þess andlega Lijkama, so ad hann uppfille allt i øllum. Hvernin kañ nu nockur Kross, Hormung, edur mootlæte, so mikelfeingleg ad vera i þessum Heime, ad vier høfum ecke stærre Huggun þar a moote, af Dyrd epterkomande Velferdar. 2 Cor. 4. 17. Þarfyrer helldur Heilagur Paulus, Rom. 8. v. 18. Ad Hørmungar þessara tijma, sieu ecke verdugar þeirrar epterkomande Dyrdar, sem vid oss mun opennber verda. Eñ hvernin kunnum vier nw hluttakande ad verda þessarar Huggunar? þar til þiena Fiñ Punctar.

Sa fyrste er sønn Jdran og Þecking Syndanna, þvi an þess, ad Menn þecke sijnar Synder, þa kañ ecke þeirra Hiarta huggad ad verda, so sem Christur seger; Heilbrigder þurfa ecke Læknarans vid, helldur þeir sem siwker eru. Eñ þegar Synden er þeckt, þa sier ein Manneskia, ad hwn hefur sialf med Synd=

Syndunum steipt sier vijsvitande i Hørmungarnar, og kañ þessvegna ecke ad møgla a moote Gude, helldur a moote sijnum eigen Syndum. Hwn sier og so og kannast þar vid, ad GUd giører oss ecke raangt til: Þvi lijka sem Syndin er soddann ein olisian, af hverri aller Meñ eru banvænir ordner, so hitta og einnen þær Mannrauner og Olucka, sem af Syndenne uppspretta, med riettu alla Meñ: Eñ hver sa sem af Hiarta medkienner sijnar Synder fyrer Gude, þeim hinum sama vill GUd senda Huggun af Himnum ofann, so sem vier høfum dæme til a Daniel: Ad þegar hañ medkiende sijnar Synder fyrer Gude, þa sende hann hønum Eingel af Himne til ad hugga hañ.

Annad Medaled er Trwen, sem eins haangir vid HErrann Christum, og Barned vid briooft Moodur sinnar: Ja Trwen er þad sem grijpur um GUds føđurlegt Hiarta og helldur sier fastlega vid þad, vid GUd allrar Huggunar: Hun umfadmar Christum, og sleppir hønum ecke, eins og Jacob sagde fordum: Eg sleppe þier ecke fyrr enn þw hefur blessad mig. J Christo ødlast Trwen Sigur yfer Daudanum, yfer Dioflinum, yfer Heimenum, og allre Olucku. Þvi allt er trwudum møgulegt: Marc. 9. v. 23. Og sa sem

sem trwer, hañ mun siaa GUds Dyrd. Joh. 11. v. 40.

J þridia maata, heyrer hier til Bænen, sem er astudlegt Samtal vid GUd: Þvi so sem angurbitenn Madur fær lietter og hugsvolun i giedinu þar af, þegar hañ þylur rauner sijnar trwum Vin; eins verdur vort Hiarta, ja miklu framar, yferhellt med undrunarlegre Huggun og Hugarfrooa, þegar vier tølum vid GUD, og kiærum fyrer hønum vorar Rauner, so sem þar stendur i Ps. 138.3. Nær eg akalla þig Drottenn, þa bænheyrer þu mig, þu margfalldar Kraptenn i minne Sælu. Bæn sw sem giørder i Nafne JEsu Christi, er lijka sem einn Himna Stige, uñ hvern vier stijgum upp til GUds. Eingenn Bæn kiemur so upp til GUds i hædirnar, ad þar stijge ecke nidur einn Eingell, þad er ein guddoomleg Huggun. Hvert oss verdur i Pijnuñe HErrans Christi afmaalad, og fyrer myndad þar med, ad þegar hañ badst fyrerakaflega, þa kom einn Eingell af Himne og stirkte hann: Þvi GUds dyrmætu Fyrerheit, i hverium hañ lofar oss Bænheirslunne, kunna omøgulega ad slateil.

J fiorda maata, wtheimtest GUds heiløg Lofgiørd, og Æra þar til, ad vier kunnum huggader ad verda. Øll GUds Lofgiørd hefur i sier andlega Glede: Sa sem daglega

lofar GUd og vegsamar, hañ hefur a hende Embætte heilagra Eingla, um̃ hveria oss er vitannlegt, ad þeir siai an aflaats Auglit vors Himneska Fødurs, og pryssa hañ med dyrdlegum Lofsaungum: Og þetta er þeirra hædsta Glede og Fognudur: Og þad Einglabraud hvers þeir neita, hvar af liooft er, ad gudleg Lofgiørd kañ ecke ad vera fyrer utann Glede og Huggun. Hierfyrer seger David i Ps. 34. Alla tijma vil eg lofa Drottenn, hans Lofgiørd skal ætyd vera i mijnum Munne: Mijn Saal skal hroosa sier i Drottne, so þad heyre hinir saurædu, og gledjest. Hier teinger nw David Lofgiørd og Fognud til samans, og kienner oss þad, ad hvert kome af ødru, og haange vid annad.

Ad syduftu er þad hid besta og vissasta Medal til ad ødlast Himneska Huggun, ad Madur heire, lese og yfervegi kostgiæfelega GUds Ord, og giefe giætur ad þvi sem Drottinn talar, þvi til þess er GUds Ord oss giefed, ad vier fyrer Polennmædina og Huggun Ritninganna høfum Vonina, so sem þar stendur i Pistlenum til Romveria 15. Cap.

## Cap. XLIX.

## GUds oraskannlegur Sañleikur og Fyrerheit, sem ecki kunna ad bregdast, eiga ad verka Polinmædi i vorrum Hiørtum.

Mich.

Mich. 7. v. 7.

Eñ eg vil lijta til Drottenns, og byda epter Gude mijns Hialpræbes: MinnGUd mun heyra mig. Gled þig ecke mijn moorſtødu Kona yfer mier, þo eg ligge þar fallenn; Eg mun koma upp aptur; þo eg ſæte enn i myrkre, þa er þo Drottinn mitt Lioos. Eg vil bera Reide Drottenns þvi eg hefe ſyndgaſt a moote hønum, þar til hann dæmir myna Søk, og ſkickar mier Riett, hañ mun leida mig til Lioosſens, ſo eg ſiaæ mijna lyſt i hans Naad, og mijn moorſtødu Kona mun ſia þad, og ſtanda med allre Skøm; hver ed nw ſeger til mijn; hvar er Drottenn þinn GUd.

HJer leſum hia Spaamannenum Jeremiam i 9. Cap. ad fyrer þa Babyloniſku Herleidingu, adur eñ Jeruſalem var i firſta ſinne yferfallenn, Iſraels land eydelagt, og Gidingarnir burtflutter til Babylon i Þrældom og Faangelſe, þa hafe margar vidurſtiggelegar Skammir og leſter haft yferhond hia þeim Lyd, ſo ſem Afgudadyrkan, Otrwſkapur, Lygi, Fals, Fiandſkapur, Hatur, Ofund, og allur Kiærleike hafe vered hia þeim wtſloknn. Hvar ſo geingur til, þa er liooſt ad GUd er burtvikenn fra einum Stad edur Lande, ja alldeilis wr þeirra Hiortum ſem þar bwa; þar fyrer ſeger Spaamadurenn Jeremias

mias so þar um̃ i sama Capitula; Hver einn vare sig vid sijnum Vin, og trwe ecke helld-ur sijnum Brodur; þvi einn Brodurenn nid-urþricker hiñ annann, og eiñ Vinurin svijkur hinn annann. Einn Vinurinn hann prettar hinn annann, og talar ecke neitt satt ord, þeir eru kostgiæfnir um̃ þad, hvernen þeir fæe svik-ed hver annann: Þeirra falsklegar Twngur eru daudleg Skeite, medur sijnum Munne ta-la þeir vinsamlega vid sinn Næwnga, enn i Hiartanu umsitia þeir þañ hinn sama. Med þessum ordum verdur oss synt og fyrer sioon-er sett, ad a þeim tijma hafe soddañ Falskleike og oradvendne vered i Landenu, ad einginn Madur hafe kunnad ødrum ad trwa, og hver einn hafe stundad þar uppa, ad hann kinne ad svijkia, pretta, og asælast sinn Naawnga; og soddan hafe vered orsok til þeirra Fordiorf-unar, Olucku, og Eideleggingar: Þar yfer klagar og einnen Spaamadurenn Micheas i sinnar Bokar 7. Cap. v. 1. 2. segiande: Avi, mier geingur alijka sem þeim Manne, sem sein-ni leit Berianna hefur i Vijngarde, þar mañ finnur einga Vinþrwgu ad eta, og villde þo giarnann hafa funded þann besta Avøxt. Þad Riettlæta Foolked er burt wr Landenu, og þeir riettvijsu eru ecke meir a medal Foolksins, þeir umsitia allir Blood: Og meina sig ad gióra vel þar uti, nær þeir gióra illa. Hver rekur epter ødrum, so hann meige fordiarfa hann;

hann: Hvar ſoddann athafner eru a ferdum, þar erfidar hver ſem buenn er uppa grøf Forðiørfunarinnar, og Oluckunnar, i hveria þeir falla einn epter ødrum. Menn ſkylldu giæta i krijngum ſig hier i Lande, og hyggia ad, hvert þad geingur ecke mootlijka til vor a medal, ad Riettvijſen og Trwſkapurenn eru hvorfenn burtu; og aptur i ſtadenn, hefur Oriettlæte, Ofroomleike, og Flaatſkapur feinged yferhønd; hversvegna ad Oluckan hanger og einnen yfer oss. Gud giæfe vier kynnum ad þeckia og fordaſt ſoddann Vondſku, giora umbreiting a vorum flaaradu, og hatursfullu Hiortum, og elſka Frid og ſannleika: Ef vier a ſtundum ecke ſo ad giora, þa kañ oss ecke hialpad ad verda. Eñ ſo ad goodfws Hiortu, og riettſinnadar manneſkiur, ſem hafa andſtigd a ſoddann Ogudlegleika, ſieu ecke ølldunges huggunarlauſar i þeſſare ſkielfelegu tijd og hættu vooda, ſem yferhanger, þa vilium vier athuga, hvar med þeir ſorgfullu fordum daga, hafa ſig i ſlijkum tilfellum, og mootgaangs anaudum hughreiſt: Pad ſyner oss Spaamadurenn Micheas, þar hañ i framſettum ordum kiemſt ſo ad Orde. Eg vil lijta til Drottins, og bijda epter Gude mijnum Heilſugiafara; og þetta er ſw fyrſta Huggun. Onnur er innefalenn i þvi hañ ſeger: Minn Gud mun bænheira mig. Pa þridiu ſyn-

er hañ med þeſſum Ordum: Gled þig ecke mijn moorſtødu Kona, þo eg ligge fallenn; eg mun koma a fætur aptur. Fiorda er þeſſe: Þo eg ſæte i Myrkre, þa er þo Drottinn mitt Lioos. Fimta: Eg vil bera Reide Drottinns, þvi eg hefe ſyndgaſt a moote hønum: Þar til hann dæmir mijna Søk, og ſkickar mier Riett. Siøtta: Hann mun leida mig til Lioosens, ſo eg ſiae mijna Liſt i hans Riettlæte. Siøunda: Og mijn moorſtødu Kona mun ſiaa þad, og ſtanda med allre Skømm. Vier vilium gaumgiæfa þeſſa Puncta nockud gior.

Fyrſt ſeger Spaamadurenn: Eg vil lijta til Drottins, og bijda epter Gude mijnum Heilſugiafara. J þeſſum ordum er innefalenn Lærdomurenn um Trwna, og Vonina: Hveriar tvær Høfuddygder, eiga ſo ſem tvø vakande Augu; ad mæna Augunum uppa GUd, og horfa a hañ i øllum Mootgange, eins lijka i þeim allra þyngſtu þrautum; þvi þa ſkulum vier lata oſſ koma i hug vora Trwarjatning i hverre vier ſegium. Eg trwe a einn GUd Fødur almattugan, Skapara Himens og Jardar; þad er, eg trwe ad eingen Hørmung edur Eymd ſie ſo ſtoor, ad GUd vilie ecke, eda giete ecke mig fra henne frelſad. Hier af ſkulum vier læra, ad horfa ecke einunges a tijmañlegar Hørmungar, helldur

ur meſtann part ſnwa oſſ fra þeim, og renna vorum augum ſierdeiles til GUDs, ſem alla hialp veiter, bæde a Himni og a Jordu, eptẽr þvi ſem David kiennir i Pſal.123. ſegiande. Til þijn upphef eg mijn Augu, þw ſem byr a Himnum uppe; lijka ſo ſem Augu Þienaranna horfa uppa Hendur ſinna Lanardrottna; og ſo ſem augu Ambattanna,horfa uppa Hendur ſinnar Matmoodur; lijka ſo horfa vor Augu uppa Drottinn vorn GUd, þangad til hann miſkunar oſſ. Vert oſſ miſkunſamur Drottenn, vert oſſ miſkunſamur; þvi ad vier erum bladnir miøg af Forſmaan: Harla miøg er Saala mijn uppfylld af Spotte Drambſamra, og Fyrerlitningu Dramblatra.

Og epter þvi þad er GUds Venia, ad hañ hialpar i tækelegann tijma, þegar hønum ſyneſt, enn ecke einmidt a þeim tymans punct ſem vier vilium, þa ma þetta filgia þar med, ſem Spaamadurinn ſeger; Eg vil bijda GUDS mijns Saalühialpara: Pad er, Trwen og Vonen i Polennmædinni meiga endelega filgiaſt ad. So ſem hinn Heilage David ſijner oſſ og einnen i Pſal.27. þar hañ i Upphafenu huggar ſig vid Trwna a GUd, og ſeger: Drottinn er mijn Upplyſing, og minn Heilſugiafare, fyrer hverium ſkal eg ottaſt, Drottenn hann er minn Lijfſens Kraptur, fyrer hverium ſkyllde eg hræddur vera? og um ſijder endar hañ Pſalminn med Vonenne,

enne, ſegiande: Enn eg vona þad þo, ad eg mune ſiaa Goodſemd Drottenns, a Jørdu lif-andeManna. Byd þuDrottins, vert hrauſt-ur, þitt Hiarta ſie oefad, og byd Drottinns. So og einnen i Pſal. 130. Eg vænte Drott-inns, mijn Saala hun bijdur, og eg vona up-pa hans Ord: Mijn Saala hun bijdur Drott-enns, fra einne Morgun Eiktenne til añarar. Og Drottenn ſegir, fyrer munn Habacuc. 2. Spaadomurenn, þad er Fyrerheited, mun viſſulega uppfillaſt a ſijnum tijma, og viſſu-lega koma i Lioos, og ecke verda ute, og þo hann dvelie, þa bijded hans, þvi hann ſkal viſſulega koma, og ecke teſia. Morg ſorgfull Saala ſeger: Æ eg byd; þad varer ſo lein-ge fyrer mier; eñ hun ſkal vita, ad þad hlyt-ur ſo ad vera, uppa þad, Truen, Vonen, og Polennmæden profeſt. A ſoddann hefur Gud meire þocknan, eñ allre Heimſins Liſt og Vegſemd; og med þvi hañ vill ſo hafa þad, hvarfyrer ſkyllder þu þa ecke med Polennmæ-de giefa þig tilfrids, og byda þar epter? All-er hluter hafa ſitt Uppþaf og Enda, og vilie Madur ecke bijda þar til Tijmeñ hefur ſiñ En-da, ſo verdur þar ecke neitt af. So ſem Ald-ininn og Jurtirnar eru utſettar til ad mæta adſkiliannlegre Oblydu Loptſins og Vind-anna, þangad til þær eru fullvaxnar, og bij-de þær þeſſ tijma, þa verda þær ſætar: Eins lijka

liika sa sem i mootgangenum er kirrlatur, og biidur Endingarinnar, hann ber ur biitum fridsamlegann Avoxt Riettlætesens. Hebr.12. v.11. Þarfyrer seger H. Paall, Rom. 5. v. 5. Vonin lætur ecke til skammar verda; Enn hvar fyrer lætur hwn ecke til skamar verda? Þviad hwn er grundvollud a GUds Ordi, so sem obifannlegu Hellubiarge, og er þessvegna ohrærannleg i allskonar mootlæte; so sem stendur i Psal.25. v.3. Drottinn; einginn verdur sa til skammar sem þiin biidur. Psal. 34. 6. Item, Þeir ed lita til Drottens, og til hans skunda, þeirra Augsion verdur ecke til Vansemdar. Psal. 31. v. 1. Og enn aptur; a þig Drottenn treiste eg, lat mig ecke til skamar verda: Item, Von þess hins Auma, mun ecke glatast æfennlega. Og Syrach seger; Syr. 2. v. 10.11. Eingenn hefur sa til skammar orded, sem vonad hefur a Drottinn. Hver hefur yfergefenn vered, sem i Bodordum Drottens hefur stødugur staded? Edur hver hefur nockurn tijma af hønum forsmaadur vered, sa sem a hann kallad hefur? Þviad Drottinn er naadugur og miskunsamur, og fyrergefur Syndernar, og hialpar i Neidenne.

Aunur Huggun fyrer þa Sorgfullu, er innefalenn i þessum Ordum: Minn GUD mun bænheyra mig: Þad ma vera stor Huggun i voru mootlæte, ad vier vitum, og erum vissir þar um, ad GUd heyrer vorar Bænir.

Drottinn hefur heyrt minn graat; Drottinn hann heyrer mijna beidne; Drottinn hann medtekur mijna Bæn, seger David i Psal. 6. Item; Ps.18. i minne Annaud kalla eg til Drottenns; eg hroopa til mijns GUds, þa bænheyrer hann mijna Raust, af sijnu heilaga Musterе, og mitt Akall kiemur fyrer hans Auglit, hønum til eirna. Item; Psal. 34. Þa sa Fatæke kallade, þa bænheyrde Drottenn hann, og hialpade hønum wt af allre hans Anaud; Augu Drottinns lijta a þa Riettlatu, og hanns Eiru a þeirra kall. So seger og Drottenn i þeim 91. Psalme um̃ þa gudhræddu. Hann hefur lyst til mijn, þarfyrer vil eg frelsa hann, hann þecker mitt Nafn, þarfyrer vil eg vernda hann, hann hroopar til mijn, þvi vil eg bænheyra hann; eg em hia hønum i Neydenne, og eg vil hønum þadann wtrickia, og hann vegsamlegann giøra. Og i Ps.65. stendur so; Þw heyrer Bæna akalled, þarfyrer kiemur allt holld til þijn; heyr þw oss GUd vor Heilsugiafare, þw sem ert Traust allra þeirra, sem a Jørdu eru, og þeirra sem eru langt i burt i Sioarhafenu. Vilier þw nw mitt Barn svara hier til og segia: Þesser Meñ hafa vered heilagt Foolk: En hvad er eg? þa skalltu vita, ad aller Heilager hafa og so af Syndunum fleckader vered, og hafa haft skort a þeirre Hroosan, sem fyrer Gude hefur gilldt. Rom.3.23. Samt hefur GUd bænheyrt þa af siñe Naad, þegar þeir hafa snwed sier til

hans

hans, og ottast hann. Drotteñ er nælægur øllum þeim sem hañ akalla, øllum þeim sem hañ af Alvøru akalla, seger David, Psal.145.v.18. Item, Psal.102.v.18. Hañ aleit Bæn þeirra lijtelmotleg-gu, og forsmade ecke þeirra Andvarpan, so þad verdur ritad uppa epterkomande Kinkvijsler.

Pridia Huggun þeirra mootlættu, er innefalenn i þessum ordum: Gled þig ecke mijn mootstodu Kona, þott eg ligge fallenn, jeg mun komast a fætur aptur. Þott sa glæpa-fulle, og argvijtuge Heimur, sie med þvi sinneslage, ad þegar þeim goodu geingur illa, þa gledur hañ sig þar yfer. Samt mun þeir-ra mootstandare verda til skamar, og ad eingu, þviad Drottinn burtrekur ecke eilijflega. Helld-ur so: Hann hrigger ad vijsu, enn hann tiæ-er sijna Miskunseme aptur, epter sinne mikell-re Miskun. Hañ plaagar og hrigger Mann-enn, ecke wt af Hiarta, seger Jeremias i sijns Harmag. 3.Cap. v.31. Og heilagur Paall i sijns sirra Pistels til Cor. 10. Cap. Gud er trwr, og lætur ydur ecke freistast, yfer þad þier kun-ed ad bera, helldur giører hann þann enda a Freistinguñe ad þier giered vel stadest. Dagle-ga sie Drottiñ lofadur, hañ leggur þwnga a oss, enn hann hialpar oss og einnen, vier høfum einn Gud sem hiaalpar, og þann Drottinn Drottinn, sem fra Daudanum frelsar, seger David. Psal.68.v.21. Item; Psal.30.v.12. Mijn-um Sorgargraat hefur þw snwed i Dans,

þw hefur minn Hrigdar Seck i sundurslited og umgirdt mig med Føgnude. Og eñ aptur, Psal.145. v.14. Drottinn hann stidur alla þa sem falla, og reiser þa upp alla sem nidur eru sleignir. Og hia Esa.54. v.8. seger Gud. Eg hefe mitt Andlit a Aagabragde Reidinnar um̃ lijtenn tijma fyrer þier huled, enn med eilijfre Miskunseme mun eg þier miskunsamur vera. Goodgirne Drottinns er þad, ad vier erum ecke øldungis wtgiørder, hans Miskunseme hefur eingann enda, helldur er hwn nij hvern Morgun seger Jeremias i sijns Harmagrats 3. Cap. v.22.

Fiorda Huggun i Spaamannsins ordum hliodar þannig: Þo eg sæte i Myrkre, þa er þo Drottenn mitt Lioos. Þegar Hormung og mootlæte uppafallur, þa er so sem þar sie þickt Myrkur yfer runned; þa þeckia Mannsinns eigenn Vinir hann naumlega; þa wtslockuar øll veralldleg Huggun; þa situr Madurinn i dimmum Skugga Daudans, Foraktsens og Smaanarinnar. J þessum Myrkrum hræra sig øll Villudyr, Lioon, Birner, iller Andar, og vonder Menn: Eingu ad sijdur er þo Drottinn sinna Barna Lioos, sem sitia i þvilijkum hrigdar Skugga: Gud lætur sitt Naadar Lioos skijna i soddann Myrkre, og gledur sijn Børn i Hørmungenne, so ad þau midt i sijnum Raunum þeckia Guds Misk-

miskunsamlega Nærveru: So sem David vottar i Psal.97. 11. Hinum Riettlaata upprennar Liooseð, og Føgnudurenn i Hiörtum þeirra froomu. Item, Psal.112. v.4. Riettferdugum upprennur Liooseð i Myrkrunum, af þeim hinum nadarsamlega, miskunsama og riettlaata.

Þa fimtu Huggun siina þesse Orð. Eg vil bera Reide Drottens, þvi eg hefe syndgast a moote hønum, þar til hann dæmir miina Søk og giørir mier Riett. Þo ad vier høfum þad ecke forskulldad af vorum ovilldarmønnum, ad þeir giøre oss illa til, þa høfum vier þad þo af Gude forþienad, ad Mootlæteð kome yfer oss: Þarfyrer kallast þad Reide Drottins: Þar fyrer skalltu vita, ad allt þad vonda, sem Mennerner giøra hier, er Reide Drottinns. Sæll er sa sem þolennmodur er i Ossoknum og Mootgaange, og medtekur þad ecke ødruviise, helldur eñ sier sie þad af Gude sendt, og uppalagt. Sæll er sa Madur seger David, Psal. 94. v. 12. 13. Sem þu agar Drottinn, og mentar i þiinu Løgmaale, so ad hann hafe Þolennmæde nær ed a moote geingur, allt þar til ad þeim ogudlega verdur Grøf buen: Og Jeremias kemst so ad orde i hans Harmagrats 3. Cap. v. 26. ꝛc. Þad er Manninum gott, ad hann sitie einmanna, og þeigiande, nær ed nockud yfer hann geingur, so ad hann stiinge siinum Munne i moldar Dupt,

og vænte uppa Vonina, og lœte slœ sig so uppa Kinnvœngann, og bad hønum sie mikel Forsman tilløgd. Epterdœme uppa soddan, hofum vier a David, hañ gaf ad merkia, ad hañ villde giarnan bera Reide Drottiñs, fyrer saker sinna Synda, med þvi hann kannadest vid þad, ad sw mijnkun og vanvirda, være fra Gude send sem Simei giørde hønum: Þar fyrer seger hañ so, 2. Sam. 15. v. 25. 26. Ef eg finn Náad fyrer Augum Drottinns, þa mun hann leida mig heim aptur, enn ef hann seger til mijn, mier þocknast þw ecke, þa er eg hier, giøre hann vid mig sem hønum þocknast.

Siøtta Huggun er þesse. Hann mun leida mig til Lioosens, og eg mun siaa mijna Lyst i hans Riettlæte. Þetta orda tiltæke hefur sijn Drøg, af þeim sem hafa seted i Myrkrum, hverium forgleimt hefur vered, so sem daudum manne, og verdur umsijder wtleiddur af myrkranna Fangelse i Lioosed. Þvi lijka so sem einn þvilijkur madur, sa eckert annad sirrum, enn Sorg og Myrkur, eñ sier nw aptur, sier til glede og unadsemdar þann dyrdlega Himen, og Lioos Soolarennar: So er þvi og so vared med Mootlæte og Hørmungar, ad þegar þær eru afstadnar, þa frambrunar sa fagre himneske Glans gudlegrar Huggunar, so ad Madur sier þa sijna lyst a GUds Hialp og Miskunseme. So gieck þad til

til fyrer Joseph, sem lesa ma i Gen. 42. Cap. Hvad ypparlegt Lioos rann hønum upp þegar Myrkur hanns Hørmunga voru afstaden, David hafde og sama slags Lucku: Hvad vegsamlegur Kongur vard hañ, þegar Myrkur hans wtlegdar høfdu enda? hvad agiætlega vel færde Gud hann til Lioosins? allt eins mun þad ganga til a dege doomsins, og þad i stærsta fullkomlegleika, þegar Gud mun wtleida oss af Daudans myrkre, og færa oss til Lioosens; þa munum vier sia vora Lyst a hans Miskunseme.

Siounda Huggun er þesse. Mijn moot stødu Kona mun þad siaa, og standa med allre Skøm. Þetta eru riettferdug Verdlaun allra vondra Manna, sem gledia sig af annara manna Olucku, ad þeir munu umsijder standa med Skøm, og þeirra eiged Hiarta mun giora þa til skammar, og yfer bevijsa þeim, ad þeir hafe illa giort. Hversu maatte Simei um sijder skamast fyrer David, og hans Sijne Salomon? Þw skallt ecke hæda mann, i Beiskleika sinnar Saxlar, þvi þar er einn sem bæde kann ad niðurþrickia, og upphefia seger Syrach 28. Þeir sem fagna, þegar goodum Mønnum geingur illa, munu i Snørunne faangader verda, Hiartans Angur mun forteræra þeim adur enn þeir deya. Og H. Paall seger 2.Tess. 1. v. 6. 7. um þa froomu og trwudu, sem

sem hier meiga lyda, og verda spottadir. Pad er riet hia Gude ad endurgialldа þeim Hørmung, sem ydur Hørmung veita: Enn ydur sem Hørmung lydед, Hvylld. Peir meiga endelega umsijder verda til skamar sem hata Sion, ja optlega munu þeir hier i þessum Heime til skamar verda. Peir munu forgaanga sem snijellen, sem dodnar nidur, og fa enda med skielfingu, seger David i Psal. 58.

## Cap. L.

# Um Vonena, Hvernin og hvarfyrer hwn lætur ecki til skamar verda: Item, Hvernin hwn verde profud i lijkamlegum og andlegum Freistingum.

### Esa. 49.

Pw munt þad Reina, ad eg em Drottenn, a hverium þad ecke til skammar verda þeir sem uppa mig vona.

SO sem Trwin er ecki annad, en obifanlegt Trwnadartraust, um Naad GUds, sem fyrerheitenn er i JEsu Christo, hvarmed Madurenn helldur sig vid GUd, og innlijfar sig hønum af øllum hug og hiarta? Eins er og lijka Vonin stødug bidlund, og þolennmodleg Eptervæntan þess sem madur trwer, ellegar ad Madur med Polennmæde bijdur epter þvi sem hann trwer, og er þvi ecke annad en þolenn-

þolennmod, stødug, og vonarfull Trw allt til Enda.

Um þessa Von talar H. Paall til Rom. 5 Cap. ad hwn verde ecke til Skammar. Orsøkin hier til er þesse, ad hwn hefur oraskannlegann Grundvoll, sem er GUd sialfur, þarfyrer kann hwn ecke til skammar verda: Þesse Grundvollurenn er stødugur, eilijfur, og oraskannlegur, þarfyrer er og einnin sa Fridur og Fognudur, sw Rooseme, sw Huggun og Æra eilijf, sem uppa hann er bigd, og kann eingenn hana so mikelega ad hrella, ad hwn kunni ecke ad fa anægelegann Frid og Huggun þar a moote, af sijnu ohræranlegu Hellubiarge, sem hwn helldur sier vid; og þo ad Stormur og illvidre kome uppa, þa hrædest hwn þo ecke, þvi hwn er grundvølllud a einu Hellubiarge. Matth. 7. v. 25.

Med þvi Vonnin hefur einn stødugann, og oraskannlegann Grundvøll, sem ecke bifast, enn aller stundleger Hluter eru ostøduger, þa stundar hwn ecke epter tijmannlegre Velgeingne, Æru, Glede og Lofstijr, helldur hefur hwn alla sijna Unadsemd, og epterlæte i einum Gude, og hroosar sier i Drottni, þar finnur hwn stødugann Frid og Rooseme; so ad David seger i Psal. 125. v. 1. 2. Þeir sem vona uppa Drottinn, skulu ecke falla, helldur skulu þeir æfennlega blijfa, sem fialled Zion: Þar

eru

eru Fiøll um̄hverfis Jerusalem, og Drottiñ er i kringum sitt foolk. Eñ þeir sem hafa tijmanlega Hlute, Æru, Lucku, Rijkdoom, og Gledi, fyrer Grundvøll sinnar Vonar, þeir meiga alltijd lifa i Otta, Sorg, og Angist, og vera footskør Veralldarinnar, velkiast med østødugre Lucku, sem siooar bilgiur hingad og þangad, og hafa ecke Frid nie Roo, leingur enn Heimuriñ, og hans Villdarmeñ vilia. Stødugleike þessarar Vonar, mun i Krossinum reindur verda, þvi Freistingen synir þad, hveria Von og Traust einn hefur, og þa leidest þad optlega i Lioos, ad vier setium ecke vora Von uppa sialfann GUd, helldur uppa hans Gaafur, og Luckuna; og høfum so vora Bigging Grundvallada a sande, ja giørum skapadar Skiepnur ad einum Gude. So er vor blinda og fordiarfada Naattwra raangsnwenn, ad hwn lijmer sig vid Skiepnurnar, og haangir af þeim, fyrer hveriar hwn atte þo ad laata vijsa sier Leid til Skaparanns; þvi til þess veitir GUd Mønnunum tymannlega Lucku og Velgeingni, ad þeir med soddann moote hefiest i Himenenn, og sæke epter þeim, sem slijkt veiter, sem er GUd sialfur; lære ad þeckia hann, elska hann, ottast hann, heidra hann, og uppa hann einn ad setia alla sijna Von og Traust. Enn sw spillta Naattwra er so blind, ad hwn

hallast

hallast einasta ad Gaafunum, sem eitt Svijn til þess ohreina þrecks, og gleimer þeim ollduunges sem þær giefed hefur. Þessvegna hlytur GUD, ad leggia uppa oss Krossburd mootlætis og Hærmungar, og taka so aptur fra oss Skiepnurnar, so ad vier lærum ad vona uppa hann einn, hann ad þeckia, heidra og vegsama; ja ad vijsu, af þvi ad vier optlega þikiustum vera nocktud, sialfer, af þeim Þotta sem i oss rijker, og treistum uppa vora Formegan, Krapt, og Gaafur. Þessvegna leggur GUD a oss miked mootlæte; hann hlytur hartnær ad sundurkremia oss, giøra oss ad eingu, audmijkia oss, pressa fra oss alla Heimsinns Elsku, og taka oss fra oss sialfum, so hann aptur i stadenn, giefe oss Sialfann Sig til eignar og eigenndooms, enn þad kann ecke ad skie, firrenn hann hefur ollddunges burtteked og eidelagt vora Sialfs Elsku, og þa Von og Traust sem vier høfum a sialfum oss, og vorum eigenn kroptum, þvi eckert er motstædelegra hans Naad, enn þetta, þarfyrer er Vonen ein strydande Dygd, sem þreiter Orlog vid þad Traust, er vier høfum a sialfum oss, a vorum Gaafum, vorre Forþienustu, Froomleika, Vegsemd, Velgeingne; Uppheſd og rijkedæme. Vid þessa holldgudu Diøfla strijder Vonen sysielldlega, og kappkostar fra þeim ad sleppa, so

so hwn kunne ad skilja sier i Gude einum, og hafa alla sijna Roo og undadsemd i honum.

So horfer þa Vonen, asamt med Trwnne og Kiærleikanum uppa GUd alleina, so sem þad Mid og merke a hvert hwn stefner; hver hann villest fra þessare Stefnu, og vonar uppa nockud annad, eda hefur nockurt Hiatraust a ødru, enn Gude alleina, hann vonar og stoolar uppa þad sem ecke er neitt; þvi aller hluter eru eckert fyrer utann GUd, og er þvi sw Von tøpud. Þarfyrer eru þessar þriaar Dygder, Trwen, Vonin, og Kiærleikurinn, ad øllu leite andlegar, hafande ecke neitt jardneskt i sier; þær halla sier ad þvi osynelega, og stunda einasta epter þvi: Allar eru þær sege eg andlegar, og hafa GUd fyrer sinn Grundvøll, og halla sig alleina ad hønum, so ad H. Paall seger þessvegna til Rom. 8. v.24. Vonen sem siest, er ecke Von, eda hversu kunum vier þess ad vona sem vier siaum? Hver hellst sem setur sijna Von og Traust a þad synelega, hann hefur ecke þann osynelega GUD fyrer Grundvøll sinnar Vonar, helldur þad sem ecke er utan Skugge, þar fyrer hlytur hans Von ad forganga med Heimenum, og ad eingu verda. Þessvegna skal Madur bera samann tijmann vid eilifdina, so hann kunne riett adskilia, hvernin þeirre Saaluhiaalplegu Von sie hattad, og þeirre stadfø-

stadføstu Rooseme. Eiliifden er oumskipteleg, þvi i henne eru eingar Umbreitingar, eñ i tijmanum verda Umskipte og Billtingar. Epter Dagenn kiemur Nootten, epter Vikurnar Maanudurenn, epter Maanudena Ared, og epter Veturenn Swmared; ja sialfur Himeninn er ecke eitt Augnablik kirr og hefur sijnar Velltur og umbreitingar, og þvi kañ eingin Rooseme ad vera i tijmannlegum hlutum: Allir hluter meiga vijkia burt med tijmanum, og allt hvad tijmanum er undergiefed, þad forgeingur, þar fyrer eru allir tijmannleger hluter forgeingeleger: Enn i eilijfdene alleina er stødug Hvijld og Roo, epter hverre ad stunda bæde vonder og gooder, enn eingen ødlast hana, utann þeir, sem afneita sialfum sier i Christo, sem er sw eilijfa Hvijld.

Skule vor Von vera hrein og riettskickud, þa hlytur hwn ad proofast, hverted skiedur med þvi moote, ad GUd burtricker sijnum Gaafum, (uppa hveriar Madurenn stoolar) og tekur þær i burtu, jafnvel þær allra bestu; so ad vor Von verde aldeilis hrein, og snwe sier til GUds alleina. Hier af kiemur þad, ad GUd lætur Mannenn opt og tijdum ecke finna sijna Naad i þungum Freistingum, so ad Madurenn kann ecke ad fornema, eda verda var vid, nockud annad, eñ þad sem strijd-

er þvert a moote Voninne; eckert ad sia og merkia, utann GUds brennande Grimd og Reide, so þad syneſt so sem ad eins Von sie aulldunges ute: (Yfer hveriu Jeremias klagar, i; siins Harmag. 3. og 4. Cap.) og so sem GUd hafe alldeiles yfergiefed oſſ; og ma so Madurenn vona, hvar ecke syneſt ad vera epter neinu ad vænta, og trwa uppa Von, a moote Von, Rom.4.v.18. so sem skrifad er ad Abraham hafe giort: Ja hañ ma, so ad segia, afklædaſt med Christo, verda nakenn, og yfergefeñ; ecke einaſta af Mońunum, helldur og einnen af sialfum Gude; ma so klaga og segia af Psal. 22. v. 1. 8. Aller sem mig saau hæddu ad mier: GUd minn, GUd minn, þvi hefur þw yfergefed mig?

J ødrum Dreingingum prooovaſt alleina, Þolenmæden, Audmyktenn, Bænen og Kiærleikurenn; eñ i Samvitskunar Freiſtingum, verdur Vonen og so reind og proovud. J þeirre þwngu Baraattu verdur Madurenn fyrdtur øllum siinum Gaafum, eñ verdur þo ei ad siidur med Vonenne Coronadur, sem alldrei lætur til skammar verda: Þvi þo ad þar kunne ſtundum ad finnaſt hia einum, i so haaum Freiſtingum, Knurr, Oþolenmæde, og ogiæteleg ord i bland, so sem vier høfum dæme til a Job og Jeremia; þa uppvekur þo GUd

GUd hia honum, þa Andvarpan, sem mootseger soddann ofolennmæde, hatar hana, og stryder henne a moot, bidur og einnen um̃ kvittun, ad hwn meige fyrergiefenn verda, og þar med frelsast Madurenn; so sem þegar Elldebrande verdur kiptur logande bæle; edur eitt Eyra wr Lionsens gine, epter þvi sem Zacharias Cap.3. og Amos 2 Cap. komast; soddann ma og ecke helldur Orvænting kallast, epter þvi þad skiedur a moote eins vilia, og þvi verdur med andvarpan i mootsagt; helldur er þetta hin allra hardasta reinsla, og þyngsta Freisting Vonarennar. Og þær andvarpaner sem þa tilfalla, eru þær oseigiannlegu Andvarpaner, sem Heilagur Paall minnest a i Pist. til Rom. 8. Cap. v.26. Og hverier hellst þeim uppstynia, og þær af sier giefa, eru hiner hellstu a medal þeirra heiløgu, og langtum naakomnare, og kiærare Gude, helldur enn þeir dramblaatu Andar, sem setia alla sijna Von uppa sialfa sig, og eru þar med hinar stærstu Gudlastarar med allre siñe Æru og Vegsemd. Eñ þeir sem stryda i Vonenne so sem adur er sagt, þeir eru GUds elskulegustu Børn, so sem siaa maa afdæme Jobs og Davids, og verda so sem Gull hreinsader og klaarer giorder: Þeir rickiast fra sijnum eigen Gaafum, og sinne eigen Vegsemd, og færast inn i

Gud, sem þeim er betre eñ allar þeirra eigenn Gaafur, og Hroos, og verdur so ecke neitt epter, hvar af Mannsins Hofmoodur kunne ad hroosa sier. Þegar Madurenn er nu þannin fyrdtur sialfum sier, þa lærer hañ ad vona ecke uppa nockurn hlut annann enn Gud alleina, hvern hañ kañ ecke ad missa, þvi þegar aller hlutir verda fra Mannenum i Hørmungunum tekner, þa kann þo Gud ecke fra oss ad takast; ja take þeir fra oss vort Lijf, Gooz, Æru, Konu og Børn; þa skeitum vier ecke þar um, þeir kunna ecke meira ad giora, Guds ryke bijhølldum vier þo: Hørmungarnar kunna ecke ad taka Gud fra oss, helldur færa þær oss til Guds, og giefa oss hañ aptur: Med soddann moote vidhelldur Vonen oss i Krossenum, og þessvegna kann hun ecke til skamar ad verda. So sem Saalen er komen alnaken fra Gude, so hlytur hun ad koma aptur til Guds alsber, snaud, og toom af elsku skapadra hluta, þvi sa sem fellur fra sialfum sier, og fra øllum skøpudum Skiepnum, hvar skyllde hann annarstadar lenda, en i Hende Guds, sem hefur i sier alla hlute, og umspenner allann Heimenn? Hver hellst sem kvedur Heimenn, og hefur einga Elsku til sialfs sins, og ecke til neinnra skapadra Skiepna, þad er, hangir ecke i sijnu

Hiar-

Hiarta vid nockra Skiepnu, helldur er frials og frij og giefur sig ølldunges Gude avalld, og lætur hañ giefa, og taka burt epter sinne Velþoknan; hann fellur, og innflytur i sialfann GUd, hafnar sig, og herbergiar i honum og i hans milldu Hond. Enn hverier hellst sem blijfa i sialfum sier, og i skøpudum Skiepnum, þad er, þioona sijnum eigenn Vilia, og Tilhneigingum, eñ eru ecke til Frids med GUds vilia, þeir fyrerfarast i skøpudum Skiepnum, og i sialfum sier.

# Cap. LI.

# Huggun a moot Veikleika Trwarinnar.

Esa. 42. v. 3.

Þann brækada Reirenn mun hann ecke i sundurbrioota, og þann lijtt logandi Lijnkveikenn ecke wtsløckva.

Þetta er ein ypparleg Huggun a moote Trwarennar Veikleika, hveria Spaamadurenn innebindur i tveimur Samlijkingum; þa fyrre tekur hañ af einum mørdum Reirlegg, med hvern Madur hlytur ad fara miwklega, og lempelega, ef hañ skal ecke brotna i sundur; so høndlar og einnen GUD med vora veiku og veigalitlu Trw miøg miwklega: Þvi

so sem einn riwkande Horkveikur, kann aud-velldlega ad sløkna; ef Vindurenn a hañ blæs: so Madur hlytur ad fara med hañ miked stille-lega, ef hañ skal brenna og lijsa: Eins gior-er Drottenn vor JEsus Christur, sem veit af vorum Ostirkleika, hañ hefur vid oss hægu-stu Stilling og Temprun, hañ tendrar vorn Trwarneista, med hoogværasta Ablæstre sijns sæta Anda, og blæs ad hønum med hægum Vind-blær sijns munns, so hañ giøre oss ecke vanmattugre i vorum Veikleika, helldur end-urnære oss. Esa.57. v.15. Og af þvi ad þesse Veikleike og ostirkur Trwarennar, er ein stoor Freisting, med hveria aller Christnir menn eiga ordugt, þo ad sumum falle þad þo enn þijngra eñ sumum, þarfyrer hefur H. Ande lated uppteikna i GUds orde eina nija og krøpt-uga Huggun a moote henne, hveria vier eig-um vel ad hugfesta, so ad vier gietum hana heilsusamlega brwkad, a þeim tijma, þegar Stryded Freistinganna hreifer sier.

Fyrst er þad gaumgiæfelega athugande, ad Trwen er ecke vort, helldur sialfs GUds eiged Verk. Joh.6.29.44. Þad er Guds verk, sagde Christur, ad þier trwed a þann, sem hann hefur sendt. Eingenn gietur til mijn komest, nema Faderenn sem mig sende drage hann. Vier trwum epter Verkun hans vollduga Styrkleika, seger H. Paall, Eph.1. v.19. Og enn

enn aptur, þier erud af Naadenne Saalu-holpner fyrer Trwna, og þad ecke af ydur sialfum; þad er GUds gaafa, eñ ecke af Verk-unum. Eph.2.v.8. J Pistlinum til Hebræos 12. Cap. stendur so, Lꜳtum oss hlaupa fyrer Polennmædina i þa Orustu sem oss er tilstick-ud, og lyta til JEsum þess Uppbiriara og Full-komnara Trwarennar: Og til Romanos 15. Cap. seger Postulenn: Kiærleike GUds er wt-helltur i vor Hiørtu fyrer H. Anda, sem oss er giefenn; og enn aptur; Rom. 8. v.26. Vier høfum frwmtøk Andans, sem hialpar vorum Ostirkleika. Nw af þvi ad Trwen er Verk GUds i oss, eñ ecke vort eiged, þa er þad ecke i voru vallde hversu sterk edur veik hwn skule vera: So sem GUd hefur oss tilsagt, ad hañ villde giøra oss holpna fyrer Trwna, so veit hann og einnen hvad Trwnne byrie ad vera sterkre, med hverre vier skulum høndla Saalu-hialpena; hañ vill og giefa oss hana þar til nægelega, þar fyrer sagde vor HErra til S. Paals, 2.Cor.12.v.9. Lꜳt þier nægiast mijna Naad: Þvi Madurenn kann eckert til sijn ad taka, nema hønum sie giefed þad af Himne. Joh.3. v.27.

J annann maata kunnum vier ecke i þessu Lijfe ad na Fullkomlegleikanum; allt hvad vier tøkum oss fyrer, þad er med oss o-fullkomed; og þad vegna þeirrar diwpu Spill-

ingar og Blindleika vorrar Naattwru, og uppa þad vort Andvaraleise og þad leida Dramb kunne i oss ad dempast. Hier a heima þad sem H. Paall seger i Pistlenum til Phil. 3. Cap. v. 12. Ecke þad, eg hafe þad þegar høndlad, edur eg sie þegar fullkomenn, eñ eg skunda þar epter, hvert ad eg giære þad einnen høndlad, epter þvi ad eg em af Christo JEsu høndladur. So sem hann segde: Þo eg hafe ecke so duganlega Trw, ad eg kunni Christum sialfann ad høndla, so sem ber; þa em eg þo af hønum høndladur, og inntekenn, þad er, eg er i Christo JEsu fyrer Trwna. Faai eg hann ei griped so fastlega sem mier byriade, þa hefur hann þo høndlad mig. Med þessu skulum vier nw hugga ossi vorum Breiskleika, og vera til Frids med hann, þangad til ad vier ødlustum Fullkomlegleikann.

J þridia maata vil GUd ecke afvirda edur fyrerlijta vora veika Trw, helldur alijtur hann hana naadarsamlega, stirker hana, eflir hana, og giefur henne farsælann Ender. Uppa þetta Efne, høfum vier gaaumgiæfelega þessar epterfilgiande gullvægu Greiner ad athuga.

Esa. 42. 3. Þann marda Reiren mun hann ecke i sundurbriota, og þann lijtlogande Lijnkveikenn mun hann ecke wtsløckva.

Esa. 25. 4. Þw ert Styrkleikur lijtel magnans, Styrkleikurhins Vesæla i Hørmunginne, Skiool fyrer Stormvidrenu, Skuggi fyrer Ofurhitanum.

Esa. 35. 3. 4. Styrked lwnar hendur, og endurlijfged þaug veikludu Knie, seged þeim efabløndnu Hiørtum, vered hrauster i Huggannum, og vered ei otta slegnir, siaed, ydar Gud kiemur og mun hialpa ydur.

Esa. 40. v. 29. 31. Hann giefur Þreittum Krapt, og Styrkleiknogann þeim vanmattugu.

Esa. 50. v. 4. Drottenn, Drottenn hefur giefed mier lærda Twngu, so ad eg vite i riettann tijma ad tala vid þa sem mæddir eru.

Esa. 57. 15. Eg vil lijfga Andann hinna Lijtelaatu og hiørtun þeirra i Sundurmørdu.

Esa. 61. 1. 2. Hann hefur sendt mig til ad predika Voludum, ad leggia vid þaug sundurknosudu Hiørtu, og ad eg huggade alla Harmþrwngna. Hier a einnin heijma þad sem stendur Ex. 34. 26. Þw skallt ecke matgiøra Kided a medann þad er a sinne Moodurs Mioolk. Þad er, þa nyfviknudu mioolkur Trw, skalltu ecke hneixla edur fordiarfa. Sw hin sterka Trw kann þad vel ad umbera, þott hwn sie sodenn og steikt, hwn kann ad þola Elld og Vatn; enn med þa veiku mioolkur Trw verdur ad fara mijked vægelega, sem einn marenn Reirlegg, so hann brotne ei wtaf. Þar fyrer seger Drottenn, Jer. 31. v. 25. Eg vil endurnæra þær þreittu Saalernar, og

sedia allar þær Saaler sem hwngradar eru. Þeir sem ad kannast þar vid ad þeir sieu veik-er i Trwnne, þeir eru andlega volader, um̃ hveria skrifad stendr'r hia Matth.5.Cap. Sæl-er eru volader i Anda. Hvilijker Menn eru þeir hiner siwku, sem Drottenn læknar, um̃ hveria stendur hia Matth.9.Cap. v.12. Heil-brigder þurfa ecke Læknarans vid, helldur þeir sem siwker eru, item seger H.Paall, Rom. 14. v.1. Þann sem breiskur er i Trwnne, þa anneist, ecke til esasamra Samrædna. Þeim sem breisker eru, er eg ordenn sem være eg Breiskur, so ad eg vinne hina Breisku, 1.Cor. 9. v.22. seger Drottenn, Eg vil græda þad hid lemstrada, og styrkia þad hid Vanfæra. Ezech.34. v.4. Item, Þann sem til mijn kiemur, mun eg ei wtreka. Joh.6. 37.

Þesse huggunarfullu Fyrerheit, eiga all-er veiktrwader ad sier ad fadma, og þad fyrer vijst ad hallda, ad GUd sie bæde trwr og san̄ ordur, og ad hann laate vissulega verda raun a sijnum Fyrerheitum, þvi hans Ord eru sønn, og hans Lofaner eru obrigdannlegar. Sama slags eru og einnen Epterdæme þeirra, sem i Trwnne hafe vered veiker; medal hver-ra ad var Fader þess Twnglssiwka; vid hvern þa HErrann Christur sagde, Marc.9.23.24. Ef þw gietur trwad, allt er þeim trwudu møgulegt. Enn hann hroopade upp graat-ande,

ande, Herra, eg trwe, enn hiaalpa þw minne Vantrw: Og Drottenn hiaalpade hans Breiskleika: So giørde hann og einnen vid Konungs Mannsinns veika og veigalitla Trw. Joh. 4. v. 47. Item vid Læresveinanna veika Trw, þegar þeir voru i Skipenu; Matth. 8. v. 24. so og lijka Petrus, þa hann ottadest ad hañ munde søckva i Siooenn, eñ Drottenn riette ad hønum sijna Hønd. Matth. 14. v. 31. Þessvegna aminnir Heilagur Paulus, 1. Thess. 5. 14. segiande: Hugged þa Lijtel sigldu, annest þa sem Breiskver eru, vered vid alla Þolennmooder.

J fiorda maata, vill GUD bera mesta Uñhiggiu fyrer þeim, sem veiktrwader eru; Þeir heilbrigdu þurfa ecke Læknarans vid. Hann stillst vid þa niju og niju tiju i Eidemørku, og fer ad leita epter þeim tijnda Saud þangad til hann finnur hann. Luc. 15. 4. So sem Mædurnar eru Vanar ad bera mestu Ummhiggiu fyrer þeim Børnum, sem eru veik og vanfær, so giorir GUD og einnen vid þa sem Veiktrwader eru.

J fimta maata; ef þw villt segia, eg fiñ hartnær alldeiles einga Trw i mier; þa spir eg þig ad, hvert þw villder þo ecke giarnañ trwa? finner þw soddann i þier, þa er þad og so ein Trw, þvi GUD hlytur og so ad verka viliann i oss: Hver hellst sem hefur Girnd til þess ad trwa

trwa, hañ finnur vissulega i sier GUds verkan, og hefur þa huggunarrijku Von, ad GUd sem Viliann hafe giefed, mune og einnen Megned og mœttenn giefa. Phil. 2.

J siøtta maata alijtur GUd med blijdu og hijru Auglite, Ofk og Epterlaungun þeirra trwudu, so ad eckert Andvarp þess Hiarta, sem þiaad er og þiakad skiedur til onytes. Gyrnd þeirra fœtœku heyrer þw Drottenn, þeirra Hiarta veit vissulega, ad þitt Eyra hyggur þar ad, seger David, Psal. 10. v. 17. Hier af ma þad raada, ad so stoor sem þw villder ad þijn Trw være fyrer Gude; so stoor er hwn i hans Auglite, þvi GUd alijtur Hiartad og Nijrun, Jer. 17. 10. hañ i giegnum skodar Andana, og rannsakar Hiørtun og Nijrun. Af þvi hann hefur Lyst til mijn, seger Drottenn, vil eg frelsa hann. Psal. 91, 14.

So er þad þa i siøunda maata langtum betra, ad hroosa sier af Breiskleika Trwarennar, helldur enn af hennar Stirkleika, þvi GUd lagar þad so til, ad vier skulum ecke falla i Hofmood. Minn Kraptur er i Breiskum mœttugur seger Drottenn; þarfyrer tekur H. Paall so til orda, 2. Cor. 12. v. 9. Þarfyrer vil eg sem fegnastur hroosa mier, af mijnum Breiskleika, so ad Kraptur Christi bygge medur mier. Epter þessu meiga þeir aller hyra sem veiktrwader eru.

J attunda maata er ein veik og oſtirk Trw, og ſo einn Trw, þvi ſaaluhialp vor og Sæla, haangir ecke af Virdugleika vorrar Trwar, hvert helldur hwn er ſterk edur veik, helldur af Herranum Chriſto; hvern Trw-en hondlar, og ad ſier fadmar, þvi ſo ſem lijted og vanmattugt Barn kañ ad hallda a einne dyrmætre Perlu, i ſinne veiku og krapta-litlu Hond, ſem einn oflugur Kappe; ſo hondlar og umfadmar veik Trw, þann allra dyrmætaſta fieſiod vorra Saalna JEſum Chriſtum, med allre hans Forþienuſtu, eige ſijdur enn ſw Trw, ſem er hin ſterkaſta: Sa veiktrwade hefur fyrer Chriſtum i ſier, þad ſama riettlæte, og Saaluhiaalp, ſem hin ſterk-trwade hefur. Og ſo ſem Augnaſteinnenn er einn lytelfiorlegur hlutur, enn kann þo ad ta-ka a moote Lioома og geitſlum Soolarinnar, nær hwn geingur ſem hædſt a Himnenum: Ja Siaalldred gietur teked a mote ſialfre Soolunne, hver morgum ſinnum er ſtærre enn oll Verollden; ſo kann og Auga Trw-arinnar, hverſu ſem þad er veikt og lijtelfior-legt, ad hondla Riettlætes ſolena JEſum Chriſtum, med allre ſiñe Leiptran, og lioom-ande rijkdooms Giædum.

J nijunda maata er þad Trwarennar Art og Venia, ad hwn er ecke alltijd eins ſtirk, helldur

helldur optlega veik og breisk; ja pad er so ad siaa stundum, sem Trwarennar Lioos sie alldeiles i oss wtslokad, so sem siaa maa af Dæmum þeirra heilogu: Jafnvel þo ad Abraham være Fader allra trwadra, þa var hann þo hrædдur þar um, ad þeir Egyptsku mundu slaa sig i hel, fyrersaker hans Kvinnu Sara. Gen. 12. Pad var og Breiskleike Mosis, ad hann efadest hia mootmæles Vatnenu. David var stundum Sterkur i Trwnne, eins og hann være til Himens upphafenn; en stundum so veikur og magnlaus, so sem honum læge vid ad fara nidur i Helvijte, og klagade yfer þvi, ad honum være burt skwfad fra GUds Auglite. Psal. 31. 23. Jafnvel þo Trwen sie veik og lijtelfiorleg, þa kann Madur þo ecke þar af ad slwtta, ad hann hafe einga Trw, eda sie af Gude yfergiefenn. Lijka sem vier kunnum ecke strax ad alikta og dæma, ad þar sie enginn Elldur i Oskunne, þott hann giefe eckert Skin edur Varma fra sier; ellegar þar sie eingenn Lijfsfriofgun i Eykinne, af þvi hwn um Vetrar dagenn stendur ber og skolloott. J sama maata kunnum vier ecke helldur ad alikta, ad þar sie eingin Trw i einum, þott hwn laate ecke alltijd siaa sig; Þvi Ande Drottens blæs sem einn Vindur, þegar hann vill, og þar hann vill. Joh. 3. 8.

J ti-

J tiunda maata; þegar þar verdur kvartad yfer Trwarennar Ostirkleika, og vanmætte, þa kann Madur ad skinia, ad þar er ein striidande Trw, sem hin rietta Trw, þviad i Manninum er siifellt Stryd, a millum Trwarennar og Vantrwarennar. Trwen reiner þar Orlog vid siina Ovine, og ver sig fyrer mørgum Freistinnganna Sverdum. Pad geingur ecke af fyrer utann stoora Mædu og Baagende, þegar þad jardneska Hiarta, a ad samteingiast vid Christum, og ofrioofsamur Akur vid þad himneska Sæded; þegar þaug megnu Myrkur vorrar fordiarfadrar Naattwru, eiga ad umfadma Liooſed, þa vill Hollded hlaupa þann gallda veg, og drottna yfer Andanum, og Myrkrenn vilia þa dempa Liooſed. Yfer þessare Barattu hafa aller þeir heilogu klagad, og er soddann Stryd viist Teikn, til saunrar Trwar; þvi hvarølldunges eingenn Trw er, þar finst og ecke helldur neitt Stryd. Og ma þad vera vor Huggun, ad Gud i soddann Naud, vill ecke taka Høndina af oss, eda lata oss freistast framyfer Megn, helldur mune hann a Freistingunne þann Enda giøra, ad vier gietum vel stadest. 1.Cor.10. 13. HErrann giefur þeim þreittu Krapt, og Stirkleik nogann þeim vanmattugu seger Esajas, Esa. 40. v. 29.

J ellef-

J elleftu Grein er þad merkiande, ef vier i vorum Vanmætte og Breiskleika þeinkium til Christum, og hugfestum hans Velgiørnyn-ga, þa er hann vissulega hia oss, ja byr i oss fyrer Trwna, þvi hañ seger; Ex. 20. J hveri-um þeim stad, sem eg set Minning mijns Nafns, þangad vil eg koma til þijn og blessa þig. So erum vier og einnen hønum innplantader, lijka sem þvi lifanda Vyntrie, Joh. 15. 1. og dreg-um af hønum til vor Lijf og Vøkvan, og lif-um i Christo. Vor Trw, Lijf og Kraptur, er foolged med Christo i Gude: Col. 3. v. 5. Par um vitnar og so H. Andi i vorum Hiort-um fyrer Huggun, Frid og Glede; Lika sem i Gamla Testamentinu hefur eingenn sa Spaa-madur vered, sem ecke hetur heyrt GUd vid sig tala: So er þar og eingen Christenn-madur sa i nya Testamentinu, sem ecke heyrt JEsum Christum i sijnu eigenn Hiarta tal-ande, og ecke finne Smurning H. Anda i sier. Pesse Eining a millum HErrans Christum og vorrar Trwar, er so sterk, ad hwn kann hverke af Daudanum nie Dioflenum ad sund-urlosast, af þvi Christur, hvers Lijf Trwen hefur i sier, er odaudlegur; og þo þw kunn-er ecke alltijd slijkt i þier ad formerkia, þa er þad þo obrigdult, ad hañ er meire sem i þier er, helldur enn sa sem i Heimenum er. 1. Joh. 4. v. 4.

J tolf-

. J tolfta maata skulum vier i vorum Trw-
ar Veikleika, lijta til vors eilijfa Endurlausn-
ara, og ypparsta Biskups JEsum Christ-
um, sem hefur sialfum sier offrad a Krossen-
um fyrer oss, og bidur fyrer vorre Trw: So
sem hann sagde til Petrum; Eg bad fyrer
þier, ad þijn Trw skillde ecke þrotna, Luc. 22.
v.32. Hañ riette og einnen ad hønum sijna
naadarryku almættes Hønd, þegar hann æt-
lade ad sockva a Sioonum; hia Joh. 17. Cap.
bidur hann fyrer øllum sijnum, og seger:
Fader, helga þw þa i þijnum Sannleika: Eñ
eg bid ei alleinasta fyrer þeim, (sem voru Po-
stularnir) helldur og einnen fyrer þeim, sem
trwa munu, fyrer þeirra Ord, a mitt Nafn.
Þar fyrer stendur so i Pistlenum til Hebræos
5. Cap. Vier høfum ecke þann, sem ecke kann
ad sampijnast vorum Breiskleika, helldur freist-
adann a allann haatt, lijka sem vier, þo an
Syndar, hver ad er til GUds hægre Handar
og bidur fyrer oss; Vid hans Medalgaungu
meiga aller veiktrwader stirkia sig, og byda
epter Avertenum med sterkre Von, og stødu-
gu Trwnadar trauste.

J þrettanda maata, skulum vier i vor-
um Breiskleika, hugga oss vid GUDS
Miskunseme, sem er outseigiaunlega stoor,
ja, so stoor sem hann er sialfur, þarfyrer a
eingenn uñ hana ad efast, þvi hans Miskun-
nn seme

seme er ein undanngangande, ein epterkomande, ja, ein umfadmande, og æfarande Naad og Miskunseme, hverrar Gud hefur eingum nockurn tijma siniad. Safnest þvi saman þier daudleger Menn, sem vited ydur Trwarveika ad vera, og flickest i hans Miskunar fadm; þar finned þier Styrk og Hressing: Þar faed þier þad rietta Ynde, og frijest fra øllu Angre, so sem Barned sem hvylest vid briost Moodur sinnar.

I fiortandu grein, skulum vier og so huggast þar vid, ad Gud, sa sem i oss hefur uppbyriad Trwna, hañ same hefur lofad af Naad siñe hana ad fullkomna, allt a þañ dag JEsu Christi. Þar fyrer mun hañ vissulega tilreida, styrkia, stadfesta, og grundvalla oss. Vier verdum vardveitter af Krapte Guds til sæluhialpar fyrer Trwna, so ad vier berum wr bytum Avøxt Trwarennar, sem er eilijf Velferd vorra sælna; og þañ sama tilgang hefur Gud haft, þegar hañ uppbiriade i oss Trwna. Pad er Guds almættes Kraptur, ad hañ kañ oss til fullkomlegleikans ad færa: Þarfyrer kallar Paall i Pistlenum til Hebræos. JEsum, ecke ad eins, Upphafs mañ Trwarennar, helldur og einnen hennar Fullkomnara. Og Christur seger hia Johannem 10. Cap. Einginn skal grijpa mina Saude wr minne Hende.

I fimt-

J fimtanda maata, hefur GUd þessveg-
na tilskickad so morg Medol, fyrer hver Trw-
en skule i oss stirkiast, og vidhaldast, sem er
Orded, Sacramentinn, og Bænin: Þetta
er vor sijfelld Bæn: Drottinn auk þw oss
Trwna, Luc. 17. 5. Drottenn hialpa þw vorre
Vantrw; Marc. 9. 24. GUd hefur og einnen
þvi lofad, ad hañ villde oss bænheyra; Hann
hefur lofad ad giefa þeim ollum H. Ande, sem
um hann bidia: Luc. 11. 13. Andinn hialpar
og einnen vorum Breiskleik;. ja allur vor
Christenndoomur hnijgur þar ad, ad vier
stirkiustum, og vardveitustum i Trwnne.

J sijdasta maata, er vor Trw grundvoll-
ud, a GUds eilijfre Fyrerhiggiu og Wtvalnin-
gu, epter þvi sem H. Paall seger, Rom. 8. 30.
Hveria hann hefur Fyrerhugad, þa somu hef-
ur hann Riettlæta giort. Item GUd hefur
utvaled oss i Trwnne Sannleikans. 2. Tess. 2. 13.
Þar fyrer, lattu ecke Ostirkleika þinnar Trw-
ar ofmiog sturla þig: Nær þw þeinker, ad
þw hafer aldeiles einga Trw, og ad þijn Trw,
sie hin allra veikasta, þa er Christur nær
þier, eñ þw meinar. So sem hañ var mi-
og naalægur Lærisveinunum, þegar þeir vo-
ru staddir i siaafar-haska, so er hañ hia siin-
um alla daga, allt til veralldarinnar enda.
Matth. 28. v. 20.

# Cap. LII.

## Undervijsun um̃ þær þwngu og skadlegu Freistingar, og hvernin Meñ eigi i þeim ad skicka sier.

### Esa. 48.

**Eg vil giøra þig wtvalenn, i Ofne Fœrtæk arinnar.**

FYrst eigum vier ad hallda þad fyrer vyst/ ad øll Hrigd Saalarinnar kome af Gude. Þvi so stendur i 1.Sam.2. Drottenn deyder og lijfgar/fœrer nidur til Helvijtes/og þadañ aptur/ Þetta Helvijte/ i hvert GUd færir Manneñ/ er sierdeilis sw andlega Hrigd og Huggunar leise Saalarinnar: Þvi lijka so sem i sialfu Helvijte þeirra fordœmdu/ er einga Huggun ad faa/ so er þar og ecke helldur/ um̃ stund og tijma/ i þvi andlega Helvijte/ neina merki annlega Huggun ad finna. J þessare Angest/ þiker Saalunne so sem hwn vanmegnest/ og falle i sialfann Daudann/ og ad allar Skiepnur sieu sier mootstædelegar/ og aklage sig; kallar þvi upp med David i Psal. 77. v. 3. Saala mijn vill sig ecke hugga laata. Allir hlutir hversa fra einum/ og draga sig i hlie/ bæde GUds Ord/ og GUd sialfur/ og þetta er þad Helvijte i hvert GUd færer Saalena; þa

þa er eckert annad hollara af ad raada, enn ad umbera slijkt med Þogn og Kirrlæte, og af innsta hiartans grunne ad harma og kveina, med oumrædelegum Andvørpunum; so er þa mikel Angurseme Saalarinnar, ad hwn gietur ecke þeinkt, hverke um̃ GUd, nie hans Ord, þvi aller Trwariñar Kraptar forgaanga, og sialfur Madurenn dodnar i soddann Þiaaning, og misser allt megn, sem einn Snijell; Og ef GUd hiellde ecke Mannenum vid i soddann neid, med sijnu heimuglegu Orde og krapte, þa hlyte hann hastarlega ad gaanga til gruns, fyrerfarast, og verda ad eingu. J þesse Helvijte hefur og vor Drottenn JEsus Christur vered, þegar hañ tok til ad hriggiast, skialfa, og þreita vid Daudann, og hans Sveite vard sem Bloddropar; Þetta Helvijte er langtum stærre Angest, enn sialfur Daudenn; ja Madurenn i soddann Kvalræde æsker sier Daudans, so sem sinnar Glede, Frelsis og Lausnar. Hversu opt oskade Job þess, ad hañ mætte deya? Vor Drottenn JEsus Christur sveittist Blodenu i þessare Angist, hvad hann ecke giorde i sialfum Daudanum. J þessare Helvijtes Anaud hroopade vor Herra upp segiande; GUd minn, GUd minn, hvar fyrer hefur þw yfergiefed mig? þa var øll Huggun i burtu: Eingu ad sijdur var þo

GUd hia honum i þessare Helvijtes Angest, og hiellt honum vid magt. Og voru þad ecke stoor Undur, ad HErrann Christur i sinne Helvijtes Angest kunne ecke ad faa edur finna nockra Huggun; jafnvel þo hañ være vid GUd samteingdur; ja þo hañ være sialfur GUd i eigenn persónu, þvi hann var bæde GUd og Madur: samt byrgde GUd sig, og sijna Huggun so diwpt nidur fyrer honum, ad hann sa hverke nie fann, epter Manndoomenum, nockra Hugsvølun. Og hafe HErrann Christur, sem var personulega samteingdur þeim eilijfa Guddome, og smurdur med þvi ypparsta Gledennar Vidsmiore, ratad i soddann Hørmung; hvad er þa ad furda sig yfer þvi, þott soddann Angest yferfalle opt og tijdum einfalda, auma, og vesæla Manneskiu? Og med þvi, allt hvad oss tilfellur, hefur adur tilfalled vorum Endurlausnara JEsu Christo, sem er vort Høfud; þa er þad ecke otilheirelegt, ad Limerner kienne a þvi hinu sama: Og þar af maattu og so þeckia, ad þw ert Sannur Christi Limur, hans Samlags broder, og tilheingiare i Hørmungunum. J þessu Helvijte var sa Froome Kongur Ezechias staddur, þa hann sagde, Es. 38. v. 14. eg tijste sem Tranan, og stunde sem Dwfan; og hinn sæle Job; þar hann so ad orde

orde kiemst i sinnar Bokar 30.Cap. Kalle eg til þijn, þa bænheyrer þu mig ecke, gaange eg fram̄ þa alijtur þu mig ecke. Og eñ aptur; þo eg hroope til hans, og hann heyre mitt Kall, þa truͤe eg þo ad hann bænheyre ecke mijna Raust. Yfer þvi sama klagar og einn-hinn H. David i Psal. 6. 13. 38. og ødrum fleirum, og syner hvernen hann og adrer GUds Astvinir hafe Stridt og barest vid þessa Hel-vijtes Angest: Um̄ þad hid sama vitna og einnen, þeir undarlegu Giedsmunir og Hrær-ingar, bæde i Job og David. Stundum efast þeir og truͤa þvi ecke, ad GUd mune frelsa þa; Stundum laata þeir sijna Von i Lioose, ad GUd mune koma þeim til hiaalpar. Hollds-leg manneskia sem ecke hefur reint neitt sodd-ann, helldur lifad i Andvaraleise, og haft gooda daga, kann ecke ad skilia þvilijkt, so sem siaa ma af Dæme Jobs Vina, sem dæmdu illa um̄ allt þad sem Job talade, þvi þeir fun-du ecke til þess, sem hañ, hvad hardlega Skoor-enn klemde; þeir feingu þad ecke skiled, hver-nin hattad var þeim stooru Olldum og Vatns bilgium, sem geingu inn ad hanns Saalu. J þvilijkre Neyd søckur Madur so diuͤpt nid-ur i diuͤp Vantruͤarinnar, ad hann kann ecke sialfur hana ad formerkia: Ja aller Krapt-ar Truͤarinnar dragast þa samann, so sem i einn punct, og i eina outseigiannlega Andvarp-

an, i hverre Trwen, er þo sialfum Mannenum ovitande, birgd og hulen: Þesse hulda og leinda Trw, er þa Mannenum, Vantrw, Helviite, og viislarfære; gietur þarfyrer ecke trwad þessu Helviite, ad Gud sie sier naadugur, helldur seger: Æ hvad giarnañ villda eg trwa ef GUD villde giefa mier siina Naad þar til: So kañ ecke helldur GUds Ord ad hugga (a) einn fyrer

en

(a) Þetta segest ecke i þeirre meiningu, ad Skriftenn hafe misst sinn Krapt, helldur ad Freistingarnar eru so stoorar, ad þær hindra Manninn, so hann kañ ecke ad finna og formerkia krapt GUds Orda: Og verdur hier ecke talad um̃ almennelegan Kross og Freistingar, helldur um þær þyngstu Freistingar, i hverium øll Huggun dvijnar, og Madurenn af Sorg og kvalræde ratar i so stora hiartans Angist, ad hann kann þvi ecke ad trwa ad GUd sie hønum naadugur, og heyre siina Graatbeidne; þa vill Huggunen, sem oss er synd i GUds orde, ecke so fliott finna stad i voru Hiarta, þad kann ei fyrer Angestar saker hana ad umfadma, þar til Illvidred er umlided, og þaug þickvu Sky greidast i sundur, so sem Valerius Herberger seger. Þa viikur øll Hugsvølun burt ur voru Hiarta, allar Huggunarrijkar greiner, sem vier høfum heyrt i Kyrkiunne, þorna upp sem Vatn, og eingen Kroptug grein vill þa nema stadar hia oss. Enn innann lijtels tijma, upprennur Sool Riettlætesens, IEsus Christur aptur fyrer vorum myrkvu Hiortum, og huggar oss, so ad vier siaum ad nyu GUds Naad, og vor Hiortu gledia

eñ þetta Ovedur er wte og hia lided. Þa lætur GUd Mannin sia siñ Faafeingelegleika, og ad Madurenn er af sialfum sier, alldeiles ecke neitt, og ma aulldunges ecke ætla uppa nockra siina burde: Ecke ad sidur lætur GUd sig sia af þeim sama Manne, so sem aleingdar, i þeim heimuglegu, huldu, og outseigiannlegu Andvorpunum: Med soddann moote verdur Mannenum hallded vid magt. Nw þo ad Menn, i þessu Helviite, Angest og Kvalrædi verde optlega oþolennmoder; ja þeinkejafnvel, og tale þad, sem Gude er til Vanæru, og hans Dyrd sneidelegt, þa tilreiknar GUd þeim þad þo ecke, þvi þad skiedur fyrer utann þeirra Vilia og Asetning; og af þvi ad slijkt er ein hin hardasta reinsla, (b) hvar

 med

gledia sig. Varrenius: Hier a þad og einnen heima sem Doctor Lutherus seger i einum stad: Jafnvel þo eiñ i Velgeingnenne, kunne ad hafa gnægd af huggunar greinum Ritningarinnar, so han kunne ad underviisa øllum Heimenum þar med; þa vill þad þo heita odruviise, þegar Freistingarnar storma uppa; þa kann vel ad skie, ef ad GUd sialfur kiemur ecke til ad hugsvala vorum Hiortum, añad hvert sialfur eda fyrer einn Mann, þa sie þad allt gleimt sem vier høfum heyrt, og Skip vorrar Velferdar forgange.

(b) Ad viisu er þad Synd, þegar slijker vonder Þanckar eda ord falla til hia einum; en þad tilreiknast

hon

med GUd hreinsar einn og faagar af Synd-
enne; ja, þvi eingenn GUds Børn eru heilag-
re, eda honum kiærare, eñ þeir sem meiga wt-
standa soddann Reinslu og Tiptan, so sem liost
er af Dæmum Jobs og Jeremiæ. Med sodd-
an moote læra Menn ad þeckia Trwarennar
Art og Naattwru i þeim rietta Schola; enn
þeir vansiśnu orkvisar og krossflyendur, sem
Heilager þikiast, meina ad þeir kunne fyrer
utann Sorg og Hørmungar hafa sterka Trw,
þott þeir gaange a Roosum, og hvijle sig a
Dwnbedium; enn þeir pretta sialfa sig; þvi
fyrer margar Hørmungar hliootum vier inn
ad gaanga i GUds Rijke, a medal hverra
Hørmunga, ad er og einnen þesse Freisting,
sem mørgum til vill; vier skulum leggia i miñe
þa

honum þo ecke, med þvi honum er soddann ogied-
fellt, strijder þar i moot, og flyr til Christum fyrer
Trwna. D. Lutherus. Vier meigum oteæpt lijda
Freistingar af Dioflenum, einkum þeir sem høndla
med þad andlega, ef þeir eru añars sterker i Christ-
enndomenum. Enn sokum þess soddann Freisting-
ar falla Mañinum til, þvert a moote hans vilia, og
vier villdum giarnann vera an þeirra, þa kunna þær
oss eingann skada ad giora. Annars eru þeir von-
du Þankar og ord, sem einum tilfalla moote hans
vilia, ecke sialf Reinslan; helldur er Freistingen,
sem hneyppir Manninn i slijka hina hædstu Troppu,
Oþolennmædinnar, Reinslan.

þa ypparlegu Malsgrein Jeremiæ, af hans Harmagraats 3. Cap. þar hann seger: Drotten i burtrekur ecke eilijflega; helldur so, Hann hriggir ad vijsu, enn hann tiaxer sina Miskunseme aptur, epter sinne mikellre Miskun, þvi hann plaagar og hriggir Manninn, ecke wt af Hiarta. Lær þessvegna fyrst, þw GUds Barn, ad Drottenn hefur vel hrigt þig, enn hañ vill ecke burtskwfa þier æfennlega.

Nw kant þw ad segia: Þeir þankar sem eg ma plaagast med, eru ecke af Gude, helldur af Satan: Þad er ad sönu vijst; eñ þad er aptur i sama maata og so vijst, ad Satan kañ ekkert ad giora fyrer utan GUds Tillaatseme. Gef giætur ad dæme HErrans Christi, og set þier þad fyrer augu: GUd leid þad, ad hañ skill- de freistadur verda af Disflenum, so lydur hann þad og einnen, ad hañ maa freista þijn: Þaug ord, og þær gloande Pijlur, med hver- jum Satan villde Skada Christum, voru ecke GUds, helldur af sialfum Andskotanum, epter GUds Leife, þo hafde GUd lated Satan þad epter, ad koma frañ med þau, og giefed hönum leife þar til, annars hefde hañ ecke kunnad neitt i þvi ad giora, hversu frañsws og akafur hañ var þartil: Jafnvel þo HErrann Christur hlite allt þetta ad lijda, þa var

hann

hañ þo eingu ad ſijdur GUds elſkulegur Sonur/ og Satan kunne hønum med ſijnum elldlegum Skeitum eingann Skaada ad giøra, jafnvel þo hønum være eptergiefed, ad færa hann med ſier hijngad og þangad i lofftenu. J ſama maata munu Satans glooande Skeite/ ſem umfliwga, þier eingann ſkada giøra, i þijnum ſaaluhialpar efnum. Diøfulleñ plaagade og ſo Job, fyrer GUds Tillaatſeme, og jook hønum ſtoor Harmkvæle bæde wtvortis a Lijkamanum, og innvortis a Saalunne, ſo ad hann þar fyrer af oþolennmæde bølvade ſijnum Fædingardeige; ecke ad ſijdur var GUD hia hønum, og hiellt hønum vid makt; þarfyrer ſeger hann ſo i ſinnar Bokar 10. Cap. Þo þw dilier þetta Drottenn i þijnu Hiarta, þa veit eg ſamt ad þw minneſt þeſſ, og ad þw muner ecke gleima mier. Þegar þw mitt Barn ert nw viſſ ordenn um̃ þa riettu Uppraas til ſoddann Hrigdar, þa kant þw vel ad nema orſakernar, hvarfyrer ad þetta ſkiedur. Satt er þad; þegar GUds ord tekur til ad hafa ſiñ rietta Smeck i vorum Hiørtum, þa finnum vier i oſſ oſeigiannlega Huggun, Føgnud og Glede, og ſoddann guddomleg Hugar-hreſſing, geingur langt yfer alla Heimſens Glede/ og Heilagleik: Þvi þeſſe Gladværd vors Anda, er ſmeckur eilijfs Lijfs, ſem uppſprettur af ſannre og lifande þeckingu JEſu Chriſti/

fyrer hveria vier faaum þeckt GUds födurlega Hiarta, og hans brennandi Kiærleika, hver ad er hinn allra ununarsamlegaste, og slecknar alldrei, helldur er hann eilijfur, so sem GUd sialfur er eilijfur. Eñ þegar vier finnum nw og formerkium þraalega soddañ Huggun, þa kañ vor fordiarfada Naattwra, vegna siins eigenn Vanmaattar og Breiskleika, ecke ad fara riett med so haar og himneskar Gaafur; hwn kañ ecke ad skicka sier tilbærelega i soddann Epterlæte, helldur tekur hwn til ad þikiast mikel, so sem Madurenn fyrer slijka Huggun og Gaafur være betre enn aller ader: Mannsens fraaleitt Sinne inbirlar sier, ad GUd hafe begafad hann framar øllum ødrum, og adrer sieu þar a moote lijtells eda einskes verder; og þar med fellur Madurenn i andlegann Hofmod og Drambseme, yfergiefur þa riettu Uppsprettu til allra soddann himneskra gafna, og leggur so sialfum sier til Vegsemdina. Soddann Vanart kañ GUd ecke hia oss ad lijda, med þvi hwn er miog skadsamleg, og stendur i vege fyrer vorri Umvendan og Saaluhialp: Þarfyrer tekur hañ fra oss aptur slijka Huggun, og allt hvad vier høfum Glede og Unadsemd af, og birger sig so diwpt nidur fyrer oss, ad vier hverke siaum, heyrum eda finnum nockud af hønum i voru

Hiarta,

Hiarta, og lætur oss sijdann, so sem reika og raasa midt a mille Himens og Helvijtes; so ad vier fyrer saker so stoorrar Angistar vitum ecke hvert vier skulum hallda wt, eda iñ, vier vitum ecke hvert vier trwum, eda ecke trwum, hvert vier vonum, eda hofum alldeiles einga Von, hvert vier hofum GUD reidann eda naadugann, ja, hvert vier erum lifande, eda stadder i sialfum Daudanum. Þetta skiedur nw þegar gudleg Huggun, vijkur i burtu ur vorum Hiortum: Hvert ed wtmaalad verdur i ollum 88da Psalmi Davids, eñ þo sierdeiles i þeim 31.hvar Psalmistinn kiemst so ad orde. *Eg sagde i minne Efaseme, eg em burtdrifenn fra þijnum Augum, enn þw heirder þo Rødd minnar Bænar, þa eg kallade til þijn.* Þegar GUD burttekur nw þannig um vissann tijma, sijna þeckiannlega Huggun, so ad vier finnum þa alldeiles eckert, nie formerkium til GUds og hans Naadar, þa er oss þad breiskum Manneskium laangtum naudsynlegra, enn oll Heimsins Vegsemd og Epterlæte, jafnvel þo vorri Naattwru falle þad næsta þwngt. Þvi i soddann er Kvol og Pijna yfer alla Pijnu, sem kañ ad koma yfer eina Manneskiu i þessu lijfe, og þo er hwn næsta nytsamleg og gagnleg, þvi ad i soddann Freistinganna Ellde, og Hiartans Angest, lærer Madur ri-

ettele-

ettelega ad audmykia sialfann sig, riettelega ad umvenda sier, og Heimenn riettelega ad forakta, og ad snwa sier fra øllum skopudum Skiepnum, fra øllum siinum eigenn Gaafum, og øllum forgeingelegum hlutum; af þvi Madurenn sier þa liooslega, ad i þeim er eingen sønn og stadfastleg Huggun fyrer Saalena. Og jafnvel þo Hiartad Mannsins klemest so af Helviites Hrygd og Angist, ad þad kann ecke ad upplipta sier til GUds, so filgir þar þo alltijd med, eitt heilagt og heimuglegt Vein og Kvein, Kvak, Stun, og þraa, sem er stoor hiartans-laungun epter Gude og hans Naad, sem siiner og sannar hvad ypparlega godur ad GUd sie, og ad fyrer utann hann sie ecke ad finna neina sanna og støduga Huggun, hvert ad er og so þad hellsta sem vier eigum ad læra i þessum Heime, þvi sa sem ecke hefur Þecking a þvi, hann veit ecke hvad GUd og Christur er. GUd giæfe ad vier kinnum þessa formyrkvan gudlegrar Huggunar, og reinslu ofn Trwarinnar, Gude til Æru, enn oss til outseiganlegs gagns og nota, viliuglega ad medtaka og wtstanda, so munum vier sia undur yfer undur; þviad ein Manneskia sem med soddann reinslu ellde er hreinsud og bliffur so stødug i siinum Hreinleika, hwn er þad gooda Gullid, sem eingenn elldur, eckert Vatn, ein-

einginn Bode edur Olucka, ja hverke Daud-enn nie Dioſullenn kann ad ſkada; og ſodd-ann einn reindur Madur, veit þar epter riette-lega ſier ad hegda og ſkicka, bæde i Medlæte og Mootlæte; Hann kann ad ſia ſig vid Bijle og efaſeme i Kroſſenum, ſem og hofmodugum Giedsmunum, þegar allt leikur i linde: Hañ kann ad varaſt, ad hafa Velþoknan a ſialfum ſier og ſijnum Gaafum, enn i øllum hlutum, ad giefa giætur ad Uppſprettu alls Goods, ſem er Gllð ſialfur, reikna hans bleſſadan Vilia alleina, hvert hann kann ad vera ſæt-ur eda ſwr, fyrer ſijna hædſtu Luckn og Him-narike, og hafa ſo ſijna einka Glede, Unun, og Roo, alleina i Gudi ſialfum, hvert þad blæs med edur moote.

So er þa hin ſtærſta Naudſyn, ad vier aumer Jardarmarkar, bidiunn framar um krapta til ad vera þolennmoder, og gefa oſſ aldeiles under Gllds Vilia, i þeſſum ſmelting-ar og reinſlu ofne, helldur enn vier faaum fliota Hiaalp og Frijun þar fra, þvi vier høf-um ſtora Þørf a þvi, ad vier i Elde Motlæt-inganna verdum hreinſader, og Skwm og Skarn vorrar vondſku, ſem er innvortes Drambſeme, Agirnd, Hatur, Loſtaſeme, og adrer þvilijker Leſter, mættu burtbrenna, og mættum vier ſo ſtirckiaſt i þvi, ad ſtanda ſtød-uger

uger i allre Reinslu og Freistingum, og i øllum efnum, ad giefa oss faangna under GUds Vilia. Eñ med þvi, vier erum þar til af oss sialfum ofveiker og vanmaattuger, og vilium ecke giarnann wtstanda soddann reinslu skrwfun, þarfyrer bidium vier optlega firr um Lausn og Frijun, enn vier erum ordner vel heiter og varmir i Proovaninne; og þar sem GUD hielldе oss þralega ecke føstum, i þessum mootlætinganna ofne, þvert a moote vorum Vilia, þa værum vier vel til frids, ad umflija alla reinslu, og skeittum ecke neitt um þad, hvert vier yrdum smellter og hreinsader, edur ecke. J soddann tilfelle skickum vier oss, lijka sem saavÿs Børn, sem ecke vilia laata þvo sier, helldur hlaupa burt, jafnvel þo þau sieu øll Ohrein og af saurendum illa verkud: Enn GUd sier langtum betur, hvad oss er haglegt og gagnlegt, enn sialfer vier, þarfyrer hefur hañ wrskurdad Hormunganna tijma yfer oss, og hvad leinge hañ skule vara, þar til hanns Vilie a osser fullkomnadur: Þarfyrer skulum vier framar bidia GUD um Þolennmæde i Krossenum, eñ ad vier verdum alldunges frijer fra hønum.

So ma þad og einnen vera vor Huggun, ad vier erum visser þar um, ad GUd umsijder vill efalaust frelsa oss fra Kvolenne, þvi þad

er vissulega GUds ord, og eilijfur Sannleike, ad Drottenn hrigger ad sonnu, eñ hañ miskunar sig aptur yfer oss, epter siñe stooru Miskunseme. Þesse og aunnur þvilijk GUds Ord skalltu opt itreka i þijnu Hiarta, og er þad langtum naudsynlegra, enn ad þw lærer þar ad auke margar Skriftarennar greinir fyrer utann; eñ þar liggur stoor makt a, ad þw umþeinker, yferveiger og a Hiartad leggir, þa grein i H. Ritningu, eina edur adra, sem hellst snertir sokena og þijn Efne, þvi nær þw trwer einne GUds Lofun og Fyrerheite, edur setur þitt Traust til þess, þa trwer þw sijdann øllum ødrum, og kant ad finna i þeim Huggun og Hugarhressing. Lærdu og so þañ 88 Psalm. Davids, og bid GUD med þeim Bænarordum, sem þar standa, og muntu sia liooslega, hvernen þitt Hiarta er i honum afmaalad. Þw skallt og vita, ad þeir hafa vered i Heimenum fyrer þig, sem hafa med sømu Saalar og Helvijtes Angist klemder vered, og hefur GUd ei ad sijdur frelsad þa wr Kvølunum, so sem næst epterfilgiande Psalmur Attatugaste og Niunde audsyner. Eg vil, seger David, af Miskunseme Drottens singia eilijflega. Þetta hid sama mun og einnen a þier framkoma og sannast: Hvar uppa þw matt fillelega þig reida, og trwa mijnum ordum

um i þessu. Sa orolege Ande Diofullenn, sem plagar Hiortu GUds Barna, hefur fra upphafe Veralldarinnar giert þeim froomu a-raaser med sijnum elldlegu skeitum, eñ þeir hafa alltijd þar a mote, af Gude huggader vered. Pad er saart og þwngt ad dragast med soddann gloande Pijlur, þegar Satan, sa riette Ovinur vorra Saalna, plaagar og kvelur eins manns Hiarta med Otta, Skielfingu, Angist, Ohþolenmæde, heimuglegre Gudloßtun, Efaseme, Vantrw, og vondum Paunkum, sem kvikna i Hiarta Mannsins, lijka sem sa olgusioor, sem lætur ecke af ad uppvellta bilgium og baarum einne epter adra, so þad fossar eitt Dixped hier fram, annad Dixped þar fram; Ps. 42. 8. nw hrædsla, nw Hrigd, nw Skielfing, ovtlega so stoor, ad eingeñ skopud Skiepna kann Manneskiuna ad hugga, sw vijda Verolld er henne ofþraung, og þad sem gledur og kiæter adra, þad giorer ei annad eñ hrigger eiñ freistadann Mañ, og Heimurenn allur, med ollu sijnu Epterlæte er honum eintomes Sorg. Ja GUd sialfur er honum mootstædelegur og skielfelegur, yfer hverju Job klagar i sinnar Bokar 7.Cap. einkum þegar Samvitska eins manns seger til hans: Dw hefur einga Hialp hia Gude: Enn þar er þo Raad og lækning vid, og eingenn betre
 enn

enn þeſſe, ad þw giorer ſem Job, David, og aller Heilager hafa giört i hvilijkum Hörmungum. Fyrſt ad þw umberer þijnar Mannraunir, þar til GUD lietter þeim af þier, og laater þennann Storm gaanga yfer, ſegiande med Michea Spaamanne: Mich. 7. v. 9. Eg vil bera Reide Drottens, þviad eg hefe ſyndgad a moote hønum, þangad til eg hefe ſied hans Riettlæte: Þvi hvern ſem GUD vill hrella, þan̄ ſama kan̄ eingenn Madur ad gledia: Enn hann ſem ſært hefur, ma viſſulega lækna aptur; han̄ ſem fært hefur til Helvijtes, mæ færa þadann aptur; hann ſem deyder mæ einnen Lijfed aptur giefa.

J annann maata, ſkalltu ecke i ſlijkre ſaalar Neyd og Angeſt ſkipta þier af Doomum Veralldarinnar, ſem Job, er fieck af þvi ſtoora Freiſting, ad hans Vinir fordæmdu han̄, ecke helldur ſkallt þw giefa vakt ordum þeſſ huggunarlauſa Anda Dioſulſens, eda ſkeita um þad ſem þitt eiged ſaavyſt Hiarta, þijn Samvitſka, þitt Holld, og Blood, ſeger; Þvi þar ſem þitt eiged Hiarta fordæmer þig, þa er þo GUD meire enn þitt Hiarta, ſem Johannes ſeger, Joh. 3. v. 20. Ja, meire en̄ Heimurenn, og aller Dioflar. Enn þw ſkallt helldur hluſta epter þvi og hugfeſta þad, ſem ſialfur GUD ſeger um̃ ſoddan̄ Veſælinga: Eſ. 66. 2. Til hvers ſkal eg lijta, nema til þeſſ faatæka, og

og þess, sem sundutmarenn Anda hefur. Og i ødrum stad; Eg vil prova þig i Eymdaña Ofne. Cap. 48. v. 10.

J þridia maata, skulum vier sia oss um̃ og athuga, hvert þar hafe ecke og so sirrum vered slijkar eymdum hladnar Manneskiur, og hvert GUd hefur ecke og so komed þeim til hiaalpar: Hversu aumkunarlega kveinar David og klagar i Psalm. 13. v. 1. segiande: Hversu leinge villtu Drottenn forgleima mier þannenn med øllu? Enn munde Drottenn nockud gleima hønum i hans Neyd? langt særre, þvi hañ seger, jeg treiste þar uppa, ad þw so miskunsamur ert, mitt Hiarta þad gledur sig i þijnu Hiaalpræde. J Psalm. 77. 10. klagar hann þannig: Hefur GUd þa gleimt þvi ad vera naadugur, hefur hann sijna Miskunseme fyrer reidesaker innebirgt. Eñ munde GUd lata hann æfennlega blijfa i soddann Hørmungum? Ney: Þvi hann seger, Jeg ma þad lijda, hægre Hønd hins Hædsta kann øllu um̃ ad breita. Eins lijka, þegar GUd synde sig Jeremiæ skielfelegann, þa sagde hañ i 17. Cap. vertu mier ad eins ecke hrædelegur: Eñ liet GUd hann blijfa i soddann Skielfingu? einganneigen, þvi hann seger: Þw ert mitt Athvarf i Neydenne. Hroopar ecke HErrann Christur, GUd minn, GUd minn, hvarfyrer hefur þw yfergiefed mig: Þo var hann

hann einganneigen yfergiefenn, þvi seger hañ, Psal.22.23. Eg vil kunngiøra þitt Nafn Bræd- rum mijnum, og vil prijsa þig i Søfnuden- um; þvi hann forsmaaer ecke Eymd þess fa- tæka, og ecke hilur hann sitt Andlit fyrer hon- um: Item, Psal. 118. 17. Eg mun ecke deya, helldur lifa, og kungiøra Verkenn Drottens. Þw matt mitt Barn, drecka med Christo i þessum heime biturt Mirrhu blandad Vijn, og metta þig med Galle, uppa þad þw faaer ad drecka med honum, vid hans Bord, Glad- værdarennar Vijn a Himnum. Lær þw ad bera hans Forsmæn, þa muntu og so bera hans Vegsemd. Lær þw ad verda lijkur þeim kross- festa Christo, so muntu og so honum forklar- udum, og dyrdarfullum lijkur verda. Rom. 8. 29. Phil. 3. 21. AMEN.

## Cap. LIII.

# Huggun i giegn þeim þwngu andlegu Freistingum.

Esa. 41. v. 17.

Þeir Fatæku og Voludu leita epter Vatne, og þar er ecke neitt; þeirra Twnga þorn- ar upp af þorsta: Eg Drottenn vil bæn- heyra þa, eg GUd Israels vil ei yfergiefa þa.

MEd þessum ordum huggar H. Ande sorg- fullar Manneskiur, hveriar ad þirster epter

epter Huggun i þeirra þwngu Freistingum, og ecke hafa meire Hugar hreiste, eñ so, ad þeim er alldeiles bwed vid Mistrauste og Efaseme, so sem GUD hefde þær alldeiles yfergiefed, og þeim fra sier skwfad: Þær eru i þvi stande sem Spaamadureñ yferklagar, segiande i Psalm. 88. Miin Saal er full af Eymd, mitt Liif tekur Helviite ad nælgast. Aunde GUDs syner berlega, ad Drottenn vilie ecke yfergiefa þa. A medal soddann Vitnisburda, fyrer hveria sliikar Manneskiur kunna huggadar ad verda, eru þesser epterfilgiande punctar.

Fyrst skal þad hugga oss, ad þær haau og hørdu Freistingar; þeir þwngu og sorgar fullu Paanckar, hrædsla og Skielfing Saalarinnar, og Samvitskunnar Otte, vilia oss ecke til, fyrer utann sierdeiles GUDs Raad og naaduganii Vilia, hvad hardlega sem Diøfullenn æder fram, og spannar sinn boga uppa oss: Þvi Ord GUDs vottar þad berlega, ad Satan hefur einga makt yfer nockre GUDs Skiepnu, jafnvel þeirre hinne allra minnstu. Ja hañ hefur ecke makt yfer einu halvu Straae, þvi ad allar skapadar Skiepnur, eru einasta i GUDs Valldi, enn ecke Diøfulsens Vallde; miklu siidur hefur hann þa makt yfer Mannenum, nema hvad GUD honum epterlætur, so sem Jobs Epterdæme wtvyſar: Ecke kañ

Diofulleñ ad snerta eitt Haar a Hofde Mañs, eda koma vid einn hans Lid, auk helldur meira, framarenn GUD vill: Øll ydar Høfud-Haar eru talenn seger Christur. Med þvi Satan hefur þa ecke valld yfer einum lid Mannsins, edur einu Haare a hans Hofde, þa hefur hann miklu siidur valld yfer Saalu nockurs Manns, til ad angra hana, kvelia, edur kremia, fyrer utann GUDS sierdeilles Raad og Vilia. Þvi seger David i Psal. 34. Eingill Drottinns filker sier i kriingum þa, sem hann ottast, og hialpar þeim þadann. Og hia Zach. i 2. Cap. seger Drotteñ um sitt folk, Eg vil vera elldlegur Mwrveggur þar um kryng. og i Psal. 17. 8. kiemst David so ad orde; Vardveittu mig Drottenn, so sem Siœalldred Augans. Og i Psal. 88. helldur hann berlega, ad GUD sie hofundur þeirra þyngstu andlegu Freistinga: Þu hefur, mier seger hañ, i Pittenn nidursøkt, i Myrkred og Underdiwped: Þijn Grimd nidurþricker mier, og allar þijnar stoor bilgiur þær þreingia ad mier: Þijn Heiptarbræde geingur yfer mig, og þijn Skielfing þringar mig, so ad eg fell mestuleite i Efaseme. Item i Psal. 71. v. 20. Þu lætur mig rata i margar Mannraunir, og endurliifgar mig aptur, og wtleidder mig nedan ur diwpe Jardarinnar. Anna Spaakona seger og einnen i 1. Samuelis Bokar 2. Cap. Drottenn deyder og liifgar, hañ fœrer nidur til Helviites, og þadañ aptur.

aptur. Lijka sem GUd liet sinn Son Christum lijda Helvijtes Angist: So lætur hann og hans lime stundum lijda hana, og skiedur soddann, þegar GUd auglyser Mannenum sijnar Synder i Samvitskunne, so ad hann traun riettre kanneſt vid Krapt og Makt Syndarinnar, Brodd Daudanns, Bølvan Lögmaalsins, og elldleg Skeite Diøfulsins; þa fellur siw auma Manneskia i so mikla Hrigd, ad Saalen finnur einga huggun hia Gude eda mønnum, vill ecke helldur sig hugga laata, sem David vottar i Psal. 77. þiker þa Saalenne, so sem allar skapadar Skiepnur sieu sier mootstædelegar; hana kann þa einginn hlutur ad gledia, hwn reiknar sig overduga allrar huggunar; er ad beriast vid Orvæntingina, stryda vid Helvijte, og finnur ecke nie fornemur annad enn kvalanna Angist: Þetta er sa riette Helvijtes Stingur, og nagande Bit sem plaagar Mannenn; ja sialft gapandi Helvijte, er hann vill i sig svelgia, i hveriu ad ecke er nein Huggun, helldur Kvøl, Angist og Kvalræde. Þegar so tilfellur, hefur GUd riettelega ført einn Mann nidur til Helvijtes, ecke lijkamlega, helldur i andlegann maata, og so miked sem Saalena ahrærer; og þa geingur þad til fyrer hønum, so sem þad gieck til fyrer HErranum Christo i Grasgard-

inum, þegar hann tok til ad hriggiast, skialfa og vid Daudann ad þreita. Enn hvarfyrer GUD giefur þad epter, ad siin trwud Born sem eru skyrd i Nafne JEsu Christi, hafa i honum odlast Syndanna Fyrergiefning, eru ordenn riettlaat fyrer Trwna, og Erfingiar eiliifs liifs, kveliast so aumkunarlega af Dioflenum, og þiaast af orolegum Þaunkum, og verda so um siider eitt andlegt Piislarvætte; Þad er onaudsynlegt ad rannsaka, eda hnysa grant i soddann GUds hulda Doma, helldur meigum vier nægiast þar med, ad vier erum visser þar um af GUds Orde, ad soddann þiaaningar eru sendar og uppalagdar af Gude, og þad sem oss tilfellur af GUds Alfu, þad kann ecke ad verda oss til Fordiorfunar, helldur til Saaluhiaalpar, tik hverrar aller hluter hlioota þa ad stirckia sem GUd elska. Þo eru oss i Ordenu nockrar vissar orsaker syndar, vegna hverra sa naaduge og milldriike GUD, lætur gaanga yfer siin elskuleg Born, so þwngar Freistingar.

Sw fyrsta er, ad auglios verde Kraptur og makt Syndarennar, sem er Brodddur Daudans, epter þvi sem H. Paall vottar 1. Cor.15. segande; Daudans Broddur er Syndenn, enn Logmaaled er Syndarennar kraptur: Og so ad vier mættum læra ad þeckia riett-

riettelega Løgmalsins Bølvan, GUds Reide i giegn Syndenne, og hans stranga Riettlætes doom, sem og Diofulsens grimlegann Tyrannaskap, þvi allt þetta hanger til samans, hvert vid annad, og yfer þvi klagar Ezechias, segande; Esa.38. Eg tijste sem Tranan og Svalan, og stwnde so sem Dwfan.

Onnur orsoken er sw, ad vier lærum ad þeckia stærd og verdugleika Pijnunnar HErrans Christi, og þann stoora Velgiorning hans dyrmætu Forþienustu, ad hann med sinne Saalar Angist, frelsade oss fra eilijfre Helvijtes Angist og Pijnu.

Þridia orsoken er, ad vier kunnum ad verda lijker Christi Jmynd. Rom.8.29.

Sw fiorda, ad vier lærum ad merkia Krapt GUds Orda, og smacka Sætleika heilagrar huggunar, sem i þvi er foolgen. Hefde þitt Løgmaal ecke vered mijn Huggun seger David, Psal.119.v.92. Þa hefde eg fyrer farest i mynum Eymdum.

Fimta orsoken er sw, ad vier skulum læra ad æfa oss i Trwnne, Kiærleikanum, Voninne, Lijtelætenu, Þolenmædinne, og Bænninne; uppa þad vor Trw finnest riettskickud, og langtum dyrmætare enn Gull, þad sem i elldenum er reint. 1.Pet.1.7.

Sw siøtta, ad vier epter afstadna Kvølena ødlustum enn stærre og meire Huggun, ept=

epter Postulanns Pauls ordum, i ødrum Pistle til Cor. 1. Cap. 5. Lijka so sem Pijsler Christi yfergnæfa i oss, so verdum vier og rykuglega Huggader fyrer Christum.

Siøunda orsoken er þesse, ad vier ødlustum i eilijfu Lijfe þvi meire Dyrd. Ef vier lijdum med Christo, munum vier og so med hønum til dyrdarinnar upphafder verda, seger H. Paall. Og þo vier vissum ecke af þessum Gagnsemdum, og þecktum ecke Raad GUds, þa samt ber oss þar med anægdum ad vera, ad vier vitum ad þad er vilie GUds, ad vier skulum so freistader verda; an GUds vilia kann oss ecke þvilijkt ad tilfalla, þvi ef øll vor Høfud-haar eru talenn, hvad miklu framar mun GUd þa vardveita vorar Saaler, so Diøfullenn leide þær ecke i Orvænting; og skinium vier af þessu, ad eingenn kann ad hialpa oss wt af þessum Hørmungum, nema GUD einn fyrer JEsum Christum, Hver ed Diøfulenn og Heimenn sigrad hefur: Joh. 12. og 16. Hvar fyrer menn skulu og so alleina hia Christo, enn ecke nockre skapadre Skiepnu, leita Raads, hialpar, og huggunar i soddann Freistingum.

J annann magta, skulum vier ecke alijta þessar Freistingar, so sem GUds Reideteikn, helldur hans Naadarteikn, og vita ad fyrer þær vill GUd koma oss i tølu þeirra, sem hann

hefur

hefur i þessum Heime so hardlega adur medhøndlad; og skulum þeinkia, ad vier erum ecke þeir einasta sem slykt verda ad lyda, helldur hefur soddann i lijkann maata geinged yfer þa allra Heiloguftu, so sem var David, er klagar i Psal.18. v.5.6. segande: Mig hafa umspendt Bønd Daudans, Snørur Daudans hafa yferfalled mig; og i øllum þeim 88.Psalme ber hann sig aumkunarlega, og klagar yfer slijkre Saalar og Helvijtes Angist.

Spaamadurenn Jeremias i sinnar Bokar 20.Cap. oskar ad Lijfed Modurinnar hefde orded sijn grøf, so hann hefde ecke fædst lifande i Heimenn, og ecke þurft ad sia uppa soddann Mædu og Hørmung, sem hañ vard ad sia: Eins lijka hinn Heil. Job. 6. Cap. Skyllde mijn Eymd, seger hann, verda veigenn, og være mijnar Kvaler lagdar til samans i eina Metaskal, þa yrde þær þyngre enn Sandurenn i sioonum; og i 7.Cap. Mijn Saal æsker hwn mætti verda uppheingd. Heilagur Paall vottar, 2.Cor.12.7. ad Satans Eingell hafe sig med knefum sleiged. Ja sialfur Sonur GUds matte lijda soddann; hversu var hans Saal angurbiteñ, hversu amiñelega hropade hañ, Gud miñ Gud miñ, hvarfyrir hefur þw yfergiefed mig? Af þessum Dæmum siaum vier klarlega, ad ecke erum vier þeir hinir fyrstu, sem med

med so þwngum Freistingum hafa plagader vered, helldur hafa adur fyrer oss, þeir allra yppurstu GUds Menn, med sama hætte þvijngader vered. Og skulum vier taka oss hier af þa Huggun, ad lijka so sem þeir hafa ecke i soddann Daudans Neyd, og Helvijtes Angist yfergiefnir vered, so vill GUd ecke helldur oss yfergiefa, helldur hialpa oss naadarsamlega. Ef ad lijkamleger Siwkdomar, Ossokner, og annad þviumlijkt, eru teikn til GUds Naadar, og eitt Medal, fyrer hvert GUD vill giøra oss lijka synum elskulega Syne, og vier þar fyrer skulum þolennmoodlega bera Krossenn epter hønum; hvad miklu framar ma þad þa vera Teikn og merke til GUds Naadar og epterkomande Blessan, þegar hann ecke einasta leggur sinn Kross uppa vorn Lijkama, helldur og einnen vora Saal, og hondlar med hana so hardlega, uppa þad ad Madurenn verde med Ønd og Lijkama, samlijkur Drottne sijnum JEsu Christo. Þvi so sem Lijkamenn HErrans Christi var a Pijslartijmanum, hladenn fra hvirfle til footmaals, med allskonar Pijnu og Kvalræde; og hans allra heilagasta Saal, full af Hrellingu, Hrigd og Angist, so hlijtur og einnen i sama mata, hans andlegur Lijkame; þad er ad skilia, aller trwader sem eru hans andleger limir, bæde wtvortis

vortis og innvortis, ad verda hluttakande hans
þvilijkra Krankdæma, Pijsla og Hrellinga:
So ad allur hans andlegi Lijkame meigi verda
fullur af Kvalræde, eins og hann var sialfur
og þad meinar H. Paall, þegar hann seger i
Pist. til Coloss. 1. Cap. v. 24. Eg uppfille a
mijnu Hollde þa Harmkvælingu, sem enn nw
vantar i Christo: Þar fyrer, ef þw ert sann-
ur limur a Christi andlegum Lijkama, þa
maattu og so bera hans Harmkvælingu, so
þad kunne ad uppfillast, sem enn nw vantar
a Hørmungarnar, uppa þad þær verde full-
komnar: Þar fyrer skulum vier gledia oss af
Hørmungunum, vitande, ad Mootlætingar
þessara tyma eru ecke verdar þeirrar Dyrdar,
sem sijdar meir mun vid oss opennber verda:
Rom. 8. 18. Og þegar slikt andlegt Sterkvid-
re Freistinganna yfergeingur, þa meigum vier
læra, ad bera GUds fødurlega Reide med Þol-
enmæde, bijda so epter Hialp Drottins
og þreitast ecke i Bæninne, helldur þeinkia;
sia þetta er Dagur reidinnar, sem nu yfer-
stendur, Naadarennar tijme mun og einnin
koma, þegar Reiden er fram̃ hia geinginn.

J þridia maata, ma þad og einnen ve-
ra vor kroptug Huggun, ad þott vier verd-
um ad heija þwngt Stryd, i þessare Saal-
arinnar Orustu og Bardaga; þa hefur HErr-
ann Christur samt lofad oss og tilsagt, ad vier
Sigur-

vinninguna ødlast skulum: Þarfyrir segir hann hia Joh. i 14. Cap. Þessa Heims Høfdinge kemur, og med mig hefur hann ekkert, vered hughraustir, þvi eg hefe yferunned Heimenn. Lijka sem Davids Sigur a Goliath, var Sigurvinning alls Jsraels; eins lijka er Christi Sigurvinning, Sigur allra riettrwadra, so sem stendur i Opennberingar B. 12. Cap. Nw er Heilsa, og Kraptur, og Ryke, og Makt, vors GUds, ordenn hans Christs, þvi hann er wtsnaradur, sem aklagade vora Brædur Nootl og Dag, fyrer Auglite GUds vors, og þeir hafa hann yferunned fyrer Lambsinns Blood, og fyrer Orded hans Vitnisburdar.

Þarfyrer, ef Diofullenn kann þig, sem staddur ert, i þessu andlega Helviite, ad onaada, med sijnum elldlegu Skeitum, og helviitskum inn byrlingum, segande, þw ert fordæmdur, þw ert tapadur, GUd hefur wtskwfad þier, þw heyrer mier til, þw hefur einskes framar ad vænta, þad er forgiefens, þo þw framar trwer og hrooper til GUds; þa lattu þad ecke skielfa þig, helldur svara hønum med mikelle Hugarhreiste, far burt Satan, þw hefur einga makt til ad fordæma mig, og ecke hefur GUd sett þig til ad wrskurda, og segia hver þar muni fordæmdur verda, helldur mun GUd sialfur dæma, og þeir trwudu munu med hønum Heimenn dæma. 1. Cor. 6. v. 3.

Og

Og GUds Sonur hefur alla reidu dæmt Hofdingann þessa Heims. Joh. 16. v. 11.

J fiorda maata, ef eiñ kañ ecke ad segia sig frijann fyrer haadungum Diøfulsens, sem kiemur GUdløstunar ordum og þaunkum a stad, i Mannsins Hiarta a moote Gude; þa søkum þess, þad skiedur, fyrst a moote eins Vilia, og Madurenn i annann maata, strydder þar i giegn med Bæn og Andvarpan, vill og feigenn veriast bæde med Hiarta og Munne, enn gietur ecke, og hlytur þarfyrer ad lijda soddann Haadungar; þa ma þad vera einum til Huggunar, ad GUd tilreiknar hønum ecke þesshaattar Gudløstun, epter þvi hwn skiedur þvert a moote hans Vilia; og hwn er ecke i riettre raun og veru, sialfs Mannsenns, helldur Diøfulsins, þott hwn komest i verk hia Mañenum, sem væntir eptir GUds Hiaalp, hvers hægre Hønd øllu kann um̃ ad breita. Psal. 77. 12. Soddann Spott og Gudlastan, er ecke Verk Saalarennar, helldur lijding, hvarfyrer GUd tilreiknar Mannenum hana ecke helldur. Þad geingur mootlijka til, og þegar Ovinir skiota Ellde inni einn stad, hvers Menn kunna þeim ecke ad varna, og meiga lijda þad; enn eingu ad sijdur slœckva þeir Elldenn, og dempa hann so sem mogulegt vera kann. Og so sem Ezechias kunne ecke ad

varna Rabsake þvi, ad spotta þann lifande GUd a Himnum Es.36. so kuñum vier ecke helldur ad hamla Dioflinum þvi, ad wtspija þvilijkum Ellde og Loga: Menn hlioota ad lijda þad med Kvol og Angist, enn varast ad framfæra soddann Haadungar med Munnenum, helldur med Jeremia setia hann i Molldardupt, Harmag.3.v.29. og dempa nidur þañ innvortis Elld Dioful sens, so hønum slaae ecke wt, og þar verde ecke af stoort Baal; vitande, ad med þvi soddann skiedur a moote eins vilia, þa er sw strydande Trw til stadar hia hønum, sem þreiter Orlog, og berst vid Freistingarnar.

J fimta maata, er þad og so stoor Huggun fyrer eiñ, ad þar er eñ þa eitt lijted Akall sem andvarpar til GUds; Þar er og einnen eñ þa eitt Ord, edur lijtel grein af GUds Orde fyrer hende; þad er sa litle Trwarinnar og Andans neiste, og sa lijttlogande Lijnkveikur, sem GUd vill ecke wtslockva, helldur vardveita og vidhallda i þessum stoora Veikleika; og þad er eitt Teikn og Merke þar til, ad H. Ande helldur sier þar eñ þa vid, þo hañ leine sier, so sem i harla miklu diwpe; hvers vegna Madur skal ecke strax falla i Efaseme. Þvi so sem kijkamenn er ecke Daudur, medann Hiartad og Andardratturenn hrærest, so et GUds

GUds Ande og Trwen ecke aldeiles i burtu, a medann þar er eñ þa til ein lijtel heimugleg Andvarpan, og eitt lijted GUds Ord, sem er Saalarinnar innvortis Lijf, og synir þad ad hwn er ecke alldeiles slokeñ, og þar med hlytur Madurenn so leinge ad vera til Frids, þangad til sa hugprwde Fagnadarens Ande, og allt Lijf Saalarennar fæst aptur. Laatum so sem einhver sie so langt leiddur, ad hann giete ecke leingur beded, ecke leingur andvarpad, so vijdt sem merkiast ma; og hañ kunne ecke framar ad þeinkia til Bænarinnar, og ma þvi synast, ad þad sie aulldunges wtgiørt med hañ; samt sem adur, ef hann er angurbitenn og stwrande þar af, vill giarnann bidia, og soddann skier hañ innvortis i Hiartanu, og þad er hans stærsta Klogun og angistar efne, ad hañ kañ ecke ad bidia; þa bidur hañ med soddann hætte, hid allra kroptugasta og akafasta, þvi GUd sier og so Epterlaangan þeirra trwudu, og alijtur gyrnd Hiartna þeirra. Þetta er þad ounmrædelega Andvarp Andans, sem Heilagur Paulus gietur um, i Pist. til Romveria 8. Cap. Og þa fullkomnast þad sem Esajas seger i 41. Cap. 17. Þeir Fatæku og Voludu leita epter Vatne, og þar er ecke neitt; Þeirra Twnga þornar upp af Þorsta, Jeg Drottenn vil bænheyra þa, jeg Jsraelis GUd vil ei yfergiefa þa.

I siotta maata, kann alldrei nockurt GUds Barn, ad vera so hardlega freistad, eda so aumlega a sig komed, ad GUd, so sem Ritningen vottar, bwe ecke sialfur i þvi, enn ecke Diofullenn: Satan hlijtur ad vera þar wti fyrer, og þessvegna stormar hann, sem einn grimmur Ovin, uppa Hiartad med sijnum kyndugum Araasum. Sa sem er i oss, er stærre, helldurenn sa sem er i Heimenum seger Joh. 1. Pist. 4. v. 4. Hia Esajam seger Drottenn til eins trwads Manns; Esa. 41. Ottast þw ecke, þvi eg em med þier; GUd hefur og lofad, hañ vilie sia til med þeim aumu, og giøra Vistar-veru i Hiarta þeirra: Hañ hefur og sendt Christum af Himnum ofann, til ad hugga þa sorgmæddu, og binda vid þau sundurknosudu Hiørtu, þarfyrer kallar einnin Endurlausnarenn þess hattar sorgande aumar manneskiur til sijn hia Matth. 11. Cap. GUd hefur og so befalad ad hugga þa, hia Esaiam 35. Cap. 5. segiandi; styrked lwnar Hendur, og endurlijfged þau veikludu Knien: Seiged þeim efablondnu Hiørtum, vered hughraust er i Huganum, og vered ei ottasleignir, þetta er sialfs GUds Ord: Þarfyrer skal eiñ Christenn Madur ecke efast i soddann Freistingum, helldur vera hugprudur, og segia med H. Paali: Nær eg em breiskur, þa em eg øflugur: 2 Cor. 12. v. 10. Þvi þo Satans Eingill slaae soddann Mann-

Manneskiur, þa er samt GUds Naad yfer þeim. Þarfyrer sagde Drottenn til H.Paals midt i soddañ Freistingum: *Laat þier nægiast mijna Naad, þvi minn Kraptur er i breisk-um maattugur.*

J siøunda maata, hafa menn eingenn Epterdæme þar uppa, ad GUd hafe nockurn tijma nockra Manneskiu yfergiefed i soddann Eymd og þwngum Freistingum; miklu framar høfum vier marga Vitnesburde þar uñ, ad þegar GUd hefur i Ofne mootlætingauna hreinsad og faagad eina Manneskiu, þa hefur Lausn og Frelse opt filgt a epter. Þegar tijmenn er umlidenn, og Madurenn hefur wtstaded sijna reinslu, þa fylger sannarlega a epter Upphefden; þegar Þreingingarnar hafa enda, þa kiemur yferfliootannleg Glede og Stirkur: Þarfyrer stendur þar so i Jobs Bokar 5. Cap. *Sæll er sa Madur sem GUd leggur Hirting a, þar fyrer, þa fyrer lyt ecke Hirting hins Almaattuga, hvi hann sæter og græder, hañ slær, og hans Hønd læknar þad: Hañ mun frelsa þig wr af þeim sex Harmkvælum, og i þvi hinu siøunda mun ecke neitt illt ahræra þig.* Og Anna seger i 1. Samuelis Bokar 2. Cap. *Hann leider nidur til Helvijtes, og þadann aftur.* Og med þvi vier erum nw hier uñ fullkoñlega visser, þa hæfer einganvegen ad ørvænta i andlegum Freistingum, helld-

ur ad bera so leinge Reide Drottens, þar til oss upprennur aftur ad niju Sool Naadarennar: Þvi þar upprennur Lios i Myrkrenu fyrer þeim riettlaatu, og gledefyrer þeim hreinhiørtudu, seger David i Psalminum 112. 4. og 97. 11.

J attunda maata, reiknar Taulerus þær þwngu Freistingar, med sierdeiles GUDS gaafum, og wtmaalar þær þannig. J þwngum Freistingum tekur GUD fra Mannenum allt hvad hann hønum adur giefed hefur, hvar med hann kiemur hønum heim til sijn sialfs, og lætur hañ skilia hvad hans eiged sie, hvad hann megne af sialfum sier til, og hverneñ hañ eige ad haga sier a slijkum Hørmungar tijma. Þa verdur Madurenn olldunges yfergiefenn, og hann veit ecke neitt af Gude, ecke neitt af Naadenne, ecke af nockre Huggun, ellegar þvi sem hann hefur adur haft; ollu verdur þvi fra hønum rikt, þad verdur allt fyrer hønum birgdt og huled; ecke helldur veit hann hvert hann skule snwa sier, hvert hann skule hafa sig, eda hvar ad hañ skule hverfa. Þegar i soddann Efne er komed, þa er Mannenum eckert añad betra, nie raadlegra, eñ ad hegda sier, epter þvi sem GUD vill laata vera, og giefa sig alldeiles under hans blessadann Vilia. Þad er

er stoort og miked ad þeinkia um þa heilogu Pijslarvotta, ad þeir settu lijfed til fyrer Medkieningu GUds og Sannleikans, þeir doou gladlega, og oktuduPijslarvættenn lijtelsverd, og so sem leik og gaman, med þvi þeir hofdu gudlega Huggun innra i sijnum Hiortum. Eñ þesse Pijnan er þo langtum stærre, ad Madur ma missa GUD, og hans Huggun, þvi þad geingur yfer allt: Og þar med vaknar upp aptur oll swOlucka, Synder og Freistingar, sem Madurenn var bwenn adur ad yfervinna: Allt þviumlijkt sæker þa ad Mañenum, i soddann Freistingum, og þad langtum grimlegar, eñ til forna, þegar hann var fangenn af Syndarinnar Makt og Vallde: Enn þa er eckert betra wr ad raada, enn ad umbera allt slijkt med Hogværd og lijtelæte, og leggia sialfann sig viliuglega under Guds vilia, sem umsijder mun giora þar a goodann Enda. Þess haattar Menn kallar Taulerus andlega Pijslarvotta, af þvi þeir sieu svipter og fyrdter allre andlegre Huggun, so sem þeir vite klaart eckert umm þad, hvert þeir eige sier hæles ad leita, og þegar þeir siaae adra giædda med Gaafum, og naakvæmum Naadar Huggunum, þa angrest þeir þwnglega, og hallde sier slijkt til falled hafa fyrer sialfs sijns skulld, ad þeir eru so hia setter, so ofrioossamer,

er, og faanyter, ja, so greinalaust epterskilld-er; þarfyrer, hverſu miked Erfide og Aſtund-an, sem þeir koſta þar uppa, þa þiker þeim, þo þad allt, forgiefens vera, og ad þeir ſieu i ſijnum Hiörtum þurrer, og hardare, epter þeirra meiningu, enn Steinar; hvar af þeir verda oþolennmooder, ſturlaſt og einnen af ſin-ne oþolennmæde, halldande ſig ſtyggia GUD med ollum ſijnum athøfnum, ſem i Samvitſku þeirra er hin beiſkaſta Hrelling, þangad til þeir um ſijder giefa ſig til Þolgiædes, þo þeim falle þad næſta ordugt, og bera ſo ſijna Hør-mung og Kvalræde, þar til GUD giorer Um-breiting þar a. Med ſoddann hætte, verda þeir ecke alleinaſta heiløgum GUds Mønn-um ſamlijker, helldur og einnen ſialfum HErr-anum Chriſto, hvers lijferne ad var fullt af pijſlum og plaagum. Þeſſer andleger pijſlar-vottar, eru epter ſialfra þeirra doome Faatæk-aſter allra Manna, eñ fyrer Gude eru þeir þo hiner rijkuſtu, þeir hallda ſig ad vera hina fiarlæguſtu fra Gude, eñ þeir eru i raun riett-re hønum naalægaſter; þeir eru i ſialfra ſinna Augum, hiner allra audvirdeleguſtu fyrer Gude, eñ eru hønum þo hiner allra wtvølduſtu; þeir eru epter ſiaalfs ſijns þotta vid GUd, hinir allra raangſmwnuſtu, eñ i ſañ-leika eru þeir hønum hinir trwuſtu, og hafa ſtær-

stærstu Alvørugiefne i þvi, ad efla hans Dyrd, og afvenda hans Vanæru, og þarfyrer liida þeir soddann; þeir formerkia sig af mørgum þeim hlutum freistada ad vera, sem þeir kuña ecke ad sampickia, hvad þeim er stærre Kvol, eñ þo þeir ætte ad lyda þañ naatturlega Dauda, þvi þeir vilia giarnan leidrietta sijna breste, og eflast i Dygdum og Daadum, eñ gieta þad þo ecke, hvad þeim eykur stoora Neyd, og innvortis Kvalræde, so sem þeir væru klemder af Helvijtes Pijnu, og þad skiedur fyrer saker þess stoora Kiærleika og Trwfeste, sem þeir hafa til GUds; þo þeir finne ecke soddann i sialfum sier; þeir hallda sig fyrer þær allra vestu Manneskiur i Heimenum, eñ eru þo fyrer GUde hiner allra hreinustu; þarfyrer skulu þeir med Hoogværd, Þolennmæde, og Stillingu, umbera Freistingarnar, og biida epter goodum Umskiptum, þvi ef þeir uñlijda þær ecke þolennmodlega, þa eru þeir orsok i þvi ad þær vara leingur. Eñ epter þa dimmu Nott sorganna, kemur umsijder eitt klart Lioos, hvert so hiartannlega gledur þa og kiæter i GUds Kiærleika, ad þeir kunna þad ecke ad wtsegia. So sem þeir tilforna kunnu ecke ad wtsegia þeirra Sorg og Angist.

# Cap. LIV.

## Huggun i þeim leidu Satans innvortis heimuglegu og huldu Freistingum, sem gioraſt med vondum, orooleg-um, og haaduglegum Þaunkum, er plaaga Hiartad.

Luc. 22. v. 31. 32.

Sia! Satan hefur gyrnſt ydar, ad hann mæt-te ſælda ydur ſem Hveite, enn eg bad fyr-er þier, ſo ad þijn Trw þrotnade ecke. Eñ þegar þw umvendaſt einuſinne, þa ſtirk þw Brædur þijna.

HVad grimmur og ovægur Høfud-Ovin-ur Mannana Diøfullenn ſie, þad vottar Gllds Ord allvijda i Skriftenne; einkum þegar H. Petur ſeger: 1. Pet. 5. 18. ydar moot-ſtandare Diøfullenn geingur i kryng ſem gren-iandi Lion, og leitar ad þeim ſem hann faae uppſvelgt; Og H. Paall i Piſt. til Eph. 6. Cap. Vier høfum ecke vid Holld og Blood ad ber-iaſt, helldur vid Høfdingia og vollduga, ſem er vid Drottna Veralldarennar, þeir ed i Myrk-rum þeſſarar Verralldar Drottna, vid illſku Anda undir Himnenum. Þarfyrer høndled Gllds Harneſkiu ſo ad þier geted imootſtad-ed, þa ſw vonda ſtund kiemur, og framkvæm-ed allt vel, og halldeð Sigrenum. Item ſtend-ur i Opinnberingar Bokarinnar 12. Cap. Vey þeim,

ſem

sem bwa a Jørdunñe, og Sioonum, þvi Diøfull-enn kiemur nidur til ydar, hafande mikla Reide. Pad sama syner og einnen Jobs Historia, sem var af Dioflenum mikelega freistadur. Dag-leg reinsla setur þad og fyrer siooner hverium einum, med so skielfelegum, og aumkunarleg-um Epterdæmum, sierdeiles med so margslags þwngum og hættulegum Freistingum, af hver-ium margurhver fromur og GUdhræddur madur Angrast og þiaaest, med adskiliannleg-um og undarlegum hætte, so ad eingenn kañ ad taka sier nogsamlega vara þar fyrer; stund-um reiner hañ til ad spilla vorre Trw: Stund-um ad aflaga vort Embætte: Stundum ad hindra Bænena: Stundum tekur hann sier fyrer ad skada oss i einhveriu ødru; eingum þyrmir hann i soddann; hañ midar med sijn-um Skeitum uppa hveria eina Manneskiu, ad eingre undantekenne, þvi þar hann feijlade si-er ecke ad freista HErrans Christi, sem ad er vort Høfud, hvernen skyllde hann þa lata nockra Manneskiu vera ofreistada? þarfyr-er varar vor HErra oss vid þvi, segiande; Vaked og bidied, so þier falled ecke i Freistne: Matth. 26. 41.

Eñ a medal annara Diøfulsens Flærd-ar hreckia, er þad, ad hann pijner Mannenn med vondum, oroolegum, ogudlegum, og skammarlegum Paunkum, og kvelur þar med

og kremur Hiartad, so ad Madurenn kann alldrei gladvær ad vera: Þesser vondu þankar, med hverium Diofullenn stormar uppa Mannenn, eru so skiæder, og banvænir, ja so hastarleger hver epter annann, ad Madurenn kann ecke ad vera frij fra þeim um̃ eitt Augnablijk. Hier fyrer kallar H. Paall þa elldleg Skeite þess prettvijsa. Eph. 6. Þvi so sem Fiandmadurenn þvijngar einn stad med Ellde, so þvingar og kvelur Diofullenn aumar Saaler, med þesshattar Helvijtskum Paunkum, og so sem eitt eitrad Skeyte giører stoort Saar, og olydannlega verkiar miked, so giora glooande Skeite Diofulsens, soddan Angist og Sorg i Saalu eins trwads Manns, ad hann kann þad ecke ad wtsegia. Ja allt mootlæte er so sem ecke neitt hia þvi ad reikna. A mote soddañ heimuglegum innvortis Freistingum, sem orsaka Saalunne stoora Angist og plaagu, vilium vier wt af GUDS Orde fram̃færa nockra huggunar puncta.

Fyrst seger Christur, Sia; Satan hefur gyrnst ydar. Sia seger hann; hvert Ord oss syner þa hiartannlegu GUds Medaumkan, sem hann hefur med oss i þessu falle, og hann þar med so sem klagar yfer vorre Eymd, þar fyrer er þad obrigdannlegt, ad þess slags Freistingar eru ecke Teikn til GUds reide og oblydu

vid

vid eina Manneskiu, so sem ad GUd vilie oss þar med fordiarfa, og lata oss falla i klær og valld Diøfulsens, helldur eru þær einn snarpur Hirtingar vondur, med hverium GUD stundar til ad lijtelæcka Mannenn, so sem liceost er af dæme H. Peturs hvers oftraust ad gaf efne þar til, ad hann fiell so hraparlega; og þad leid GUd, so hann skyllde þess betur þeckia sialfann sig; hann leid og einnen ad H. Paall skyllde freistast, so ad hann kinne þess betur ad audmykiast; so sem hann sialfur um sig vottar, segande; 2.Cor. 12. v. 7. rc. Og so ad eg stære mig ecke, er mier giefenn Fleinn i holldeð, sem er Satans Eingell, hver ed mig med Knefum slær; um hvad eg hefe Drottenn þrisvar beded, þad hann vike i burt fra mier, og hann sagde til mijn, lat þier nægiast mijna Náad, þvi minn Kraptur er i breiskum mœttugur. Þesse Maalsgrein kienner oss þrent.

Fyrst, ad H. Paall, og aller sem med soddann Satans Slogum freistader verda, þeir læra Audmiwker ad verda.

Þar næst skiedur soddann af GUds sierdeiles asettu Raade og Vilia.

J þridia maata er soddann ein Manneskia eingu ad sijdur i Naad og Vingan hia Gude, hvad hardar Araaser Diøfullenn kañ henni ad giøra, so sem HErranns ord votta,

er hann talade til Paals: Lææt þier nægiast mijna Nææd.

Adra Huggun giefur HErrann oss med þessum ordum. Satan hefur girnst ydur. J þessum ordum verdur oss kient, ad sa vonde Ovin Diofullenn, er næsta framsfws i þvi, ad skioota ad oss sijnum elldlegum Pijlum; Enn hann fær þad ecke; þad verdur hønum ecke epterlaated; hann hlytur fyrst ad spyria GUD ad, hvert hann meige þad: Og þo GUD giefe hønum leife þar til, þa setur hann hønum þo vist Maal og Takmark fyrer, hvad langt hann maa komast; so hann er i þvi falle so sem GUDs hleckia Hundur, og kann ecke ad komast leingra enn þangad, sem hleckerner naa. Þar fyrer seger H. Paall i firra Pist. til Cor. 10. Cap. GUD er trwfastur, sem ecke lijdur ad þier freistest fram yfer þad sem þier kunned ad bera. Og under eins kienner Postulenn; ad GUD lætur ecke Dioflenum alltijd soddann epter, þvi hann er trwfaster: Þad sama vitnar og einnen epterdæme Jobs: Þviad Satan bad GUD, ad hann mætte freista hans: og sagde; wtriett þijna Hønd, og taktu burt allt þad hann hefur. Job. 1. 11. Enn GUD sette hønum fyrer vissann skampt hvad hann mætte komast i þvi verke, og ecke framar.

Sw þridia Huggun, er falenn i þessum ordum Christi; Eg bad fyrer þier, ad þijn Trw

skyllde

skyllde ecke dvijna. Hversu, ad Drottenn JEsus hafe fyrer oss beded, og bidie enn i dag, þad ma sia i Joh. Gudspialla Bokar 17. Cap. v. 15. ꝛc. Hvar hann miog nakvæmlega og innelega befalar sijnum himneska Fodur sijna rietttrwada, ad hann villde geima þa fra illu, so ad hann finne ad blijfa i þeim, og þeir i honum; og hañ tapade eingum af þeim sem GUD hafde honum giefed. Þesse Bæn ma hiartannlega endurnæra allar sorgfullar og freistader Manneskiur, og orsaka þad, ad þær blijfe i Christo fyrer Trwna, og Christur i þeim, og ad þær, fyrer Trwna, yfervinne og Sigrenum behallde.

Sw fiorda Huggun giefst oss af Joh. Gudspialla B. 17. Cap. hvar HErrann Christur bidur fyrer oss. Ja hann bidur sinn himneska Fodur þess, ad vier meigum blijfa i Christo, og syner liooslega þarmed, ad HErrañ Christur er i einum og sierhverium, sem ottast GUD og byr i honum fyrer Trwna. Hvad H. Paall giefur og so ad merkia þegar hann bidur fyrer þeim i Epheso, Eph. 3. ad Christur meige fyrer trwna, bwa i þeirra Hiortum; og Johannes, þar hann seger, 1. Joh. 4. Sa sem er i ydur, hann er meire enn sa sem i Heimenum er. Vid þetta mattu hugga þig i þijnum Freistingum, þvi þesse edla gaafa er hia þier, og byr i þinne Saalu, hversu griñlega sem Diofullenn

enn freistar þijn. Sialfur HErrann Christur maatte freistast af Dioflenum, og var þo GUD i hønum; ja allur Guddoomsenns Fullkomlegleike bio lijkamlega og personulega i hønum: Þar fyrer þarftu ecke ad meina, ad HErrann Christur sie þar fyrer ecke i þier, af þvi þu verdur freistadur, og þar sem þu hefur Drottenn JEsum hia þier, og hann byr i þier, þa laat Satan storma; Christur er Madur fyrer þvi ad hallda sijnu Hwse og bwstad vid makt. Hier ad auke hefur þw og einnen hia þier H. Anda sem kiemur þier til hialpar i þijnum Breiskleika, og øllum Vandrædum, hann bidur fyrer þier hia Gude, med outseigannlegum Andvørpunum, til hverra þw finnur i þijnu Hiarta, og matt þar af fullviss vera, ad Heilagur Andi er i þier, hver alldrei mun þig yfergiefa, so sem HErrann lofar hia Joh. i 14. Cap. Fader minn mun giefa ydur annann Huggara, sem hia ydur mun blijfa ad eilijfu. Þar med er þad vyst, ad GUD byr i sundurknosudum Hiortum, a medal hverra ad eru þeir sierdeiles, sem af slijkum Diofulsins Freistingum kremiast. Eg lyt til þess hins Fatæka seger Drottenn hia Esaiam i 59. Cap. Enn soddann einn ma rietteleg a faatækur segiast.

Þa fimtu Huggun giefa oss þesse ord: ad þijn Trw skyllde ecke þverra. Eja: Hvad stoor

stoor Glede er oss þetta, ad HErrann gioerer oss hughrausta þar um, ad vor Trw skule ecke þverra: Þar mun alltijd verda epter einn lifande neiste af Trwnne: sa riwkandi Hørkveikur mun ecke wt af slokna, jafnvel þo hañ sie næsta mioor og veigalijtell. Vier þeinkum optlega, ad Trwen sie aulldunges slokenn, med þvi vier kunnum einga Huggun ad finna; Enn Trwen skal ecke hia þier þverra, seger Drottenn. Ef einhver seger, hvar af skal eg vita þad? af þeirre Gyrnd, og Epterløngun sem þw hefur til ad trwa: Þvi, ad vilia giarnann trwa, og hafa Gyrnd og Epterløngun til Trwarennar, er sa riette lifande Trwar neiste. Þar næst ad þw i Freistingunum hafer Trwna, þeckest og so af þeirre þwngu Barattu, sem þw hefur vid Freistingarnar. Þvi hvar hellst sem er Stryd og Baratta a moote þvi hinu vonda, þar er Trwen: Eñ þitt Stryd og þijna Barattu mattu af þvi þeckia, ad slijkar Freistingar, og slæmir Þankar falla þier til a moote þijnum sialfs Vilia, og giora þier so illt, sem þw værer pwstradur og barenn med Hnefum. Hvad hellst sem skiedur a moote þijnum villa, og Trwen berst vid, þad reiknar GUd þier ecke fyrer Synd; þær Synder tilreiknast einasta þeim trwudu, sem þeir eru samþicker i, þær steipa þeim ein-

asta um̃ koll, og skilia þa fra GUDs Naad, so ad þar med missa þeir og tapa þeirre riettu Trw, og i þvi falle geingur þad eins tilfyrer þeim og Adam; so leinge sem Adam vard ecke samþickur Diøfulsens in̄blæstre, stood han̄ stødugur, og var i Naad hia Gude: En̄ strax sem hann gaf sin̄ vilia og samþicke til þess, sem Diøfullenn dreif hann til, þa fiell han̄, og tok uppa sig GUDs hrædelega Reidi. Naaden missest ecke, so leinge sem Madur stryder i giegn Syndenne og hatar hana, en̄ verdur med hana ad dragast, þvert a moote siinum vilia. Þegar Ovıner liggia fyrer einum stad, og skioota þar inn Elldshnøttum, enn þeir sem innefyrer eru leggia þar ecke neitt til, þa er sa same stadur i faare; Enn leitest Borgarmennirnir vid ad slöckva Ellden, þa verdur stadnum biargad, so hann brennur ecke upp. Eins stondum vier aumar mann' eskiur i stoorre hættu, þegar Diøfullenn skytur siinum Freistingar Piilum i vor Hiortu: Eingu ad siidur, þar sem vier samþickinstum ecke þeim vondu innfollum, helldur hotum þau, og omustum vid þeim, þa slöckna þau, og kunna oss þvi eingan skada ad giora, og þar med þverrar ecke helldur vor Trw.

Ef vor Trw þverrar ecke, þa meigum vier vera visser um̃ Sigurvinningena; og þetta ma

ma i siøttu grein vera ein vor Huggun, um̃ hveria Christur giører oss vissa, þar han̄ seger; vered hughraustir, eg hefe yferunnid Heimen̄. Pad sama meinar han̄ og so, þegar hann seg- er aptur ad niju: Þessa Heims Høfdingi kiem- ur, og med mig hefur hann eckert: sem vill- de hann segia; Satan ma koma, og storma so hart sem hann vill; jeg hefe hann þo yfer- unned. Allt hvad Christur hefur giort, þad hefur hann giort oss til gooda, þvi han̄ heyrer oss til med allre sinne Forþienustu og Velgiør- ningum. Epter þvi hann hefur nw Satan yferunned, þa hefur hann ecke yferunned han̄ einasta sinnar eigenn personu vegna, helldur og einnen fyrer oss alla, hvar uppa vier høf- um eina fyrermyndan, a Davids Hoolm- gaungu vid Goliath. Um̃ hveria Hoolm- gaungu ad giørdest soddan̄ aftal og samningur, ad þar sem Goliath feinge Sigur, og David yrde sleiginn, þa skyllde øll Israels børn vera Philisteanna Þienarar; enn kinne David ad sla Goliath i hel, þa skylldu Philistei vera Is- raels Þienarar; þar fyrer, lijka so sem Da- vids Sigur heyrde øllum Israel til, og var alls Israels folks Sigur; eins heyrer Christi Sigurvinning til, øllum riettrwudum, og er allra trwadra Sigur. Þarfyrer seger H. Paall, Eph. 6. styrkest i Drottne, og mætte hans Kraftar; iklædest Gllds Harneskiu, so

ad þier kuñe dad standa støduger i giegn umsaat-rum Diøfulsens. Item: 1 Cor. 15. Gude sien þack er, sem oss hefur Siguren giefed, fyrer Drottenn vorn JEsum Christum. Og Johannes seger, allt þad sem er af Gude fædt, yfervinnur Heimenn, og vor Trw er yfervinningen, sem Heimenn yfervinnur; og sa sem trwer ad JEsus sie Guds Sonur, hann yfervinnur Heimenn.

Þa siøundu og siịdustu Huggun, finnum vier i Dæmum heilagra Manna, ad vier er-um ecke einer þeir, sem so verda freistader af Dioflenum; þad hefur mørgum ødrum GUds Børnum tilfalled, og tilfellur eñ i Dag; þar fyrer segir vor HErra, i framsettum ordum til Peturs, þegar þw snyst einu sinne, þa styrk þw brædur þiịna, og vysar oss þar med lioos-lega til Epterdæma vorra Medbrædra, sem mootliịka hafa illsku-æde Diofulsins reint. Hvad Heilagur Petur og so aliịtur, þegar hañ segir, vited, ad ydar Brædur þeir sem i Heim-enum eru, hafa þa sømu Anaud lided. Var ecke Job, so vel sem Paall stoorer og Heilag-er GUds Astvinir, þo maattu þeir liịda sodd-ann Frelstingar. Ja Sialfur Drottenn vor JEsus Christur, sem var GUds Elskulegasta Barn, matte i siịnu Nidurlægingarstande, þar hann hafde af sier lagt siịna Guddomle-ga Majestat, freistast af Dioflenum i allra skarpasta maata, so ad sa leide Satan færde

hann jafnvel med sier i Loftenu, og høndlade vid hann epter sijnum vondum Vilia.

Hvad er þa ad undra sig yfer þvi, þo vier aumir Syndarar, kunnum og so af Diofleyum freistader ad verda.

# Cap. LV.
## Um̃ Undanndraatt GUds Hiaalpar.

Habac. 2.

Spaadomurenn mun vissulega uppfillast a sijnum tijma, og skal endelega komast i lioos og ecke verda ꝛøte; og þo hann dvelie, þa bijded hans, þvi komande mun hann koma og ecke seinka: Sia sa sem er hardsvijradur, hann skal einga roo hafa i sijnu Hiarta, þvi sa Riettlaate lifer af sinne Trw.

Ad medal annara Freistinga verdur Mannenum þad opt stoor mootlætes pressa, ad GUd bidleikar stundum vid, og dregur undan̄ sijna Hialp, so þeim sem Krossenn bera, synest þad vera ofurlaangur tijme: Hvar a moote vier skulum merkia epterfilgiande Hugganir.

Oss synest so sem þad sie Undanndraattur, enn hia Gude er þad eingenn Undandraattur, helldur sijfelldur Flijter til ad hialpa. Þvi so sem almattugur GUd, epter sijnu orann-

sakannlegu Bijsdooms raade, hefur taled, veg-
ed og mællt, einnn og sierhverium wt siñ Kross
og mootlætingar, og hvad miked hver einn
skal lijda, so lætur hann koma eitt epter ann-
ad, og hradar siinum Afetninge, so ad tala
Preinginganna kunne uppfilld ad verda: Hi-
alpar og alltijd til ad yfervinna þær, eina ept-
er adra, þar til þær eru wtendadar: A med-
ann þetta stendur yfer, holldum vier ad Und-
anndrattur verde a Gllds Hialp; þvi vier
skilium ecke, hversu ad hann hradar sier i þvi
verke, inn til þess wrskurdadar Preingingar
eru uppfilltar. Enn i sannleika er þar hia
Gude eingenn Undanndraattur, helldur sij-
felldur flyter til ad lata oss fa Lausn og Frel-
se: Enn hverier sem hardsviiirader eru, þad
er adskilia, vantrwader, ohlijduger, og opol-
ennmooder i Mootgaangenum, þeir finna ein-
ga Roo i siinum Hiortum: Þvi so sem Pol-
ennmæden giorer Hugskotenn fridsom og roo-
samleg, so giorer Opoolennmæden þau apt-
ur a moote orooleg; ja hwn sialf er ecke ne-
ma orooseme og fridleise. Hier fyrer seger
Frelsarenn hia Matth. i 11. Cap. Læred af mi-
er, þvi eg em hogvær og af Hiarta lijtellaat-
ur, og munud þier Hvijld finna Saalum ydrum.
Eñ þad sem Spaamadurenn seger eñ framar,
ad sa riettlaate life a sinne Trw, þad ahrærer
Fyrer-

Fyrerheit GUds Naadar, hver Trwen houdlar og ad sier fadmar; og i þessare Huggun lifer Saalen med Glede og Fognude. So ad Kongurenn Ezechias seger þessvegna: Esa. 38. Drottenn, þar af lifa Menn, og þad Lijfed mijns Anda stendur med øllu i þvi sama. Enn af Vantrw kiemur Oþolennmæde; af Oþolennmæde Orooseme, af Orooseme Orvænting, af Orvæntinginni med þad sijdasta, eilijfur Daude. Þar fyrer skal sa riettlaate vissulega lifa af GUds Naad, og bijda so epter Hiaalpenne, med Þolennmæde.

Allir hlutir, seger Prædikarenn Salomon 13.Cap. hafa sinn vissann tijma; Þarfyrer hafa og einnen vorar Sorgir, Kross og Mootlætingar, sinn vissann tijma: Skulum þessvegna ecke þetta so alyta, ad þad falle til af hendingu, helldur skulum vier vita, ad sa Punctur tijmanna, a hverium vier eigum ad lijda, er af Gude akvardadur, fyrersiedur og tilskickadur: Eigum þvi i vorum Mootgaange, Krossburde, og Raunum, ad mæna vorum Augum til hans, sem hefur alla hlute i sinne Hende; Luckn og Olucku, Fatækt og Rijkidæme, Lijf og Dauda, hvad allt ad kiemur fra Gude; hañ hefur og so i sinne Hende tijd og tijma vorra Mootlætinga. Joseph leid Þreinging og Mootlæte i sinum Ungdoome,

og maatte þad wtſtanda epter mannlegum Doome æred leinge, og plaagaſt hier um i heil 13.Aar, þvi hañ var 17. vetra, þegar hañ var ſelldur, eñ þegar hann kom af Faangelſenu, var hann 30.Aara gamall. GUd ſem hafde tilſkickad hønum tijma Hørmunganna, hann tilſette og einnen hans frelſes tyma. Hann matte ſekur verda fyrer Alyge, liggia i Fiøtrum og Fangelſe, og lyda enn þa fleira þvilijkt, Pſal. 105 v. 9. þar til ad Ord Drottenns frelſade hann: Enn GUds Ord kom a þeim tijma, ſem hann var þrijtugur ad alldre, dugannlegur til ad ſtioorna i Landenu, og fyrer Hørmungar og Raúner, vel drifenn og reindur: Þa var hann laus giefenn, og ſettur til ad ſtioorna i Egyptalandi, i hverre Vegſemd hann lifde i 80 Aar; med þvi hañ deyde þegar hann var 110.Ara gamall, ſo ad hañ epter 13.Ara þreingingu og forakt, naut 80. Ara Upphefed: Þetta er ecke alleinaſta Fyrermindan þar uppa, ad ſier hver trwadur Madur, ſkal ad lidnum þrautunum ødlaſt langtum leingre Glede tijma, enn hans ſorg vered hefur; helldur og einnen verdur oſſ hier med kient liooſlega, ad GUd hefur fyrerfram̃ tilſkickad, og akvardad bæde Hørmungar tijma eins manns, og hans Frelſes tijma: Þar fyrer, þegar GUDS Born lyda Offokner,

Hørmungar, Spott og Vesølld, þa skulu þau vita, ad GUds Vijsdoomur hefur fyrer fram̃ afskamtad, og akvardad þess hattar Raunatijd; og i sama mata þann tijmans punct a hverium Lausnen og Frelsed skal skie. Lyka so sem einn forfarenn Bigginingar meistare, edur Hwsfader, sem leggur sijnu Pioonustu foolke Erfide uppa, hefur þad vijst, hvenær hans Viñuhiw kunna akveded verk ad fullkomna: Eins hefur sa alvijse GUD, mællt og skamtad hverium einum wt sinn kross, so hann veitt fyrer vijst, og hefur akvardad þad tijmans Takmark; a hveriu Lagfæringen skal skie: Og þegar þar ad er komed, þa gietur hann ecke leingur dulest fyrer mæddum Hiertum, nie hast draatt a Hialpenne, helldur veiter þeim sijna Gyrnd og Epterlaangan.

So sem nw GUd Almattugur hefur þad fyrer fram̃ akvardad, hvad miked hver einn skal lijda, hvers vegna hann sagde til S.Paals Act. 9. v. 16. Jeg vil sijna hønum þad, hversu miked hann skal lijda fyrer mijns nafns saker, so hefur hañ og einnen wrskurdad og afskamtad hvers eins Krossburdar tijma, nær hann skal biriast, og nær hann skal endast; og þar med skulum vier lata oss nægia, vera þolennmooder, og bijda epter þeirre Stundu, sem GUd hefur tilsett. Vier skulum þeinkia um̃

þau Ord Drottenns, er hann talade til sinna Læresveina, under þad hañ stie upp til Himna: Act. 1. v. 27. Ydur byriar ecke ad vita af þeim tijdum og tijmum, sem Faderenn hefur sett i sialfs syns vallde. Þegar GUD liet Mosen kunngiøra Israels Børnum̃ þad Straff og Þreingingar, Deut. 32. sem yfer þau atte ad koma; þa sagde hann: Er þad ecke hia mier huled, og innsiglad i mijnum fiærsioodum. Þad er allt saman af Gude adur aliktad, an hvers, ad ecke kann eitt haar ad falla af voru høfde. J Giørninga B. 17. Cap seger H. Paall; GUd hefur þad giørt ad allar Mannanna Ætt-kvyslar bwa a Jørdunne af einu Bloode, og hann sette Tijma og Takmørk, sem var adur fyrer sied, hvad vidt og laangt þeir skylldu bwa. Lijka sem Stadurenn i hverium Madurenn skal framleida sijnar æfestunder, er af Gude tilsettur; so er og einnen tijmenn af Gude fyr-ersiedur og afskamptadur, sem Menn skulu lifa, og sa nidur skamtade tijme, og stadur, færer med sier, hverium einum, hans Kross og Mannrauner.

Nw so sem GUD hefur sett Krosse og Hørmungum, þeirra vissann skamt, stad og tijma; so hefur hann og einnen sett øllum ill-giørnum manneskium, sem ranglega þvijnga, hæda, spotta, og ofsækia þa saklausu, vissa tijd, skamt og maata. Þarfyrer þegar þeir hafa

hafa nw wtaused siñe Brœde: Þegar þeir hafa stormad, so leinge sem GUD hefur wrskudad evter ad laata; og þeir hafa wthellt sinne Grimd; þa vill GUD, hverium Hefnden tilheyrer, vakna upp, og endurgiallda þeim. Þvi seger GUD i 5.Mosis Bokar 32.Cap. Mijn er Hefnden, eg vil endurgiallda þeim a sijnum tijma, so ad þeirra footur skrÿdne, þvi ad tijmenn þeirra ogiæfu er nœalægur, og tekur miøg ad flyta sier. Þetta verdur med mørgu moote bevijsad, enn þo sierdeiles af Epterdœmum Villumañna og Tyranna, sem um langann tijma hafa Christnena hrœdelega ofsokt, og plaagad; og GUD hefur lided Dioflenum fyrer so ogudlega Menn, ad ofkra AEda og olmast; enn þegar sa tijme hefur vered wte, hefur GUD kollvarpad þeim, so ad allur Heimurenn hefur maatt med Otta og Skielfingu speigla sig þar i, og þeckia þar af GUds stranga Riettlæte. Vier vilium enda þennann Lærdom med St.Jacobs ordum, segande; 5 Cap. Vered þarfyrer þoleñmoder kiærer Brædur, og styrked ydar Hiørtu, þvi ad tilkoma Drottens er i nœand: Andvarped ecke hver i moote ødrum, kiærer Brædur, so ad þier fordœmest ei, sioœed ad Doomarenn er fyrer Dyrum.

Cap.

# Cap. LVI.

## A þeim Tijma sem Kross og Mootlætingar yferstanda, eiga Meñ ad horfa a þa miklu Þolinnmædi vors Frelsara JEsu Christi, og þeinkia um epterkomande Sælu, og Vegsemd eilijfs Lijfs; hvad ef þeir giora, munu allar Hørmungar og Mañraunir, hversu stoorar sem þær vera kuña, verda liettare.

Luc. 24. 46.

Biriade Christo ecke þetta ad lijda, og inngannga so i sijna Dyrd.

GUDS eilijfur Sonur, hefur fyrer sijna Holldgan, i Mariu Jomfru lijfe, teked uppa sig allar mannanna Synder og Kvalræde; ecke tilneiddur og þvijngadur, helldur af skiæruslu Elsku; og þad hefur hañ giort, ecke einasta til ad betala fyrer vorar Synder, helldur og einnen til ad kienna oss, med sijnu Dæme, Þolennmædena, og þa Gyllene-Kunst, ad bera Krossenn; og med Þolennmæde ad yfervinna allar Þrauter og Hørmungar: Þvi þar hann villde verda Madur, Mønnunum til Gooda, þa matte hann taka þad uppa sig sem mannlegt var; so sem ad eru allskonar Synder og Kvalræde, hverium ad kijn vort er

er underorped: Og hefur hann þessvegna, fra þvi hann fæddest i Heimenn, og allt til þess hañ deyde a Krossenum, alldrei vered fyrer utann Rauner, Plaagur, og Hormungar; og hefur so wtstaded allar mannlegar Eymder: A medal annars, vard hann ad dragast med þa stærstu Orbirgd og faatækt; so ad hann þarfyrer seger sialfur um sig hia Matth. 18. Cap. Refar hafa Holur, og Fuglar Loftsins Hreidur, enn Mannsins Sonur hefur ecke, hvar hann sitt Høfud ad hneige: Þar ad auke leid hann þær grimleguſtu Ofsokner, hann var hatadur af øllum, og med Ligum, Baktale, og Haadungum, mikelega svijvirdtur, hann var fyrer Mønnunum hinn allra fyrerlitlegaste, og forsmæænarlegaste, so sem þar stendur hia Esajam i 55. Cap. Fyrer sina mestu Velgiørninga fieck hann Ohacklæte: Fyrer siin daasamleg Krapta-Verk, Bryxlyrde; og fyrer sinn heilnæma Lærdoom, Baktal og Haadungar. Og fyrst Christur hefur nw slijkt lided, skylldum vier þa ecke giarnann med hønum lijda; hann hefur undann oss geinged, og vijsad vegen til Himnarijkes: þarfyrer skulum vier giarnann fijlgia a epter, hans Lijferne er oss fyrersett til Epterbreitingar, laatum oss þvi epterfilgia hønum, so vel i Þolennmædinne sem odru: Þarfyrer verda þeir aller laangt eptir a vegenum,

sem

sem ecke horfa a þessa mynd, og ei ganga þar
epter, Eg er Lioos Heimsens seger Christur,
sa sem mier epterfilger hann geingur ecke i
Myrkrunum, helldur hefur hañ Lioos Lijffens.
Joh. 8. J hvad hrædelegum Myrkrum mega
þeir þa sveima, sem ecke filgia epter þessu
Liose HErranum Christo: Vegna epterkomande
Dyrdar, og glede eilijfs Lijfs, er það
og tilheyrelegt, ad Madurenn þole allar þessa
Heims Hormungar; þvi tijmannlegar Harmkvælingar
lijda, þær hafa Ending; enn epterkomande
Dyrd varer eilijflega; allt hvad
med tijmanum forgeingur er i sialfu sier lijted
og Skamvint, og ecke verdugt ad þvi verda
samlijkt vid þad eilijfa. Þad eilijfa er langtum
leingra stryds og Armædu verdugt. Mætter
þu mitt Barn, jafnvel ecke utann um eitt
Augnablik sia Dyrdarinnar Coronu, og eilijfa
glede þeirra, sem i þessu Lijfe hafa lided
Krossburd og Hormungar, og ecke hafa fyrer
Monnunum vered reiknader þess verduger
i þessum Heime, ad ganga a Jordunni og lifa,
þa munder þu giarnann audmykia þig fyrer
ollum Monnum, bera þinn Kross med glede,
og ecke þess oska, ad þu mættir hafa marga
lijstelega daga i þessu lijfe, helldur acta Hormungarnar
fyrer stoorann Avinning. Upplipt
þijnum Augum til Himens, og siaa med

Gudspiallamannenum Johanni i hans Opinnberan, yfer hann mikla Skara, sem fylgde epter Lambinu Guds, skryddan hvijtum Klædum; spir med Johanne, hverier eru þesser? og mun hier svarad verda: Þesser eru þeir, sem komnir eru wr stoorum Harmkvælingum, og þveiged hafa sinn Skrwda, og hvijtfægad i Bloode Lambsins; þarfyrer eru þeir framme fyrer Guds stoole, og Lambed midt a stoolnum fæder þa: Þad eilijfa hefur vered allra Guds Barna, Mid og merke, a hvert þau hafa stefnt i sijnum huga. Um Mosen stendur skrifad i Pist. til Hebræos 11. Cap. Fyrer Trwna villde Moses ei leingur, þa hann giørdest stoor, kallast Dottur-son Pharaonis og kiøre miklu helldur med Foolke Guds, Omak ad þola, enn ad hafa stundlegt Epterlæte Syndarennar, og hiellt Vanvirding Christi fyrer stærre Rijkdoom, enn Egyptalands Fiesioodu, þvi hann leit a Launenn. Þau eilijfu Launenn, heyrum vier, ad vered hefur þad sem Moses hefur haft tillit til, og þeirra vegna acktade hann allar tijmanlegar Þrauter fyrer eckert: Ja hann hiellt þad fyrer sinn Fiesiood, ad hann hier i Heime maatte lijda Christi Þreingingar og forsmaan. Einginn reicknast sa i tolu þeirra Heilogu a Himnum, sem ecke hefur barest under Stridsmerkium Krossens Christi i þessum Heime: Hvernen mundu

adrer

adrer Heilager a Himnum vilia alijta oss, et vier ecke færdum med oss Krossens Teikn? þeir villdu þa ecke þeckia oss, og vier værum þa hia þeim, so sem framande, og yrdum ecke af þeim medtekner. Sa sem yfervinnur, seger vor HErra, hann skal klædast hvijtum Klædum, og eg vil eckt vtslietta hans Nafn af Lijfsins Bok; og H. Paall mælir þannig i ødrum Pist. til Tim. 4. Cap. Eg hefe barest, goodre Barattu, eg hefe Hlauped fullkomnad, eg hefe bijhallded Trwnne, nw hiedan af, er mier afsijdes løgd Corona Riettlætesens, sem ad Drottinn hinn riettlate Doomare mun mier a þeim Dege giefa, enn þo ei alleinasta mier, helldur øllum þeim sem hans Tilkomu elska. Laatum oss þessvegna giarnan lijda og stryda, hvad sem uppa kann ad koma, þvi þad mun allt snwast oss til eilijfrar Vegsemdar, a moote hverre, allar Heimsins Kvalningar eru ad reikna sem ecke neitt.

## Cap. LVII.

## Huggun a moote Stundlegum Dauda.

2. Tim. 1. v. 10.

**Christur hefur svipt Daudann sinne Makt; enn Lijfed og Odaudlegleikann i Lioos leidt.**

Þesse

ÞEſſe grein innihelldur kroptuga Huggun a moote tijmañlegum Dauda, þvi ef Daudenn er allre Makt ſviptur, þa høfum vier ecke orſok, til ad ſkielfaſt fyrer honum, og ef ad Lijfed, og Odaudlegleikenn er þar med i Lioos leiddur, eda endurnijadur og wtvegadur, þa meigum vier maklega gledia oſſ vid Daudann, þvi þa munum vier epter Daudann inntaka Lijfed og Odaudlegleikann. Eñ ſokum þeſſ, ad einſkis Manns Heilagleike hier i Heimenum, hefur ſo mikell vered, ad hann hafe ecke hrædſt Daudann, þa vilium vier frañſetia helſtu Huggunar Puncta a moote Daudanum, eda þær merkeleguſtu orſaker, vegna hverra, vier ſkulum ecke verda hrædder, eda efaſamer, þegar vier eigum ad ſkiliaſt vid þetta Lijf.

Sw fyrſta og ædſta Huggun a moote tijmannlegum Dauda, er ſa allra heilagaſte og ſaklauſaſte Daude, Drottens vors JEſu Chriſti; fyrer hvern hañ hefur Daudann ſigrad, og hans Makt fra honum teked; Daudans Makt og Kraptur er ſa ſijfellde Otte, Skielfing, Vidbioodur, og kvijde, fyrer Gllds ſtraanga Doome, hvar af Mannſins Saal, fær ſo mikla Hrelling, ad hwn er i ſijfelldum Dauda, enn deyr þo alldrei, þvi hwn er odaudleg, þetta er Kraptur og Makt Daudans,

ja sa annar Daude, og sa eilijfe Daude. Þessa Daudans Makt, giører Diofullenn med sinne Vielalyst, enn þa hrædelegre og skielfelegre: Hvers vegna ad Ande GUds seger i Pist. til Hebræos 2. Cap. 14. Ad Diøfullenn hafe Valld og Makt yfer Daudanum, Pad er ad angra, kvelia, og kremia Samvitskunnar, med Helvijtes Otta og Daudans Skielfingu. Yfer þessare Daudanns Makt klagar David: Og seger i Psal. 18. Mig hafa umkringt Bøndenn Daudans, og Belials Becker hafa skielft mig. Bøndenn Helvijtes hafa umkryngt mig, og Daudans Snørur yferbugudu mig. Þessa Daudans Makt og Kraft, hefur HErrann Christur i burtteked, og snwed hønum i sætann Svefe, roosamlega Burtfør, og sælufulla Hvijlld Andar og Lijkama: Þvi þar sem Saalunne lijdur vel, þar sefur Lijkamenn hægdt, so ad Saalarinnar Fridur og Rooseme, veiter Lijkamanum Hvijlld og hægann Svefn; og i soddann meiningu, smackar eingenn sannur og rietttrwadur Christinn-Madur Daudann, epter þvi sem vor HErra vottar hia Joh. 8. Cap. Sannlega, Sannlega, sege eg ydur, ef nockur vardveiter mijn Ord, hann mun ecke smacka Daudann ad eilijfu:

Adra Huggun a mootte Daudanum, færer oss Upprisa vorra Lijkama; vier munum aptur uppvakna af Dupte Jardar: Christur

ur hefur ecke einasta i þvi Daudann nidurbroted og svipt hann allre Makt, ad hañ gietur ecke kvaled Saaler vorar, og komed þeim i Efaseme, helldur og einnen þar med, ad hañ skal ecke eilijflega raada yfer vorum Lijkomum. Lijka so sem Christi Daude er kroptugur i oss, til þess ad vier skulum ecke smacka Daudans Beiskleika, so ma og einnen Upprisann HErrans Christi, vera kroptug i oss, til þess ad vorer daudleger lijkamir, skulu ecke i Daudanum blijfa, helldur verda aptur lifande, hvar uñ vier erum fullvisser.

Fyrst af Upprisu HErrans Christi, uñ hveria hañ seger hia Johañem i 14. Cap. Eg life, þier skulud og einnen lifa: Og enn aptur i 11. Eg em Upprisann og Lijfed, hver sem a mig trwer, sa mun lifa þo hann deye, og hver hann lifer, og trwer a mig, sa skal alldrei deya. Hier vid huggade sig og einnen hiñ H. Job, Job. 19. 25. segiande; Eg veit minn Endurlausnare lifer, og hañ mun hier epter uppvekia mig af Jørdunne, og eg mun aptur umgiefenn verda mijnu Hørunde, og eg mun sia GUd i mijnu Holldе. Epter þvi Daudenn, seger H. Paall i fyrra Pist. til Cor. 15. Cap. kom fyrer einn Mañ, so kiemur og Upprisa þeirra Daudu fyrer einn Mann, og so sem aller deyu i Adam, so verda aller lifande giørder i Christo.

J annañ maata verdum vier visser um̃ vora Uppriſu, af GUds Sonnum og trwverdugum lofunum, a medal hverra ad eru þessar. Hia Eſa. 26. ſeger Drottẽ, þijnir hinir Daudu ſkulu lifa, og mijner daudu lijkamer ſkulu uppryſa. Og hia Ezech. 3. ſeger hann um̃ þau daudu Bein; Eg vil giefa einn Anda i ydur, ſo ad þier ſkulud verda lifande, ſia þw, eg vil opna ydar Grafer, og eg vil wtleida ydur mitt Foolk af þeim. Hia Dan. 12. ſtendur; Marger af þeim, ſem i duſte Jardarinnar ſofa, ſkulu uppvakna, ſumer til eilijfs Lijfs, og ſumer til eiliſtrar Skam̃ar. Hia Joh. 5. ſeger Chriſtur, Sannlega, Sannlega, ſege eg ydur, ſa tijme mun koma, ad aller þeir ſem i Grøfunum eru, munu heyra rødd Guds Sonar; og munu fram ganga, ſem gott hafa giørt, til Lijfſens Uppriſu, enn þeir ſem illt hafa giørt til Doomſins Uppriſu. J Opinberingar B. 20. Lætur Drottenn Johannem ſiaa i Anda, hvad þar ſkal ſke ſijdar meir; hvar um̃ Johannes ſo ſkrifar. Og eg ſa þa Daudu, bæde ſtoora og ſmaa ſtanda fyrer Stoolnum.

J þridia maata, giører HErrans Chriſti Almætte og Tignarvellde oſſ viſſa um̃ vora Uppriſu; lijka ſo ſem hans guddooms Vegſemd vard dyrdarleg med Uppvakningu Lazari, þegar hann hroopade, ſegiande, Lazare kom þw wt; ſo mun hann og ſo a þeim ſijdaſta

aſta dege openbera ſitt Almætte og ſijna Dyrd/ med Uppvakningu þeirra framlidnu, og ſyna þad ad hann er HErra bæde yfer Lifendum og Daudum. Þetta er þad ſem hann ſeger hia Oſeam 13. Eg vil leiſa þa fra Helvijte, og frelſa þa fra Daudanum: O þu Daude, eg vil vera þinn Daude; Helvijte eg vil vera þijn Drepſott.

J fiorda maata, giører GUds Riettlæte oſſ þar um viſſa: Þvi ſo ſem GUds riettlæte vard fullnægt med þeſſum ordum, þu ſkallt dauda deya, ſo ma þvi og ſo fullnægt verda, med þvi Chriſtur giører oſſ lifande aptur; þar anægiannlegur Betalingur er fyrer Syndena komenn: Þvi þegar Synden er burttekenn, þa ma og Syndarennar Straff burttakaſt: Og þad wtheimter GUds Riettlæte.

So hefur og Chriſtur i fimtu grein, ecke einaſta, vorar Saaler, helldur og einnen vora Lijkame endurleiſt og frelſad, fra þeim eilijfa Dauda; vier høfum og einnen Epterdæmen þar uppa, ad Menn hafa fra Daudum uppvakter vered: So ſem var Sonur þeirrar Sunamitiſku Kvinnu: Sa daude, ſem lifnade þegar hann kom vid bein Eliſæi: Dotter Jairi: Sonur Eckiunnar af Nain, Tabitha og Lazarus, ſem allt a fiorda dag hafde i Grofenne leiged.

Vier hofum og einnen i siotta maata, Epterlyking hier um̃ i Naattwrunne, ad vier munum uppriisa a siidasta dege. Hveite korned kann ecke ad bera Avøxt, nema þad deye adur, so sem þar stendur hia Joh.12.Cap. Eins er þvi vared fyrer ødrum Kornum; um̃ hver talad verdur i fyrra Pistels til Cor. 15. Cap. Þw Daare seger Postulenn, þad sem þw saaer verdur ecke lifande, utann þad deye: Og þessvegna kallast og einnen Kyrkiugardurenn, GUds Akur og Alldenngardur.

Sw þridia Huggun a moote tijmannlegum Dauda, er Avøxtur Uppriisunnar Christi, þad eilijfa lijfed, og Oforgeingelegleikenn; hvad allt ad er i lioos leidt, edur wtvegad fyrer Uppriisuna HErrans Christi: Þvi so sem allt manlegt Kyn, vard Daudanum underorped, fyrer Adams Yfertrodslu, so verda aller Menn aptur færder, fyrer þañ annann Adam, til Lijffens og Odaudlegleikanns, epter þvi sem þar stendur i Opinnb. B. 21. Cap. Sia, eg giøre allt nijtt, seger Drottenn. J þessu nija og oforgeingelega stande skal eingen Synd framar vera, eingenn Daude og eingen Plaaga, helldur einasta Riettlæte, Lijf og Glede; og þessvegna kallast þesse listelege Bwstadur, Paradijs: Skule þad vera ein Paradijs, þa ma þar vera stoor Føgnudur,

ur, og liſtelegt Heimele til GUds hægre Handar: So ſem David vottar i Pſal. 16. Þa ma þar og eingen Hormung vera, eingen Plaaga, eingen Umkvørtun, eckert Kvein, eingen Sorg, eingen Eymd, eckert Hwngur, edur Þorſte, eckert Froſt, edur Hite, og eingen Olucka edur Ohamingia: Þvi þetta allt heyrer til forgeingelegu ſtande þeſſa Heims. Enn eiliift Liif, er ein oforgeingeleg, oſleckannleg, og oumſkipteleg Arfleifd, ſo ſem þar ſtendur i firra Peturs Piſtels 1.Cap. Þetta hefur Chriſtur, fyrer ſinn Dauda og Uppriſu wtvegad, þetta er ſa mikle og dyre Avoxtur Uppriſu Drottenns; þvi fyrer hans Uppriſu, er allt aftur i lioos leidt og endurnyad, þad Forgeingelega er med ſoddann moote umbreitt i Oforgeingelegleikann, þad Daudlega, i Odaudlegleikann, þad Fleckada i Ofleckannlegleikañ, þad Tiimannlega i Eiliifdena; øll Piina i einunges Lyſteſeme; øll Sorg i Glede; Syndn en i Riettlæte; Reiden i Naad; Bølvanen i Bleſſanina; Faatækten i Audlegdena; Vanheilendenn i eiliifa Heilbrigde; Forackt og forſmaan i himneſka Æru og vegſemd; øll Orooſeme i eiliifa Hvylld; øll Mæda og erfide, i fullkomed Epterlæte og lyſteſeme, ja Daudenn i Liifed. J þetta Oforgeingelegleikans ſtand komuſtum vier fyrer Daudañ; Daud-
 enn

enn er dyr til Lijffens, og þeirra eilifu Giædanna; þvi skyldum vier þa hrædast og skielfast fyrer Daudanum?

Pad fiorda Huggunar medal a moote Daudanum, er Bænen; þvi vier siaum giorla hversu innelega og hiartannlega vor Endurlausnare hefur beded i sinne Daudans Angist, þvi Skriften seger; Par kom ad hann þreitte vid Daudan, og took akaflega ad bidia. Luc. 22. 24. Item: Hann hefur a døgum sijns holldz, offrad Bænum og Beidne, med øfluguKalle og Tæraføllum til hans, sem hønum fra Daudanum biarga kunne, og er einnen bænheirdut fyrer þad hann vegsamade GUd. Ebr. 5. 7. J Daudanns Neyd, gioreft Bænen af innsta Hiartans Grunne, og þreinger sier i giegnum Skyenn, þa høfum vier alla hiartans Alvoru i framme; GUd er þa ecke helldur langt i burtu: Drottenn er næalægur øllum þeim sem hann akalla, øllum þeim sem hann i Alvøru akalla. Psal 145. v. 18. seger Spaamaduren: Og sialfur Drottenn vottar um þann naudstadda sem bidur, Psal. 19. v. 15. Eg em hia hønum i Neydenne, eg vil hønum þadann utrijckia, og hann vegsamlegann giøra. Item, Ottast þu ecke þvi eg em med þier, eg hefe styrkt þig, og kiem þier til Hiælpar, og helld þier vid mackt. Esa. 41. v. 10.

Finta

Fimta huggun i moote Daudanum, er forklaaran vorra Lijkama; hvar um̃ H. Paall ſo talar i Piſt. til Phil. 3. Cap. 20.21. Vor Borgaraſkapur er a Himnum, hvadann vier væntum Frelſarans Drottens vors JEſu Chriſti, hvered forklæra mun vora fæfeingelega Lijkame, og giøra þà lijka ſijnum forklærudum Lijkama, epter þeirre Verkan, ſem hann kann og einnen ſier alla hluti undergiefna ad giøra. Hvad ſtor Vegſemd er þetta, ad vorer Lijkamer munu ecke einaſta verda lijker Einglum GUds, helldur og einnen forklaarudum og dyrdarfullum JEſu Chriſti Lijkama? Þeſſvegna liet GUds Sonur ſiaa ſiñ forklaarada Lijkama a Fiallenu Tabor, oſſ til huggunar, og ad hañ þar med, tendrade i oſſ Epterlaungun til forklaarunar vorra Lijkama. O! hvad vegſamlegt GUds Muſtere munu þa vorer Lijkamer verda? hvad heilog Gillne-kier i Herberge Drottens? hvilijk konungleg og kiennemannleg Prijde, mun þa a þeim ſiaaſt?

Sjø ſiotta vor Huggun maa vera Naalægd og nærvera heilagra GUds Eingla, ſem bera Saaler vorar i Fadm Abrahams. Vor Saal kiemur þa i Selſkap H. Eingla, og i þa eilijfu Hvyld, ſem kallaſt Abrahams Fadmur: Þad er ſoddan einn rooſøm Hvijlld i hverre eingen Pijna mun framar ſnerta vorar Saal-

er; þarfyrer mæler so sa 116. Psalmur Davids v. 7. 8. 9. Snwdu aptur Sæla mijn i þijna Hvilld, þviad Drottenn hefur giørdt vel til þijn: Hañ hefur leist mijna Sælu wr Daudanum, mijn Augu fra Tarunum, mijnar Fætur fra Fallenu; Eg vil ganga fyrer Drottne a Lande lifande Manna. Þa verdur Saalenn aldeiles frij fra lijkamans Oke, og leist sem eiñ bandinge, af daudlegu lijkamanns Faangelse.

Siounda Huggun a moote Daudanum er su eilijfa epterkomande Dyrd og Vegsemd, Þeir riettlætu munu eilijflega Lifa, og Drottenn er þeirra Verdkaup, og sa hinn hædste hefur Umhiggiu fyrer þeim; þar fyrer munu þeir ødlast eitt dyrdarlegt Ryke, og Fegurdar Coronu af hende Drottenns, seger sa vyse i Spek.B.5Cap. Og i Opiñb.B.7Cap.stendur so, Ei mun þa hier epter hwngra, nie Þyrsta, og ei mun yfer þa falla Soolen, nie nockurskonar annar Hite, þviad þad Lambed midra stoolnum mun foodra þa, og leida þa til lifande Vatns-brunna, og Gud mun af þurka allann Græt af þeirra Augum. Mitt Foolk mun bwa i Hwsum Fridarens, i øruggre Bigginu, og i okvijdenne Roosemd, seger Drotteñ hia Esaiam i 32. Cap. Og eñ aptur: Cap. 66. Siaa, eg vil wtbreida Fridenn yfer Jerusalem, lijka sem Vatnsfall: Eg vil hugsvala ydur, lijka sem þad ein Mooder hugsvalar nockrum;

rum; þier munud ſia þad, og ydart Hiarta mun gledia ſig, Eſa.65.13. mijnir Pioonar ſku-lu eta og drecka, og verda glader. Pad ſem hier er talad um̃ Mat og Dryck; þad merker fagnadar fulla Sioon GUds, um̃ hveria ad ſlendur i firra Piſt. til Cor.13.Cap. Nw ſiaa-um vier fyrer Speigel i Raadgaatu, enn þa Auglite til Auglites; og i fyrſta Joh.Piſt.3.Cap. Vier munum ſiaa hann, ſo ſem han̄ er. Um̃ þeſſa ununarſamlega Sioon GUds talar og David i Pſal.17. Eg mun ſiaa þitt Auglit i Riettlætenu. Eg mun ſaddur verda, þegar eg uppvakna epter þinne Mynd. O hann luckuſæla dag, a hverium vier munum ſiaa GUd! Hvenær mun eg koma þar, og ſiaa þitt Auglite Drottenn, ſeger han̄ i Pſal. 42. v. 3. So er þa Fognudur eilijfs Lijfs innefalenn i þeſſu.

Fyrſt, ad vier munum ſiaa GUds Auglit. Þarnæſt, munum vier ſiaa JEſum Chriſt-um vorn Drottenn og Endurlauſnara, i hans Dyrd og Tignarvellde, hvar um̃ hann talar ſo ſialfur hia Joh. i 17. Cap. Fader, eg vil ad þeir ſem þw hefur giefed mier, ſieu þar ſem eg er, ad þeir ſiae mijna Dyrd, hveria þw hefur giefed mier.

J þridia maata munum vier ødlaſt og ſmacka allar Huggunarrijkar H. Anda Gaaf-ur og Sætleika, ſo ſem eina lifande Uppſprettu.

Ad

Ad sijdustu munum vier fa ad nioota gledelegrar naalægdar, og Samfielagskapar Einglaña, og allra wtvalldra Forfedra, Spaamanna, Postula, og Pijslarvotta: Hvar uñ skrifad stendur hia Esa. i 35. Cap. v. 10. Peir hinir endurkeiptu Drottenns, munu aptur koma, og til Zion koma med Fagnadar kiæte, eilijf Glede mun vera yfer þeirra Høfdum, Glede og føgnud munu þeir høndla, og Hrigd og Sorg mun hlioota i burtu ad vijkia.

So hafa nw firskrifader sio Punctar, frañsettir vered til Huggunar a moote Daudanum; nw filgia a epter nockrer adrer, sem annad hvert verda wtdregner af þessa Lijfs Faafeingelegleika, ellegar af Daudans asigkomulage.

Fyrst er þetta Lijf, eitt eimdarfullt Lijf; Lioost er þad a medal añars af þvi sem Syrach seger i sinnar Bokar 40. Cap. v. 1, 2. 3. Pad er einn aumlegta hørmulegur hlutur, uñ allra Manna Lijf, fra Moodurkvide, allt til þess þeir eru i Jørdena grafnir, hver ad er allra vorra Mooder: Par er ætyd Ahiggia, Otti, Von og med þad seinasta Daudenn. Vier erum deyum daglega; hver eiñ Dagur sem yfer oss kiemur stittir vort Lijf; og þvi meir sem Aren fiølga, þess meir stitteft Lijfed; ja þessum Deige, a hverium vier nw lifum meigum vier skipta med Daudanum; þvi vier erum ecke

ecke þar um visser, ad vier kunnum ad lifa til Morguns. Med hvad morgum hættulegum, og aumkunarlegum Siwkdoomum, verda vorer daudleger Lijkamer þvijngader, hverier ad eyda Lijfenu smamsamann, so sem ein Forgift, þar til þad umsijder forgeingur ad ollu leite. Med hvad mikellre Sorg, Angist, Mædu, og Erfide meigum vier slijta wt vorre Æfe. So ad Prædikarenn Salomon hlijtur þessvegna ad segia; Prædik. 7. Dauda-Dagurenn er betre enn Fædingar-Dagurenn. Og Job klagar yfer soddann i sinnar Bokar 7. Cap. segande; Hlijtur ecke Madurenn ad vera alltijd i strijde a Jordunne, og hans Dagar lijka sem eins Daglaunara? So sem Piooneñ langar epter Rockrenu, og Verkamannenn ad hans Erfide fære Enda, lijka so hefe eg alla Mánudena erfidad til forgiefenns og haft margar vos-bwdar nætur. Og i 14. Cap. 1. Madureñ af Konunne fæddur lifer skamma stund, fullur af Armædu. Eñ þegar Madureñ andast, so deyr og dvyna under eins allar Hormungar, þvi skylldum vier þa vera hrædder fyrer Daudanum?

So er og einnen i annann maata, þetta tijmannlega Lijf, fleckad af morgum Syndum og Vondsku, fra hverre vier kunnum ecke ad verda aldeiles frijer, firrenn vier saaluhiaalplega hiedan burt deyum. H. Paall klagar yfer

er soddañ i Pist.til Rom.7.Cap.23.24. og seger: Eg sie annad Løgmaal i mijnum limum, sem mootstryder mijnu Hugskots Løgmaale, og fører mig herleiddann under Syndarennar Løgmaal, hvert ad er i mijnum limum, Eg Vesæll madur, hver mun frelsa mig af Lijkama þessa Dauda? Vier kunnum ecke, so leinge sem vier lifum, ad vera an Syndar eitt Augnablik; og þo vier Syndgum ecke hvad epter annad, viliande og vijsvitande, þa er þo Synden med oss, þvert a moote vorum Vilia, og vier kunnum ecke ad fornema, hversu opt vier syndgum; þarfyrer hefur eiñ af þeim gomlu Fedrum so sagt; Drottinn miñ, laattu mig deya, so eg laate eitt siñ af ad syndga. Allar skapadar Skiepnur einnen þær skinlausu, andvarpa og þreya epter frelse GUds Barna, og epter þvi, ad leisast fra Þrældoome Syndarennar. Hvad miklu framar ber oss þa hier epter sialfum ad andvarpa? Hvad full er þesse Verølld af hneixle og Asteitingum, sem vier hliootum þo ad sia og dragast med, a moote vorum Vilia? eñ af øllu þessu frelsustum vier og friustum fyrer tijmannlegañ Dauda. Þar fyrer stendur i Spekinnar Bokar 4. Cap. v.7. &c. Enn þo hinn riettlaate deye ofsnemma, þa er hann þo i Hvilld, þvi hann þoknast Gude vel, og er hønum kiær, og hann verdur burttekenn fra þessu Lijfe, a medal þeirra syndugu, og hønum er i burtu svipt, so ad Ranglæted skule

ſkule ecke umſnwa hans Skilninge, og ei helld-ur Falls lærdoomur hans Saal ſvykia: Hañ vard ſnart algiørdur, og hafde fyllt mørg ar: Þvi ad hans Saal þocknadeſt Gude, þarfyrer tok hañ hañ ſo ſnart fra þeſſu vonda Lijfe. Og þeſſe hneixle munu ſo magnaſt á ſiidvſtu tijm-um, ad Saaler Riettlaatra munu ſo af þeim kveliaſt, ſem Loth i Sodoma; 2.Pet. 2. Hier a og heima þad ſem ſtendur i Prædikarans B. 4.Cap. Eg ſnere mier, og ſaa til allra þeirra, ſem Oriett lyda under Soolunne, og ſia, þeir grietu ſem Raangindenn lidu, og høfdu þann eingann, ſem þa huggade, og þeir ſem raangt giørdu voru Megtuger, ſo eingenn gat hina huggad. Þa pryſade eg þa hina Daudu, ſem framlidner voru, og miklu framar enn þa lif-endu; ſem epterlifdu, þvi þeir ſia ecke þad von-da, ſem ſkiedur under Soolunne. Hvad hræd-eleger Villudómar hafa geiſad i Chriſtnenne allt til naalægra tijma? hvad margfalldt Trw-ar briaal? Hvad marger Fals-Chriſtar, og Fals-Spamenn, ſo ad i villu hafa mætt leid-aſt, ef møgulegt hefde vered, jafnvel Wtvallder. Matth. 24. v. 24. Þarfyrer flyter Gud ſier i burtu med ſijna ſem fyrſt fra þeſſare vondu Verolld. Hverſu margfalldar og ſkielfeleg-ar ſkammer og Svijvirdingar gioraſt, nw i Heimenum? Hvad mikel Stryd og Bloods-wthellingar, Gripdeilder, Drepſootter, Dyr-

tijd

tijd og Hallære, þar og þar? vegna hvers skilldu menn þa vilia lifa?

I þridia maata er Dauðenn øllum Mønnum sameigenlegur: Dauðenn hefur þreingt sier til allra Manna; þvi aller hafa syndgað, seger Paall i Pistlenum til Romveria 5. Cap. 12. Fyrst þar hafa þa so margir Heilager og yppvarleger menn, so margir Patriarchar, so margir Spaamenn, so margar þwsunder annara trwaðra, geinged Dauðanns Veg undann þier; hvar fyrer skilder þw ecke vilia gaanga epter þeim? Jeg er ecke betre enn mijner Feður, tak nw mijna Saal, Drottenn, 1. Reg. 19. v. 4. sagðe Elias forðum. Það vottar og H. Paall, Hebr. 9. 27. Að øllum Mønnum sie akvarðað einu sinne að deya, og þar epter kome Doomurenn. Item, Es. 40. að allt Holld sie Hey, og øll þess Vegsemd, so sem blomstur Akursens; Heyed uppþornar, Bloomstred visnar, þvi að Ande Drottens blæs þar a. David seger og einnen: Eg em hia þier bæðe framande og wtlendur, so sem allir minir Feður. Psal. 39. v. 13.

I fiorða maata, deyr eingenn að hendingu eður oforvarandis, helldur er GUð HErra yfer Lijfenu. Hefur ecke Maðurenn sinn akvarðaðann tijma, og hans Maanaða tala er hia þier Drottenn; þw hefur sett hønum eitt Takmark, yfer hvert hann kann ecke að komast,

seg-

ſeger Job. Job.14. 5. ſo mæler og eiñen Moſes Pſal.90. v.3. Drottenn lætur Mennena deya, og ſeger, komed aftur þier Mannanna Børn. Item. Drottinn er þitt Lijf, og leingd þinna Lijfdaga. Dev. 30. 20. Allir mijner Dagar Drottenn, ſem enn nw koma ſkylldu, voru i þijna Bok ſkrifader, þegar enn þa eingenn af þeim var til, ſeger David i Pſal.139. v.16. øll ydar Høfudhaar eru talenn, ſeger Chriſtur hia Matth.10.30.

I fimta mqata, er Daudenn ſtor Aviñingur, ſo ſem H.Paall kienner: Vier Avinnum meir med Daudanum, enn vier tøpum. J ſtadenn fyrer Syndena, faaum vier Riettlæted: J ſtadenn fyrer Eymdena, faaum vier Dyrdena; J ſtadeñ fyrer fallvøllt Heimſins Giæde, eilijfann Rijkdoom; J ſtadenn fyrer ſijnelega Ættingia, Brædur, og Syſtur, faaum vier æ varande Frændſeme, Skilldugleika og Brædralag a Himnum: J ſtadenn fyrer þennann daudlega, veika og van heila Lijkama, faaum vier himneſkann forklaradann, og vegſamlegann Lijkama; J ſtadenn fyrer þeſſa Heims Wtlegd, ødluſtum vier þad rietta Fødurland: J ſtadenn fyrer Oroſeme, faaum vier Hvijld og Rooſeme; J ſtadenn fyrer þennann Heim, ødluſtum vier þa Himneſku Paradijs:

J ſtuttu maale ad ſegia, hvad er þad hier i þeſſum Heime, ſem ecke er þwſundſinn-

um betra i eilijfu Lijfe? vilier þw fa Rijkdom, Heidur, Vinskap, Frid, Glede, þa finnur þw allt soddañ þar, laangtum ypparlegra og betra, enn i þessum Heime.

J siøtta maata, skyllde Mannskiepnan vera hier æ og jafnann, i þessum Eymdardal, þa være hwn hin aumasta a medal allra skapadra Skiepna. Ef vier vonum alleinasta a Christum i þessu Lijfe; þa erum vier hiner vesølustu allra Manna seger Paulus i firra Pist. til Cor. 15. Cap. Þarfyrer erum vier skapader til betra og ædra Lijfs, og er þad stoor GUds Miskunseme og Velgiørningur vid oss, ad hañ fyrer Daudann frijar oss og frelsar af Harmkvælum þessa Heims, og lætur oss ecke vera æfenlega i Orooseme i Heimenum. Þeir riettferdugu verda burttekner fra Ogiæfunne, og þeir sem riettferduglega hafa geinged, koma til fridar, seger Esaias. Esa. 57. 1. 2. Og i Opinb. B. 14. Cap. stendur, Sælir eru þeir framlidnu sem i Drottne deya i fra þessu; ja Andenn seger, ad þeir hvijlest af þeirra Erfide.

Ad sijdustu, kunnum vier ecke med vorum syndugum og daudlegum Augum ad siaa, GUds Dyrdar Vegsemd, ecke helldur med þessum daudlegum Lijkama, ad hafa vort adsetur a þeim nija Himne, og niju Jørdu; hvar Riettlæted mun biggia; Þvi Holld og Blood

kann

kann ecke ad erfa GUds Rijke, ſeger Poſtulenn. Þarfyrer ſkulum vier med glødu Giede, afklædaſt þeſſu jardneſka Hreiſe, uppa þad vier meigum iklædaſt einum himneſkum og andlegum Lijkama; eckert daudlegt kañ ad bwa i eilijfdenne, eckert ſyndugt i þvi eilijfa Riettlæte, og dyrdar Vegſemd Himnarykes. Þarfyrer er þad ſtoor GUds Naad og Miſkunſeme, ad hañ færer oſſ af þeſſum ſynduga og fleckada Klædabwninge, og giefur oſſ lioomande fegurdar ſkrwda. J eilijfdenne a ad ſtanda eilijft Brwdkaup, og ſa dyrdarfulle Lijkame, a þar ad vera, ſo ſem eitt ypparlegt Brwdkaupsklæde: Þar mun verda ſa eilijfe Hvijldardagur, þarfyrer heyrer hønum til eiñ ſkrautſamlegur Helgidags bwningur; þar er þad allra heilagaſta, i hvert vier munum inngan ga prwdbuner med heiløgu ſkarte, og glansande Riettlæteſins Skrwda.

## Cap. LIIX.

## Um Himenſens Verkaner og Teikn, og ad eiñ Riettrwadur Chriſtiñ Madur þurfe ecki ad ſkielfaſt þar af, med þvi ad Himininn allur og Jerdin, med øllum ſijnum naattwrlegum Kroptum, er Trwnni og Bænenne Undergiefenn.

Jer. 10. v. 2.

Þier ſkulud ecke hrædder vera fyrer Himenn-teiknum, ſo ſem þad Heidingiar hrædder eru.

MArgir mikilshaattar velgafadir Menn, bæde Veralldlegrar og Andlegrar Stiettar, hafa ſo vel ſkriftlega, ſem munnlega, burtkaſtad og ſkwfad þeirre konſt, ſem meñ kalla Aſtrologiam Judiciariam, þad er ſpaadooms rijk Stiørnukonſt, um̃ Lijf og Lucku Mañanna; ſem er i þvi iñefalenn, ad Madur ſpaae og ſege fyrer af Himnenum, og Stiørnunum, hvernen þad mune gaanga til i þvi og þvi Lande, a þeim og þeim tijma, med þa og þa Perſonu: Hvada Lucka eda Olucka, ad hitta mune þañ og þañ, þad og þad Land: Og er þeirre konſt þarfyrer riettelega af þejm ſkwfad: Ad Spaamennerner hafa fordum ſtraffad þvilijka ſtiørnu Spaamenn. GUD hefur og ſo ſtreingelega fyrerboded, ad ſpiriaſt epter hia Himentwngla ſkodendum, um̃ epterkomande Luckur og Laanleiſe Manna; hvar um̃ finna ma margar greiner i H. Ritningu. Soddan kunſt kañ og ſo audvelldlega ad færa eiñ mann i Afgudadijrkun, Hiaatrw, og eina liettferduga og daarlega Forvitne, og med þvi moote dregur hwn Mannenn fra ſonnum GUDs Otta, ſo vel ſem fra þeirre

re riettu Von og Trauste, sem menn eiga ad setia til GUds alleina; hwn þikest og einnen vera good fyrer þad, sem hwn kañ ecke ad efna, þvi soddann okomner hluter eru eingum kunnuger, utann Gude; einkum þegar þeir snerta GUds Foolk og Søfnud, sem GUd hefur sierdeiles wtvaled, so ad hañ vill leida siina undarlega, og þessvegna ecke einasta epter Naattwrunne, helldur og eiñen yfer og i moot Naattwrunne. Drottenn vor JEsus Christur vill sialfur stioorna siinum trwudum, og vera þeirra nije Himen; hañ vill hneigia þa krøptuglega, fœra a rietta Braut, og vera so þeirra Vegviisare. Hversvegna David seger i Psal.4.4. Vited þo, ad Drottenn fœrer siina undarlega. Og i þeim 139. Psalme, talar hañ i sama maata mikid, uñ þessa Guds undarlega Stioornan yfer siinum trwudum; þvi ad Lifnadur, Framferde og Hendlun eins trwads Manns, a ad hafa siñ Uppruna af þeirre Niju Fœdingu, og ad stioornast af Gude; og þessvegna, verdur þeim trwudu befalad, ad þeir skule ecke giefa vakt Himenn twngla skodendum, sem hverke kunne ad segia þeim fyrer gott eda illt: Eñ hvad yfer þa mune koma, kunne þeir ad fornema af GUds Orde, þeir skule ottast GUd, befala honum siina Vegu, og rietta sig epter hans Orde og Vitnesburdum.

Vegna þessara og annara þvilijkra orsaka, verdur Astrologia, edur Stiornu spaadooms-konsten maklega burtskwfad; samt sem adur, kunna Menn þvi þo ecke neita, ad Himenenn, og Stiornurnar verka þo heilmiked, og wtrietta a Jordunne, og sierdeiles a Mønnunum. Þvi fyrst er Sool, Twngl, og Stiornur þar til giordar, ad þær skule lijsa a Jørdunne, og giefa Teikn, Tijma, Daga, og Aar, so sem þar stendur i Genesis B. 1. Cap. Þarnæst er þad og so orsijmelegt, ad so stoorer himnesker Lijkamar, af hverium þeir flestu eru stærre eñ Jordenn, og fuller med Lioos, skule ecke med sijnu Lioose verka og wtrietta miked a Jordunne, einkum þar þeir eru þar til skapader, so sem Moses kienner. Og ef þeir verka a Jordunne, so meiga þeir og so hafa sijnar verkaner a Møñunum, epter þvi Mennerner eru ecke einasta skapader af Jørdunne, helldur eru þeir og einnen þær hellstu Skiepnur GUds a Jørdunne, og so sem eiñ lijtell Heimur og Midpunctur af øllum skøpudum Skiepnum.

J þridia maata, hefur GUD og einnen nidurradad, allar mannlegar høndlaner, og handteringar med vissre tølu, a vissum tijmum, þarfyrer seger Salomon i Prædikarans B. 3. og 9. Cap. Ad aller hluter hafe sinn tijma; Aller hluter hafa sijna stund og tijma, og allt er

er kenned under tymanum og Luckunne: Vijer sinum og so, ad hver einn tijme er ecke altijd eins, eda somu Art og vilkiorum undergiefenn, og Mannanna Jþrotter heppnast ecke alltijd eins vel a øllum tijmum, hvad Drottenn vor JEsus Christur giefur og einnen ad merkia, þegar hañ hia Johannem i 11Cap. seger: Eru ecke toolf tijmar i dege: Sem villde hañ segia, þad sem a einum tijma ecke vill falla greiduglega, og fa framgaang, helldur hindrast, eda kañ ad vera hættulegt og skadlegt, þad kañ ad verda ødruvijs a ødrum tijma, so ad þad kañ þa hindrunar laust ad framkvæmast, edur og einnen, ad vera fyrer utan skada og hættu. Nw er Tijmenn fierdeiles Himensens Verkan, þvi Himenntwnglenn eru giørd af Gude, til ad stifta tijmann; og nær þau i enda Veralldar forgaanga, þa mun þar eingen tijme framar vera; so sem þar stendur i Opinnb. B. 10.Cap.

J fiorda maata siaaum vier, ad Veduraattann umbreitest epter Arsens tijmum, og hlaupe Soolarennar, og er ødruvijse a Vetrenum, ødruvijse a Sumrenu, ødruvijse a Vorenu, ødruvijse a Haustenu; verdur og ødruvijse þegar Soolenn geingur under raud, helldur eñ annars: Sømuleides þegar hwn i Uppgaangenum er af Skijunum formyrkvud: So ad

Chriſtur þeſſvegna kallar þad gott, ad Sid-inganner kunne af reinſlunne, ad dæma um̃ Himinſens aſigkomulag: Þvi ſo kiemſt hañ ad orde hia Mattheum i 16.Cap. A Kvølldeñ ſege þier: þad verdur goodur dagur, þvi Himennrode er: Og a Morgnaña; þad verdur Stormur i dag, þvi Himeninn er dimmur; hvad hann hefde ecke giort, ef ad Himenenn hefde einga Verkan og wtrietting a Jørduñe: So ſiaaum vier og einnen, ad Soolen giorer Jardarinnar Avexte fullvarna: Somuleides verkar Twngled i Sioonum og Vatnenu, ſumpart Flood og Fioru; ſumpart i Skielfiſkunum med þeim hætte, ad þeir verda magrer i Blaanyenu, enn þrwtner i hverre Twngls Fillingu.

J fimta maata, hafa menn þad af reinſlunne, þad hafa ſkied ſtoorar Um̃breitingar, epter ſtoorar Formirkvaner; ſierdeiles epter ſtoorar Samkomur Plaanetanna i Himenteiknunum, og allrahellſt epter þad Halaſtiornur hafa ſieſt, ſo ad menn þeſſvegna hafa ſagt i laanga æfe.

Hala-ſtiornu a Himna-ſlood
Hver ſa uppi Lyda
Er ecke hafe aukid Þiood
Ogn og margſkins kvyda.

J ſiøtta maata er þad ſkrifad um̃ Joſeph, edur Joſephs Ættir i Gen B. 49. Cap.

Ad

Ad hann skule vera blessadur med Blessan af Himne ofann: Og i 5. Mosis Bokar 33. Cap. ad Josephs Erfdahlute skule blessast med kostulegum Himensens Avexte, enn þo sierdeiles med Soolariñar og Tunglsens agiætum Avøxtum. J Hoseæ Spaadoms Bokar 2. Cap. seger og Drotteñ, Eg vil bænheyra Himininn, og Himinenn skal bænheyra Jørdina; og Jørdem skal bænheyra Korned, Vijned, og Vidsmiørid. Og i umsiun stødum añarstadar seger Skriften, ad adskiliañ leg Himensens Blessañ sie Jordunne meddeild.

Ad sijdustu er þad og so vijst, ad imeslegt Straff kiemur af Himnum yfer Menning, so ad Himenenn ma vera þeirra Hrijs og tipta þa. J Doomara Bokareñar 5. Cap. stendur, Ad af Himnenum hafe strydt vered moote Sissera; Stiørnurnar i þeirra hlaupe struddu a moote hønum. Þegar Spaamadurenn Esaias i siñar Bokar 13. Cap. er ad tala uñ þad Straff sem koma skyllde yfer Babylon, þa seger hañ; Dagur Drottens kiemur hrædelegur og grimlegur, og med brennande Reide og grimd, til ad eydeleggia Landed, og til ad ůtslietta af þvi Syndernar: Þvi Stiørnurnar a Himnenum, og Orion skyna ecke klaarar, Soolen rennur myrk upp, og Tungled giefur ecke sitt Skin af sier, eg vil hræra Himnana seger Drottenn, og Jørden skal hrærast af sijnum stad. Og hia Spaamannenum Ezechiel 32. Cap. v. 7. 8. seger Drottenn, Eg

vil birgia Himenenn og myrkva hans stiørnur og draga fyrer Soolena med Skyunum, og Twngled skal ecke skijna. Og øll Liososenn a Himnenum, vil eg lata myrk verda yfer þier, og eg vil giøra Myrkuri þijnu Lande. Hier a og so þad heima, ad mikell Partur af mannanna Siwkdoomum, stioornast af Stiørnunum: So sem imesleg Nidurfallssoott, og Krankleike þeirra Twnglsiwku, hvar um̃ talad verdur i Gudspiallegre Historiu, og Naattwru Spekingarner underrietta, ad þeir sem halldner sieu af þvilijkum Sottarferlum, faae meire og hardare hvidur af þeim med fullu Twngle, og þegar Qvartera skiptenn verda, enn annars. So og einnen Vatns Sotten, sem sagt er ad sie þyngst i fillingu Twnglsens. So er þad þa vissulega satt, ad Himenenn hefur sijnar krøfftugar Verkaner, og wtriettingar a Jørdunne, og sierdeiles a Mennunum. Eingu ad sijdur, þarf eingenn riettrwadur ad vera hræddur, fyrer Himensens Verkunum og wtriettingum, þvi Himensens Verkan er ecke utann almenneleg: Orsakest og einnen nockud vondt þar af, a einne Manneskiu, þa er þad hennar eigenn skulld. So seger Drottenn sialfur hia Jer. i 10. Cap. v.2. Þier skulud ecke vera hrædder fyrer Himensens Teiknum: Þarfyrer stendur øll Lucka Mannsinns i Guds Hende alleina: Luckan kiem-

kiemur og Luckan fer, ſa ſem GUD ottaſt, bijhelldur Luckunne. Minn tijme ſtendur, o GUd, i þijnum Høndum; ſeger Spaamadurenn. Og enn aptur; Myn hiælp kiemur fra Drottne, ſem ſkapad hefur Himenn og Jørd. Fyrer utann GUds Vilia, kann ecke neitt Hær ad falla af Chriſtins manns Høfde, ſo ſem Chriſtur vottar hia Matth. 10. Cap. So ſem Hlauped ſtendur ecke i vallde þeſſ liettfæta, nie ſtryded i makt þeſſ Oſluga, ecke helldur Audlegdenn i vallde þeſſ Vituga; ſo ſtendur og eckert ſoddan i Himenſens og Stiarnanna makt og Vallde, helldur alleina i GUDS vallde, ſem upphefur þann eina, og nidurþricker ødrum, og veitir alla þa Hiælp ſem ſkiedur a Jørdunne. Og allra ſijſt, haangir Velferd þeirra Riettrwudu og GUds Barna, af ſkøpudum Skiepnum; eda ſier i lage af Himnenum eda Himeñtwnglunum. Chriſtins Mans Lijf og framgangur, er ecke af einſamlre Naattwrunne, helldur hefur hann ædre Uppruna, hañ framkiemur af Gude, og þeirre niju Fædingu, og þarfyrer ſtioornaſt Madurenn og ſo af Gude ecke einaſta med, helldur og einnen a moote Naattwrunne. Drottenn leider ſijna undarlega, ſeger Spaamadurenn, Pſal. 4. v. 4. Item: Jeg er undarlega giørdur, þijner Giørningar eru undarleger. Pſal. 139. v. 14. Og i þeim 73. Pſal. 23. Jeg er alltijd hia þier Drott-

Drottenn, þw ſem medtekur mig i þijna Hønd, og leider mig med þijnu Raade. Þeim, ſem eru af Gude fædder, og lifa i Endurfæding-unne, kañ Himenenn og øll Naattwrann eingann ſkada ad giora, þarfyrer þurfa þeir ecke ad vera neitt hrædder fyrer Himenſens Teikn-um, helldur ſkulu þeir adeins ottaſt Drott-enn, befala ſig honum a valld, og ſkicka ſier epter hans Orde, ſo mun einginn kunna ad giora þeim nockurn Skada; og þeſſvegna ſtendur þar og ſo um̃ þañ Frooma i Pſal. 112. Nærer einhver Plaaga kiemur, þa hrædeſt hann ei, hans Hiarta vonar efalauſt uppa Drottinn. Og i Pſal. 91. ad hann ſitie under Skiole þeſſ Hædſta, og under Skugga þeſſ Al-mattuga, og ſeger til Drottenns, mitt Trauſt og mitt Slot, minn GUd a hvern eg vona; þviad hann frelſar mig wtaf Snøru Veide-mannſinns og wt af þeirre ſkadſamlegre Drep-ſoott: Hann mun ſkijla þier med ſijnum Fiø-drum, og þitt Trwnadartrauſt mun vera und-er hans Vængium, hans Sannleikur er bæde Skiølldur og Veria: So ad þw þurfer ei ad ſkielfaſt fyrer Ognan Næturinar, fyrer þeim Skeitum, ſem a Dagenn flijwga: Fyrer þeirre Drepſottenne, ſem i Myrkrunum lædeſt, fyrer þeirre Sykenne, ſem um̃ Middeiged fordiarfar.

Hier a þad heima, ſem Menn plaga ad ſegia: Sa Viiſe drottnar yfer Stiørnun-um, þvi þeir Endurfæddu, eru yfer þeim naatt-

wrle-

wrlega Himne, med ollu þeirra hattalage; þeir eru ecke Børn Soolarenar, Twnglsins eda annara Planeta, helldur eru þeir GUds Børn, og lifa i Trwnne, fyrer hveria þeir ecke einasta sveima yfer Jardariñar hææu stade, so sem þar stendur hia Esa. 30. Cap. helldur upphefiast þeir yfer þa naattwrlegu Kratta Himensens, so ad hann fyrer utann GUds sierdeiles Tillaatseme, kañ þeim eingann Skada ad giøra. Þeir sem ecke lifa i Endurfædingunne, helldur epter Holldenu, þeir meiga vera hræddir, þeir meiga vænta epter þeim Sløgum, sem Himenenn hootar, med þvi þeir lifa sem Heidingiar: Enn ecke þeir sem eru GUds Þioonustumenn, hverier ecke lifa epter Hollldenu, helldur epter Andanum. GUd er med þeim, hver vill vera a moote þeim? Rom. 8. v.31. Þeir kunna ørugger og ohullter ad segia: Ps. 49. v.6. hvarfyrer skal eg ottast þa vondu daga.

Himnabygd ma hrapa viid,
Haudred brotna i parta,
Allrei munu þau undur Striid,
Ogna voru Hiarta.
So leinge vier Saalar Skiool,
Sætt af JEsu þiggium,
Og þa føgru edla Sool,
Ecke fra oss stiggium.

Hvad

Hvad mektugar og sterkar sem Himennsenns Verkaner kunna ad vera, þa eru þær þo Trwnne og Bænenna undergiefnar. Hver einn Trwadur er i Christo, HErra yfer allre Naattwrunne, so vijdt, ad hwn kann hann ecke ad skada, helldur giora honum til gooda. Allir hluter heyra ydur til seger H. Paall til þeirra i Corinthu Borg 1. Pistl. 3. 21. Hvert helldur þad er Paall, eda sie þad Apollo, eda sie þad Cephas, eda Heimurenn, sie þad Lijfed, eda Daudenn, sie þad hid nœrlæga, eda okomna, allt er þad ydvart; enn þeir erud Christs, enn Christur er GUds. Þarfyrer verdur og so GUds Sofnudur oss fyrer siooner settur, Apoc. 12. sem ein Kvinna, sem var Soolune umskrydd, og hafde twngled under sijnum footum: Hvar med kient verdur, ad þeir rietttrwudu sieu i Christo upphafder yfer alla hlute, þeir sieu iklædder Christo, og hafa alla Naattwrúna undir sijnum footum. Trwadur Madur er i Christo ein ny Skiepna, og yfervinnur alla hlute i Christo. Allt hvad af Gude er fœdt, yfervinnur Heimenn, og allt þad sem i Heimenum er. Trwudum er allt møgulegt seger Christur hia Marcum i 9. Cap. 23. Þad er Meiningen, ad so miklu leite, sem þad kañ ad vera epter GUds Vilia, og Mañenum sialfum til Gagns og gooda. Sicæed, eg hefe giefed ydur

ur Makt til ad stijga uppa Eijturkvikende og Høggorma, og yfer allann Kraft Ovinanna, og ydur skal eckert granda meiga, seger Christur til sinna Læresveina hia Luc. 10. Hvert þo þad gange ecke so til fyrer hverium einum rietttrwudum, epter wtvortes Jardteikna hætte, sem þad gieck til fyrer Postulunum; þa skiedur þad þo eingu ad sijdur, med þad slag i heimuglegann maata, ad þeir um sijder komast af, frijer fra øllum skada, jafnvel og einnen, þegar þeir setia Lijfed til, þvi þeim sem ottast og elska GUD, snwast aller hluter til hinns besta. Rom. 8. 28.

Hier eiga heima og einnen þesse GUds Fyrerheit i Psal. 91. Þw munt gaanga uppa Lion og Eijturorma, og troda nidur þau unguLeoninn og Drekana; og hia Esaiam i 43 Cap. Nær ed þw geingur i giegnum Vøtnenn, mun eg hia þier vera, so ad Vatnsføllenn skullu ecke dreckia þier. Og ef þw geingur i Elldenn, skalltu ecke brenna, og sa Elldslogenn skal ecke brenna þig. Og hia Johannem i 16. Cap. 33. Vered hughrauster eg hefe yferunned Heimenn: Þessa Heims Høfdinge kiemur, og med mig hefur hann eckert. Þarfyrer kann trwadur Madur i þvilijku tilfelle, ad vera hughraustur og med goodu giede, og i fyrra Pistells til Cor. 15. Cap. stendur so. GUde sieu Packer sem oss hefur Sigurenn giefed fyrer Drottenn vorn JEsum Christum. Og i Pistlenum

lenum til Romanos 8. Cap. Hver kann ad ſkilia oſſ fra Chriſti Kiærleika? Hørmung? eda Angiſt? eda Hwngur? eda Klædleiſe? edur Haſke? edur Sverd? Enn i øllu þeſſu berum vier langt af, vegna hans ſem oſſ elſkade: Eg em þeſſ fulløruggur ad hverke Daude nie Lijf, hverke Eingill nie Høfdingiaſtiettir, eda Makt, nie nockur ømnur Skiepna fær oſſ ſkilid fra GUds Kiærleika, ſem ad er i Drottne vorum JEſu Chriſto. Þeir trwudu hafa til forna i GUds Nafni, fyrer Bæn og Akallan til Drottenns aptur birgt Himenenn, wtſlockt mackt Elldſins, laated Sool og Twngl ſtanda kirr; afturlukt Kverkar Leonanna, og i annann þvilijkann maata, giørt ſtoora Giørninga. Sa ſame GUd lifer enn nw, hann plantar enn nw, og ſtirker Trwna i ſinna Barna Hiørtum, þeim til Gagns og gooda, og fyrer hana giefur hann þeim, ad yfervinna allar Hørmungar. Ecke einaſta er Naattwrann Trwnne undergiefenn, helldur og einnin, hvad meira er, Makt og Port Helvijtanna. Matth. 16. 18. Synden, Daudenn, Diøfullenn, og Helvijte er þeim undergiefenn. Chriſti Sigur er vor Sigur, i hønum yfervinnum vier, og hann i oſſ. Þarfyrer ſegia þeir 70. Læreſveinar: Herra, Diøflarner eru oſſ einnen undergiefner i þijnu Nafne: Og Chriſtur ſvarar: Gledied ydur ecke þar af, þo Andarner,

ner sieu ydur undergiefner, helldur gledied ydur, ad ydar Nøfn eru skrifud a Himnum, Luc. 10. 20. sem hañ villde segia: Ad ydar Nøfn eru skrifud a Himnum; þad er, ad þier erud a mig iñplantader, og hafed hlut i Gllds ryke; þad er ydar Sigur, ydar Stirkleike, ydar Vegsemd, ydar Heill og Hroos; fyrer mig eru þier Gllds børn, Erfingiar og Herrar yfer øllum hlutum. Og i sama maata eru øll trwadra Nøfn skrifud a Himnum, og þeir eru i Christo riettferduger og sæler Sigurvinnarar, ja Erfingiar og Herrar, med Christo yfer øllum hlutum.

# Viduraukе.

## Sa ed innehelldur orsaker þær, vegna hverra Astrologia Judiciaria, edur Spaadoms konstenn wt af Himenntwngla gaangenum, uñ Luckи og Laangleise Manna, verdur maklega fordæmd; og þad til upplysingar þvi maale, sem adur er framfært i næst fyrer farandi Capitula.

AD Meñ hafe fulla orsok til ad skwfa þeirre Spaadomlegu Stiørnu-konst, uñ Luckи og Laanleise þess og þess Manns, a þeim og þeim tijma, og annad þvilijkt, þad verdur med røkum syndt a þennann haatt.

Fyrst er oss alldeiles fyrerboded af Gude, ad giefa vakt, eda brwka þvilijka Spaafarar konst: Og þad ad nockruleite almennelega, bæde þegar hann seger, ad vier skulum varpa vorre ahiggiu uppa Drottenn, og bera ecke Um̃higgiu fyrer tilkomande Morgne, helldur læta Morgundagenn sialfann fyrer sier um̃higgiu bera, þvi þad sie noog ad hver Dagur hafe sijna Pijning; so og einnen, þegar hañ bijdur, ad vier skulum ecke ganga a Vegum Heidingianna, eda filgia þeirra Plagsid, so ad Landed wtskirpe oss ecke, eins og Canaans land wtskyrpte sijnum innbiggiurum; og ad vier skulum ecke giøra epter neinum þeirra Svijvirdingum: So sem lesa maa i Levit. B. 3. Cap. v. 23. og i 18. Cap. v. 3. og 24. Þvi þesse Spaadoms konst er og so ein heidingleg venia, og uppafinding, og ein af þeirra Svijvirdingum. So ad Moses i Devt. B. 18. Cap. syner, ad Heidingiar hafe vered wtdrifner af Israels lande, af þvi þeir handterudu soddañ Spaadoms konst og gaafu giætur ad henne.

Ad nockruleite fyrerbydur Gud soddann Spaadoms konst, um̃ Forløg Manna, sierdeileslega, þegar hañ fyrer munn Esajæ kiemst so ad orde. Ef þeir segia til ydar, spyried ydur fyrer hia Sannsagnar mønnum, þa skulu þier svara: Hver einn skal spyria sig fyrer af sijnum Gude um̃ Lijfed og um̃ Daudann.

Þad

Þad er um̃ Lucku og Olucku. Og er þad Meiningenn ad Menn skulu spyria GUd alleina þar um̃, og eingann Stiornu meistara, edaSañsagnara, eda adra þesshaattar Spaafararmenn. Og i Jeremiæ B. 27. Cap. Þier skulud ecke hlijda ydar Spaafarar mønnum, Sannsøgnurum og Drauma Wtleggiurum: Hvad og so itrekad verdur i somu Spaadoms B. 19. Cap. So seger og Drottenn hia sama Spaamanne i 10. Cap. Þier skulud ecke kienna Vegen Heidinganna, (Þad er Heidinganna Sidvenin) Og ecke skulud þier hrædder vera fyrer Himensens Teiknum, þvi ad Foolksens (þad er Heidingianna) Sidvenia er fæfeingeleg.

J fimtu Mosis B. 18. Cap. stendur so: Þar skal eingenn Sannsagnare, eda Spaafararmadur, eda Teikna Wtleggiare vera a medal ydar. Og merkia þau ord i Hofud-Twngumaalenu, allra handa Spaamenn, jafnvel þa sem segia fyrer um giæfulegar og ogiæfulegar tijdir og tijma: Um̃ hveria og so talad verdur i Levit. Bokar 19. Cap. þar so stendur; Þier skulud ecke spaa, edur laata spaa ydur, um luckusama, edur olucknsama tijma; epter þvi sem Meining ordanna er i Høfud-Twngumaalinu. Um̃ þad sama verdur og so talad, þegar sagt verdur hia Mich. i 5. Cap. til þess andlega Jsraels: Þad skulu ecke vera Spaa-

fararmenn, eda Teikns Wtleggiarar hia ydur. Og brwkar Skriftenn i Hebreskunne þad sama ord i øllum þessum stødum, nefnelega Meonenim, sem merker ad øllu leite þessa Iþroott, og þa Menn, sem wtreikna Giæfu og Ogiæfu tijma og stunder og segia, hvada Lucka eda Olaan, ad einum skule tilfalla, a þeim og þeim tijma. Og þessvegna merker þetta ord Onah, sem hefur þa somu Root og Uppruna, akvardada tijd og tijma. Þessu er samhliooda sa gamle Hebreske Læremeistare Akiba, i þvi Gidinganna Skrife, sem kallast Sandhedrin; hvar hañ epter tilvijsan Buxtorfii vottar, ad Meonen sie sa, sem reikne wt tijder og tijma, og seger; i Dag er þad luckulegt ad reisa; a Morgun er þad luckulegt ad brwka Kaupmannsskap: Þad kienna og so adrer, sem eru vel forfarner i Høfud-sprokenu. Þetta hid sama, sem og alla Astrologiam, edur Spaadoms konstena af Himenntwnglunum, vill Sal. Doctor Brochmann og so ad greint ord þijda, þegar hañ i sijnu Systemate, er ad skrifa samann Annann Capitula af Skøpunenne. Þarfyrer er þad noogu lioost og opennbert, ad slijk Lucku spaadoms Stiørnu-konst, er oleifeleg og fyrer Gude ein Svijvirding; og kañ so fogur sannleiks birta ecke ad formyrkvast med þeim mootsagnar skugga, er nock-

rer fyrer sig bera, ad Konstenn kunne ecke ad vera slæm og oleifeleg, þvi þad hafe oft fram̃komed, sem hwn hefur fyrersagt ad skie skyllde. Eñ slijkt hefur og so skied med þeim hætte, sem er oleifelegur og ogudlegur; þvi þad finst, ad jafnvel Galldramenn, hafe med siñe Tofrakonst sagt stundum fyrer Sannleikann, og er þeirra List þarfyrer ecke leifeleg, helldur fyrer Gude ei ad sijdur Andstigd og Svijvirding: So hafa og einnen Kiettarar og Grillufantar sagt stundum fyrer o-ordre hlute, sijnum Villulærdomum til stirktar og stadfestu. Og Moses seger wtþrickelega i Devter. B. 13. Cap. Ef einhver Spaamadur og Draumspekingur rijs upp a medal ydar, og giefur þier eitt Teikn, edur nockud furdulegt: Og þad Teikn edur stoormerke fram̃kiemur, sem hann sagde þier fyrir, og hann seger, latum oss eptirfylgia annarlegum Gudum, sem þier þeckid ecki, og þioona þeim: Pa skalltu ecki hlyda ordum þess sama Spaamanns eda Draumspekings, þviad Drottinn ydar GUD hann freistar ydar, og vill reina hvert þier elskid han̄ af øllu Hiarta, og af allre Saalu. (a)

(a) Doctor Sal. Brochmann seger i firrgreindum Stad, ad slijk Luckuspaadoms Uppfylling, sem stunduma merkiast, gioerest annadhvert, so sem GUDs riettferdug Hegning yfer þeim Vantrwudu, ad þeir skule straffast med Lyge, so sem þar stendur 2. Tess. 2. Cap. Ellegar til ad reina og prova þa Gudhrædda, epter firrskrifadre grein i Deut. B. 13. Cap.

Þarnæst og i añann maata, verdur þessare spaadomslegu Stiornukonst, um̃ Giæfu og Ogiæfu Manna maklega skwfad, fyrer þa orsok ad hwn lofar þvi, sem hwn kann ecke ad enda. Hwn lofar ad segia fyrer, hvad þeim og þeim skal tilfalla, a þeirre og þeirre tijd, og giefur sig þessvegna wt fyrer þa Lærdoms list, sem kunne ad segia fyrer o-ordna hlute, jafnvel þa sem eru berer, og ecke hafa nein Naattwrleg Rok so merkiast kunne, hveria GUd alleina þecker, og eingenn skopud Skiepna an hans opennberunar. Jeg sege, o-ordna hlute bera; þvi þeir okomnu hluter, til hvera einhver Naattwrennar Drog liggia, og ecke eru berer, helldur fyrer vissar orsaker allareidu i sinne fullre Verkan og haanga so sem i einne Kiediu vid nærverande hlute, þa hina somu kunna Skiepnunnar, sem hafa i sier mikenn Skarpleika, stundum ad þeckia fyrer fram̃; so sem, einn kañ ad segia fyrer, ad a þeim edur þeim deige, a þeirre og þeirre stundu verde Twngls Lok, eda Filling, eda Qvartera skipte, eda Formirkvan, eda Flood, eda Fiara, eda onnur þvilijk naattwrleg tilfelle, sem ecke meiga kallast alldeiles okomner hluter, helldur i vissann maata samannteingslader vid þa nærverande hlute, þvi þeir eru fyrer Hlaup Soolarennar og Twnglsenns alla

reidu i siñe fullre Verkan og giorninge. So kañ og einn stundum þad fullvel ad vita fyrer fram, sem hañ hefur sialfur sett sier fullkomlega i Panka ad giora og wtrietta: Og sier i lage ad segia, þa kañ Diøfullenn, til stirkingar siinu Ryke, ad giefa einum þad iñ, ad segia fyrer þad og þad, og siidann kann hann fyrer GUds tillaatsseme, med siinum innblæstre, ad koma ødrum til ad giora og fullkomna þad sama. Soddann a heima i þeim søkum, sem alla reidu eru i Verke og Framkvæmd; hvar til þad heyrer og einnen, ad Madur kann ad vita af þvi fyrerfrañ, sem hann hefur fornumed ad alycktad hafe vered, fyrer vyst, ad skie skillde, a þeim og þeim tijma. So kuña og fleirre þess haattar hluter ad vera, sem hafa siina Tildrætte allareidu i Verkan, og eru ecke alldeiles berer, eda wt af fyrer sig, hellldur samann teingsladar vid nærverande hlute. Enn þeir hluter, sem eru alldeiles berer, og ecke hafa neina Uppraas af Naattwrunne, uñ þess og þess manns lucku, a þeim og þeim tijma; falla og einnen til mørgum arum epter þad Spaadomurenn uñ þa giorst hefur, þa hina sømu, og adra þeim lijka, kann einginn ad segia, fyrer utan GUd alleina, og þeir, hverium hann vill þad opennbera: Parfyrer seger Drottenn so hia Esaiam i 43. Cap. uñ Mannsinns Vitsmuni, sem hann kann ad hafa

sa fyrer utann GUds sierdeiles Opennberan, og um þa o-ordna hlute, sem einfalldlega tilfalla, fyrer utan nockurskonar Rök og Tilesne. Hver er þar a medal þeirra, sem slijkt kunni ad kunngiøra, og læte oss þad heyra fyrerfram, hvad ske skal? læted þa framleida sijna Votta og sanna þad, þa munu Menn heyra þad, og segia, þad er Sannleikur. Og en afftur, Esa. 44. 7. Læted þa kunngiøra þeim Teikn, og hvad koma skal. Hia Esaiam i 46. Cap. tileinkar GUd þeckingu soddann hluta sier sialfum alleina, segande: Jeg Drottinn kunngiøri þad fyrerfram, hvad hier epterkoma skal; og adur enn þad skiedur: Item þegar hann hia Esaiam i 41. Cap. seger til Heidingianna Afguda, kunngiøred oss þad sem koma skal, þa vilium vier merkia þad ad þier erud Guder. Þegar Joseph skyllde spaa fyrer um þad sem epterkomande var, sagde hann til Pharao, ecke er þvilijkt i mijnu vallde, GUD mun þo spæ Pharaoni goods. Gen. 41. 16. Eins lijka þegar Daniel skyllde segia fyrer, og tala um þad sem tilstod og epterkomande være; bad hann sijna Stallbrædur, Hanania, Misael, og Asaria, ad þeir villde bidia GUd a Himnum um Nææd þar til, ad þad mætte openberast: Og Ritningen bæter þvi og so vid, Ad þeir hafe so giørt; og þad vard hønum a Nætur tijma opennberad i einne syn; og hafe giørt Gude þacker þarfyrer, sem hønum þad openn-

ber-

berade; þessvegna sagde hann og einnen til Kongsins Nabogodonosor, ad þvilijkir hlluter være honum ecke opennberader fyrer hans eigen Skinseme, Lijka so sem hwn være meire og stærri enn allra annara; helldur af Gude a Himnum, sem kunne ad opennbera heimuglega hlute.

Christur seger og einnin til sijna Læresveina i Giorning. B. 1. Cap. v. 7. Ydur er ecke giefed ad vita tijma og stunder, sem Faderenn hefur sett i sialfs sijns valld. So sem ad Rannsokun Hiartnanna og Nyrnanna, heyrer Gude alleina til, so heyrer og einnen Gude alleina til, Þecking þeirra hluta, sem riettelega og skijlaust meiga kallast epterkomande.

Lijka so sem vorar epterkomande Æfestunder, med þeirra Laane og Olaane standa alleina i GUds hende; so ad David seger þessvegna i Psal. 10. v. 14. Þad stendur i þijnum Hondum Drottinn, hiner faatæku bijfala þier þad: Og i Psal. 31. 16. Minn tijme stendur i þinne Hende. Eins lijka stendur Vitund, um vora epterkomande Æfe, henar Giæfu og Ogiæfu, alleina i GUds Vijsdoome og Peckingu, GUd alleina veit þad alltsamann. Og þessvegna seger Drottenn og einnen um Gidinganna epterkomande, og fierdeiles tilstand, i Deuteron. B. 32. Cap. 34. Er þetta ecke geimt hia mier, og innsiglad i mijnum liggiande

Fiesiood? Og þegar David i Psal. 139. v. 1. er ad tala um þad, ad aller hans Dagar, þeir ed enn vera skylldu, væru skrifader i Guds Bok, þa þegar einginn þeirra hiña sømu var eñ þa til; somuleides; ad GUD tilskicke, hvad hann, þad er adskila David, skyllde giøra, bæde fyrer og epter, þa bæter hann þessu vid. Slijkt ad skilia er mier ofhaxtt, og ofundarlegt; jeg kann þad ecke ad grypa.

So syner og einnen Salomon i Prædikarans Bok 9. Cap. ad þott Tijminn og Luckann hafe miked ad segia, eda allt sie komed under þeim, þa vite þo Madurenn ecke fyrer sijna Endalikt, eda nær, og med hverium hætte hañ skule deya. Og kunne Madur ecke fyrer fram ad vita sijn eigenn Afdrif, eda nær, og med hverium hætte hann mune deya, so kann hann ecke helldur fyrerfram ad vita af annars Afdrifum, eda Daudans stundu og maata; so og ecke helldur af hans Æfe tijma og maata, med þvi Daudenn er Lijffsinns Endir og wtgaangur, og kunne Madur ecke ad vita fyrer eins Æfe tijma og maata, so og ecke helldur hans Lucku og Forløg.

So stendur þar og einnen i Prædikarans B. 11. Cap. Ad eiñ Manneskia kuñe ecke ad vita GUds Giørninga; og i 3. Cap. ad þo aller Hlutir hafe sinn tijma, og GUd hafe skickad øllum Hlutum vel og vijsdomslega a synum tima; somu-

somuleides lagt Heiminn i Mannsins Hiarta, eda giefed Mannenum ad þeinkia um hans hondlan, og Hlaup, og hvad þar munne afverda; samt kunne þo ecke Madurenn ad hitta uppa GUds Verk, og þeirra upphaf og ender. Item i 8. Cap. Ad Maduren kunne ecke ad finna uppa GUDS Giørninga, sem skie under Soolunne, og þvi meir sem Madurenn briootest i þvi, ad skignast epter þeim, þvi minna giete hann funded: og þott einn Hygginn Madur sege, edur meine, ad hann vite soddann, þa kañ hañ þo (i sañleika) ecke ad hitta þar uppa; þad kiemur allt i sama stad nidur: Þviad Lucka edur Olucka epterkomande tijdar, er og einnen GUds Verk, sem skiedur under Soolunne ja, allrahelst a medal þeirra GUDS Giørninga, sem madurenn kañ ecke ad hitta uppa; þad umlidna og nærverande kuñe Meñ liettara ad gripa; eñ þad okomna aptur i stadenn, er so sem Myrkur fyrer þeirra Augum.

So vitnar og Salomons prædikare þar fyrer utann i imsum stødum, sier i lage, og wtþrickelega, um o-ordna hlute, ad Madurenn kunne ecke ad vita þa fyrerfram: So sem i sama Attunda Capitula; hvar hann seger; Allt Aform hefur sijna tijd og maata: Item Madurenn veit ei hvad vered hefur, og hver kann ad segia hvad verda kann. Item i 10. Cap. Madurenn, seger hañ, Veit ecke hvad vered hefur, og hver vill segia hønum hvad

skie

skie skal epter hann? Og i 3.Cap. 22. Hver vill færa Manninn þangad, so hann kunne ad sia hvad epter hann mune skie? J 7.Cap. 14. mæler hann þannig: Hver vill segia Mannenum, hvad eptir hann mune framkoma under Soolunne. Item, GUd hefur sett þann Vonda Dag hia þeim goda Deigenum, so Madur skule ecke vita hvad epterkomande er. Pad er og merkiannlegt, ad sialfur Salomon visse ecke fyrer soddann epterkomande hlute, hvad hann ecke einasta giefur ad merkia, med þvi ad hann i framsettum ordum seger almennelega, ad Madurenn kunne ecke ad vita edur finna soddann, helldur og einnen þegar hann i ødrum Capitula seger sierdeileslega um sig sialfann, ad hann ecke visse, hvert sa sem hañ liet allt epter, og skyllde stioorna epter hann, nefnelega hans Son, munde verda Higgenn eda Heimskur. Hver veit, seger hann, hvert hann verdur Vitur eda faavijs, og hann skal þo hafa hønd yfer øllu mynu Erfvide. Og þo var Salomon, so sem þar stendur i fyrre Bokar Konganna 4. Cap. Vijsare eñ aller ader Meñ a Jørdunne, og sier i lage ad segia, Vijsare enn þeir i Egyptalande, og i Austuralfunne; og var þar fyrer og so Vijsare enn aller Stiørnu-Spaadoms, eda Lucku Spaadoms Meistarar; a medal hverra þeir Chaldaisku og Babiloonisku i Austuralfunne voru

hiner

hiner nafnfrægustu; so sem þeir voru og einnen mest kunnuger og forfarner i somu Luckukonst, edur Spaadoms list. Um hveria þa i Chaldea og Babylon Esaias vottar i 47. Cap. Ad þeir skule ecke af Himnum, edur Himentwnglunum kunna ad hialpa Babylon, eda ad segia henne fyrer med sañendum, sijn Forløgsseger og eiñen þessvegna; Ad Babilons Konst og vijsdomur hafe henne nidurhrunded; og i 44. Cap. Ad GUd hafe smæanad soddañ Spææmenn, og giørt þa galda i sinne Konst.

Þarfyrer bliifur þad vijst og satt ad eingeñ utann GUd, kann ad vita fyrer þa o-meingudu epterkomande hlute: Jeg sege ad vita, og ecke ad gieta til; þvi jafnvel þo Meñ kunne stundum ad gieta nockurs til um slijka epterkomande hlute, þa kunna þeir þo ecke ad vita þad fyrer vijst: Þvi þegar Menn gieta uppa nockud, þa vita þeir þad ecke fyrer vijst; eñ uñ þad er Madur viss, sem hann veit, og hañ kañ ecke i þvi villt ad fara; enn þad sem hann hefur i Gietumaalum, um þad er hañ oviss, og kann lika sem þeir ad griipa i Luckupottenn, so :l ecke uppa neitt ad rama, sem uppa nocku., hann kann so vel ad hitta uppa Lijge, sem Sannleika.

Kunne nw einginn skoɲud Skiepna fyrerfram, an þess þad verde henne af Gude opennberad, ad vita soddann o-komna hlute, so kann

kañ og einginn Skiepna fyrer utan GUds ſierdeiles Opennberan ad ſpaa fyrer um Oordna hlute: Þarfyrer, med þvi Spaadomskonſtinn af Himinntwngla gaanginum, giefur ſig wt fyrer þad, ad ſegia manninum o-ordna hlute, þa giefur hwn ſig wt fyrer þad ſem hwn kañ ecke ad efna edur wtrietta; þvi þad kann einginn ad giøra, ſo ſem adur er beviiſ ad, utann GUd alleina, edur ſa ſem hefur feinged ſlijka Þecking af GUds ſierdeiles Opennberan, af hverre GUds ſierdeiles Opennberan, ad þeſſe Spaadoms konſt er eingannvegen upprunninn, helldur er hwn einaſta mannleg og heidingleg Uppafinning (b) finſt og almennelega Lijgen og oſañord (ſkialſøm) ſem ſijdar mun ſijnt verda; og kañ hwn þeſſvegna alldeiles ecke af Gude ad vera, og hans ſierdeileslegre Opennberan, Þvi GUd er klara Sannleikur, og af hønum kiemur alldrei nockur lijge edur Villa.

Nw þo ad Meiſtararnir i þeſſare Liſt ſtande ecke uppa þad, hwn hafe ſinn Uppruna, af GUds ſierdeiles Opennberan, helldur ſie

(b) Þeir riettu Skolameiſtarar i konſtenne, ſem hwn ber fyrer ſig, eru Ptolomæus, Hali, Firmicus, Cardanus, og adrer þvilijker, ſumpart gamler, ſumpart nyer, og aller heilſlietter Meñ, villum og Hiaatrw undergiefner, og fleſter af þeim hundheidner. Frædemeiſtarar.

sie hwn uppkomeñ af laangvarannlegre reinslu, og þar af, ad Menn hafe formerkt, ad þegar Planeturnar hafa soddann stad og platz a Himnenum, þa plage alltijd þad og þad ad skie: Hvad ecke er þo so i riettre raun og veru, med þvi Reinslann hefur þad opt bevijsad, sem er aldeilis gagnstædt þvi sem Konstenn (c) ber fram; ecke ad sijdur stirker þetta þo,

(c) Gassendus i sijnu Skrife yfer þa 10. Bok Laertij a þeirre 938, 939, 941, 945, og 967. bladsijdu, sem og einnen i þvi 4da Briefe de Motore Translato, bevijsar; ad Kunstenn kunne ecke ad vera uppkomen af nockre laangvaranlegre reinslu: Og ad þær somu Stiornur kunne ecke ad komast aptur, i þad sama Skick a Himnenum, og asigkomulag Samañ sofnunariñar, sem þær einu siñe haft-hafe, fyrr enn hwndrad þwsund Aar, eda meir, sieu fralidenn. Somuleides kome ecke Astrologis, edur Stiornu spaamonnunum saman um þessa Reinslu; þvi þeir hellstu af þeim seinustu, so sem er, Cardanus, og Morinus kalle Reinslu og Lærdom þeirra gømlu þarum, Lijge og Osannende. Hann sijner og einnin ad Reindenn og reinslann, sie oftar med, enn moote Konstinne, og ad hwn giete ecke neitt hjalpad i Søkenne, þviad Meñ kunne hana ad veikia, og tilbaka ad reka med annare reinslu, sem stirke og stadfeste, þad sem er gagnstædt þeirre firri reinslu. Item; þott Stiornurnar med sijnu Lioose verke nockud a Jordunne, þa sie þad þo ecke utann almennelegt, og hvad þar af kune

þo, og ſtadfeſter þad ſama, ſem ſagt hefur vered; nefnelega, ad Konſtenn hefur ecke ſiñ uppruna af GUds ſierdeilis Opennberan; (Þvi þad ſem Menn hafa numed af Reinſlunne; þad hafa þeir ecke numed af GUds ſierdeiles Openberan,) helldur er hwn med ſoddañ almeñelegum hætte uppkominn, ſem kann ad ſlaa feil, og Madur hefur ſialfur med ſtorre Mædu uppa erfided, ad hann giæte fundid; i hverium hann kann þo haframmlega villt ad fara.

J þridia maata kann Aſtrologiæ, edur Spaadomskonſtinne af Himinntwngla gaanginum um Forlog Manna, þarfyrer maklega ſkwfad ad verda, ad hwn er ſvikul og full af prettum, og meir Lijge enn Sannleikur: So ad

kunne ſierdeilis ad orſakaſt, ſo miked ſem ahrærir Giæfu og Ogiæfu Mannanna, þa vite einginn Aſtrologus eda Stiornu Spaamadur af þvi meireun eirn ſliettur Leikmadur. Og þegar eitt hvad tilfalle ſem ſpaad var, þa kunni Madur ecke ad vita, edur draga þar nein Rok til af Himnenum. Adſkilianlegt um þeſſa Poſta, ſem taider hafa vered, ſtadfeſter Raſinus Bartholinus i hans Diſputatiu, um þa miklu Conjunctionem er ſkiede Aar 1663. Pad er og einnen verdt ad leſa, ſem Gellius hefur epter Phavorino um ſoddann i ſinnar 14du Bokar 1. Cap. eins lijka þad ſem Diodorus Tarſenſis ſkrifar i Photii Bibliotheca, hvar hann høndlar um Fatum, eda Forlogin.

ad Menn mega sega um hana med Ezechiel af hans Spaadoms Bokar 18. Cap. Er þad ecke so ad ydar Sioonir eru rangar, og ydrer Spaadomar eru ecke utann Lijgar? og þier seged þo samt; Drottinn talade þad, þo eg talade þad eige. Þvi ef eitt er satt þar i, þa finnast þar þo i aftur a moot tiwfalldar Lygar; og kunne Sannleikurenn med soddann moote, þess a mille sagdur ad vera, þa skiedur þad þo ecke nema af Slumpu-lucku, og ad Gaatu til, so Madur ma ecke ætla þar uppa, þvi hañ veit ecke hvert þad kañ ad vera satt eda logied, er þvi ecke vissara eñ eitt Snælioos ad gaanga epter, edur sw Loptveisa, sem bregdur sier nidur a Jordina hier og hvar, og synest ad vera sem einn logande Lampe, af hverre Loptveisan, Meñ kunna audvelldlega prettader ad verda, ef þeir giefa henne vakt.

Cicero skrifar i annare Bok de Divinatione, ad þeir i Caldæa hafe epter þessare Spaadoms-kunst, spaad þeim Megtugu Furstum i Rom, Pompeio og Crasso, ad þeir skylldu baader deya i hærstu Vegsemd heima i þeirra Fødurlande, þegar þeir væru ordnir haaalldrader; eñ þad giekst ecke epter, um hverugañ þeirra. So ad sa same Cicero bæter þessvegna þvi vid, ad hañ forundre sig þar uppa, ad nockur skule framar leggia Trwnad a soddann

Spaadoms konst, med þvi hwn sie kunn orden ad so þeckianlegum Lygum.

Gassendus i adurgreindum Stad, vijsar til adskiliannlegra Hofudlyga, i Spaadome þeirra nafnkunnugustu Himeñ twngla-Meistara, bæde Cardani, Nostradami og Migrini; og i sierilæge syner hañ, ad Nostradamus hafe ecke skialldnar eñ tijusinnum sagt osatt, uñ Fædingar edur Forlaga Stiornu, eins einasta Manns, a hvad minnst verdur einasta til Epterdæmis. Aunnur oteliande Dæme uppa soddann Villur og prette, i tiedre Spaafarar konst af Stiornunum, framsetur Sixtus ab Henningha; sømuleides Tobias Vagnerus i hans Astrologia Genethliaca, asamt med fleirum odrum. Rasmus Bartholinus i adurnefndre Disputatiu, a þeirre 37. og 38. Bladsijdu; þegar hann er bwenn ad framfæra, þad sem Phavorinus hia Gellio i hans 14. Bokar 1. Capitula hefur skrifad, ad þad sem fiñest satt i soddann Spaadome, sie valla þwsundaste partur af þvi sem reinest Lyge; hañ tilleggur og einnen þesse ord um sialfs sijns Reinslu, i soddann sokum: Vier siaaum daglega, ad slijker margfallder Spaadomar giora Epterwæntan eins ad eingu, og falla anadhvert odruvijs eñ spaad hefur vered; eda snwast til þess sem þar er þvert a moote.

Tied-

Tiedur Gassendus vottar i þeirre siøttu Bok sem hañ hefur skrifad um Tyge Brakes Liif og Athafner, ad Tyge Brake hafe i siinum Ungdome hallded miked uppa þessa Spaadomlegu Stiornukonst; enn þegar hañ hafe merkt ad hwn hafe, hvad epter annad, sleiged feil, og skialldann eda alldrei hitt uppa þad rietta, hafe hañ lagt hana alldeilis fyrer odal, þar til hañ hafe leidriett Himentoblurnar um hlaup Planetanna, epter þvi hañ hafe meint ad feilenn hafe komed af þvi, ad Toblurnar voru ecke riktugar. Eñ sem hañ hafe ecke kunnad enn þa med neinne vissre konst, helldur einasta af Slumpu-lucku, ad segia fyrer Sannleikann, hafe hañ sett sier i sinne ad leidrietta og endurbæta Listena ad øllu leite, eñ hafe þo ecke kunnad ad komast frañ med þad a neinn Veg, so ad hañ þess vegna hafe fornumed, ad þad være alltsamann ecke utañ einsamall hiegoome og Narraspill, hafe so heñe þar med ølldunges slept.

Same Gassendus. Syner eñ framar i siinu Skrife yfer Tijundu Bok Laertij, ad naaumlega kome fram einn Spaadomur af hundrad eda fleirum, sem gioerest epter greindre Konst. Hañ viisar og eiñen, ad þott Cardanus leitest vid ad fegra þessa Konst, so sem honum sie megulegt, þa hlioote hañ þo ad medkienna, ad ecke kome fram nie rætest fiorde

Part-

Parturen, af þvi sem sagt verde fyrer og spaad. Umsyder leggur Gassendus þad og so til, ad Slumpulucka raade fyrer ollu i þessare Konst, og oll Jþrootten sie sem teningakast, i hveriu mønnum kunn stundum af hendingu ad hlotnast sex og sinn, eda aunnur þau augu, sem þeir vilia fyrer sig kioosa; enn stundum ecke: So og lijka, þegar einn hlutur sie tilfallenn, kunne Madur nockurn veginn ad sveigia og beigia Konstena þar uppa: Enn adur enn hann skiedur, er allt ovijst og otriggelegt, og er þa allt hid sama; hvert Madur seger ad so og so skule tilganga, eda hann spaaer þar alldeilis þvert a moote; er þessvegna noogu Lioost, og openbert, ad i þessare Konst er eckert satt, vijst, og triggelegt; hvar fyrer hwn i þeim hlut, sem ecke er utann einsomul Forvitne, ma reiknast olydannleg Jþrott, hverrar Menn þurfa alldeiles ecke vid; og þad meira er; hwn er af sialfum Gude, so sem adur er bevijsad, oss ad ollu leite fyrerbodenn.

Sa Sannleikur sem menn fa og so stundum ad merkia i þvilijkum Spaadome, bevijsar oss alldeiles ecke þad, ad Konstenn sie riktug, og fare ecke med Lyge; þvi soddann Sannleikur fæst ecke fyrer þa somu List, helldur kiemur hann annarstadar fra; og annad hvert þar af, ad soddann Fyrersogn, er ecke utann einsemu Gaata, so sem adur er sagt; ellegar

ad

ad Spaadomsinns ord eru Tvijræd, og kunna skiliast a tvo vege, (so sem ad voru almennelega fordum þau Diofulegu Gudasvor og Spaafarer) og kunna þarfyrer ad færast uppa imesleg, og jafnvel gagnstæd Afdrif, edur Tilfelle: Pau kunna ad segia bæde ney og ja til sama hlutar, og synast þo sønn, hvernenn sem søkennfellur. Ellegar þær saker sem Spaadomurenn høndlar um, eru alla reidu komnar i verk, og so sem samannteingsladar vid nærverande hlute, epter þvi sem adur er umgieted; jafnvel þo hver einn kunne þad ecke grant ad vita; helldur hafe Spaamadurenn þad uppnasad og friett, Konstinni til meira gilldes og riiskunar af þeim, sem um soddann hefur kunnugt vered. Edur og einnen, ad þar um kann nockud tilforna hafa vered spaad af GUds halfu; og Diofullenn sem hefur meire Pecking a slijkum Fyrersøgnum, og skilur þær og so maskie betur enn vær, kann af sømu Guddomlegum Spaadomum, hafa wppgotvad eins hlutar Wtgaang; og epter þeirre Peckingu giefed þeim og þeim Stiørnu-Spaamanne þad inn, fyrer GUds Tillaattseme, sem hann fyrer seger og kunngiorer; so ad Sannleikurenn kiemur þo ecke af Konstenne, helldur annarstadar fra.

Eñ laatum nu so vera, eg giefepter, ad Madur kunne fyrer adstod þessarar listar, þ:ss a mille ad spaa þvi sem

 satt

satt er, þa verdur hwn þo ecke þarfyrer ein Sannleiks konst, helldur allt eins og adur, ein Lygakonst. Ein Hoora edur Skiæka, er þarfyrer ecke Skijrlijf Jomfrw, þo hwn æfe ecke a hverium einum deige edur stundu, sitt Saurlijfe; og ein̄ Mordinge er Mordinge, þo han̄ myrde ecke Meñ a hverium deige; einn Lygare er ecke alltijd ad liwga, og er þo einn Lygare: Þott Diofullen sege stundum satt, þa er hann eingu ad sijdur Lygare i fra upphafe, ja Lygeñar Fader, og Upprune: Joh. 8. v. 44. Pad er noog ad þesse Konst fer almeñelega med Lygar og Prette, þvi med soddann moote er hwn i Sannleika ein Lygakonst, og einsomul Afvegaleidsla.

Ad sijdustu ma þessare Spaadoms konst um Forløg Manna, þarfyrer maklega skwsa, ad hwn fœrer med sier storann Skada, þvi hwn kiemur einum manne til ad briota GUds Bodord, sem hefur bannad ad hondla med soddan Svijvirding, so sem adur er synt og satt giort. Hwn hiaalpar til ad fara med Afguda-dyrkun og Hiaatrw, og ad æfa sig i einne lijttferdugre, forfeingilegre, og ogudlegre Forvitne, i þvi ad rannsaka okomna hlute, sem GUd vill laata hia sier sialfum geimda vera: Hwn leider Mannenn fra Grundvelle þess fasta Traustz, sem hann a ad hafa a Gude, til þess Grundvallar, sem er miked laus, og otriggur; hwn kiemur honum til ad yfergiefa Sannleikann, og hondla med Lygena, og þad sem ecke er nema Skugge; stundum ad trwa sialfum Dioflenum, og reida sig uppa hans Andsvor, sem þraalega smeiger sier þar i bland, og er selber Lygare og Mordinge: Hwn kann og audveldlega ad fœra Manneñ umsijder i Efaseme og allskins Olucku, sem margan hefur hendt, er sig hefur giefed epter soddann spaadome, og þessvegna tapad allre sinne Velferd, so ad Gassendus seger þvi so yfer þa

10. Bok Laertij: Vier hofum ofmargar Historiur bæde fornar og nijar, sem bevijsa klaarlega ad þeir hafa miog so olucku giefner vered, sem hafa ætlad uppa sodd-ann Lucku Spaadoma; og Rasinus Bartholinus i tiedre Disputatiu, seger ad Menn hafe dagleg Dæme um þa, sem hafe reidt sig uppa slijkar Spaasarer, ad þeir hafe med þad slag hrapad i Olucku.

Stendur þessvegna stødugt og oraskannlegt i allann maata, ad þesse Astrologia, edur Stiørnu Spaadomskonst, um Lucku og Olucku Manna, er med ollum riette fordæmd, sem ein skadleg, Lyginn, og svik-samleg Kunst.

## Alyktun Johannis Arndts yfer þessa hans Adra Bok.

AD endingu vil eg eñ nu, med vinsemd og i Kiærleika, minnast a þad, vid Þañ Christna og frooma Lesara; ad so sem eg hefe bæde hallded mig, og helld eg mig alltijd til þeirra riettu Trwarbragda, og Sañleikanns Medkienningar, sem Sofnudur þeirrar Ausburgisku Jaatningar sig tilhelldur, og i þvi Kirkiu-skrife, sem kallast Formula Concordiæ er itrekud; til hverrar eg og einnin hierfyrer ollum jata, bæde med Hiarta og Penna, ad eg hallde mig; so vil eg og einnin ad þetta mitt Skrif verde ecke odruvijse uppteked og skiled, eñ þad sie riett epter þvi hinu sama Kirkiu skrife, og almennelegre Jaatningu. Þarnæst, ad eg hafe ecke neiñ annañ Tilgaang eda Augna mid haft ad sikta uppa i þessum mijnum Bokum, eñ þetta; ad eg næst þeirre hreinu Religion og Trwarjatningu ersidade þar uppa, ad þad heilaga Christinna Manna Lijferne, mætti so eflast, hefiast, og wtbreidast, þviad sa hreini Lærdomur hialpar þeim harla lijted, sem ecke leggia neina Astundan a þad, ad lifa heilag-

kega. Lijka so sem Meñ eiga med vakandi Auga ad geima hreinan Lærdom, so eiga þeir og einin med stærstu Alvorngiefne ad stunda uppa heilagt Framferde. Hvad stodar mikel Konst fyrer utañ saññ GUDS Otta; Gude er þad langtum þægelegra, ad Madur hialpe, og hefie eiñ til gudrækelegs Lijfernes, eñ til mikillra menta og Lærdoms. Margir framfilgia Christi Lærdomi, med stoorre Kostgiæfne; enn miog faer giora epter þeim sama Lærdome, eda sijna hans Krapt og Verkan i sijnu Framferde, hvar um fleira talad er i Formalanum fyrer framan þa Fyrstu Bok, og i Alliktuninne yfer þa Fiordu, sem og vyda annarstadar i þessu Skrife.

Eñ vilie nockur segia; ad eg hafe giordt þessa undervijsan um Christelegt Framferde oflanga; þa svara eg þar til: Vor vonde Lifnadur er næsta mikell um sig, og vor Brot og Misgiorningar of storer og hættuleger: eins lijka er vor Endurlausn sem þar til heyrer, og so harla stoort og vigtugt Verk, og so sem eitt diwpt Haf; Par med og einnin er vor Kross og Mootlæte næsta margt roted; so þad hefur vered þorf a margbrotenne og langsamlegre Rædu til ad framfæra allt soddann. Vilie nockur hafa þad styttra, þa ma hañ lesa þad einasta, sem stendur i þeirre Firstu, Annare, og Pridiu Bok um Idranina, Trwna, Kiærleikañ, Audmyktena, Hoogværdina, Poleñmædina og Krossiñ, i vissum Capitulum; so finnur hañ þar i stuttu maale allt Christelegt Framferde. Eñ þockuest nokrum, ad taka sier fyrer þad omak, ad lesa alla Bokena i giegnum þa mun hañ ecke þess idrast, helldur komast adraun þar um, ad hañ fær Laun fyrer þad sitt Erfide.

Psal. 119. v. 133. Lættu Drottenn miñ Gaang ofkeikulañ vera i þijnum ordum, og læt eingin Ranginde drottna yfer mier.

❧ ):( ✿ ):( ❧

# Errata.

Pag. 58. lin. 8. les betrunar. pag, 71. lin, 5. les Samteingder. pag. 100. lin. 25. les hafa. lin. 28. les þier. pag. 114, lin. 21. les ofteittur. pag. 120. lin. 3. les giæfu. pag. 156. lin. 26. les klagar. pag. 157. lin. 20. les glede. pag. 185. lin. 7. les valld. pag, 190, lin. 25. les kveinan. pag. 264. lin. 9. les eg. pag. 286. lin. 11. les hañs. pag. 305. lin. 1. (vantar) hañ giefur ei einasta. pag. 308. lin. 11. les hrædelegt. pag. 311. lin. 21. les aulldungis. pag. 342. lin. 7. les gangande. pag. ead. lin. 12. (vantar) ecke. pag, 359. lin. 5. les umhi ggiu. pag. 361. lin. 8. les latmenſku. pag. 392. lin. 11. les vor. Pag. 334. lin. 16. les minn. pag. 462. lin. 11. les tiu. pag. 497. lin. 9. les med. pag. 547. lin. 8. les komaſt ad orde.

Þetta er þad ſierlegaſta, ſem hindra kañ Leſaranum, og Þagnar hliod giora i Leſtrenum; eñ hvad fleire Þrickingar villur vera kunna, er vinſamlegur Leſare beden ad lagfæra, og leſa i Maled.

